# Helgidaga Predikanir,

samanteknar

af

Arna Helgasyni,

Prófasti i Kjalarness Þingi og Sóknapresti til Reykjavikur Dómkirkju og Videyar Klausturs.

## Fyrri Parturinn

frá Nýári til Trinitatis.

Videyar Klaustri, 1822.

Prentadur á Forlag ennar konúnglegu íslendsku Visinda Stiptunar,

af Faktóri og Bókþryckjara G. Schagfjord.

## Til Lesarans.

Þær Predikanir, sem hér koma á prenti Almenníngi fyrir sjónir, eru flestar ádur framfluttar í Reykjavíkur og Videyar kirkjum. Þær vóru ecki samanteknar í þeim tilgángi ad prentast, og ordfæri í þeim þessvegna líkara daglegu máli, enn því, sem brúkad er í bókum. Yfirfarid hefi eg flestar, ádur enn gengu undir Pressuna, og umbreytt fáeinu, er mér í þann svipinn þókti betur fara, þótt eg ecki viti hvert þad ætid hefir ordid til stórra bóta, sem mig vonar engann furdi, þared Postulinn Jakob segir: ad sá sé fullkominn madur, sem ecki skjátli í ordi. Eg vil og géta þess: ad þyki nockurs verdt ad lesa þessar Predikanir á prenti, er þad eingúngis ad þacka Hra. Conferenceráði *Dr. Juris* M. Stephensen, ad Almenníngi er nú gjørdur kostur á því, undir eins

og eg játa, ad hans álit hefir komid inn hjá mér þeim þánka, ad eitthvad mundi mega af þeim uhta. Gudspjøllin eru sett inní Rædurnar til þess þeir, sem þirftu eda vildu, gætu brúkad þær til Hússlestra. Endist mér líf og heilsa og þessi Parturinn verdi útgengilegur, mun hinn sídari útkoma brádum.

Um verk þetta vil eg ecki meira tala; þad verdur ad mæla fyrir sér sjálft, sem best þad gétur, og med hægd og spekt reyna til med tímanum ad ávinna nockra. Ecki segi eg mig þann Speking, ad eitu gyldi hvernig skynsamir Landsmenn mínir um þad dæma; en sá Trúmadur er eg, ad fyrst nú er svo komid, ad Predikanir þessar eru prentadar, vænti eg ad þar af fljóti fyrr eda sídar eitthvad gott; hver tilhugsan bætir mér ríkuglega bædi ómakid og þá feilni, med hverri eg hefi látid undir Almennings augu þad, sem í einrúmi hefi hugsad, og í mínum Søfnudum talad.

Breidholti,
þann 20ta Febr. 1822.

A. Helgason.

# Á Nýárs-dag.

## Bænin.

Framini fyrir þinni augsýn erum vjer í dag saman-safnadir, himneski Fadir! þinni augsýn, þú, hvers ác ecki fiolga, ert hinn sami frá eilífd til eilífdar, ert og munt verda vinur og verndari allra þeirra, sem þig ádhyllast med hreinu hiarta; frammi fyrir þjer, hvers gædska er ný og ferst á hverjum morgni, hvers speki er ædri enn allt, hvers veldi hefir engin takmörk, hvers lofgjörd himnarnir framþylja, og hvers óþreytta mildi eitt árid kunngjörir ödru, ein kynslód annari; frammi fyrir þjer, þú, allstadar nálægi! erum vjer í dag samansafnadir, til ad færa þjer þá förnina, sem þjer gledjast: þacklátt hiarta, sonarlegt hugarfar. Æ! gef ad vjer geymum þetta hugarfar, og gaungum med þad gjegn hinn ókomna; finnum hug-svölun og styrkleika í trausti á þjer, sem rædur öllum vorum kjörum. Æ! ad vjer aldrei gleymum því góda, er þú audsýndir oss árid, sem leid; æ! ad end-urminníng þess kenni oss ad vona á þig og treysta því, ad þú framvegis viljir annast oss og ala önn fyrir

vorri velferd. Vier afhendum Þier nú öll vor efni; felum Þinni forsjá allar vorar Þarfir, allt, sem vier girnumst, allt, sem vier hræðumst, og væntum Þess örugg, ad Þitt visdómsfulla, alvalda og furdanlega ráð muni allt dásamlega vid oss gjøra. Þennann fyrsta dag eins nýa árs, og Þessa stund, sem helgud er Þinni tilbeidslu, blessa Þu oss nádarsamlega; vek Þú i oss gudrækilegar hugleidingar, og lát Þær sýna sinn ávöxt i vorri breytni. Amen!

## Gudspjallid.

(Luc. II, 21.)

Eptir Þad átta daga vóru lidnir, og barnid skyldi umskérast, var hans nafn kallad Jesús, hvad er kallad var af Englinum, ádur enn hann var gétinn i modur-qvidi.

## Inngángurinn.

Vér munum ecki teluverdt af Því, sem vid hefir borid, sídan fyrst hofdum vit á eptir ad taka. Því lengri, sem vor æfi verdur, Þess dausara gjörist vort minni, og Þess meira gleymist aptur af adburdum hinna fyrri dagenna. Af Því, sem gjörist i heimunum á yfirstondandi tíma, fréttum vér hid minnsta; hvorium sjálfir vg sjáum enn minna; en hid ókomna er oss ad mestu leiti eldúngis hulid. Þegar

vér lítum til baka, sjáum vér þó nockud, og enn meira, þegar vér lítumst um nærst oss, en þegar vér horfum framundan oss, verdur allt í þoku fyrir vorri sjón; og þegar vér af því umlidna eda nærveranda rádumst í ad spá einhverju ókomnu, erum vér optast villtir eins og sô, er géta skal; hid líklegasta verdur á stundum ad engu, en hitt skédur, sem engum kom til hugar ad gæti skéd; hardnær allt er oss hulid, sem því ómálga barni, hid umlidna og nærverandi ad miklu leiti, hid ókomna nær því gjörsamlega. Sá Alvaldi vildi, ad vér skyldum hér á jordu búa vid þessi kjør; hér ætladist hann til, ad vér á æsku-skeidi vorrar tilveru gengjum í trúnni, voninni og kjærleikanum; hid fullkomna á ad taka vid þar, sem hid barnslega endar.

En — fyrst vor kjør eru þessi, þá er tilhlýdilegt ad vér tilbidjum Gud, fyrir hvers augum allir hlutir eru berir og naktir, í audmýkt, selum oss honum á vald, í hvers hendi vort rád er, og bidum med lotníngu þess, sem hann hefir oss ætlad. Já! óvissu vora um hid ókomna eigum vér ad færa oss í nyt, til sidferdis betrunar, og þessa vitsku, kristnum manni sæmandi, skulum vér nú í dag hugleida, í því vér spyrjum oss sjálfa: hver skylda vor sé, sem þeirra, er ecki vitum hid ókomna?

1.) Fyrst hid ókomna er oss hulid, svo hvörsumst ecki med fýkn í Guds leyndardóma; gegnum trúlega vorri skyldu, eins og vér hesum best vit á, eins og øll vor kjør væru undir Því komin; en felum svo afdrif vorra verka honum, sem øllu rædur. Kjør vor fara ad nockru leiti eptir vorri breytni, meir eda minna er oss innanhandar ad efla vora farsæld, og sjaldan erum vér ad øllu leiti ósekir í Því boli, sem oss mætir; rádlegast er Því, ad vér breytum forsjálega, Þó oss sé hulid hid ókomna. Þad er bædi nogsamlega kent í Guds ordi og sannad med margfaldri reynslu manna, ad hid mesta af boli og farsæld vorri fer eptir sidgædum. Sú mesta framsýni er Því Þar í innifalin, ad vanda rád sitt, svo aldrei verdi breytnin oss ángurs tilefni, verkin ad straffi, heldur hvert um sig unadsemda uppspretta.

Vér vitum ecki, ad hvad miklu leiti vor kjør fara eptir vorri breytni; vér vitum, ad vér hverki ætid skøpum oss lán og ólán, né eingaungu erum sjálfir valdir ad voru boli og gledi. Margt er Þad oss ósjálfrádt, sem bætir hag vorn, og enn fleira, er snúist getur oss til óhags. En enginn sá giætir skyldu sinnar, né kémist hiá ótolum samvitskunnar, sem afsakar ad óvissan um hid ókomna fritaki sig frá forsjálegri breytni. Lítil afsøkun er Þad fyrir hinn hirdulausa og tómláta, ad hann veit ecki hid ókomna. Einmidt vegna óvissunnar Þess, sem ókomid er, hæfir ad vér ætid breytum skyn-

samlega, samqvæmt vorri skyldu, rétt eins og oll vor kjør væru oss í hendi. Ef vér hirdum litt um þessa reglu, gjørum oss seka í syndum, hrædumst ecki vondra verka til eptirkost er fyrir því ad gióda, ad hin ókomna tíd hafi oss ófarir geymdar.

En hverr sá, sem hefir þad medvitni sinnar samvitsku, ad hann hafi unnid sér í hag, ad svo miklu leiti, sem í hans valdi stód, hann gétur med rósemi falid honum, sem ollu rædur, afleidíngar sinna verka. Já, hafir þú, kristinn madur! hlýdnast Guds bodordum, gjort þad gott, sem þú gatst; hafir þú hagad þér vel og forsjálega, þá kemur annad þér ecki vid; hans, sem gefur ávoxtinn, hans er og ad blessa þín verk; hugga þig vid þinn góda tilgáng og gjøid ecki afdrifunum. Gud einn gétur um dæmt, hvad þér best hentar, hvers þú ert maklegur; svo sannarlega, sem hann, hjartnanna Rannsakarinn, veit þetta, svo víss máttú vera þess, ad hann lætur þin kjør snúast þér sjálfum til mestu heilla. Sá, sem forsorgar himinsins fugla, skrýdir akursins jurtir; sá, sem elur onn fyrir ollu lifandi og lifláusu; sá, sem lætur sína sól upprenna yfir vonda og góda, hann mun eck i gleyma þér, þú rádvandi kristni madur! hverr dagur þíns lífs, med því, sem þú á honum vannst gott, hann er skrifadur í Guds bók.

2.) Tíd ókomna er oss hulid, brúkum því vel hid yfirstandandi augnablik, ætl-

ecki uppá hin ókomnu ár edur daga. Enginn gétur vitad, hvert hann nockurntíma muni eiga ráð á þeim ókomnu dögum, enn sídur hvert þeir muni verda honum eins hentugir og sá yfirstandandi dagur til þarflegra framqvæmda. Vér erum tímans börn, en ecki tímans herrar. Sá framsýni brúkar þad, sem hann hefir; hinn fávísi reidir sig á hid óvissa, á hid ókomna. Því sér hinn sparr med, og því sóar þessi tímanum; því kémur þessi litlu, en hinn miklu til vegar. Sá hyggni brúkar hid nálæga augnablik; hinn fávísa dreymir til hins ókomna. Vinnid medan þér hafid dag til, sagdi vor Frelsari; nóttin kémur og þá gétur enginn unnid. En hvad hjálpar ad vér vid hver áraskipti minnumst þess, ad hid ókomna sé oss hulid, ef vér ecki látum þá umhugsun aptra oss frá ad ætla mikid uppá hid óvissa? Hvad gagnar ad klaga yfir tímans vidstödulausri rás, ef vér ecki þar af látum oss þrýsta til ad gjora þad fljótt, sem vér egum ad gjora? Hvad stoda góð áform, se þeim frestad ár frá ári? Nej! vinnum medan dagur endist; medan vér höfum krapta og tækifæri til ad starfa; medan vér med alúd og fylgi gétum einhverju gódu komid í verk; rækjum vort kall, látum oss annt um velgengni vorra náúnga og ástvina, gögnumst voru Födurlandi, medan vér höfum tíma, heilsu, krapta og hug til alls; eflum dygdanna og sannleiksins ríki, látum oss annt, segi eg, um náúngans velvelferd, á medan í oss er dugur og dád; hugs-

um upp ráð til að koma í veg fyrir háska og tjón, áður enn það er orðið ofseint, og ólukkan yfirdynur, því nóttin kémur og þá gétur enginn það aðhafst, en enginn veit nær dauðans nótt yfirdregur. Eins og margir hafa hiðliðna ár fengið þann boðskap að ráðstafa húsi sínu, svo mun og fara þetta byrjaða ár, og hvert ár að öðru; en þar að auki er það ecki einúngis dauðans nótt, sem yfirvofir, heldur og nótt ýmislegs voða, sem eins og dauðans nótt, getur hindrað oss frá öllum störfum; margvísleg smá atvik géta stórum hindrað gagnlegustu framqvæmdir; algengt er, að lítið atvik verði tilefni til mikils. Brúkum því hið nærveranda augnablik; vér vitum hvað vér hofum, en ecki það, sem vér hreppum; bæði menn og hlutir eru umbreytanlegir, og vér erum á vissann hátt bendlaðir við hverttveggja; það gétur farið svo, að ókomin ár og dagar breytist, og verði þesshattar, að vér hljótum um þá að segja: þeir líka oss ecki.

3.) Hið ókomna er oss hulið. Væntum því ecki ofmikilla hagsælda; hræðumst ecki um of hættur eða móguleg slis. Að vænta ofmikils, er óviturlegt, því hið ókomna er óvisst, að líkindum eigum vér í vændum margt gott, en vér megum og búast við nockru, sem kallað er misjafnt. Margt breytist ár frá ári, en hvergi nærri allt til hins betra; hví skyldum vér þá vænta ofmikils? oftraust leiðir afvega, ollir því tíðum, að menn, vegna svikullrar von-

ar, gleyma því nálæga, og afrækja þær skyld-ur, sem nærverandi stund á þá skilur; til hvers mun að vænta ofmikils? oftraust svíkur ávalt, og tæld von vekur sára og amasega tilfinníngu hjá manneskjunni. Sá, sem opt tælist af voninni, missir um síðir traust á sjálfum ser, mönnum og forsjóninni. En hræðast skulum vér enn síður hið ókomna; að það er oss hul-ið, réttlætir engannvegin effreka hræðslu; þess huldara, þess óvissara það er, þess minni orsök hofum vér til að halda hættuna óumflýanlega; hið ókomna er svo hulið, af því allt er svo breytilegt, en því breytilegra, sem allt er, þess heldur getur sú ólucka, sem vér hræðumst, horf-ið, fyrr enn hún nær oss, en því óljósara hið ókomna er oss, þess síður getum vér dæmt um afleiðíngar ókominna atburða. Sumt, sem vér höldum óumflýanlegt ólán, er opt einsómur hugarburður; margt atvik, sem vér metum að engu, er tíðum mest í varið; og til hvers er að hræðast um of? Ofmikil hræðsla kemur ætíð af rángri ímindun og qvíða fyrir, að hið ókomna sé hættulegt, gefur til kynna veika sálu, umþenkíngarleysi og skjótlyndi. Hverr dagur hefir þar að auki sína þjáníngu, og þarf bæði hugprýði og stöðuglyndi til að bera karlmann-lega nærverandi böl, þó ecki sé ábætt qvíða fyrir því ókomna. Vér beiskjum oss lífið og lífsins gleði með ofmikilli hræðslu; já, ofmikil hræðsla — og sú er hennar versti ókostur — blindar vitið, en qvelur hjartað; hún lætur oss

optast grípa til þess í óráði, sem verst gegnir, og verdur óſjaldan orsök til þeirrar ólucku, sem vér viljum hjá sneida.

Ad vona ecki ofmikils og hrædast ecki um of, það er skynseminnar bod og lærdómur sá, sem bædi egin reynsla og þecking á heimi þessum prédika oss; því svo óhóst, sem hid ókomna er, svo víst er hitt, ad hlutanna gángur, yfir hefud ad segja, verdur æ og æfinlega hinn sami; því segir og Salómon: ad enginn hlutur sé nýr undir sólunni. Blídt og strídt skiptist jafnadarlega um, svo hefir það reynst, og eins mun það verda hér eptir. Ljós og myrkur, sannleiki og villa, dygd og lestir, allt þetta liggur í strídi hvad vid annad; og því strídi vyrdist hvergi nærri lokid. Gledi og sorg, gott og íllt hefir hingad til flotid hvert af ödru og eins mun verda hér eptir. Framúrskarandi heppni og stórkostlegt ólán getur aldrei, eptir edli sínu, lengi stadist. Menn verda ad læra hlutanna réttu brúkun af þeirra misbrúkun; speki af egin fávitsku; þeir þurfa og eptirtakanlegar hnavekjur, egi þeir ad læra ad velja ætíd hid betra, og taka framförum í enu góda. Vonum því ecki ofmikils, hrædumst ecki um of; hverttveggja er jafn-skadlegt, og eins lítil ástæda fyrir einu sem ödru.

4.) Hid ókomna er oss hulid, því er gott ad treysta Drottni. Hann hefir alla hluti og allra hjörtu í sinni hendi. Auga hins Alskygna sjer einnig það, sem hulid er; hid ó-

komna dylst fyrir oss, en ecki honum; eins gloggt sier hann hid fiærlæga, sem hid nálæga, þad stóra, sem hid smáa, þess nálæga orsakir og afleidíngar. Hann sier eins hid umlidna og ókomna, sem hid nálæga, og fyrir hans augsýn er nóttin dagur og myrkrid ljós. Hans allt yfirgrípandi Speki hefir frá eilífd ollu nidurradad, allt ákvardad. Þad er gott ad treysta Drottni, þvi þó allt fardnæskt sé umbreytilegt og fallvalt, er þó hjá honum, sem ollum ókomnum umbreytíngum rædur, engin umbreytíng né umbreytíngar skuggi. Eins og hans vera er óumbreytanleg, eins eru hans ályktanir, eins er hans stjórn. Hann mun vera sá, sem hann er, eins og hans ár þrotna aldrei, eins munu velgjordir hans engann enda-taka. Þad er gott ad treysta Drottni, þvi hans hond verdur aldrei stutt til ad hjálpa; dýrdlega framqvæmir hann sitt ráð og gjorir á oss mikla hluti, og híngad til hefir enginn, sem á hann vonadi, ordid til skammar. Híngad til hefir sá vanmáttugi madur, sem þarf med ædri adstodar enn hann sjálfur sær sér veitt, fundid hugsvolun í ad fela Drottni sína vegu og vona á þann, sem gjorir allt vel. Enn er sú endurnærandi og hressandi trú á Forsjónina, dýrmæt og heilog sérhverjum þeim, sem dýrkar Gud af rót og ecki framanar rádlauslega í heiminum. Þad er gott ad treysta Drottni, þvi vér vitum ecki fyrirfram hvad yfir oss á ad koma; vér vitum ecki eptirkost þess, sem nú þegar hef-

ir fram við oss komið. Vèr óskum, ef fyrir oss ætti liggja að halda aptur þessa Hátíð, að hún mætti verða oss Gleði Hátíð; að þetta ár mætti verða liðandi bræðra endurlausnar ár. En hversu innileg, sem þessi ósk er, getur hún þó ekki breytt hlutanna göngi.

Breytum því forsjállega og ráðvandlega, eins og öll vor kjör, allt hið ókomna væri einúngis í voru valdi, en selum honum, sem öllu ræður, afdrif vorra verka; brúkum hið nærveranda augnablik, sem einúngis er vort, og ætlum ekki uppá hið ókomna, sem er svo hæpið og óvíst; væntum ekki ofmikils, og hræðumst ekki um of, selum honum, sem öllu ræður, öll vor efni og treystum honum einum.

Já, það er gott að treysta Drottni, en traustið verður því að eins innilegt, að vèr ástundum vitsku og ráðvendni; traustið á þeim Elsta, sem ræður heiminum, verður oss þá að eins huggunar uppspretta, þegar vèr höfum hreint hjarta, og vogum að mæna til hans, sem hefir vor kjör í sinni hendi, verum hugskots augum. Einsetjum oss því nú strax í dag, að breyta, sem Guðs börnum hæfir, svo að vèr getum treyst honum, sem Föður.

Vèr treystum þèr, kærleikans Guð! og afhendum oss þinni elskuríku forsjá; nefnum þig öruggir vorn skjöld og hlíf. Vèr vitum ekki hvað þú hefir ályktað að koma skuli yfir oss og vora bræður á þessu nú byrjaða ári, en það vitum vèr: að þú ert heilagur í þínum

vegum, og réttvís í þínum gjordum, og gledjum oss vid þa tilhugsun, ad vor og allra manna kjor eru í þinni hendi. Í þinni hendi eru vor kjor og vort lif; velferd þessa Rikis og þessa Lands; í þinni hendi fridur og strid, lif og daudi og þjódanna hlutfall; í þinni hendi er gott ad ega allt sitt rád. Vernda oss einungis frá syndinni, svo vér ecki þurfum ad qvida þeirra eptirkestum. Gef, ad allir ædri og lægri sannfærist æ betur og betur þar um, og reyni: ad réttlætid upphefur þjódirnar, en syndin er fólksins fordjorsun. Æ! lát oss mest annt um, ad leita þins rikis, þins réttlætis, þá mun oss annad tilfalla, ef þú sjer oss þad hollt. Vér vogum ecki ad bidja þig um neitt serilagi af þvi tímanlega, heldur, eins og kristnum hæfir, segjum og bidjum: Fadir! verdi þinn vilji! Amen!



# A Sunnudaginn milli Nýárs og Þrettánda.

## Bænin.

Í visdómsfullum tilgángi hefir þú, heilagi Fadir! látid alla menn vera í miklum vafa um þad, hvad þeim væri gott eda ecki gott í þessu lifi. Þú hefir

látid margfalda reynslu aptur og aptur kienna þeim, ad það, sem þeir girnast med mestu ákiefd og sækjast eptir med mesta kappi, verdur tídum í reyndinni einkis-verdt; en það, sem var tilsýndar qvídvænlegt, reyndist opt betur, þegar ad hendi kom, enn nockurr gat ætlad. Þar á mót ljetstu þeim veita hægra ad finna, hvad rett er og rángt í breytninni, því þú skrifadir þitt lögmál í þeirra hugskot, og settir þinn dómstól, samvitskuna, í þeirra hjörtu. Þessi þín rádstafan bendi oss til þess, ad vjer fyrst egnum ad hyggja ad vorri skyldu og því, sem rett er fyrir þínu augliti; ad vjer egnum ad leita fyrst þíns ríkis og þíns rettlætis, en ef vjer svo breytum, getum vjer vænt eptir vors Frelsara fyrirheiti, ad bera úr býtum öll sannsöllud gædi, þó vjer sjálfir ecki vitum hvad oss se gott í þessu lifi; en af syndum gjetur ecki annad enn illt leidt, því syndin er lands og lýda töpun. Gief, himneski Fadir! ad vjer aldrei blindumst af þeim gædum, sem syndsámleg breytni sýnist bjóda oss. Þessháttar sjónhverfingar koma frá óvinum vorrar velferdar; en sá einn verdur tímanlega og eilíflega sæll, sem óttast þig, Drottinn! og gjörir hvad rett er. Amen!

---

# Gudspjallid.

(Matth. II, 16—18.)

Þegar Heródes sá, ad hann var gabbadur af Vitríngunum, vard hann reidur, sendi því út og lét drepa öll

sveinbörn til Bethlehem og í öllum hennar endimörkum, tvævetur og þaðan af ýngri, eptir þeim tíma, sem hañ hafdi útspurt af Vitríngunum. Þá uppfylltist hvad sagt er fyrir Jeremías Spámann, sem segir: á hædum hefir heyrst kall mikillar qveinunar, óps og ýlfrunar; Rachel syrgdi sonu sína og vildi ecki huggast láta, því þad var med þeim úti.

## Inngángurinn.

Mannkynid gengur, ad mér virdist, yfir höfud ad tala, í tvær sveitir, hvad adal-augnamid allra athafna snertir. Sumir hafa þann eina adal-tilgáng í allri sinni breytni, ad varast sérhvad, sem þeir vita strída móti Guds bodordum, en ad kappkosta hitt, sem samqvæmt er hans heilaga vilja. Í slíkum áformum rádfæra þeir sig ecki vid hold og blód, heldur vid Guds algjörda lögmál. Jafnvel þó hverr einn, líka sá besti, vidurkenni: ad sér margvíslega yfirsjáist, segir þó samvitskan honum, ad þetta sé hans adal-augnamid; híngad hafa hans girndir og tilhneigíngar tekid stefnu; hjá þeim góda manni er Guds vilji og skyldan ætíd í fyrirrúmi. En — því midur! — fleiri eru þeir, sem ecki hafa útvalid þetta góda hlutskipti; þeir hafa ecki þetta adal-augnamid verka sinna, heldur

annad, sem er óverdugt skynsamri sképnu, ætl-
adri til eilífs lífs. Margra hofud-tilgángur í
ollu, sem þeir hugsa um, áforma og gjøra, er
sá: ad ebla med ollu móti sína tímanlegu hag-
sæld. Þad er hrósverdt, ad sjá vel fyrir sinni
og sinna tímanlegri velgengni, en mjög gleymi-
ir madurinn sinni ákvordun, þegar þetta verd-
ur hans adal-ósk, adal ástundan; illa er þá
gætt Krists bodords, sem þannin hljódar: leit-
id fyrst Guds rikis. Fávísleat er, vegna
hins jardneska, ad gleyma því himneska; ad troda
rétt og skyldur undir fætur sér, og huasa med
því móti ad ebla farsæld sína. Dæmi uppá
þesshattar sásinnu hofum vèr á þeim Konúngi,
hvers getid er í þessa dags Gudspjalli; hann
var einn af þeim morgu, sem láta hid tím-
anlega hafa fyrirrúmid, hann vhladi ecki fyrir
sér ofbodsleguftu illvirki, ríki sínu til eblingar;
hann vildi fyrirfara því nýfædda barni Jesú,
þegar grun hafdi fengid um, ad verda mundi
sinni Konúngs-tign eda Sona sinna í vegi, og
af því hid nýfædda Konúngsefni gat ecki þeckst
frá odrum jafnoldrum, greip hann til þeirrar
óhæsu, ad skipa ad deyda oll born af karlkyni,
sem fædst hefdi í Bethlehem um sama leiti
og Jesús. Svo gat hann verid blindadur;
sú jardneska dýrd var honum allt, vegna henn-
ar hikadi hann ecki vid ad flecka samvitskuna
med illverkum. En — hvad hafdi hann nú í
adra hond? Forsjón Guds ónýtti áform hans
í þetta sinn, og rett á eptir var honum sviplega

í burtu kippt, midt í hans sondum, frá hans Afgudi, Konúngs-tigninni. En gjorum nú rád fyrir, ad Heródes herdi med þessu óguðlega verki gétad áunnid þad, sem hann girntist; breytni hans var allt eins vond, sem fávisleg; vond, því hann matti meir girnd sína enn samvitskunnar bod; en fávisleg, því hann sókti eptir því, sem var einkisverdt í samanburdi vid hid dýrmætasta hnoss manneskjunnar, er hann snaradi frá sér, dygd og samvitsku fridi. Hann vildi vinna heiminn, en sá ecki í ad missa himininn. O! hvillík sannmæli, Drottinn! hvad stodar þad manninn, þótt hann eignadist allann heiminn, ef hann lídur tjón á sálu sinni? Gædi þessa heims gánga oss ofmjeg í augu; sumir ætla ad audur gjori sig sæla, adrir upphefd, nockrir sællífi, og sinn hégómann eitir hverr; þad er og von til ad hverr sækist eptir því, sem hann álítur sér best; en ad álíta þad gott, sem ecki er gott, þad er villan verri; en hafi hinn vísi Salómon ecki fengid úr því leyst, hvad manninum gott væri af því tímanlega; þá er von ad fleiri beri ad sama brunni. Þad mun sannast, ad enginn fái med vissu sagt, hvad honum sé hollt af því tímanlega; madurinn er ecki ætid eins sinnadur; hann er í æskunni annar madur enn í ellinni; þad, sem í dag gledur hann, grætir hann máskje seinna; hann sjer lítid af því ókomna, og þetta litla eins og í þoku; hann veit ecki hverja umbreytíngu í þaunkum og tilfinníngum hann

muni sá af umbreytíngu lífsins, eda hverníg hid nærveranda muni verka á hid ókomna, hid tímanlega á hid andlega ástand hans.

Í stad þess, ad klaga yfir þessari bernsku vorri, látum hana þéna oss til vitsku; því sá er tilgángur hans, sem gjørdi oss ófróda þess, hvad oss væri gott í þessu lífi af því tímanlega.

---

Jáfvitska vor kénni oss: 1.) Athygli og varúd í þeim heimi, hvar íllt svo opt felst undir mind hins góda. Sljósskygni vor ætti ad minna oss á og djúpt innræta vorum sálum audmýkt, árvekni, tortryggni vid hid álits fagra og stjórn á vorum eptirlaungunum; vafasamt lét Gud oss vera, hvad oss væri hollt af því tímanlega, hvers vér ekki áttum einkanlega ad leita, bædi til þess ad venja hann skilnings krapt, sem oss var gefinn, og líka til þess ad vér því heldur skyldum leita og brúka þá tilsogn, er hans ord frambýdur oss. Fyrst lífid er svo villugjarnt, ad hinir hyggnustu hæglega komast afleidis, hversu innilega ættum vér þá ekki ad bidja um og þakklátlega þyggja þá gudlegu upplýsíngu, sem þeim gudhræddu og lítillátu stendur til boda, því Drottins leyndardómur er hjá þeim, sem hann óttast, hann mun leida þá med sínu rádi og kénna þeim rétta leid. En hver munu verda afdrif þess, sem í

Lissins hættum hverki leitar Drottins ná neytir þeirra vitsmuna, sem Gud gaf honum? Ef sá, sem starlega ígrundar, á begt med ad adgreina sönn' gædi frá hinu, er gott sýnist, hverninn mun þeim þá afreida, er vantar alúd og þolinmædi til ad leita sannleikans, sem ecki rádfærir sig nema vid sína eptirlaungun, og er fljótur til ad gegna henni? hafi í sjálfri Paradís verid trje þad, sem var fagurt á ad líta, en bar þó daudans ávexti, hverju morgum tælandi mintum mun þá rád fyrir ad gjora í þeim fallna heimi? varla er neckurr hlutur þad, sem hann sýnist vera, og gjörvöll náttúran gétur ordid snara þeim holdlega sinnudu. Þad, sem þeim vyrdist girnilegast, er allopt minnst í varid, og jafnvel ad þeirra dómi, sem létu ásýnd þess bleckja sig. Fyrst þannig stendur á högum vorum, hæfir oss varúd og hrædsla. Stilling sefi vorn ákafa! stillæti prýdi vort háttalag! vitska sé nú í tíma á-vöxtur vorrar ígrundunar, svo skadinn þurfi ecki ad gjöra oss hyggna — en

2.) Látum og vora vanþeckingu á hinu góda aptra oss frá vöxli og qvölda. Vér rotum opt í ógjæfu, vegna þess, vér hlaupum eptir því, sem oss sýnist gott; því er oss þörf á varúd í ad velja, og adgætni í ad sækjast eptir; en — þared varúdinni og athyglinni sjest numum yfir, ætti aldrei ad vera í þeirra valdi ad plága oss, eda svipta oss rósemi,

Vanþecking vor á gódu og illu frìeck-
ur oss ecki fyrir framsyni. Vitska hefir þó æ-
tíd mikla yfirburdi yfir fávitsku, en óvissan ætti
þó ad stilla vorn ákafa, dempa hrædslu og
von, en lækna allt vhl. Vhl er lífsins eitur,
módir margra synda og ótal eymda. Þar, sem
allt er vafasamt; þar, sem oss getur snúist til
mædu ad fá vorar óskir, og til lìns ad odlast
ecki þad, sem oss þykir girnilegt, þar á illa vid
vhl og óþoli. Ahyggja getur ecki umbreytt hlut-
anna gángi, ecki greidt úr lífsins vandrædum.
Hid ókomna hefir Drottinn hulid fyrir oss.
Ef hætta synist í nánd, þá er réttast ad vopn-
ast gegn henni, sem best verdur, en lengra nær
ecki oll vor speki; þegar vèr hofum aflokid vorri
skyldu, er ecki annad eptir fyrir oss, enn eign-
ast vorar sálir í þolinmædi. Su hóflaus á-
hyggja vegna hins ókomna, stodar ecki og er
til einkis annars, enn til ad eydileggja vora
rósemi, hún bætir hugarvhli ofaná lífsins mædu.
Aldrei ætlast Gud til ad heimsins gædi sèu oss
í svo miklu rúmi, ad vèr þeirra vegna hræd-
umst, vhlum og volum; þau vóru gefin oss til
hressingar vid og vid, en ecki áttu þau ad vera
adal-stofn vorrar farsældar; leiti madur hiá
þeim ad meiru, enn þau geta veitt, fær hann
minna, verdur tældur í von sinni og bakar sèr
med því vissast velædi.

3.) Vor vanþecking á gódu og illu í
þessu lífi, prýsti oss til ad fela oss gudlegri

forsjón, ad gëfa oss Gudi á vald. Mikilvæg rádleggíng, ad gëfa sig sínum Skapara; því eckért sannar oss þetta heilrædi rækilegar, enn sá af reynslunni stadfesti sannleiki: ad vër fáum ecki verid án Guds; hid ókomna vitum vër ecki, en fyrir Gudi er eckert hulid, og ef vër þiónum honum dygguega, megum vër vera fullvissir um, ad hann sjái fyrir voru rádi. Allir hlutir eru í hans hendi, ollu rædur hann, og allt lagar hann þannig, ad hans fyrirheit rætist, ad allt snúist þeim til góds, sem elska hann. Hvílum nú huga vorn vid þetta, en sleppum allri hugsýki; ef vër freistumst til ad qvarta yfir vorum kjorum, hugleidum þá, hvert líklegt mundi, ad onnur kjor hefdu vordid oss happasælli. Þegar vër íhugum hversu sávísar margar vorar óskir hafa verid, hversu soikul sú farsæld, sem vër oblUdum oss; verum þess ætld þackátir, ad sá Alvisi, en ecki sjálfir vër, rædur vorum kjorum. Einskordum eckert af Gudi í vorum bænum, þó einhver jardnesk farsæld vyrdist oss girnileg; látum hann ráda, og bidjum einúngis: ad hans vilji verdi. Í einu ordi: felum Drottni vora vegu, treystum honum, og hlýdum hans heilaga vilja.

4.) Vanþecking vor á gódu og vondu í þessu lífi, skal einnig aptra oss frá, med syndsamlegri breytni ad leitast vid ad ná ósk vorri, eda eignast tímanleg gædi, sem oss þykja girnileg. Ef hinn syndugi væri viss um, hverr mestur væri hagur hans, ad þau

ránglætis verkfæri, sem hann brúkar sér til hags mundu duga, og ad þad, sem hann sækist eptir, yrdi honum til gjæfu, þá hefdi hann nockud sér til afsókunar, þegar hann, vegna tímanlegra gæda, víkur af dygdanna vegi. En vanþecking manna á gódu og illu sviptir hann allri afsókun; hann eltir skugga, er þó ecki víss um ad ná honum, og þó honum takist þad, er hann engu nær; já, fengurinn verdur opt og tídum ógæfu efni. Audur og unadsemdir eru helztu freistingar til lasta og ódygda; þegar audurinn er fenginn, steypir hann tídum í volædi; unadsemdirnar veikja heilsuna og stytta lífid, og fyrir þetta endurgjald fyllir svikarinn sinn munn med lygum; hinn ótrúi folkur sinn velgjörara, og sá hviklyndi afneitar Gudi.

Hverr sá, er adhefst glæpi, hann steypir sér, vegna óvissustu gæda, í vissustu ólucku; því eins og þad er óvisst hvad tímanlegt ad haldi kémur, svo er hitt visst, ad yfirtrodsla Guds bodorda dregur misþócknun hins Almáttuga yfir syndarans höfud. Þegar gædi þessa heims fást med gódri, med óflekkadri samvitsku, eru þau óviss blessan; en þegar þeirra er aflad med klækjum, bera þau óluckuna í sínu skauti. Þau eru opt byrdi hinum dygduga, en ætíd eitur þeim ódádvanda.

5.) Fyrst vér erum í slíkri óvissu um hvad oss sé gott í þessu lífi, þá höldum oss því fastar ad því, sem enginn vafi er á ad gott sé. Fá eru þau jardnesku gædi, sem

sannkollud gædi má nefna; heilbrygd sál í heilbrygdum líkhama, daglegt braud og fáir vinir yfirgripur alla jardneska farsæld; hygginn var því sá madur, sem bad: „tak frá mér pretti og lygar, gef mér hverki fátækt né aud, heldur nægilegt uppheldi, svo eg hverki ofmetnist, afneiti þér, og segi: hverr er Drottinn? né verdi øregi, steli og vanbrúki þitt nafn". Sá lifir óhultur, sem lítils óskar, hann lifir og æskilegasta lífi; hir" er keppist eptir ofmiklu, fer optar á mis vid þá sonnu farsæld, sem hann hefdi borid úr býtum, ef óskirnar hefdu verid hóflegri. Þad gagnar ecki ad leita mikillar farsældar á þessari jordu; hún finnst þar ecki, nema í ímyndun manna.

Odruvísi er varid hinum andlegu gædum; þau hljóta ad verda oss ad gódu; engin efasemd skal því hindra oss frá ad leita þeirra; hér á ecki vid spurningin: hverr veit hvad manni er gott? Guds Sonur sté nidur af himni; hann er heimsins ljós; hann kenndi monnum þann veg, sem leidir til lífsins. Heimsins gædi eru svikul og svo í því, ossjaldan ad snúa vorum huga til hinna andlegu og gjora oss þau því dýrmætari, og lofsins

6) Látum hugá vorn leita annars betra heims. Sáhýri alls hins jardneska minnir oss á hina dýrmætu von annars betra lífs, og er undir eins vottur þess, ad von þessi sé meir enn einber ósk. Því hvad er lífid? hvad er þad, sem fleirstir menn stunda hér, í

samanburdi vid þá krapta og gáfur, sem Gud veitti sínu meistaralega verki manninum? fleirstir efla farsældarinnar skugga í stad hinnar sonnu farsældar. Fáir hafa þad fyrir stafni, sem verdugt er skynsamri sképnu. Hjá allmörgum eydist lífid svo sem í óþacklæti. Menn erfida sig þreytta opt til óþarfa upp aptur og aptur, hvílast, mettast, og lída burt, sem skuggi á endanum, og hverr skyldi hugsa ad þetta væri oll áqvardan mannsins? nej, hér erum vér í skóla, hér egum vér ad æfast, fullkomnast og gjörast hæfir til eilífs lífs; til þessa eilífa lífs skulum vér opt snúa huga vorum, leita hins ósýnilega, en vera ecki of-fastir vid hid sýnilega. Æfi vor hér fer áfram, sem straumur, hid tímanlega er horfid þegar minnst varir; þá tekur hid eilífa vid, og hverr dagurinn, hvert árid flytur oss nær því eilífa; hæfir þá ecki ad vér opt snúum þángad huganum? festum ecki hug vorn vid hid jardneska, sem í raun réttri er svipult og lítid á ad ætla, sem vér ecki vitum, hvad oss stodar, því hverr veit hvad manninum er gott alla daga þessa fánýta lífs? Drottinn! oss lángar til farsældar, en vitum ecki hvad oss er hollast af þeim tímanlegu gædum. Gef oss þad eina, sem þín speki sjer oss best henta, en styrk oss til ad adhyllast þig og stunda þinn vilja; til ad fullkomnast æ betur og betur, og verda hæfilegir fyrir þá eilífd, sem þú hefir oss fyrirhugád, hverri vér þokumst nær og nær med hverjum degi! Amen!

# A 1ta Sunnudag eptir Þrettánda.

## Bænin.

Gædskuriki Gud! þú vilt ad allir verdi sáluhólpnir og komist til sannleiks Þeckíngar. Lát oss kannast vid, hversu mikid oss ridur á ad þeckja þig, Höfundinn alls þess góda og Stjórnarann vors lifs. Lát oss bera skyn á, ad vjer eckí getum komist til fullrar sannleiks þeckíngar, nema vjer þeckjum þig, sem ert sannleikurinn; nema vjer jafnframt lærum ad breyta eins og þjer vel likar; því þinn ótti er upphaf vitskunnar. Styrk oss til ad hnegja hjörtu þeirra úngu til þin, á medan þau enn þá eru saklaus og óflekud af heiminum, og send þinn Anda í brjóst þeim, svo ad þau snemma læri ad hefja sig upp til þín og prísa þig, Gjafarann allra gódra hluta; því ákall barnanna er þjer þócknanlegt, og þú tilreidir þjer lof af þeirra munni. Gjef öllum þínum börnum nád þar til, fyrir Jesúm Krist! Amen!

---

## Gudspjallid.

(Luc. II, 42—52.)

Þegar Jesús var tólf ára gamall, fóru hans Foreldrar upp til Jerúsa-

lem, eptir sidvenju hátídar-dagsins; en er þeir dagar vóru lidnir, og þau fóru heimleidis, vard barnid Jesús eptir í Jerúsalem, en hans foreldrar vissu þad ecki, og meintu ad hann væri hjá selskapnum, vóru svo komin eina dagferd, og leitudu hans medal frænda og kunníngja; en þá er þau fundu hann ecki, gengu þau aptur til Jerúsalem og leitudu ad honum. En þad skédi svo, eptir þrjá daga, ad þau fundu hann í musterinu, sitjandi midt á millum Lærifedranna, heyrandi þeim og adspyrjandi þá; en allir þeir, er hann heyrdu, undrudust yfir hans skilníngi og andsvörum. Og er þau sáu hann, hnickti þeim vid; en módir hans sagdi: Sonur minn! því breyttir þú svo vid ockur? sjá þú! fadir þinn og eg leitudum harmþrúngin ad þér. En hann sagdi til þeirra: hvad er þad, ad þid leitid ad mér? vissud þid ecki ad mér birjadi ad vera í þeim hlutum, sem míns Födurs eru? en þau undirstódu ecki þetta ord, sem hann mælti til þeirra. Og hann fór med þeim ofan og kom til Nazareth, var þeim og hlýdinn; en hans módir geymdi öll þessi ord í sínu hjarta.

Og Jesú jókst alldur og vitska og náð hjá Gudi og monnum.

### Inngángurinn.

Á vorum dogum hefir marat verid talad um uppfóstur barna, og tídum, eins og algengt er í hverju efni, toluverdur ágreiníngur ordid um þá réttustu uppfósturs adferd. Yfir hofud ad tala hefir ávoxturinn ordid sá, at menn hættu ad hræda og þvínga þá úngu, sem á fyrri oldum gëck býsna lángt, en tóku upp vægdarmeiri adferd, sem og svo gëtur ordid nockud ad, sé ecki hóffins gád. Medal annars, sem í þessu efni komid hefir til tals, og í hverju sitt hefir hverjum litist, er þetta eitt, ad nockrir hieldu ráðlegt, ad veita ecki únglíngum, fyrri enn toluverdum skilníngs þroska hefdu nád, uppfrædíngu í trúnni, og margir hieldu þetta óskadlegt, því þeim skildist vel, ad únglíngurinn, medan hann er milli vita, hefdi ecki skilníngs þrek til ad nema þá hluti, sem manneskjunni er mjog torveldt, jafnvel þá henni er til fullnustu framfarid, ad fá ljósa og ánægjanlega þeckingu á. Morgum þókti því rádlegt, ad geyma hinum elldri árum naudsynlega trúarbragda uppfrædíngu, en lëtu hina gánga á undan, sem þókti þurfa minni skilníngs þroska til ad nema hana til hlýtar. Ólíkt var þetta mentungu fyrri alda, sem á undan ollu odru vildu láta innræta bornum trúarbragdanna þeckingu, og hofdu fyrir

þeirri meiníngu álitlegar ástædur. En hætt er vid hiá hverjumtveggja verid hafi nockurr misskilníngur. Þeir eldri ætluduſt ecki mjøg til greinileas ſkilnings á ſannindum trúarbragdanna; þeir héldu ad þau helgu ord, þegar numin væru, mundu helga hjarta hins únga. Hinir, ſem geyma vildu ennm eldri árum trúarbragdanna uppfrædíngu, vildu koma í veg fyrir þá villu, ſem tídum blandaſt vid ſannleika í trúarbragda þeckíngunni á þeim únga aldri. En þó þeir hefdu nád því hér med, ſem þeir eptirſóktuſt, er ſamt mikill efi á, hvert þeir ecki hafa farid á mis vid einhvern annann hag, ſem tilſøgn í Guds þeckíngu á únga aldri veitir þeim únga.

Med fám ordum er nú áform mitt, ad benda ydur til þeſs: hvers góds megi af því vænta, ad kénna úngum ſnemma ad þeckja Skaparann, hverju jafnframt vér munum géta ſannfærſt um: ad ecki ſé ómøgulegt fyrir únglíngium, jafnvel ſnemma í æſkunni, ad nema gudleg ſannindi.

---

Þad er ſannreynt, ad allt hvad numid er á hinum yngri árum, rótfeſtiſt betur í hjartanu, heldur enn þad, ſem menn læra, þegar fleiri eru ordin ár á baki. Hin yngri ár eru løgud til þeſs ad menn á þeim nemi þad, ſem á efri árunum á ad verda til leidarvíſirs og huggunar; hjartad er þá námfúſt; øll ſannindi gjøra

þá mikla áhrifu á vidqvæmt hjarta, sem ecki
eydist audveldlega; já, menn vita til ad aldr-
adir menn, sem varla muna þad, sem þeir
heyrdu fyrir fám dögum, og sem gleymt hafa
fleirstu, sem þeir gjordu og lidu um midbyk æf-
innar, muna margir flest, sem vid bar í æsk-
unni. Hér af má ráda, ad ecki muni hollt ad
geyma lengi frameptir æfinni tilsögn í þeirri
þeckingu, sem svo mikid áridur ad verdi rótfost
í hjartanu, sem þeckingin á Gudi og hans hei-
laga vilja; traudlega mun ofsnemma verda til-
reynt ad gródursetja í hjarta únglíngsins sád
þess ordsins, sem lifandi er og kroptugt til ad
endurskapa hjortun, en hjortu vor þurfa end-
urskopunar vid; af náttúrunni er madurinn ecki
mikid hneigdur til góds; audnæmari er hann
á hid illa, jafnvel þó lika tokast megi ad nema
hid betra, en vegur til ad læra hid góda birjar
á Guds ótta, því ótti Drottins er upphaf vitsk-
unnar. Hann á ad streytast gégn hjartans
spillíngu, sem er ædi mögnud í mannsins hjarta
og traudlega verdur þadan med ollu upprætt,
svo lengi vér búum í þessari holdlegu tjaldbúd
vors líkhama. Þad sem á ad géta veitt mót-
stodu þessari oss inngrónu spillíngu, þad hlýt-
ur ad verda oss eins inngróid, og af því eckert
gétur ordid eins inngróid, svo er naudsyn ad
láta þad, sem vid hjartans spillíngu á ad streit-
ast, festa sem dýpstar rætur, ad svo miklu leiti,
sem verdur, og þegar Guds ordi er ætlad ad
endurskapa vor hjortu, hlýtur þad snemma ad

gródursetjast í þeim, annars verdur þad þeim midur inngróid; þad sellur utanhjá veginum, verdur fótum trodid, og fuglar himins eta þad. Ádur enn illgresi vex í akrinum, er rádlegt gódu sædi í hann ad sá, og flyta þess vexti, sem þar á ad blómgast, svo ad illgresid, þó sídan komi fram, verdi nidurkæst af betri jurtum, sem þar ádur hafa þroska nád. Guds ord er þad sædi, sem naudsyn er ad vidgáng tekid hafi í hjarta únglíngsins, ádur enn veraldlegar girndir taka til ad hreifa sér, svo, þegar þessar vilja ná þar rúmi, verdi þeim ecki rúm skipad, heldur kasni þær nidur. Sé þvi mogulegt ad meddeila únglínginum þeckíngu á Gudi snemma á æsi hans, er þad víst ysrid gott og ómissandi; en ad þad sé mogulegt, mun hægt ad sannfærast um. Ecki meina eg — eins og þér gétid nærri — ad únglíngar strax og mál hafa fengid, skuli setjast vid Frædalærdóm eda þeirra bóka, sem innihalda ágrip kristilegra trúarbragda, sem stundum eru eins torskilin gomlum sem úngum, eg veit ílka, og veit þad af nockurri reynslu, ad þecking sú, sem hinum úngu þá byðst, verdur ætíd nockud óljós og ófullkomin, þángad til reynslan upplysir þad, sem numid var. Ecki er til annars ad ætla, enn ad barnid tali og þenki, sem barn; en þegar fullordins aldurinn adkémur, verdur hid bernska aflagt. En þeckíngu á þeim Algóda samqvæmt barnsins þorf og gáfum, má samt ærid snemma bjóda barninu; trúarbragdanna adal-sannindi, þau, sem

helzt eru til þeís gjord ad verka á hjartad, þau liggja oss mjøg nærri; þad er hægt ad vita ad svo er, bædi þegar ver athugum, hversu vidt Guds-þeckingin er útdreifd um heiminn, og lika hversu snemma allar þjódir hafa farid ad grensl-ast eptir orsök og uppruna allra hluta. Ver hefdum líklegast hugsad, ad hver ein manneskja mundi fyrst skygnast í kríngum sig og leita ad þeckingu þeirra hluta, sem henni vóru nærst-ir, en svo hefir þó ecki tilgengid; hugur manna hefir leitad hærra, leitad ad Höfundi allra hluta; ellstu vidburdir mannlegrar skynsemi láta ad því, ad þeckja heimsins uppruna, og leiddu því einmidt til þeckingar Skaparans. Þetta er vottur þeís ad Guds-þeckingin liggur oss nærri og ad barninu veitir ecki um megn ad nema þá þeckingu, sem her ad lýtur, ad hún verdi því ecki torveldari en hver önnur þeckíng. Numl-id getur þad skjótt, ad sá sé ósýnilegur Fadir allra manna, allra skepna, sem gefi öllum allt gott, sjái og heyri allt, elski alla þá, sem eru hans gód og hlýdin börn; straffi þá, sem hon-um eru óhlýdnir. Þeísi og þessum lík adal-sannindi trúarbragdanna, geta mjøg snemma fengid inngaungu í únglíngsins hjarta, af þeim getur qveikst sú hnýsni hjá barninu, sem gef-ur þeim, sem fræda vill hinn únga, margfaldt tilefni til ad auka meir og meir hans skilníng á gudlegum hlutum. Þetta verdur máske, med-an barnid er úngt, engin fullkomin þeckíng, en vegurinn til þeckingar er þad, og hægra er ad

auka vid heldur enn byrja frá rótum, þegar árin fjölga. En þar hjá skulum vèr athuga, ad þeck:ng vor á gudlegum hlutum er ætíd, og hlýtur ad vera, nærsta ófullkomin; hún er ecki til þess ætlud, ad veita oss nágvæmann skilníng á veru hins Ofkiljanlega. Vèr gaungum hèr í trú og von, áþeckt bornum, en ecki í skoduninni; oss er ad eins veitt svo mikil þeckíng, sem nægja mátti til ad helga og hugga vor hjörtu; minna gat oss ecki nægt; meira gátum vèr ecki fengid, og sú þecking á Gudi, sem únglíngurinn getur fengid og ætti ad fá, sem fyrst, er í raun rèttri þeirri áþeck, sem fulltída manni veitist, þad er framar tilfinníng enn þeckíng, tilfinníng, sem gengur í þeckingar stad, lagar og stodvar hjartad og helgar allar adrar tilfinníngar þess. Þau fáu sannindi trúarbragdanna, undir eins og þau eru numin, undir eins og þeim er trúad, sem ádur vóru nefnd, þau verka til muna á hjartad, og því heldur, sem hjartans tilfinníngar eru líflegri og ósljóari; en varla eru tilfinníngarnar næmari nockurntíma hjá manneskjunni, enn í æskunni, og því næmari, sem hjartad er óspilltara; því er þad vel gjört, ad vekja í hjartanu, sem fyrst verdur, tilfinníngu þá, sem á allri æfi manns á ad verda verja gegn löstum og athvarf í raunum. Þessi gudlega tilfinníng verdur því innilegri og eiginlegri manneskjunni, sem hún lengur hefir lifad í hjartanu; og þegar hún hefir dafnad í hjartanu frá æsku árunum, verdur hún þeim

fullordna því kjærari; í hvert sinn, sem hún vidlifnar, sameinast henni tilfinning æskunnar sakleysis, æskunnar yndælis og tilfinning Guds nálægdar og Guds íbúdar, verdur manns trúasti og unadarfyllsti förunautur gegnum lífsins eydimerkur. Tilfinning Guds gædsku og miskunar og allrar þeirrar fullkomnunar, sem hugurinn gétur ímindad sér og skilníngarvitin géta ordid vör vid í hans verkum, hún er unanarfull og holl hjarta manneskjunnar. Innrætid hana hjörtum þinna úngu snemma! Þar til þarf enga djúpsæra speki; þad óspillta hjarta stendur opid fyrir þessari tilfinníngu. Þad Foreldri, sá Fóstri edur Fóstra, sem hefir þessa tilfinníngu, á hægt med ad innræta hana únglingsinum, og hverr, sem svo gjörir, veitir þad, sem á fullordins árunum verdur hollt og yndælt þeim, sem þádi. Heyrt hefi eg fulltída menn minnast þess med innilegustu unadsemd, þegar gudhrædd Módir, Fadir eda Fóstri med gudlegum ordum vöktu í hjarta þeirra á yngri árunum tilfinníngu Guds gædsku, tilfinníngu hans dásemda; þegar gudhrædd Módir geck med barni sínu um blómlega sumar-haga, gladdist med sjálfri sér af skodun þeirrar prýdi, sem náttúran var ískrýdd, og sagdi vid sitt elskada afqvæmi, med því heilaga augnaradi, sem tilfinning Guds dásemda og elsk..n til afqvæmisins gat henni gefid: „Eg segi ydur, ad Salómon í allri sinni dýrd, var ecki svo skrýddur, sem eitt af þeim, og ef Gud skrýdir svo grasid

sem í dag stendur á akrinum, en á morgun verdur í ofn kastad, skyldi hann þá ecki annast ydur?" Þessar og þvílíkar rædur Módirinnar, voktu strax tilfinníngu í hjarta hins únga, sem ecki vard asmád, en gjördi hjarta únglíngsins dýrmæt Guds verk, og Módurinnar endurminníngu heilaga. Þegar sá gódi Fadir skodadi, í návist barnsins, dýrd þess alstyrnda himins, og af tilfinníngu þeirri, sem sjón þessi vakti í hans egin hjarta, sagdi svo ad barnid heyrdi: Drottinn! himnarnir lýsa þinni dýrd, og festíngin verkum þinna handa; þá skodadi únglíngurinn aldrei eptir þad þessa himinsins dýrd, ad ecki vaknadi í hjartanu einhver gudleg tilfinníng, og fullordins árin gjördu þessa tilfinníngu sameinada þacklátri endurminníngu þess góda Fodurs, ununarfulla. Þegar barnid heyrdi fátæka Módur bidja Gud ad blessa sin litlu efni, ádur enn hún í hvert sinn midladi sínum asqvæmum nockru af því litla, eda þann Fodur, sem í hordum vetri hafdi lítid fódur fyrir sínar bjargrædis skepnur, enn sá þessar mæna til sín eptir fódri, mæla fram med þeirri tilfinníngu, sem nærri má geta, þessi himnesku ord: allra augu vona til þín, Drottinn! þá gjördi hvert um sig þá verkun á hjarta hins únga, sem þad bar med sér upp frá því og færdi ávöxt. Hin somu ord, fyrst tolud, þegar únglíngurinn var farinn ad elldast, hefdu ecki gjört eins mikid ad verkum,

hefdu ecki fengid eins gott rúm í hjartanu, ecki fest þar eins djúpar rætur. Þess elldri, sem manneskjan verdur, þeis þreyngra verdur í hennar hjarta, og tilfinning þeis sljófari, og fái hid góda ecki í tíma bólfestu í hjarta hins únga, er hætt vid hid lakara verdi ádur búid ad ná sér þar bygd, svo þótt seinna ætti ad kénna hid betra, verdi því traudlega vidkemid Allt, sem hinn-úngi sjer og heyrir, tekur upp meira eda minna rúm í hjarta hans; en þad veit Drottinn, ad hann, því mi: ur! opt heyrir og sjer fleira af því, sem óskandi væri ad hann hverki sæi né heyrdi, heldur enn hinu, sem verdugt er ad rótfestist í hjartanu, sem á ad vera Guds musteri, í hverju Guds Andi á ad búa.

Af þessu, sem nú er sagt, tel eg mikla naudsyn, ad snemma verdi barninu innrætt sú þecking um Gud, sem verdur: ad snemma sé vakin í þess hjarta tilfinning Guddómsins, bædi med því ad benda því til hans dásemda í náttúrunni, og minna þad á þau Ritníngarinnar ord, sem samverka því, er þau sjá, og best eru lögud til ad glæda hjartans betri tilfinníngar. Þad var því ecki án orsaka ad hinn vísi Syrach rjedi til ad kénna þeim únga þann veg, sem hann á ad gánga. Reynslan hafdi kénnt honum ad sá, sem lærir þad snemma, víkur traudlega af þeim vegi, þegar hann eldist Jesú gudhræddu Foreldrar innrættu og snemma Jesú þann gudræknis anda, sem í honum bjó; á 12ta ári dádust allir, sem

heyrdu hann tala vid Lærifedurnar, ad hans svørum, ad hans skilníngi; og jafnvel á þeim aldri ládi hann Foreldrum sínum ad annarstadar hefdu leitad sín enn í Musterinu, í húsi síns Fodurs, svo sem þeir hefdu mátt þeckja svo hans lund, ad hans æsku yndi væri mest ad hugsa um Gud og hans heilaga vilja, hans dyrkun og þad, sem þar ad lyti.

Þesshattar hugarfar fannst hiá þeim únga Jesú; hann var barn, sem adrar manneskjur, og hinn vissasti vottur, ad uppfóstrid var gudrækilegt, og snemma birjud sú gudlega mentun, var sú, ad þvílíkar vóru ordnar framfarirnar á hans 12ta ári, ad alla furdadi á hans skilníngi og andsvørum. Eins og Jesú Foreldrar breyttu, eins breyttu margir gudhræddir Foreldrar lengi frammeptir olldunum. Þeir þóktust aldrei ofsnemma geta innrætt afqvæmum sínum þad, sem var þeirra ædsta hnoss og athvarf í lífi og dauda. Ad þeirra adferd var á stundum ecki hin skynsamlegasta, mætti til vorkunar vyrdast, þegar meiníngin var gód. Ad þeir framar audgudu minni sinna afqvæma med þeckíngu Guds ords, og létu sér meir umhugad ad kenna þeim vissar lærdóms og Ritníngar-greinir, hvert sem þær vóru audskildar eda ecki, hvert heldur þær midudu til ad upplýsa skilnínginn, og vekja í hjartanu blídar, gudlegar tilfinningar, edur ecki, þar í er ecki verdt ad Foreldrar nú líkist þeim fyrri

gudhræddari oldum. En — í hinu, snemma ad kénna hinum únga ad leita Guds og finna Gud, þar í hafa þér géfid gott og hrósverdt eptirdæmi; þar um ætti öllum Foreldrum ad vera umhuaad; þá velgjörd ættu allir þeir, sem í Guds nafni forsorga munadarlausann, ad láta ecki eptir verda.

Og þér — mínir kjæru Tilheyrendur! — þér vitid einka medalid til þess, ad børn ydar og fósturbørn snemma læri ad þeckja Gud, og hafa tilfinníngu af hans nálægd. Þad er ecki lángur, ecki þúngbær lærdómur, þegar rétt er adfarid. Fá ord vid tækifæri tölud, med lotníngu fyrir Guddóminum, ecki í þeim tilgángi, ad kenna þeim úngu, heldur svo sem blátt áfram, og gudrækilegt háttalag fyrir augum hins únga, mun gjöra hans hjarta gudlegt, og kénna honum betur þann rétta einlæga Guds ótta, heldur enn med djúpsæraska lærdómi. Optarst mun hinn úngi taka betur eptir því, sem hann sjer og heyrir, heldur enn hinu, sem honum er gjört ad skyldu ad læra, og eptirdæmin — þad er alþeckktur sannleiki — verka meir á hjarta únglíngsins heldur enn tilsögnin. Viss er ég um, ad barnid, þó þad sé vel gáfad, og nemi á stuttum tíma sinn Barna-lærdóm, verdi hverki vel ad sér í trú sinni, né heldur gudrækid, heyri þad aldrei rædt um Gud, um skyldu, um dygd af þeim, sem þad optarst umgengst, og þó þad sé vel mentad í Kristinndóminum, mun hætt vid ad breytin'n

verdi ecki kristileg, nema þad sjái fyrir ser kristilegt háttalag. En hvad ætti ad vera hægra fyrir kristinn, enn ad breyta kristilega? er ecki gjorlegt stundum ad láta huga, og þá ásamt ord, hulga ad því gudlega? eda kannske menn fyrirverdi sig ad nefna Gud, ad fara med gudlegt? sé svo, þá er ecki ad búast vid gódu af bornunum. Er þad líklegt, ad þau opt hugsi til Guds, þegar þau engin merki sjá til þess, ad hinir fullordnu trúi ad Gud sé til, nema af því, þeim er skipad ad trúa því? nei, þau láta sig ecki blinda med eintómum ordum; þau vilja sjá verkin; svo eru þau gjord af Drottni. Kannist hér, gódir brædur! vid eitt elsku merki Drottins, eitt medal ydur til betrunar. Hann vill ad elska sú, sem barnid ávinnur sér í sérhverju óspilltu hjarta, aptri ydur frá syndum; elskan til þess saklausa aldurs, sem náttúrleg er ollum monnum, kennir varkárni í návist hins únga, og leggur hapt á hins fullordna gedbrest og lastagirnd, og einkum á Foreldranna, svo þad, sem er skylda vid hinn únga, verdur farsæld fyrir hinn fullordna. Þannig hefir Gud tilætlast ad hverr leidi annann til góds og til sín; þad smálga barn hiñ fullordna, og sá fullordni aptur barnid. Lofud sé hans mildi! leid þú oss, Drottinn! til þín alla yngri og eldri! miskuna þeim úngu vegna þeirar oldrudu, og þeim oldrudu vegna málleysíngjanna. Kenn oss ollum ad leita þín, og

seint, sem snemma æsinnar ad vaxa í Þinni náð og Þeckingu. Amen!

# Á 2añ Sunnudag eptir Þrettánda.

## Bæn.

Góði Fadir alls Þess, sem børn kallast á himni og á jørdu! Þú hefir audgað heim Þenna með margføldum gædum, sem ecki einúngis mida til Þess, að bæta vorar Þarfir, heldur og til hins, að hressa oss og gleðja. Þú hefir einnig gjort oss hæfilega til að njóta Þeirrar ánægju, sem náttúran og manna samfjelag frambjóða oss til unadsemda. Lofud se Þin gædska, Þin nærgætni vid oss, Þinar skepnur! Kenn oss að prísa Þig verduglega fyrir Þessa Þína mildi, ecki með munninum einúngis, heldur jafnframt með gladværri Þacklátsemi, og með hóflegri brúkun Þess, sem Þú tilætladir að skyldi um vorn hjerveru-tíma hressa oss og upplífga, til að Þjóna Þjer með alúð og ljetta undir lífsins mædu. Lát aldrei gædi Þessa heims villa oss frá Þjer, heldur leida til Þín! Kenn oss að brúka svo heiminn, að ver ecki vanbrúkum hann! Kenn oss að leita vorrar ædstu og helztu unadsemdar í Þjer og Þínum ótta! Þar til erum vier kalladir, og sá er Þinn nádugur og gódur vilji. Amen!

## Gudspjallid.

(Joh. II, 1—11.)

Þar gjørdist brúdkaup í Cana Galileæ, og Modir Jesú var þar; en Jesús og hans Lærisveinar vóru og bodnir til brúdkaupsins. Og er þá þraut vín, sagdi Módir Jesú til hans: þeir hafa ecki vín. Jesús svaradi: þú qvinna! hvad hefi eg med þig? mín stund er enn þá ecki komin. Módir hans sagdi til þjónustumannaña: hvad helzt hann skipar ydur, þá gjørid þad. En þar vóru 6 steinkér sett, eptir hebreskra venju, til hreinsunar þeim, og hvert þeirra tók tvo eda þrjá mælira. Jesús sagdi til þjónustu-mannanna: fyllid upp kérin af vatni. En þeir fylltu þau allt á barma. Jesús sagdi: hellid nú af, og færid Kjæmeistaranum; og svo gjørdu þeir. En þá er Kjæmeistarinn smackadi vatnid — sem þá var ordid ad víni, og vissi ecki hvadan þad kom, en þjónustu-mennirnir, sem vatnid sóktu, vissu þad — kalladi hann á brúdgumann og sagdi: allir menn géfa í fyrstu hid góda vínid, en þegar géstirnir taka ølvadir ad gjørast,

þá hid léttara; en þú hefir geymt hid góda allt til þessa. Þetta er hid fyrsta kraptaverk, sem Jesús gjørdi til Cana í Galílæa; hann auglýsti sína dýrd, og hans Lærisveinar trúdu á hañ.

## Inngángurinn.

Það var einusinni haldid óleyfilegt kristnum mønnum, ad gledja sig vid nautn jardnefkra gæda. Allir vóru þá dæmdir til sífeldra tára og ángurs fyrir syndirnar. Gladlegt yfirbragd var jafnvel haldid syndsamlegt. Nærri má géta, ad óvinir kristindómsins muni ecki hafa látid ónotad þetta atvik til ad kasta skugga á þá trú, sem þeir ømudust vid af ødrum orsøkum; þeir létu þá ecki heldur þetta liggja í láginni. Þeir søgdu sú trú gæti ecki verid frá Gudi, sem bannadi ad njóta lífsins gæda; hann hefdi audgad náttúruna med mørgum þeim gædum, margri þeirri prýdi, sem einkanlegast midar til þess, ad hressa og gledja vorn anda. Hann hefdi svo tilbúid vor skilníngarvit, ad þau yrdu vor vid þessa prýdi, og vor hjørtu þanninn, ad moraunn hverjum er ómøgulegt ad fordast gledi, þó hinum takist med laungum vana ad afneita mannlegri náttúru og finna unadsemd í sorg og voli. Það er því merkilegra, ad Kristnir skyldu hidast til þeirrar meiníngar, sem gjørdi kristindóminn svo óadgengilegañ fyrir mannlegt hjarta,

sem meiningin finnst gagnstædari kristinndóms-ins útþrycktilegu bodordum og hans dæmi, sem er Hofundur vorrar trúar. hvorju dæmi kristn-um er gjort ad skyldu ad sikjast. Kristinndóm-urinn bannar ecki gladværd, hann skipar held-ur ad gledja sig í Drottni.

Postulinn Páll áleit þad djofla-lærdóm, þegar vissir menn á hans dogum fundu þad heilaglegra ad lifa einlifi heldur enn giptur; og vor Frelsari tók hiklaust hlutdeild í morgum lifsins unadsemdum. Hann var opt ad heim-bodi, og einmidt þetta gaf hans óvinum tilefni til ad kalla hann vínsvelg; og í upplesnu Gud-spjalli heyrum vér ecki einúngis ad hann sjálfur med Módur sinni og Lærisveinum hafi tekid hlutdeild í brúdkaups gledi, heldur og med krapta-verki aukid á gestonna fognud. Þetta hefdi mátt nægja því til sonnunar, ad leyfilegt er kristnum ad njóta heimsins gæda til fagnadar. Sem betur fer, eru og kristnir nú allvidast komn-ir til þeirrar sannfæringar, ad leyfilegt sé ad gledja sig vid nautn heimsins gæda, já, marg-ir komnir á þá trú, ad þad sé skylda bædi vid Gjafarann, sem ætlast til ad gáfna sinna sé notid med þacklæti vid sig, og líka skylda vid sjálfann sig, þareð hófleg nautn þeirra gæda, sem náttúran frambýdur, hressir og lífgar sál-arinnar krapta og gjorir þá hæfilega til ad gegna lífsins storfum og bera lífsins mædu. En, þar ed kristnir menn eru nú búnir ad útrýma hinni fyrri villu, sýnist ecki framar þorf á ad brýna

fyrir þeim þá skyldu, ad njóta heimsins. Hitt kynni heldur naudsyn ad brýna fyrir þeim þessa skyldu Postulans: „þeir, sem brúka heiminn, mega ecki misbrúka hann." Og þetta skal í dag vera augnamid vorra gudrækilegu hugleidínga.

Ad brúka heiminn, þad er ad nota sér hans gædi til þarfar, til unadsemdar. Vér gétum þá fyrst kallad þad heimsins misbrúkun, ad brúka hann ecki, því þad er gagnstædt þess tilætlun, sem audgadi hann med margfoldum gjædum, og innplantadi hjörtum vorum laungun til þess inndæla; eda hvar fyrir mundi svo adfarid, hefdi hverr einn med apturlokudum skilníngarvitum, fyrir hverri unadsemd, átt í sorg og med voli ad eyda hér sínum fáu hérvistar dögum? Er ecki sá tilgáta líklegri, ad hann, sem tilbjó þessi gædi og gjördi oss, eins og vér erum, hneigda til fagnadar, hafi viljad vér nytum sinna gæda, gleddum oss vid þau, og létum þau hvetja oss til ad elska og dýrka Gjafarann, med þacklátu og gladværu hjarta. Já, sá er eflaust vilji hins Gædskuríka, ad vér gledjum oss vid hans miskun og njótum hennar med þacklæti; hressum lífs og sálar krapta med þessari gladværd, svo ad vér þess verduglegar gétum gégnt vorum opt ordugu skylduverkum, og borid med jafnadar-gedi lífsins mædu.

En þader og misbrúkan heimsins og þad í eiginlegri merkingu, ad njóta hans gæda í óhófi; þad er eins gagnstædt tilgángi ens Algóda, eins og ad vilja ecki hóflega njóta heimsins. En þad er óhóf, ad láta lífsins unadsemdir verda ad lífsins adal-augnamidi, ad þreyta sig á þeim, eyda heilsu, kroptum, eigum, sóma, í svalli og sællífi, þad er syndsamlegt og gagnstædt tilætlun Gjafarans. Nei, ecki til þess ad veikja, heldur til ad hressa krapta vora, blandadi Drottinn unadsemdum í lífsins skál. Vor ædsta adal-kallan hér á jördu er sú, ad gegna þeim skyldu-verkum, sem standa vort útheimtir; ad nota þau tækifæri, sem oss bjódast til góds; og af þessu ætladist hann til vér uppskjærum hina sætustu hjartans unadsemd. Þetta ætti því ætíd ad vera hjá oss í fyrirúmi; en nautn lífsins unadsemda er oss því ad eins leyfileg, ad þetta adal-augnamid vorrar tilveru, hennar vegna ecki forsómist; en því ad eins skylda, ad hún gjörir oss hæfilegri til ad vinna þad, sem oss er ætlad ad vinna, eda bera verduglega þad, sem oss er ætlad ad lída; og hófleg nautn heimsins gæda hefir einmidt þessa verkun. En hin óhóflega hefir adra gagnstæda; því sá, sem er sólginn í lífsins unadsemdir og gjörir þær ad lífsins adal-augnamidi, hann forsómar ecki einúngis opt og tídum sína skyldu, heldur gjörir sig sjálfann óhæfilegann til ad gegna henni; hann ofþýngir sitt hjarta med ofáti og ofdryckju, þvert á móti þeirri vidvörun, sem Jesús

gaf sínum lærisveinum. Já, þad er alkunnugra enn á þurfi ad minnast hversu offrek nautn heimsins gæda gjöri líf, líkhama og sálu mannesfjunnar vesælt og ónýtt til alls. Vér erum þeis sælir, hér á þessu, af unadsemdum lífsins, fátæka landi, ad vér traudlega þeckjum nema lítid eitt af allri þeirri synd og eymd, sem óhófleg nautn heimsins gæda bakar sælkérum í þeim svo kolludu sælli londum, hvar únglíngurinn opt visnar upp í blóma æskunnar og verdur karl; hvar heilbrygdinnar prýdi verdur veana óhófsbrúkunar heimsins ad daudans bleika ysirlit; hvar æra og líf verdur syndarinnar offur á stundum. Já, vér erum þeis sælir, ad vér þeckjum ecki slíka eymd syndarinnar; en athugum jafnframt, ad þad er ecki svo dygd vorri ad þacka, sem ásigkomulagi þeis lands, sem vér byggjum. Væru vor á medal allar þær tillockanir, sem í odrum londum finnast, til ofsfrekrar nautnar heimsins gæda, mundu og efalaust þeir finnast vor á medal, sem yrdu ofveikir til ad standast þessar tillockanir. Hver mannesfja er annari lík; færri rata hinn rétta medalveg, og einkum er hinum únga aldri hætta búin af þessari snoru, hvar sem hún liggur fyrir hans fæti. Í því Guds ord, hefir leyst oss ad brúka heiminn, er ecki kyn, ad þad hefir og epterrtakanlega varad oss vid þessari misbrúkun, svo sem þá Postulinn Páll segir: ad ofdryckju- og ofáts-menn skuli ecki erfa Guds ríki, ad enginn fridlulífis madur, eda óhreinn, eda á-

gjarn eigi von á arftoku í Guds og Krists Ríki; ad sá, sem spilli Guds musteri (þad er sínum líkhama), med saurlífi, þeim muni Gud tortýna. Þanninn setur Guds ord takmork vorum girndum í því þad leyfir oss nautn heimsins gæda og hans skynsamlega brúkun, í því sama bannar þad oss heimsins misbrúkun. Ecki af því, ad hinum Algóda þækti oss ofgód nautn heimsins unadsemda, heldur af því, ad heimsins óhófleg nautn spillti fyrir oss þeirri ædri unadsemd, til hverrar vér vórum eiginlega af hans gædsku áqvardadir. Og til hvers midar þad hapt í raun réttri, sem í þessu efni er lagt á girndir manneskjunnar? ecki til annars enn þess, ad frek nautn hins leyfilega hindri ecki langvinnari og inndælli nautn hins sama. Sá varúd, sem sá kristni hefir ad líta til í heimsins brúkun er þessi: skadadu hverki þig né adra med heimsins brúkun, því ef þú gjörir þad, misbrúkar þú heiminn; ef þú hverki skadar þig né gjörir ödrum rángt til med brúkun heimsins, þá hefir þú ecki misbrúkad hann, heldur ad eins brúkad hann eins og kristnum er leyfilegt. Og er þetta í raun réttri nockurt hapt, eda réttara annad hapt, enn hverr einn skynsamur mundi leggja á sjálfann sig ad sjálfs dádum, þó honum væri þad hvergi bodid? Vér hofum þá þess meiri orsok til ad unna þeim takmorkum, sem vorum girndum er sett í Guds ordi, þegar þau eru hin somu, sem vort eigid vit ætti ad setja þessum, ef vér ecki, sem skyn-

lausar skepnur, viljum setja alla reglu til sídu, og vinna þad fyrir augnabliksins vesælu unadsemd, ad bera margra ára vanvyrdu og volædi.

Ad brúka ecki heiminn og ad brúka hann um of, þad er hverttveggja heimsins misbrúkan. En brúkan heimsins í hófi gétur og ordid oss skadleg, ef vér gjörum oss nockud af hans unadsemdum, hverra ecki er ætid í voru valdi ad njóta, svo ómissanlegt, ad þess missir raski rósemi vorra gedsmuna; gjöri oss óhæfilega til ad gégna vorri köllun og ad finna til unadsemda þeirra, sem oss verda eptirskildar annadhvert í náttúrunni, eda samfélagi þeirra manna, sem vér búum saman vid. Sumum lífsins unadsemdum er svo háttad, ad til þess þarf nockurn afgáng frá lífsins þörfum, ad géta notid þeirra. Sá, sem ecki hefir neitt ad missa frá lífsins þörfum, hann hlýtur annadhvert ad líða skort, eda vera án þeirra unadsemda, sem hann gétur ecki hast afgáng til ad kaupa sér. Þó vér á einu æfinnar skeidi höfum rád til ad njóta heimsins saklausu unadsemda, sér þad stundum svo, ad hagurinn breytist til ens verra, og þá verdur ad neita sér um þad, sem kringumstædurnar baga frá ad njóta; lángur vani gjörir manni þad stundum torveldt, nema í tíma sé til þess húgsad; og sú besta æfing í þessari ment, sem mörgum kémur ad haldi ad nema, eins og ad ólídi ad nema ecki, er sú, ad neita opt sjálfum sér um þá leyfilegu unadsemd, sem manneskjan opt mót vilja sínum

kann kurfa ad grípa til, svo ef ad því skyldi koma, ad þad kasti manni ecki um koll, eda svipti hann sjori og krapti, fyllir gédid med sorg og óánægju med litid, en loki hjartanu fyrir þeim unadsemdum, sem gladt géta hina, sem ecki hafdu gjort sig þræla hinna fallvöltu, svipulu unadsemda. Eg veit margur hefir hugsad og sagt, ad best væri ad njóta þeirra saklausu unadsemda medan kostur væri á, og ecki ad leggja á sig annad hapt, enn þad, sem hófsemin útheimti; þad yrdi ad géfa þad Drottni hvad hin ókomna tíd hefdi manni ætlad; þá væri ad taka til þess kraptar, sem í manni væri til ad láta sér ecki hugfallast, þegar ad því væri komid, ad unadsemdanna yrdi ecki kostur lengur ad njóta. Þad væri engu hægra, ad synja sér vísvitandi med ásettu rádi um þá unadsemd, sem madur gæti veitt sér, heldur enn ad vera án þeirrar unadsemdar, sem ecki verdur notid. Hvad þetta seinasta snertir, er stór munur á því ad hafa í sinu valdi, en med ásettu rádi synja sér um unadsemd, og hinu, ad géta ecki veitt sér þá unadsemd, sem mann lángar til ad njóta; þad seinna er bísna tilfinnanlegt, en hid fyrra gétur ordid inndælt; eins og hvert sigur á egin girnd, og tilhugsan sú, ad hafa rád til ad fullnægja sinni laungun, þegar svo litist. Auk þess er þetta æfing í sjálfs afneitun yfir hösud, sem kristinndómurinn af oss heimtar. Nun sá egg hægt med ad temja géd sitt, sefa hefndargirni, fyrirgéfa mótgjordir, stjórna

gédi sínu, sem aldrei vill láta neitt á móti sîñ eptirlaunaun. Þad gétur verid, ad sumir, sem allar lèyfilegár unadsemdir eptir sèr láta, hafi þrek til ad missa þeirra allt í einu, án þeís ad láta slíkt á sèr festa, en traudlega mun þad øllum gèfid; svo mikid er víst: ad audveldara verdur øllum ad sjá því á bak, sem hann ecki med lángvinnri, stødugri nautn, er búinn ad gjøra sèr ómissaniegt, heldur enn hinu, sem med vana er ordid manni svo sem ad náttúru ad njóta. Vèr egum ecki einúngis ad framgánga rádvandlega, heldur jafnframt hyggilega í heiminum. Vid heiminn megum vèr ecki festa hjartad, en þad gjørum vèr, ef oss þykir mikid fyrir ad sjá á bak þeim gædum hans, sem ecki beinlínis mida til vorrar naudþurftar. Vèr megum njóta heimsins medan kostur gèfst, en ætíd í hófi, svo vèr hverki skødum oss med hans brúkun nè gjørum ødrum rángt til; en vèr egum ad brúka hann eins og ferdamenn; því vèr vitum, ad ecki er lengi ad honum ad búa nè hans unadsemdum, því hann forgengur ásamt þeim; en sè hann vort einka edur helzta athvarf, þá erum vèr illa farnir; hvad gétur þá verid vort athvarf, þegar heimurinn snýr vid oss bakinu, sem á stundum kémur ad mikid sviplega? hvert er þess manns athvarf í ellinni, sem ecki lefir toluverda brúkun heims þessa, sè ecki annad ad flya til, eda í daudanum, þegar heimur allur hverfur oss, sè hann einka athvarfid? Nei! — svo mikid er ecki

varid í heiminn og hans unadsemdir, ad ecki sé þorf á odru athvarfi. Marga saklausa ynd-isfulla gledi hefir sá algódi Gud í honum veitt ollum þeim, sem vita ad brúka hann, án þess ad misbrúka hann, en ecki svo miklar, ecki svo dýrmætar, ad vér gétum seidad med þeim ein-tómum girnd vorra sálna. Þær mettast skjótt á nautn heimsins, og sækjast eptir ædri sælu enn hann gétur í tje látid, og finna hana, þegar þær hafa lært ad hefja sig upp yfir hid for-gengilega til ens himneska; þegar þær hafa lært ad leita Guds og finna hann í hans verkum, og í þeirri trú, sem heiminn sigrar.

Hugfestum þá þetta, samkristnu brædur! njótum þeirra gæda heimsins, sem algædska Guds hefir audgad hann med; njótum þeirra med innilegu þacklæti vid Gjafarann og glad-væru hjarta. Látum nautnina hvetja oss til þess innilegri elsku vid hann, sem veitir oss allt gott, sem hann ríkuglegar og nærgætnislegar hef-ir alid onn fyrir ollum vorum þorfum. Njót-um þessara gæda í hófi eptir þeirri reglu og med þeirri varúd, sem oss af vorri kynsemi og Guds ordi er fyrirsett, svo ad oss aldrei verdi Guds gædska til spillingar. Festum aldrei hjarta vort svo vid heiminn, ad oss þyki mikid fyrir ad sjá á bak hans unadsemdum, þegar þad er Guds vilji, ad vér med einhverju móti rot-um í þá reynslu; sleppum aldrei sjónar á því

hnofsi, sem á ad vera adal-augnamid allrar eptirlaungunar vorra hjartna. Sú andlega unadsemd sálarinnar, sem finnst ad eins í andlega sinnadri sálu, í von hans miskunar og fullvissu um hans nád.

Brúkum svo heiminn, ad ver ecki misbrúkum hann. Vor ædsta adal-gledi sé sú, sem Sálma-skáldid sagdi væri sín einka gledi; vor adal-gledi sé nefnilega: ad vér höldum oss til Guds, þá mun heimur þessi med öllum sínum fögnudi ecki miklast oss svo, ad vér hans vegna gleymum himninum. Þá munu hans unadsemdir ecki leida oss afvega. Þá mun hans mæda ecki skélfa né missir hans gæda hriggja oss. Ecki burtförin frá þessu gledi- og sorgarheimkynni verda oss óttaleg. Því þegar vér höfum þig ad eins, Drottinn! hirdum vér hvorki um himin né jörd; því þó líf og sál vanmegnist, ertú þó, Drottinn! þegar vér höfum leitad vorrar ædstu unadsemdar í þér, vort hjartans traust og hlutskipti! Amen!

---

A 3ja

# A 3ja Sunnudag eptir Þrettánda.

## Bæ n i n.

Vort líf á þessari jördu er stríd. Svo var þjer, himneski Fadir! þóknanlegt. Eptir þinni tilætlun egum vier í þessu stridi ad fullkomnast og giörast verdugir þess heidurs, þeirrar umbunar, sem þinum trúu stridsmönnum eru heitin. Vjer egum stríd vid girndir vorar og tilhnegingar, og þessir óvinir eru oss skjædir. Opt erum vier kalladir til ad berjast vid lífsins mótgáng; stundum áreita oss meingiördir heimsins barna; og þeirra eptirdæmi eru enn hættulegri óvinir vorrar velferdar. Drottinn! þú, sem þeckir vorn breiskleika, mátt vorra óvina og þá ólucku, sem oss er búin, ef vjer látum oss sigra, styrk oss med þinum krapti til ad berjast örugglega, vardveita trúna og góda samvitsku, og til ad sigra íllt med gódu! Amen!

---

## Gudspjallid.

(Matth. VIII, 1—13.)

Þegar Jesús géck ofan af fjallinu, fylgdi honum margt fólk eptir. Þá

kom þar líkþrár madur, sem tilbad hañ og sagdi: Herra! ef þú vilt, þá gétur þú hreinsad mig. Jesús rétti út hondina, áhrærdi hañ og sagdi: eg vil, vert þú hreinn! og jafnsnart hvarf líkþráin. Jesús sagdi til hans: sjá þú til, ad þú segir þad ecki neinum, heldur far þú og sýn þig Kennimonnunum, og offra þú þeirri gáfu, sem Moses baud til vitnisburdar yfir þeim. En er Jesús géck inn í Capernaum, kom til hans Hundrads-hofdíngi nockurr, bidjandi hann, og sagdi: Herra! þjón minn liggur limafallssjúkur heima og qvelst þúnglega. Jesús svaradi og sagdi: eg vil koma og lækna hann. Hundradshofdínginn svaradi: Herra! jeg er þess ecki verdugur ad þú gángir inn undir mitt þak, heldur seig þú eitt ord, og mun minn þjón heilbrygdur verda; þvi eg er madur Yfirvaldinu undirgéfinn, hafandi undir mér strídsfólk, og þegar eg segi þessum: far! þá fer hann, og odrum: kom! þá kémur hann, og þræli mínum: gjör þetta! og hann gjörir þad. En þegar Jesús heyrdi þetta, furdadi hann og sagdi til þeirra, sem honum eptirfylgdu: sannlega segi eg

ydur: ad þvílíka trú hefi èg ecki fundid í Jsrael; en eg segi ydur: ad margir munu koma af austri og vestri og sitja til bords med Abraham, Isaak og Jakob í ríki himnanna, en ríkisins synir munu verda útreknir í hin ytstu myrkur, þar sem vera mun óp og gnístran tannanna. Og Jesús sagdi til Hundradshofdíngjans: gack þú hédan, verdi þér eptir því, sem þú trúdir! og þjóninn vard heill á þeirri sömu stundu.

## Inngángurinn.

Hundradshofdíngi sá, sem nefndur er í upplesnu Gudspjalli, var heidíngi; samt gaf Jesús honum þann vitnisburd: ad eins trúadann mann hefdi hann ecki fundid í Jsrael; og ásamt vaknadi med vorum Frelsara gledileg tilhugsan þess: ad Guds ríki væri einnig ætlad heidnum þjódum. Um þessar mundir var þó sidferdi medal heidinna þjóda ófagurt, því heldur má oss furda þau dæmi, uppá framúrskarandi dygd og trú, sem hjá einstökum heidnum manni finnast; því vér vitum, ad vond dæmi spilla gódum sidum. Þetta bendir oss til, hvert kraptur manninum er gefinn til ad varast hid illa og sigra hid illa, þegar hann alúdlega vill neyta hans. Í oss er kraptur frá Gudi kominn; þennan er oss ætlad ad brúka í lífsins

skeldi, þvi vèr egum ecki einúngis vid hold og blód ad berjast, heldur vid mótgáng lífsins, óreitni vondra manna og ill heimsins eptirdæmi. Þetta allt köllum vèr illt, og þetta illa megum vèr ecki láta sigra oss; heldur er vor skylda, ad bodi Postulans Páls: ad yfirvinna þad, og yfirvinna þad med gódu.

Bædi þessa skyldu vora og hvernig henni egi ad gegna, skulum vèr, á þessari gudræknis stundu, festa hugann vid.

---

1) Lát ecki hid vonda sigra þig, segir Postulinn. Mótgáng lífsins köllum vèr vondann; látum hann þá ecki sigra oss svo, ad vèr föllum í vyl og örvæntíngu, heldur yfirvinnum hann med gódu. Þad er mikil naudsyn, ad vèr hlydnumst þessu heilrædi; því þótt vèr gætum, ad miklu leiti, med gæsd og meinleysi komist hjá mótgjördum manna, eda med dugnadi og lagaunna vorn hrundid af oss rángsleitni þeirra, skyldi enginn af oss ætlast til ad sleppa til fulls hjá luckunnar mótblæstri. Ad lída med þessu eda ödru móti, meira eda minna, annadhvert svo, ad á sjálfum liggi, eda á vinum og vandamönnum, þad eru sameginleg kjör allra manna. Hvers vegna, og í hverjum tilgángi forsjón Drottins hafi þessu þannig tilhagad, kémur ecki þessu máli vid; svona er því varid, og þad kénnir daglea reynsla; þessvegna rídur á, ad vèr ecki látum mótgánginn sigra

oss; en pad góda, med hverju vér egum ad yfirvinna hann, er stadfesta og hugprýdi sálarinnar, bygd á trausti til Guds, sem med vitnisburdi gódrar samvitsku hefur sig yfir lífsins reynslu.

Þegar pér, minn vin! ser ad blása á móti, vinir sæka eda bregdast, fé pitt eydist; pegar heilbrygdi hnignar, eda sú manneskja, sem pú batist hjarta pitt vid og væntir af gledi í lífinu eda adstodar í ellinni, verdur frá pér tekin, segdu pá ecki med sjálfum pér: „nú er komin sá vonda tíd; nú er jáfnvel vonarinnar dyrum lokad, peir dagar komnir, sem enga gledi veita, ecki von um gledi, hún er sloknud; eg hlýt enda mína vesælu æfi i púngllyndi, órvænta og deya.“ Ad vola panninn, er ad láta hid illa sigra sig. Sá, sem í mótlæti lætur sér svo mjøg hugfallast, gætir ecki sóma síns; hjá honum er ecki einúngis skortur á stadfestu og styrk sálarinnar, heldur og svo á gudrækni og tránadartrausti. Omøgulegt er ad sá hafi réttann skilníng á Gudi og hans forsjón, sem lætur heimsins adkast panninn yfirbuga sig; hann treystir ecki heldur gudlegri forsjá; hann metur einkis Guds ords dýrmætu fyrirheit. En sá, sem ecki treystir Gudi, hann er illa farinn, og pó hann mogi ecki med munninum, gétur hjarta hans engann frid fundid, heldur yfirbugast af hinu illa.

Þegar móti blæs, rídur oss einkum á ad íhuga pad, sem gæti styrkt pann krapt, er Gud

gaf vorum sálum til ad yfirvinna hid illa, til þe's vèr egnumst vorar sálir i þolinmædi. Ihugum þá fyrst hid góda, sem vèr ádur medtókum af Drottni, og látum þá ihugun hvetja oss til ad treysta og vona góds af honum, sem vèr reyndum gott af ádur; en þessu nærst þá minnumst þeirra fyrirheita, sem oss eru gefin i Guds ordi, og þess: ad Guds fyrirheit géta ecki brugdist. Hugleidum og Forsjónarinnar vegu, svo lángt, sem vèr gétum þá rakid, hverninn hún hefir látid mannsins líf vera blándad óvæntum adburdum, og hagad því svo, ad heppni, sem enginn bjóst vid, vard niburlag mestu óheppni, ad gott leiddi tídum af illu. Hugleidum, ad hversu mikid, sem luckan tekur frá oss, gétur hún þó ecki svipt oss því, sem er vor dýrmætasta eign, fridi gódrar samvitsku; þeirri ununarfullu medvitund, ad vèr hvervetna ástundad hofum ad breyta heidurlega, ad gæta skyldunnar; ecki von um sælufullann endir á lífsins reynslu i betra heimi.

Þegar vèr látum ecki þad illa i heiminum ræna oss vorri dygd, verdur einhver hugfró eptir, jafnvel þá verst gengur. En þar ad auki, hverfa oss traudlega oll lífsins gædi i einu; ecki stedjar allt ólán ad undir eins. Sa, sem missir nockra vini, á optarst nockra eptir, og gétur hjá þeim leitad huggunar. Sá, sem vegna elli eda heilsuleysis, orkar ecki ad starfa sèr til skemtunar, hann gétur unad sèr vid hvild og nædi. Þó sé eydist fyrir manni, er kostur i sto-

tækt ad njóta margrar gledi, bædi af skodun Guds verka og í sambúd vid ástvini. Sál gódra manna veit ætíd rád til ad finna þad í hverjum hlut, sem gjörir hann vidunanlegastann; hún finnur gledi í sjálfri sér og vonin yfirgéfur hann aldrei.

Med þessum og þvílíkum hugleidíngum skulum vér styrkja vort trúnadartraust, ebla vora þolinmædi, lífga vonina, þángad til vér finnum í oss krapt til ad sigra illt med gódu. Gleymum því, sem á baki oss er, en horfum framundan oss til þe's, er í hönd fer, sem er frelsan frá öllu illu; treystum Drottni, og hlustum eptir hans raustu, sem sagdi fordum og segir enn öllum sínum trúlyndu þjónum: óttast ecki, eg em hjá þier, eg em þinn Gud, ákalla mig í neydinni og eg mun ansa þér. Bídid Drottins og verid oruggir. hann mun styrkja ydar hjörtu, allra ydar, sem hans bídid.

2.) En — hid illa, sem vér egum vid ad strída og sigra med gódu, kémur ecki einúngis af hlutanna gángi, heldur og af manna tilstudlun; þad er: annadhvert af þeirra meingjördum edur þeirra dæmum. Hverttveggja þetta gétur ordid oss ad illu, ef vér látum þad yfirbuga oss, og hverttveggja þetta ber oss ad sigra med gódu.

Hid fyrsta sé: Látum ecki mótgjördir manna sigra oss svo, ad vér þeirra vegna gleymum vorri skyldu vid þá, eda leitum hefnda. Þetta er þad, sem mér vyrdist Post-

ulinn einkum hafa haft fyrir augum, er hann gaf enum fyrstu kristnu, grimmilega ofsóktum, þessa rádleggingu: sigrid illt med gódu. Ì nærst undangángaadi versum segir Postulinn: Elskanlegir! hefnid ydar ecki sjálfir — gefid reidinni rúm — skrifad er: min er hefndin, eg vil endurgjalda, segir Drottinn. Þar fyrir, ef óvin þinn húngrar, gef honum ad eta, ef hann þyrstir, þá gef honum ad drecka. En — þad er ecki einúngis á ofsóknar tímum, ad áminníng þessi er naudsynleg, því i sérhverju mannlegu félagi, er fyrir ójafnadar mönnum ród ad gjöra, og vid hid illa hlytur hid góda ad ega sífeldt strid. Þetta er ein sú ólucka, sem ecki er mögulegt ad sneyda hjá í heiminum. Enginn er svo hár, svo framúrskarandi, svo gódur, svo meinhægur, ad óhultur ćti verid fyrir mangjördum óhlutvandra. Stundum óspekir ged vort áreitni óvina; stundum vanþacklæti vina; opt mætum vér þar ĺtolum, er vér þóktumst hafa verdskuldad hrós. Ofund qviknar ad sjálfsdádum; baktal sendir sin skeyti tídum á þá bestu menn. Þessir eru áveptir manneskjanna spillíngar og þeirrar á.eglu, sem syndin hefir til leidar komid í heiminum. Sjálfselskan er ætíd reidubúin til ad ljá oss sjálfum meira lán, enn odrum veitist; þar af kémur þolleysi og viðqvæmni vor, vid hverja minstu mótgjörd, sem mætir oss, rett eins og eitthvad sérlegt eda óvenjulegt hefdi hendt oss, eins og vér hefdum fullvissu fyrir því, ad komast

svo af í heiminum, ad eckert ránglæti sneiti oss. Ef vér vyrdtum betur fyrir oss heiminn og hans born, eins og hygnum monnum sæmir, mundi oss óhættara vid Þvi Þol-leysi vid mótgjordir-manna, sem er svo almennt. Vér ættum ad vita Þad: ad í heimi Þessum má búast vid, ad vér egum ad skipta vid Þær manneskjur, sem meira eda minna eru egingjarnir, undirforulir, ohlutvandir, sem framgánga eptir spilltum girndum síns hjarta. Þessir menn eru Þeir Þjónar, er meida oss á lífsins vegi; en af Þyrnum verda ecki vínber samanlesin.

En — hvernig á nú ad sigra Þad illa af Þessari tegund, sem vér annadhvert hofum fengid ad kénna á, eda megum búast vid ad mæta seinna, ef til vill? Ad búast til varnar, og verja sig, Þegar Þarf og verdur, er efalaust bædi leyfilegt og skynsamlegt; en ad gjalda íllt fyrir íllt, er ókristilegt. Hvad mundi og annad af Því leida, enn Þad, ad lífid yrdi stodugur innbyrdis fjandskapur. Areiting og reidi, meingjordir og hefnd mundu endalaust skiptast um, og heimurinn verda ápeckur villudyra bæli. Svo má Þad ecki tilgánga. Fylgjum Þvi Postulans rádum: sigra íllt med gódu — segir hann — Þinn óvin med edallundadri fyrirgéfníngu; kénn honum, ef ecki ad elska Þig, Þá samt ad vyrda Þig og heidra, og gjor Þig ohultann fyrir hans áreitni, ecki med hefnd, heldur med hugprýdi, hyggindum og fullkominni dygd. Þesshúttar breytni vottar engan-

veginn dádleysi, heldur mikinn krapt sálarinnar. Hugleysi heimtar ecki heldur vor trú af oss; hún vill ecki deyda heidurs tilfinníngar í mannsins hjarta, ecki heldur tilfinníngu eginn réttar, heldur ad eins vesælann hefndar-þorsta, og laungun eptir ad gjalda illu illt.

Med edallundadri fyrirgéfníngu fær madur frægasta siaur, ef ecki á óvin sínum þá samt víst á sjálfum sér, á reidi og hefndargirni. Sá, sem ecki veit af ødru ad segja, þegar áreitniur er, enn hefna og svala gédi sínu, er vissulega sigradur, því hann géfur á vald sins óvinar ad rafka ró hjarta sins og espa lundina; enn med því ad forsmá mótgjordina og fyrirgéfa, fær madur þann sigur á sínum mótstødumanni, sem hann hlýtur ad finna til: hverr, sem lætur annars mótgjordir egna sig til frekra hefnda, fær þeim, sem áreitti, sigurinn í hendur; aldrei géiur hefndin lagt þýngra straff á mótgjerdamanninn, en sú plága er, sem hinn hefndargjarni dregst med. Lundin er heiptug, gédid í ólgu, heiptar þánkar á reiki, og ad búa yfir øllu þessu hlýtur ad vera mikil plága. Þar fyrir þegar vondir menn móðga oss, þá ad sonnu verjum oss, en hefnúm ecki; þeirra eigin glæpir straffar þá nóg; géfum ecki í þeirra vald vorn sinnisfrid, þá vinna þeir of frægann sigur, og hid illa vinnur hid góda.

Eg bæti því hér vid, ad hefndargirni hefir ætíd verid haldinn audkénni vesælla sálna; eptir því, sem veraldar sagan vottar, hafa øll

mikilmenni verid eðallundud og fús til ad fyrirgéfa mótgjordir; vér vitum og hvorsu ðhrdlega þessi dygd skeín á honum, sem vér med ollum rétti heidrum, sem Guddómsins skinilegu imind; honum, sem deyandi affakadi sina óvini og bad fyrir þeim, er úthelltu hans saklausa blódi.

Lát í annann stad ecki heldur heimsins vondu dæmi sigra þig svo, ad þau fái fleckad þig med synda spillingu. Vér vitum ad ill dæmi eru mjög hættuleg og ad vond umgengni spillir gódum sidum; en þad er og alkunnugt, ad regur er til medal spilltra manna ad vardveita sitt sakleysi, hvar uppá sá Hundradshofdingi, sem Gudspjallid umgétur, þénar til dæmis. En, því hættulegri óvinur, sem ill dæmi eru, því torveldara, sem þad er ad sigra þau, þess meir rídur á ad sjá vid þeirra eitri. Morgum hverjum, sem hefir húgprýdi til ad fyrirgéfa mótgjordir, og þolgædi til ad bera mótgáng sómasamlega, er hætt vid ad sigrast af hinu illa, þegar þad mætir í þessum ham. Þeim, sem tekst ad standa af sér stormvidri, verdur stundum hætt vid ad láta hinn milda blæ locka sig; hann fer med straumnum, en ætid eru þeir til, sem illa breyta í nánd vid hvern og einn, og er vel þegar ecki eru þeir med, sem tæla og ginna. Heimurinn liggur í hinu illa; svo var þad á dogum Postulanna, ad þeirra vitni, og sá, sem allt veit, má og vita hvert mannkynid hefir sidan audgast til muna ad dygdum. Klæda snid breytist med tímanum, eins

laſtanna ſnid, Á einni olld rikir þeſsi ſpilling, á annari hin, eptir því ſem tilhneigíngar og girndir manna taka eina eda adra ſtefnu; en á hverri olld er ſiøldinn hneigdur til ad láta eptir girnd ſinni. Ytra eru leſtir ſtundum vel búnir, en innra felſt þeirra eitrada rót. Lyſtiſemdir fånga hinn únga og gjálífa, audur og uppheſd hinn rádſetta og ſtillta. Þegar fleirſtir menn gánga nú þanninn, ſem i tvær ſveitir, en hverr um ſig hugſar, ad þad eina ſé vísdómur og nockud i varid, ſem hann ſtundar; þegar alþýda hlær ad þeim, er ødrum eru frábrugdnir ad hátſemi, ſvo ſem ſérlundudum og fávíſum og ókunnugum heimſins háttum, og lætur ecki adfindni og átølur og ſpé vanta, þá verdur ſá hræddur, ſem er bilſigldur, hinn umburdarlitli og vidqvæmi fyrirverdur ſig, hinn eptirláti og gédlempni, gjørir vild þeirra, ſem hann hugſar ad ſéu ſínir vinir, og ſem látaſt vera þad. Þanninn atvíkaſt, ad margir hugſa ad heimſins almenna meining hljóti ad vera hin retta og ſleppa ſinni ſannfæringu, hálfvegis tældir af annara fortølum; hálfvegis hræddir vid þeirra ſpélni, og endirinn verdur, ad hverr tekur ſér ſnid eptir ødrum, gégn ſamvitſkunnar bendíngum.

Þennann ſkjæda óvin verdur hverr ſá ad ſigra, ſem vill vera og ecki einúngis heita gódur madur, og hverninn á hann ad ſigra? Vor trú, ſegir Jóhannes, er ſá ſigur, ſem heiminn ſigrar. Stødugløndi og óbifanlegar lífs-

reglur; trú á Gud og Þann, sem hann sendi; sú sannfæring, ad gudhrædsla og dygd sé manns- ins dýrmætasta hnoss; Þetta skulum vér bera fyrir oss gégn meiningu Þeirra, sem annad ætla, og dæmum Þeirra, sem illa breyta og med Þvi tæla adra.

Engin háttsemi, engar meiningar manna géta raskad Þeim óumbreytanlegu lögum Guds; Þau hvíla á sannleikans og réttvísinnar eilífa grundvelli; Þó menn kalli Þad gott, sem er illt, og illt, sem er gott, ljósid myrkur, og daginn nótt, breytist ecki hlutarins náttúra fyrir Þad. Já, Þad er svo lángt frá ad menn hafi nockra átyllu til ad ætla Þad vuurlegt eda óhult ad fara med straumnum, ad sá, sem hiklaust gjörir Þad, má vita fyrir víst, ad hann villist og fer sér ad voda. Því fjøldinn ransakar allt um of lauslega, dæmir fljótt og breytir gálauslega. Einkis vonda breytni gétur Þad réttlætt, ad margir adrir breyta eins, og enginn, sem illa breytir gétur vænt Þess ad komast af strafflaust; fjøldinn mun ecki fela fyrir augum hins Al- skygna yfirtrodslu-manninn.

Í hverri mind, sem lestirnir ad oss rád- ast Þá látum Þann Guds krapt, sem í oss er, sigra hid illa, er umkríngir oss. Látum sjá, ad vér høfum støduga reglu fyrir vora breytni, og sleppum henni aldrei fyrir neinn mun eda mann. Þad er ecki svo ad skilja, sem vér eig- um ad gjora oss ødrum frábrugdna í Því, sem er einkisverdt; nei, vér eigum ecki ad vera sér-

kundadir, heldur einnſta ſyna oſs þar í morgum ólíka, ad vér fylgjum ſtadfaſtlega þeirrí reglu, ad vardveita trúna og góda ſamvitſku; hvert ſem þeir eru margir eda fáir, háir eda lágir, ſem odruvíſi breyta; verum viſsir um ad jafnvel ſá, ſem gjörir hinn rádvanda hlægilegann, vyrdir hann þó í ſínu hjarta, og finnur innra í ſér, þó hann ecki vidurkénni þad, ad óbifanleg ſtadfeſta hins rádvanda í því, ſem er heidurlegt og gott kémur frá tignari uppſprettu, heldur enn athæfi heimſins. En hvad ſem þeſſu lídur, mun hvérr ſé, ſem dregur gudrækninnar og ſannleikans taum, og yfirvinnur illt med gódu, ávinna ſér heidur hjá þeim mikla heimſins réttvíſa Dómara, og medtaka mikil laun á himnum.

Þanninn egum vér ad ſigra illt med gódu; mótgáng med þolinmædi og ſjálfs afneitun; mótgjördir med edallundadri fyrirgéfníngu; freiſtíngar vondra dæma med því faſt ad gánga vora leid eptir ſamvitſkunnar og ſkyldunnar rádum, hvad ſem hverr ſegir. Opt gétur ſkéd ad þad ſtríd, ſem oſs er ætlad ad heja, verdi erfidt og torſókt; vér hneigjumſt opt til ens lakara, ſvo er náttúru vorri varid; en lángi oſs til ad ſigra, þá örvæntum ecki um ſigur. Þótt vér ſéum veikir, gétum vér ordid ſtyrkvir í Drottni og krapti hans máttar; gjörum þad, ſem vér gétum og Gud mun vera med oſs; vorir veiku kraptar ſkulu fá gudlegann ſtyrk, og

vor ófullkomna barátta umbunast med gudlegu endurgjaldi. Amen!

# Á 4da Sunnudag eptir Þrettánda.

## Bæ n i n.

Þú ert, Drottinn! vort athvarf frá einni kynslód til annarar; þú ert vor styrkleiki, og fyrir þinn mátt einúngis fáum vjer óruggir vænt þess, ad komast klaklaust um lífsins ólgusjó. Kenn oss ad leita þín, og lifa þannig, sem vjer egum; þad styrkir krapt þann, er þú meddeildir oss í ondverdu, eykur vorn hug og gefur sálunni stadfestu, á hverri svo tídum þarf ad halda, egi skyldan ecki ad afrækjast, gott ad forsómast, og lífid verda ad volædi. O! þad er svo margt, sem getur skjelft oss, ef vjer ecki trúlega holdum oss til þín, og látum ecki þinn fognud vera vorn styrk. Vjer egum ecki ad eins vid hold og blód ad berjast, heldur og vid voldugа útvortis óvini. En — þjer er kunnugast af hverju verkefni vjer erum gjordir. Gjor oss orugga, svo vjer hrædumst eckert, nema ad falla frá þjer, vegna eginn breiskleika og ístoduleysis. Amen!

## Gudspjallid.

(Matth. VIII, 23—27.)

Jesús stje á skip, og hans Lærisveinar med honum. Og sjá þú, ad mikill ókyrrleiki gjördist í sjonum, svo ad skipid lá undir áföllum, en Jesús svaf. Lærisveinarnir vöktu hañ og sögdu; Herra! hjálpa þú oss! vér forgaungum. En Jesús sagdi til þeirra: hvad hrædist þér? lítiltrúadir! Þá reis hann upp, hastadi á vindian og sjóinn, og þar vard logn mikid. En mennirnir undrudust og sögdu: hvílíkur er þessi? því vindur og sjór hlýda honum.

### Inngángurinn.

Lífinu líktu gamlir Spekíngar upplýstra þjóda vid sjóferd eda orustu, hvar hættur umkríngja á allar hlidar. Sama gjördu og þeir heilögu menn, er kéndu kristni bædi munnlega og skriflega sínum medbrædrum; þad er því ecki ad furda þó Spekíngarnir teldu hugprýdi vera hefud dygd manneskjunnar, ómissanlega fyrir hvern þann, sem ætti ad géta lifad kollun sinni verduglega. Ecki gleymdu heldur þeir kristnu Kirkjunnar fyrstu Lærifedur ad áminna menn til þessarar dygdar. Hverjirtveggja höfdu og

sérlegt tilefni af kríngumstædum tímanna til ad mæla fram med hugprýdiñi; þared skylda hvers þess, er vildi lifa med sóma í félagi medborgara sinna á fyrri öldum vard ad vera ætíd reidubúinn ad gánga í orustu og þá undir eins lífshættu fyrir sitt Födurland. En hinir fyrstu kristnu áttu daglega von á óttaleguftu ofsóknum, sem hugprýdi þurfti til ad standa svo af sér, ad menn ecki þeirra vegna afneitudu Kristi og gengju af trúnni.

Fyrr og sídar hefir þad verid ôvyrdíng haldin fyrir karlmenn helzt, ad láta sig bila í hættum, og vor annars svo blídlyndi trúar Hofundur átaldi sína Lærisveina, þegar ædraft tóku í sjáfarháskanum, fyrir hugleysi, hvad hrædist þér? hví erud þér svo istodulausir? til hvers skal þessi hrædsla? Þanninn átaldi hann þá, þar sem þó var töluverd hætta á ferdum og náttúrlegt tilefni til hrædslu, því hjá fleirstum manneskjum er ætíd nockur beygur fyrir berfýnilegum dauda.

Ad strídsmadurinn, og jafnvel sjómadurinn er bádir flestum fremur opt sjá tvísýni á lífi sínu, og mega vænta daudans þegar minnst varir, berfýnilegar heldur enn adrir, þurfi hugprýdi nockra, megi ecki vera ístödulausir, egi ecki jafnvel sú minnsta hætta ad verda þeim ad tjóni, þar um efast enginn, sem íhugar þeirra kjör og kollun. Um hitt mætti heldur efast, hvert allar manneskjur, í hverju standi, sem

þær lifa og hvar, sem þær lifa, þurfi med meiri eda minni hugprýdi og stadfestu sálarinnar, og sái ecki án þess gégnt sinni köllun verdugliga, ecki verid gódar manneskjur, og ecki ordid sælar. Eg hefi sámt áformad ad leida ydur fyrir sjónir, ad þessu sé þannig varid: ad hugprýdi og hrædsluleysi sé naudsynlegt sérhverri manneskju.

---

Enginn fær gégnt sinni köllun né verid gódur madur, nema hann hafi tolulverda hugprýdi, og ecki lifad án hennar sælu og rólegu lifi; þessi sañindi eru þad, sem eg vildi brýna fyrir ydur.

Enginn lifir í því standi, ad hættur sái ecki, þegar til vill, mætt honum; sé hann ístödulaus, er eckert vissara enn þad, ad hann yfirgéfur. saudina þegar hann sjer úlfinn koma; hann fordar sér hættum og yfirgéfur verk sitt. Komi hættan svo brádlega, ad hann fái ecki flúid, þá fer hann eins ad og hinn sjóhræddi í sjáfarháskanum, hann leitar engra medala sér til bjargar, ellegar í rádleysu grípur til þess, er verst gégnir; gáir hverki skyldu sinnar né heldur sóma; já, hikar máské ecki vid, sér til bjargar, ad drýgja syndir, hvar vid hann kémst í nýar hættur, úr hverjum hann leitast vid ad losa sig med nýum syndum, þángad til syndaflækjan og med henni hættu bendan hafa svo umkríngt manneskjuna, ad ómögulegt er ad lösast. Sá ístödulausi er hrædur vid hverja

hættu, hann er lika hræddur vid hvern ordugleika; hann er hræddur vid hvern mann. Allar þær hættur, sem úti verdur ad gánga vegna skyldunnar, fordast hann; hlidrar sér hjá þeim skyldu-verkum, hverra ordugleiki honum vex í augum; hvern mann varast hann, sem heitann eld, ad styggja; óvini sína má hann ecki egna til reidi, svo honum sé ecki hætta búin af þeim, og vinum sínum þorir hann ecki ad gjøra neitt til miska, svo þeir ecki verdi honum afundnir, ellegar snúist á móti honum, og sé þessu svo varid, sem þad vafalaust er, þegar huglevsid er á hærstu troppu, sjá allir hversu ómogulegt þad veitir manneskjunni ad gegna sinni kollun, og þá undir eins hvíllk naudsyn þad er ad vera hugadur, hrædast ecki hættu, ecki ordugleika, ecki menn.

Þar eru margar troppur í hrædslu og hugprýdi — eg játa þad — eins er þad audvitad, ad því meiri, sem hrædslan er, því ístoduminni sálin; því fyrr, því optar freistast manneskjan til ad hlidra sér hjá sínum skylduverkum; því heldur lockast hún til ad koma sér hjá hættunni med óhlutvendni, þegar ecki verdur odruvísi. En allt hugleysi, hvad lítid, sem þad er, sær ordid hættulegt dygd manneskjunnar. Margur gjørir sig sekann í syndum af eintómu hugleysi, sem væri gódur madur ella, sengi hann hrundid frá sér þessum breiskleika. Húsbóndinn, sem ecki hefir hug til ad umvanda vid hjú sitt, afrækir sína skyldu, og

verdur einatt med því móti orsök til veſældar eda vanlucku þeſs, er hann átti ad lagfæra, og fyrir hvers velferd honum var innanhandar ad bera umhyggju. Embættis-madurinn, hverſu opt freiſtaſt hann ecki til, af einberri hrædſlu, ad ſetja til ſidu ſína ſkyldu, þegar hann vogar ecki ad taka lítilmagnann í forſvar, fyrir ágengni hinna voldugu; þorir ecki ad dæma þeim á móti, ſem hann ætlar hafi rád til ad gjora ſér ſkada, eda móti því, er hann hugſar ſínum yfirmanni beſt líka. Þjóninn og undirſátinn, hverſu opt ſyndga þeir ecki af eintómri hrædſlu, og voga ecki annad enn gjora þad, ſem ſkipad er, þó ſamvitſkan bjódi allt annad?

Sé þad ſvo, ad hrædſla og hugleyſi gæti komid manni til ad forſóma ſín ſkyldu-verk; til ad fremja klæki, ſem fleſtir ſkirraſt þó vid í lengſtu lög, ſem ecki eru ordnir hirdúlauſir med allt, aſlann ſóma og velferd, þá má nærri géta, ad hún muni ega hægt med ad aptra manni frá ad gjora nockud gott. Varla mun ſá hug-lauſi rádaſt í mikid, ſem ordugleiki eda hætta er ſamfara. Ottinn bindur fyrir munn hans, þegar hann hugſar ad ſannleiki komi einhverjum ílla, þó hann viti ad morgum gæti ordid til góds ad láta ſannleikann heyraſt. Ecki vogar ſá huglauſi ad tala eitt ord ſakleyſinu til forſvars, þegar ofbeldid trędur þad undir fótum ſér, því ſídur ad hann leiti nockurra bragda því til hiſkdar; hví ſkyldi hann og voga þad, þegar ſjálfur gæti fyrir þad komiſt í einhverri

vanda? mist hylli einhvers svo kallads vinar; bakad sér obilldu einhvers rikismannsins. Þad er sok sér, þó morgum þyki ísjárverdt ad voga sinn timanlegri velferd vegna gódverks, ad egna þá móti sér, sem kunni ad géta svipt mann eignum, frelsi eda máské lifi; jafnvel þó og svo þessu sé skylt ad voga vegna hlýdni vid þad heilaga lögmál, sem Konúngur himins og jardar hefir oss gefid; en sá ístödulausi þarf ecki svo mikils vid; hann forsómar skyldu sína fyrir minna, hlidrar sér hjá gódverkum, kannské án orsaka, meidir samvitsku sína fyrir smámuni. Hann þarf máské ecki meira til ad víkja af skyldunnar vegi heldur enn óhýrann svip þeirra, sem hann á vid ad skipta. Hann er eins hrædd- ur vid íllt umtal, sem þó dettur skjótt nidur, þegar þad er ástædulaust, eins og lima-tjón eda vergáng. Hann þorir ecki annad enn sam- laga sig heiminum, ad lifa eins og í hvert sinn og í hverju bygdarlagi er módur, þó hann finni í samvitsku sinni, ad þad sé ráungt og skadlegt og Guds bódum gagnstædilegt. Hrædslan fyr- ir ámæli eda athlátri leyfir honum ecki ad gjora mismun á leyfilegu og óleyfilegu, á réttu og ráungu. Hann gétur ecki eptir Postulans bodi prófad, hverr ad sé Guds gódur, fullkominn og algjordur vilji, því sídur hlýdnast honum, og hverninn gétur hann þá verid gódur madur? Sá hétir ecki gódur madur, þó opt fái þad nafn, sem gjörir þad, er hverr vill, veitir einkis áformum fyrirstödu, hvert heldur þau eru

góð eða vond; klagar yfir engu, finnur að engu, þó skylda hans bjóði það. Nej! þetta heiðurlega nafn á enginn nema sá, sem aldrei vísvitandi vanrækir skyldu sína, aldrei leyfir sér neitt rángt, aldrei forsómar neitt gott, sem Guð gefur honum krapta og tækifæri til að gjöra; og að sá huglausi megi þá ecki góður heita, er hægt að gánga úr skugga um; hann getur það ecki verið, enn þótt hjartað sé óspillt, af því hræðslan hefir yfirburðina; hún ræður jafnt fyrir vilja hans og huga, og hennar stimpill er á öllum hans fyritækjum og verkum. Meðan enginn orðugleiki mætir, engin hætta auðsjen — en þeim huglausa sýnist fleirst hætta — kann sá hjartagóði, þó hann huglitill sé, að varast syndir, gjöra góðverk, gegna skyldunni; en beri útaf þessu — og það er ecki svo sjaldan í þessum syndúga heimi — þá er hans dygð topuð. Á meðan hann umgengst góða, ráðvanda menn, sem hvetja hann og styrkja til góðs; á meðan er ráðvendni hans óhætt; en það fer svo á stundum, að menn fá við aðra að skipta heldur enn þá, sem mikið er umhugað, að dygð og réttvísi sé stunduð. Til eru þeir, sem locka einn eða annañ til að vinna sér ránglega í hag; til eru þeir, sem ógna, sé það ecki gjört, sem þeir vilja, og komist sá huglausi í þessara klær, verður hann flatur fyrir, og óðar enn varir víkinn af réttlætisins vegi.

Hugleysi hefir ætíð verið mínkun haldin; allteins var það álitið af Forfeðrum vorum.

Hlœandi gengu þeir útí opinn daudann fyrir kapps-sakir; þeim þókti mesta smán ad flya, þó vid ofurefli væri ad strída. Sú old er nú horfin, og þeir sidir, sem gjørdu þad sérhvers sóma, ad óttast ecki daudann: engu ad sídur hefir sú old alltaf varad og mun vidhaldast, er gjørir þad hvers eins heidur ad láta ecki óttann aptra sér frá því, ad lifa í heiminum réttvíslega, hófsega og gudrækilega — því sá er vegurinn til ad lifa farsæll — og dagsatt er þad, sem Jóhannes sagdi: ad óttinn hefdi qvøl. Vér álítum þad vesælt líf, ad vera sjveikur á líkamanum, sem náttúrlegt er; en hitt er ecki minni plága, þegar sálin er sjúk. Sérhverr sá, er óttinn qvelur svo frekt, ad hann vogar ecki ad gjøra þad, sem samvitskan bydur, og fær heldur ecki skotist undan því vanvyrdulaust, þess sálar heilbrygdi tel eg ofur tæpa; þann mann álít eg verr haldinn enn hinn sáttveika, af því hins líf er sífelld óróssemi; hann flyr, þó engin elti, hefir hvergi frid, berst til og frá eins og stjórnlaust skip í ólguisjó, og grípur í rádleysu nú til þessa, nú til hins, á stundum til þess, er verst hentar, en sjer samt engin úrrædi, engann veg til ad komast nær landi enn ádur. Hann hrædist náttúrunnar óblídu, allann lífsins ordugleika og margvíslegu mædu, alla men, hvert sem hann telur þá med vinum eda óvinum, og þegar hann af hrædslu fyrir einhverju þessu hefir yfirgefid skyldunnar leid, hefir hann mestu orsök til ad óttast Dómarann á himnum,

sem ætlast til ad sinn ótti frelsi manneskjunnar frá øllum ødrum ótta.

Þanninn er bendt til þess, hversu skadlegt dygd og kollun manna sé ístødulevsi sálarinnar, hvad mikid henni ríði á stadfestu sálarinnar eda hugprýdi í lífi þessu, sem fullt er af hættum, þrautum, freistingum, hvad veseela ótt inn gjøri manneskjuna, í lífsins margvíslegu ólgu og baráttu.

Misjafnann sálar styrk fengu menn af náttúrunni, en þessari gáfu eins og øllum ødrum, sem manninum vóru veittar, gétur farid fram og líka aptur. Mørg ráð eru oss kénnd til þess, bædi af spekum mønnum og líka í Guds ordi, ad sá hrædsla kynni ad rjena, sem oss er gjarnt til af náttúrunni; sá sálar styrkur ad vaxa, sem ad kynni vera lánadur, svo sem ad styrkja heilsu og krapt líkhamans sem best verdur, svo sálin viti þar af nockru othvarsi, hvar hann er; ad festa sig eckí vid neitt jardneskt, sem þorfin ecki vafalaust útheimtir, svo manni þyki ecki mikid fyrir ad vera án þess eda sjá hinu tímanlega á bak, ef vid lægi. En mesta hugprýdis medal er þó ad hafa eitt ásorm, eitt adal-augnamid, fyrir hverju allt annad víkji og þad er þetta: ad gegna trúlega skyldu sinni, gjøra rétt og gott þegar møgulegt er; þegar þessi þenkingarháttur fær stadfestu í sálinni, stadfestist hún sjálf; vér eınum svo gjørdir, ad

vér forum aldrei á mis vid hugprýdi, þegar þetta er vor einlægur vilji og ástundan; og þó vér af náttúrunni værum lítilsigldir, mundi oss skjótt vaxa hugur, ef vor vilji sneríst einlæglega til hins góda. Pad er svo gott ad hafa ecki neina ett áform, eina ósk — svo heitir hvert þad áf... n og ósk, sem æ er í fyrirúmi — og þurfa ecki annad enn spyrja sig sjálfann ad: hvernninn á eg nú ad breyta? í stad þess ad hvert sá, sem setur eitthvad jafnsídis rádvendni, verdur fyrst ad spyrja ad því, hvad réttast sé, sídan ad því, hvad gagnlegast sé eda hvad alþýda muni hrósa mest, eda helzt vera í vil yfirmanni sínum eda velgjördamanni; sídan verdur madur ad spyrja enn aptur, ef madur leyfir sér ad gjöra rángt, hvernninn verdi nú ad því farid ad ecki beri á, ecki komist upp, því særsir vilja þó vera haldnir óhlutvandir, þó illa breyti; eptir þetta er eptir ad fá eitthvert ráð til ad svæfa samvitskuna, ef hún er ecki sofnud fyrir laungu, eda ef hún svídur, þá eitthvad, sem tekur úr svidann í bráð, eitthvad, ef þad væri ad fá, sem byrgt gæti hjartad fyrir Dómaranum á himnum. Og þad er endalaust ad telja upp allt þad, sem hrædt gétur þann, sem ecki hefir einlægann vilja til hins góda, þar sem hinn rádvandi er og svo í sínum dauda óruggur. Hann finnur med sér ad hann breytir eptir Guds lögmáli; hann veit ad Guds kraptur er í sér, Guds vernd allt í kríngum sig; hañ hræðist því hverki lífsins mædu, skyldunnar erd-

ugleika ne manna illvilja eda fásinnu; hann finnur sig frjálsann, hann þeckir ecki ønnur løg enn þau, sem skrifud eru í hans hugskot og hañ þar finnur, sem sin egin, en limanna løgmál eru honum engin løg. Eginn breiskleiki er þad einasta, sem hann hrædist, annadhvert vitsins skort, eda brádrædi og athugaleysi, en þessi hrædsla hún dvínar af þeirri tilhugsun, ad hver sú yfirsjón verkanna, sem hér af kynni ad fljóta, er ordin til án hans vilia, og verdur honum ný upphvatning til ad gæta sín betur framvegis, til ad leita styrks af hædum med bæn til hans, sem sjer hjørtun og hefir velþócknun á þeim hreinhjørtudu. Þanninn styrkist hann meir og meir í hinu góda, hans hugprýdi tekur framførum, þángad til hann med Skáldinu getur sagt: nær eg hefi þig ad eins, Drottiñ! þá hirdi eg hverki um himin ne jord, þó líf og sál vanmegnist. Stundum, gódir Brædur! þad, sem gefur þessa hugprýdi í lífsins baráttu, þol opt þurfum vér á stødugl yndi ad halda. En þad er ágjætur hlutur ad hjartad sé stadfast. Vertu Drottinn máttugur í vorum breiskleika. Amen!

# A 5ta Sunnud'ag eptir Þrettánda.

## Bænin.

Þú, alvaldi Drottinn! hefir víst ecki sleppt hendinni af handaverkum þínum, þegar þú hvildist af sköpuninni á siounda degi. Vier finnum í heimsins nidurrødun og hlutanna adburdum mörg og ljós merki þeirrar speki og gæsku, sem vier tilbidjum; en — vier skynjum ecki allt, sem vier siáum; já! yfir hmislegu freistast vor mannlegi breiskleiki til ad andvarpa og qveina, og á stundum óska: ad ødruvísi hefdi verid tilhagad, ellegar ad efast um ad gudleg forsión se til. Vier bidjum því: leid oss ecki í freistni; hjálpa oss til ad sigra allar efasemdir, sem hjá oss kynnu ad hreifa sier gegn þeim huggunar-ríka lærdómi vorrar trúar, ad þú, alvaldi Gud, hefir stjórnad og munir ad eilífu drottna yfir øllu þínu ríki. Lát þá trú vardveitast, sem vorn dýrmætasta fiesjód í vorum hjørtum; hvad sem vidber oss eda ødrum vidvíkjandi, sem í fyrsta áliti sýnist ecki samhljóda þeirri trú, ad þú stjórnir, já, sem sýnast kynni henni gagnstædt; kjenn oss ad bída þess tíma, þá allt, sem oss nú er ofvaxid ad skynja, skal upplýsast fyrir oss, því þó vier ecki skynjum nú hvad þú gjørir, høfum vier þad fyrirheit, ad vier skulum skynja þad seinna. Amen!

## Gudspjallid.

(Matth. XIII, 24—30.)

Adra eptirlíkingu lagdi Jesús fram fyrir fólkid, og sagdi: Himnaríki er líkt þeim manni, er sádi gódu sædi í akur sinn; en þegar menn sváfu, kom óvinur hans, og sádi íllgresi á medal hveitisins, og géck á burt. En þegar grasid vox upp og bar ávöxt, þá auglýstist einnig íllgresid. Þjónustumennirnir sögdu vid Húsfödurinn: Herra! sádir þú ecki gódu sædi í akur þinn? hvadan kémur þá íllgresid? Hañ svaradi: þad hefir fjand-madurinn gjört. Þjónustumennirnir sögdu þá: vilt þú ad vér förum og adskiljum þad? Nei! sagdi hann, svo þér upprætid ecki hveitid undir eins, þegar þér upprætid íllgresid. Látid hverttveggja vara allt til kornskurdarins; og á þeim tíma skal eg segja kornskurdar mönnunum; lesid fyrst saman íllgresid, bindid þad saman í bindini og brennid þvi, en samansafnid hveitinu í mína kornhlodu.

## Inngángurinn.

Pad hefdi verid ad óska ad bendínqu þeirri, sem Jesús gaf sínum játendum í uppleſinni eptirlíkíngu, hefdi verid betur gégnt enn Kristinndóms-ſagan géfur oss ávíſun um; þá hefdu ecki hinar blóduguſtu offóknir innbyrdis medal kriſtinna manna vanvyrdt þeirra trú og þeirra hjartalag. Med ſkýlauſum ordum gjørdi vor Frelſari ráð fyrir, ad ecki mundu allir, ſem játudust undir hans lærdóm, lifa kriſtilega, og undir eins ad ſumir mundu af heilogu vandlæti vilja uppræta þá úr félagi kriſtinna manna, er midur þóktu breyta; en — þetta bannadi hann og þad einkum af þeirri orſök, ad hætt mundi vid, ef illgreſid væri upprætt, ad hveitiſtángirnar upprættuſt áſamt, annadhvert af vangætſlu þeirra, ſem hreinſa vildu akurinn, eda af því, ad ræturnar kynnu ad vera ſvo ſamangrónar, ad ecki yrdu adſkildar nema hveittveggja ſtaung væri upptekin; en þad þókti hentaſt ad gjøra hvorumlíkt ecki, fyrri enn á þeim rétta uppſkerutíma, þegar hveitid hefdi nád ſínum fullkomna þroſka. Þeſſa vísdómsfulla og gædſkuríka heilrædis gættu menn ecki lengi frameptir oldunum; kriſtnir offóktu hverr annann vegna þeſs, ſem nú ſýnaſt ſmámunir. Fyrirſögn Frelſarans rættiſt, er hann ſagdi: hann væri kominn til ad ſenda ſtríd á jordu, ad bródir mundi ríſa mót bródur, maki móti maka, born móti foreldri og vinur móti vini. Þeim ſeinuſtu tímum var

þad ætlad, ad sjá og varast fásinnu hinna fyrri alda í þessari grein. Nú eru ad mestu undir lok lidnar ofsóknir í heiminum, vegna trúarinnar, og í því tilliti má heitá, ad illgresi sé látid vaxa med hveitinu, þad gjorist því ecki þorf framar, og allra síst vor á medal, ad brýna þetta Lausnarans heilrædi fyrir hans dýrkurum.

En Gudspjallid gefur oss tilefni til hugleidínga, sem ega nockud skyldt vid áminnst efni. Vèr vitum ad vísu til þess, ad í sèrhverju fèlagi manna eru ecki allir jafngódir nè jafnsyndugir; svo vyrdist þad ad minnsta kosti. Menn hafa á seinni tímum framar snúid huga til þess ad rèttlæta Gud fyrir monnum, en ad rèttlætast fyrir Gudi. Ad þeir svo kolludu vondu menn ecki einúngis eru umlidnir í heiminum, heldur jafnvel fá hentugleika til ad undirþryckja hina betri, hefir tídum gèfid tilefni til mogls og vantrúar. Menn hafa látid sèr um munn fara: sè ædsta vera til, og hún stýri heiminum med rèttvísi, hví skèdur þá slíkt? ef hún gètur vakad, hví sefur hún þá? Eda, hvad skulum vèr hugsa um hennar gædsku, ef hún megnar, en vill ecki ráda bót á þessu vandrædi? Þetta efni er verdt ad hugleida betur. Vèr gètum ecki neitad því ad vondir menn sèu til, og þeim takist opt ad koma fram íllum áformum, og ad þeir á stundum sýnist sælir. En vor trú stendur engu ad sídur stodug, ad heimurinn sè undir umsjá þeirrar Veru, sem er eins máttug og vísdómsfull, eins og hún er gædskurík;

Oss vidkemur þá einúngis ad leita í audmykt þeirra orsaka, sem gudlegt forsjón kynni hafa til þess ad láta vonda og góda saman búa í heiminum, sem í dag skal vera vort igrundunar efni med nockrum þar af fljótandi hugleidingum.

Eg vil einúngis drepa á þetta: Þó ecki verdi neitad ad vondir menn séu til, ad mesta vandhæfi er á fyrir hvern daudlegann, ad fullyrda hverr sé vondur og hverr ecki; Gudi einum er unnt ad þeckja manninn algjørlega, fyrir ødrum er manna þenkíngarháttur sem optarst falinn. Auk þess svo dæma menn um adra, eins og um sjálfa sig, sjaldan fylgislaust. Menn dæma og þeckja ecki, eda eru nógu fljótir ad leggja á dóminn. Mørgum hættir vid ad kalla þá eina dygduga, sem best ega vid þeirra skap, ad gjøra mikid úr hinna brestum, og einkum hafi þeir ordid vid þá missáttir; en, væri þessara fávísu vandlæti leyft ad uppræta alla þá úr akri heimsins, sem þeir ecki af gyldari ástædum ætla vonda, er hætt vid margri hveitiskaung yrdi upprykt í stad þyrna. En vér verdum játa, ad til sé illgresi, og er þad samqvæmt réttvísi, speki og gædsku gudlegrar Forsjónar, ad láta þad standa á akrinum til kornskéru-tímans.

Fleirstum þenkjandi mønnum kémur saman um þad, ad vér séum ordnir til á þessari

jörðu til æfingar og framfara, ad, vort edli egi hér ad gjörast hæfileat fyrir ædra og betra síndu sidarmeir. Af voru egin edli og hlutaña ástandi í þessum heimi, má draga nægileg rök heim sannleika til stadfestu; en, þegar þetta er vafalaust, vegum vér ad sullnrda: ad sambland af dygdum og löstum svari betur þessum tilgángi, heldur enn fullkomnara ásigkomulag mannlegs félags; því:

*I*) Géfa lestir hinum dygdugu tækifæri til ad láta í ljósi marga fagra hjartans tilfinníngu, er gjörir mönnunum sóma. Væri engiñ til ad áreita og móðga, þá væri heldur enginn til ad sýna þolinmædi, hugprýdi og stödugslyndi. Helstingur dygdaña, og ecki hinn ómerkari, væri þá horfinn úr heiminum. Sú dygd, sem aldrei er ydkud, verdur ad óvana og deyr út um sídir í hjartanu. Lægi dygdanna vegur um blómstur, mættu þær aldrei mótstödu, fengju þær ætíd hrós á badar hendur, mundi þar af leida annadhvert framtaksleysi ellegar hégóma dýrdar eptirsókn. Illgresinu leyfist því ad vaxa med hveitinu, vondum ad lifa ásamt gódum, svo þessir vaki og æfist, audsýni þolgædi og stödugllyndi. Fyristadan þrýstir hinum réttlátu til þess meira framtaks og til ad sýna krapt og stödugllyndi á hinni vondu tíd. Dygd þeirra ljómar þeis bjartara; þeir verda ljóss heimsins. Væri ecki hætta von af vaxanda ránglæti, mundi hugprýdinni ecki gefast tilefni til frægdar-verka, ecki vísdóminum til vidvör-

unar, nè varádinni til árvekni, og yfir hofud, mundi tráin þá ecki geta sýnt frægd sína í því, ad sigra heiminn.

Olík lund og misjafnt sidferdi gefur nú svo margfaldt tækifæri til sýslana og æfingar, bædi gásum skilníngsins og hjartans; gefur hentugleika hverjum, sem vill, ad koma í leikinn og sýna hvørr hann er. Væru allir eins, mundi koma kyrrd á lífid. Væru ecki til óreglulegar girndir og þar af fljótandi syndsamleg áform, mundu margir kraptar mannsins enga æfíngu fá. Þeir verda ad vekjast, lífid breytist annars í dádleysi. Mannkynid er enn ecki ordid og verdur seint hæfilegt fyrir Paradísar sakleysi; eins og ævarandi vor og heidskirt vedur ecki er þénanlegt fyrir þessa jordu; eins og hún þarf vetrar-storma og hreta til ad geta látid sína krapta í ljósi, svo er mannkyninu þorf á einhverju því, er veki þess annars sofandi krapta, en ecki vitum vér annad betur til þess lagad, enn strídid hins illa og góda, því milli þess getur ecki fridur ákomist. Lestirnir votta ad sonnu spillíngu heimsins; þeir eru þad illgresid, sem fiandmadurinn sádi í akurinn; eptir því, sem þeir taka yfirhønd, verda þeir tilefni til meira eda minna volædis, en jafnframt lætur gudleg forsjón sig bersýnilega í ljósi á þann hátt, ad syndin fullkomnar hina réttlátu. En —

II.) Lestir, sem vér þykjumst sjá í kríngum oss, þeir géta þénad oss

1.) Til varúdar, sè oss annt um ad fordast illt. Hér sjáum vér hættur og snorur, sem ölluin, er framgánga athugalaust, eru búnar í heiminum. Med því ad athuga af hverju litlum rótum sumir stærstu lestir eru sprottnir, gëfst oss mörg holl vidvaran, hverju vond umvengni spillir sidum sumra; unadsemdir lífsins ginna adra; trúræknisleysi verdur nockrum ad tjóni; yfir hofud: ad rekja þau hálu lífsins spor, sem margur hefir farid sér til glötunar, eykur til muna þeckíngu vora á mannlegri náttúru. Þar af vaknar tilfinníng eginn breiskleika, þar af géfst lifandi sannfæring um, hvillk naudsyn þad sè ad gæta sín og hafa ætíd Gud med sér. Lastanna dæmi eru eins og brennandi vitar, til varúdar, ad menn ecki strandi á þeim skerjum, sem adra hefir adborid. Þad eru sannmæli, ad átölur og bíxlyrdi óvildarmanna, eru ecki sídur gagnleg enn heilrædi vina; en þó er þad enn vissara, ad ecki einúngis dæmi hinna dygdugu, heldur og hinna lastafullu, stadfesti þá athugagjörnu í dygdinni.

2.) Undir eins og vond dæmi þéna til varúdar, undir eins sýna þau syndarinnar afskræmi og volædi. Í lasta lifandi dæmi sjest gloggvast þeirra ljótleiki. Smásyndir eda stórlestir, velbúnir, komast á stundum vel af í heiminum. En þegar fr. múr keyrir, eda skin dygdar er ecki yfir lestunum, kémur hann eflaust

fyrir sjónir eins ljótur og hann í raun réttri er; og Það er naudsynlegt ad menn sjái hans hörleka berlega; en Það sjest best á dæminu. Hverki er hægt ad lýsa lestinum rétt, né heldur gjörir lýsingin eins mikla verkun á hjörtu manna eins og sjónin. Lastanna dæmi urdu Því ad gefast med dygdanna dæmum; hvert skyldi samanborid skíra hid annad og hræra hjörtu skyniandi manna. Vesæld sú, sem lestirnir steypa manni í, ega ad hafa sömu verkun. Sú veraldlega heppni, sem stundum fylgir lestinum, blindar og tælir stundum þá athugalitlu. Nákvæmari athygli getur ad eins adgreint Það, sem sýnist heppni og er heppni. Hverjum ljóma, sem bregdur yfir vonda menn, er ástand Þeirra vesælt, lífid órólegt; af ofund, metnadi, ófridi og óróa er nóg til í Þeim spillta heimi; nóg heipt og reidi er Þar á ferdum, hvar menn sókkja og verda svíknir, áreita og verda áreittir, ofsækja og lída ofsókn. En Þessa syndanna eymd gætum vér ecki berlega sjed, nema Þeir væru til, sem syndin hefir vesæla gjört, og hún getur ecki gjört adra vesæla enn Þá, sem syndga. Þannig er Það ecki án tilgángs, ad Þyrnum er leyft ad vaxa med hveitinu, og ad vondir menn eru til á medal hinna betri; Því Það er skóli manntegra krapta, tækifæri til æfíngar, og uppörfun til varúdar í lífsins strídi.

*III.*) Þetta gefur mér tilefni til eptirfylgjandi fárra athugasemda:

1.) Lærum það af þessum hugleidíngum, ad dæma med varkárni um Forsjónarinnar ráðstafanir. Ad illt lidst í heiminum, hefir freistad margra til ad efast um, ad Forsjón væri til, edur um mátt, vísdóm og gædsku þeirrar Veru, sem drottnadi yfir heiminum; en þegar vèr finnum jafnvel hèr í vísdómsfullann tilgáng, med hvílikri varúd ættum vèr þá ecki læra ad dæma um Forsjónarinnar ályktanir? Oss fer optast illa ad dæma um þvílikt, þad er oss, heldur hátt; audmykt, tilbeidsla og traust tilheyrir oss miklu framar. Þetta einkum skulum vèr rótfesta: því betur, sem vèr ransokum Guds vegu, því rèttari reynast þeir. Minnumst því, þó ad vèr ecki ætid finnum þá, ad vera þacklátir fyrir þá upplýsíngu, sem oss er gèfin. Verum þess fullvissir, ad þó oss skorti vit til ad þeckja allar Drottins ráðstafanir, eru, í þeim oss óljósu, ecki minni speki nè gædska, heldur eñ í hinum, sem vèr höfum nockurt skynbragd á. Vèr sjáum ecki, vitum ecki hvad Gud gjörir nú, en vèr sjáum þad seinna, og skulum sá ad sjá þad enn betur.

2.) Látum oss ecki gremjast þó vondum sýnist vegna vel; þó þyrnarnir standi óupprættir. Illgresi akursins lidst vegna hveitisins. Í endalokin verdur illgresinu brennt; þad stendur ecki nema til korūskérunnar, og stendur þángad til, einúngis vegna hveitisins. Þeir vondu eru þannig til vegna hinna gódu; því allt skal þéna þeim til góds, sem elska Gud. Þeir vondu

enu því aumkunar en ecki ófundar-verdir, þó þeir blómgist um stund, hverju sem þeir hafa villst, enn þeir þó af náttúrunni vorir brædur; hæmumst ecki um vid þá, stærum oss ecki af því, ad vér seum þeim betri; máttugur er Gud ad reisa þá. Hugleidum helldur, ad eins og vond-ir búa saman vid góda, eins býr í þeim sama tídast lóstur med mannkostum, og engum er allt gèfid; flestir hafa einhver, meiri eda minni lýti, eins og hjá vondum er opt ad finna ein-hvern mannkost. Og ef brestir annara á ein-hvern hátt þena oss til gods, látum þá samt njóta þess, med því ad leitast vid ad leidrétta þá med heilrædum, med vidvorun, med elsku- og vyrdíngar-verdu eptirdæmi, og látum alla vora breytni og vidskipti votta medaumkun og innilega umhyggju fyrir villtra brædra velferd.

3.) Min þridja athugasemd er þessi: ad þó syndin vyrdist yfirgnæfa í heiminum, megum vér samt vænta þess, ad náðin muni sigra. Gjörum ecki meir úr heimsins spillíngu enn þorf er. Ecki gèfur Gudspjallid oss neina átyllu til ad ætla, ad illgresid hafi vexid yfir hveitid og kjæft þad nidur. Hveitid vóx upp og bar ávoxt, þó illgresid sprytti med, og á endanum kom uppskèra, og hveitinu var safnad í korn-hlødu. Med þessu er kènnt, ad hid góda skuli ecki verda niduckjæft af hinu vonda. Á þeim spillíngu oldum lætur Gud sig ecki án vitnis-burdar; hann lèsir ad sèr tekid hid góda mál-efnid og styrkir þad þanninn, ad ecki er ætíd

hægt ad segja hvernig. Gudrækni og dygd nærir hann í þeim hiørtum, sem enginn þeckir; vekur ydrun hjá ydrunarlausum. Ecki munu þyrnar útbreidast yfir allann akurinn. Spilling heimsins er ætíd hér um bil hin sama, þó meira beri á henni stundum enn stundum, eptir sem hún framkémur í eptirtakanlegri eda óþeckjanlegri mind. Afellum ecki um of þá old, sem vèr lifum á; þad er eins varúdarverdt, eins og ad áfella um of þá menn, sem vèr lifum med. Treystum Guds forsjón til ad efla hid góda, og vonum hins besta um vort kyn.

4.) Loksins skulum vèr snúa huga vorum til tímans enda. Þegar árid endar kémur uppskéran; þá safnar Húsfadirinn hveitinu í sína hlødu. A heimsins enda er væntanlegur adskilnadur góds og ills; þángad til verdur hverttveggja ad fylgjast ad; sá er breiskleiki vorrar náttúru; en þegar hún betur hreinsast og skírist og gjørist hæfileg fyrir ædra stand, skal gott og illt adskiljast; allir heilagir safnast í eitt og samglediast eilíflega í nánd vid þann, sem er heilagur og Fadir heilagra. Hugfestum þetta og sáum þar um lifandi sannfæringu: ad þad er ecki til einkis, ad þjóna Gudi trúlega. Þreytumst ecki gott ad gjøra; á sínum tíma skulum vèr uppskéra óþreyttir. Amen!



A 6ta

# A 6ta Sunnudag eptir Prettánda.

## Bænin.

Ad elska þig af ollu hjarta, Hofundur vorrar trúar og vonar! þad er hin ædsta vitska; sú vitska, sem kennir oss ad framgánga óstraffanlega í heiminum, og leidir oss vissast til dýrdar og sælu í himninum. Kienn oss því, ædsti Vinur og Velgiorari! ad elska þig af hjarta, og gior þessa elsku framqvæmdarsama med oss og í oss, því hún er vor sæluvegur hier og annars heims. Engin þecking, engin ávaxtarlaus speki, þó hún jafnvel feugi þreyngt inní Guds leyndardóma, getur jafnast vid elskuna til þín, eda giort oss þócknanlega vorum himneska Fodur. Kienn oss ad elska þig, svo vier verdum vísir, til sáluhjálpar forum leidar vorrar ó-straffanlega um heiminn, og á endanum náum þángad, hvar oss er ætlud eilíflega af vorum himneska Fodur, sæla og dýrd, fyrir þína medalgaungu og verdskuld-un. Amen!

---

## Gudspjallid.

(Matth. XVII, 1—9.)

Ser dogum þar eptir, tók Jesús med sér Pétur, Jakob og Johannes brodur hans, og hafdi þá affsidis uppá hátt fjall, og ummundadist fyrir þeim. Hans ásjána skein sem sól, en klædi hans urdu eins bjort og ljós. Og sjá, ad þeim birtust þeir Móses og Elías, sem toludu vid Jesús. Pétur sagdi til Jesú: Herra! hér er oss gott ad vera; ef þú vilt, þá viljum vér gjora hér þrjár tjald-búdir, þér eina, Mósi eina og Elíasi eina. En í því hann taladi þetta, umskyggdi þá bjart ský, og rodd úr skýinu sagdi: Þessi er minn elskulegur Sonur, ad hverjum mér velþocknast; hlýdid þér honum! En — þegar Lærisveinarnir heyrdu þad, fjellu þeir fram á sínar ásjánir og urdu mjog hræddir. Jesús géck þá til þeirra, tók á þeim og sagdi: standid upp og verid ecki hræddir; en þá þeir litu upp, sáu þeir enganu nema Jesús einann. Þegar þeir gengu ofan af fjallinu sagdi Jesús til þeirra: Þér skulud engum segja frá þessari sjón,

fyrri enn Mannsins Sonur er upp aptur risinn frá daudum.

### Inngángurinn.

Sá atburdur, sem upplesid Gudspjall umtalar, hefir einatt verid umtalsefni medal kristinna, einkum á þeim øldum, þá trú og vantrú hafa þreytt hver vid adra. Sumir hafa leitast vid ad gjora sér atburd þennann skiljanlegann, annadhvert med því ad gjora hann ad nockurskonar draumvitrun Jesú Lærisveina, eins eda fleiri, eda med því ad láta allt, sem frá er sagt, náttúrlega tilgánga, til dæmis: birtu Jesú klæda, ljóma hans ásjónu orsakast, annadhvert af sólskini; eda glampa-skini náttúrlegu í austurlendum, bædi í bygd og á fjøllum, af vissum lopt-tegunda verkunum. Raddu þá, sem Lærisveinarnir heyrdu, hafa menn eins reynt til ad gjøra náttúrlega, og hafa annadhvert látid hana vera þrumu, sem heyrendurnir útlegdu, sem velþócknunar-merki Guds á vorum Lausnara, eda þeir hafa viljad ad hún skyldi kemid hafa frá ødrum hverjum þeirra manna, er vid Jesúm toludu, eptir ad skýid byrgdi þá fyrir augum Lærisveinanna. Morgum þókti lítil rok fyrir þessari útleggíngu, og héldu því vid bókstafinn, og trúdu søgunni eins og hún finnst uppteiknud: ad Gud hefdi med yfirnáttúrlegu móti látid sjón þessa koma fyrir augu Lærisveinanna, þeim til trúarstyrkíngar, þá þeir

nú vóru á veginum til Jerúsalem og skyldu verda þess sjónarvottar, ad þeirra Meistari yrdi þar líflátinn. Gudspjallamadurinn Lúcas getur þess og, ad Móses og Elías hafi talad vid Jesús um hans dauda. Hvar af vissu Lærisveinarnir — svo spurdu þeir, sem álíta þessa sjón draum einn — ad þeir tveir menn, sem vid Jesús tǫludu, væru Móses og Elías? og úr því þókti ecki hægt ad ráda. En vér verdum gá ad þessu, ad yfir soguna er stutt farid; ad ecki er sagt frá nema hǫfud atburdunum, og þad kunni vel vera, ad Lærisveinarnir hefdu fengid ad vita hjá Jesú sjálfum, hverjir þessir ókénndu menn vóru, þó Gudspjallamadurinn géti þess ecki.

Yfir hǫfud verdur þad ecki rekid, nema menn álíti Nýa Testamentid nockurskonar dikt, ad kraptaverka sé þar gétid; þó menn gætu því gjǫrt þennann atburd med útleggingunni náttúrlegann atburd, sje eg samt ecki hvad þeir, sem kraptaverk vilja, med útleggíngu Ritníngarinnar, asmá, hafa unnid, á medan þeir ecki géta farid eins med allar þær frásǫgur Nýa Testamentisins, sem um eitthvad yfirnáttúrlegt tala; en ad þad muni torveldt verda, sýnist líklegt, þegar svo margar tilraunir híngad til þar ad látandi hafa ordid forgéfins, og menn því nú eru farnir ad hægja á sér ad fara því fram. Menn finna og óvit ad strída um meiníngar, og halda sér heldur til þess, sem er verulegra í kristinndóminum, samqvæmt þess=

ari Postulans Páls bendingu: ad elska Krist er betra enn øll þecking. Vèr skulum og í stad þess ad hnýsast framar í þann adburd, sem Gudspjallid talar um, athuga áminnst ord Postulans:

1.) Þeirra rèttann skilníng, því hægt er ad misskilja þau, og

2.) Þann sannleika, sem þau rètt skilin kénna oss.

---

1.) Ad elska Krist er betra enn øll þecking. Mun þad meining þessara orda, ad sá kristni megi ad ósekju vera sáfródur og heimskur og ókunnugur trú sinni? Er líklegt þeir hafi afsökun í þessum ordum Postulans, sem meta ad engu þeckingu trúarinnar? Hverr gétur ætlad þeim upplýsta Postula, sem lagdi svo mikid kapp á, sem allir vita, ad útbýta fjársjódum kristilegrar þeckingar, ad hann láti í ljósi svo bernskulega meiníngu? Medal annara røksemda fyrir því, ad ecki sè sú Postulans meiníng, ad einu gyldi hvørt þecking trúarinnar sè nærsta tæp, er þetta: ad þeim er ómøgulegt ad elska Krist, sem hverki þeckja hann nje hans velgjørdir. Menn verda ad vita og finna, ad sá sè elskuverdur, sem þeir eiga ad géta elskad. Sá gétur því ecki elskad Krist, sem ecki þeckir hann. Þó Postulinn segi þá: ad þad sè betra enn øll þecking, ad elska Krist,

gétur hans meiníng ecki verid, ad þad ridi á litlu, hvert menn þecki hann edur ecki.

Vér sjáum berlega Postulans meiníngu, þegar athugum næst undangángandi ord hans (Ephes. 3; 14—18): Eg ákalla Gud i audmykt, ad hann fullkomni ydar innra mann, svo ad Kristur, fyrir trúna, búi i ydar hjörtum, og þared þér, fyrir elsku hans til ydar, erud rótfastir og grundvalladir ordnir, ad þér, med øllum heiløgum, mættud læra ad þeckja, hver ad sé breidd og lengd, hæd og dýpt Jesú elsku til mannanna — og svo bætir Postulinn þessu vid: — Eg bid þess Gud, ad þér mættud um þad sannfærast, ad þad er betra ad elska Krist enn ad vita allt. Dæmid nú sjálfir, kjæru brædur! hvert Postulinn muni mæla fram med vanþeckingu á kristilegri trú, edur hans meiníng sé, ad einu gyldi hvert hún sé ljós og grundud, eda svo sem i þoku og ástædulaus. Þad getur ecki verid meiníng þess, sem ákallar Gud, og bidur: ad þeir kristnu mættu læra ad þeckja þá miklu elsku, sem Jesús hefir þeim vottad. Nei, Postulinn vill ad kristnir þecki Krists elsku, og ad þecking hans lærdóms, hans velgjørda vid mannkynid, veki hjá þeim innilega elsku og þacklátsemi vid Krist; því þad er þeckingarinnar tilgángur og ávøxtur. Ad elska Krist er høfud atridid, og sú þecking á Kristi, sem ecki hjálpar til þess, er fánýt; betra væri ad þeckinguna bristi, heldur enn

elskuga vantadi — og — hvad kallar þ) Postulinn elsku til Krists? ecki er oss audid ad elska Krist eins og þá af vorum medbrædrum, sem vér sjáum, og eru oss samferda um lífsins veg, hverra svipur munzekur vor hjörtu, hverra umgengni gledur oss. Þann óshnilega, nú ysir alla himna upphafda, gétum vér eckt svo elskad. Sú eina oss mogulega elska til Krists, er lotn'ng fyrir hans tign, og innilegasta þackiæti fyrir þá miklu og morgu velgjörn'nga, sem vér hofum af honum þegid, sem hann hefir oss heitid. Já! elskan til Krists er einnlega lotningarfullt þacklæti fyrir þad ljós, sem hann tendradi i vorri skynsemi; fyrir þá ró, sem hann útvegadi vorum hjörtum; fyrir þá von Guds nadar og eilífrar sælu, sem hann gaf oss; því hann hefir lífid og ódaudlegleikann í ljós leidt. Þeßi elska er ecki eintóm hvikul tilfinning, heldur andi og líf, sem útleitar frá hjartanu og vottar sig í verkinu, i einlægri, stodugri vidleitni, ad audsýna sig þacklátann. Af Jesú egin ordum er berlynilegast, hvad elskan til hans er, eda hennar vissasta audkenni. Sá, sem elskar mig—segir hann—sá heldur min ord. Og á ødrum stad: þér erud mínir vinir, ef þér gjørid þad, sem eg býd ydur. Ad elska hinn óshnilega himneska Velgjorara er því hid sama, sem ad hlýda honum med fúsum vilja og reidubúnum hjörtum; halda hans bodord naudúngarlaust; laga sitt dagfar og sinni og breytni vid adra eptir

hans dæmi. Sá, er þannig breytir, hann elskar Krist.

Nú er audrádin meining Postulans orda: þad er betra ad elska Krist, enn ad þeckja náqvæmlega hans lærdóm, vanti elskuna. Því mest ridur á, ad halda hans bodord, þar til á þecking á honum, á hans lærdómi, á hans velgjörníngum vid mannkynid ad leida oss. Krists kjærleiki á ad þvínga oss, og þá ad eins er þeckíngin mikils verd, nær hún hefir þessa verkun. Þó madur þeckti, eptir Postulans ordatiltæki, lengd og breidd, hæd og dýpt Krists kjærleika, en væri samt óhlýdinn, mundi þeckíngin ecki stoda, hún hefdi ecki þá tilætludu verkun, já, hún væri framar til áfellis enn nytsemi. Því til þess hefir Gud látid Soninn opinbera oss sannleikann, ad vér hlýdnúmst sannleikanum og fyrir hlýdnina verdum sáluhólpnir.

2.) Hér af er audrádid: ad elskan til Krists er betri enn øll þecking. Því þegar sonn elska til Krists er ecki nema viljug hlýdni vid hans bodord, sameinud lotníngu fyrir hans tign, sprottin af þacklátu hjarta fyrir medteknar og fyrirheitnar velgjørdir, er audséd ad þessi elska útheimtir ad sonnu þeckíngu og getur ecki án hennar stad haft, en er þó í fyrirrúmi og meira verd enn þeckíngin, sem getur verid ávaxtarlaus og án elsku. Því hvers verd er sú þecking á trúnni, sem ecki audsýnir neina ávexti í breytninni? Gjorum rád fyrir einhvert væri sá, sem hefdi svo ljósa og grundada þeck-

ingu á Krists lærdómi, ad enginn væri hans maki; hann skyldi, eptir Postulans ordatiltæki, vita lengd og breidd, hæd og dýpt, en hjarta hans skyldi ecki hafa betrast af þessari þeckingu; þeckingin skyldi enga þacklátsemi til Krists hafa vakid í hans hjarta, enga vidleitni til ad lifa eptir hans bodordum, hvad mundi hann stoda sú ljósa og grundada þecking? væri hún ecki óþeck þeim audi, sem egandinn hefir eckert gagn af? Hún gjörir mann verr farinn enn sá er, sem þeckingu brestur; því sanngjarnt er, ad sá þjón, sem veit sins Herra vilja, en tilbýr sig ecki, verdi fyrir þýngra straffi enn hinn, er syndgar af vanþeckingu þeirri, er hann getur ecki vidgjört. Hann þeckir heimsins Lausnara og hans óneitanlegu nádarvelgjörninga; þeir standa honum, sem odrum til boda, og hann er þó óþacklátur. Hann veit hversu einlæga elsku Lausnarinn sýndi heiminum, og á ad mannkyninu, en elskar hann þó ecki; hann þeckir hans vilja og veit ad hans bodord eru góð og heilög, og hverninn kraptur sæst til ad hlýdnast þeim, og samt hirdir hann ecki um ad gjöra Krists vilja, halda hans bodord. Þeckingin gjörir hann einmidt verri og ólucklegri enn hann væri án hennar. Og hafdi þá Postulinn ecki satt ad mæla, er hann sagdi: Krists elska er betri enn øll þecking? Sami Postuli segir á odrum stad: þó eg hefdi alla þeckingu, taladi túngum Engla

og manna, hefdi allann spádóm, en vantadi kjærleikann (sem er lögmálsins uppfylling), væri eg sem hljómandi málmur eda klingjandi bjalla. Þó eg vissi allá leyndardóma, hefdi alla speki, alla trú, svo eg gjæri flutt fjöllin úr stad, ef eg væri kjærleikslaus, mundi þad einkisverdt. Þó eg gæfi fátækum allar eigur mínar, léti (trúarinnar vegna) brenna mig, en hefdi ecki kjærleikann, væri þad gagnslaust fyrir mig. Fyrst þessu er þanninn varid, hvad gétur þá sannara verid enn þetta: ad elska til Krists sé betri enn øll þecking? þad er: betri enn øll sú þecking, sem ecki kémur til vegar þacklætisfullri lotningu fyrir Kristi og einlægri vidleitni ad hlýda hans bodordum, eda sú þecking, eins og skéd gétur, sem er hverjuveggja þessu í vegi. Hér um gétum vér þó enn betur sannfærst þegar adgætum, hvers verdt þad er ad elska Krist. Vér höfum heyrt hvad þad sé ad elska Krist, og vitum ad þeisi elska knýr oss til fúsrar og skodugrar hlýdni vid hans heilögu bodord. Elskan til Krists innibindur því alla andlega fullkomnun, sem vér samqvæmt Guds heilaga vilja egum ad ástunda, svo ad vér hafir verdum fyrir þá sælu, sem oss er fyrirhugud annars heims. Krists elska hreinsar oss af þeim syndum, sem mannsins spillingu fylgja, sem heimsins dæmi venja oss á; hún útrýmir hjartans syndsamlegu tilhneigingum; kennir oss ad hafa vidbjód á synd-

inni og forsmá heynar eptirlæti; hún kennir oss ad elska þad, sem vor Lausnari elskar, hata þad, sem hann hatar; gjörir oss hæfilega til sérhverrar dygdar; hvetur oss til ad hafa ætíd hans dæmi oss fyrir sjónum og laga eptir því vort hugarfar og breytni. En Krists elska fyllir og mannsins hjarta von og trausti og kennir honum ad dýrka Gud, sem gædskuríkann Fodur; kennir honum réttvísi og mannkjærleika, gjörir hann ad verkfæri í Guds hendi, til ad útsá gódaerkum og fögnudi í heiminum. Já, elskan til Krists leidir þann rétta veg til vorrar sönnu og eilífu velferdar; ad því takmarki, sem vér egum ad ná; og — eins og hún hér á ad vera oss upphvatning til dygda, á hún annars heims ad verda uppspretta vorrar sælu.

Pared þessir eru ávextir Krists kjærleika, hvad er þá oll þekking, oll ávaxtarlaus þekking í samanburdi vid hann? Samsinnum Postulanum, játum med honum: ad þad sé betra ad elska Krist enn ad hafa alla þekkingu. Til ad elska hann, útheimtist ad sönnu þekking á honum, og því fullkomnari, ljósari og stadbetri þekkingin er, þess innilegri verdur og elskan; en sú eintóma þekking, sem enga elsku verkar í hjartanu, hún er enkisverd, og þó hún geti af sér elskuna, er hún ódrdi enn elskan sjálf, því hún er samt ecki nema medal til þess, sem allt á ridur. Á hvern veg, sem vér ad þessu hyggjum, verdur æ Krists elska betri enn oll þecking.

Kristnir heitum ver, brædur minir! elsk-
um því vorn Meistara Krist, vorn ædsta og
mesta Velgiorara. Allitum þad hina ædstu
speki, þá speki, sem leidir oss ad því takmarki,
sem vor kallan til Krists rikis hefir oss sett;
helgum honum vort líf med þessari elsku. Verd-
um fyrir hana honum líkir í gudrækni og fram-
takssömum mannkjærleika; sáum svo af egin
reynslu fulla sannfæringu um, ad Krists elska
sé betri enn öll þecking. Ætlum samt ecki
ad Postulinn hafi géfid elskunni yfirburdi yfir
þeckinguna í þeirri meiningu, ad rèttlæta
vánþeckingu á sannindum kristilegrar trúar,
og hirduleysi í því ad leita skilnings á því
ordi, sem á ad endurfæda oss, gjöra oss hæfi-
lega til Krists rikis; enginn segi: þegar eg
elska Krist, vardar ad engu hvert eg skil
Jesú lærdóm edur ecki; hvert eg gét gjört
grein á trú minni edur ecki; enginn ætli ad
sama sé hvert hann gjörir sér rètta edur ránga
ímindun um Krist og hans velgjörnínga,
skilur rètt eda rángt hans bodord og fyrirheit.
Engin elska til Krists er moguleg án þeck-
íngar á hans persónu, hans lærdómi, bod-
ordum og fyrirheitum. Þecking á hans
persónu er vegurinn til lotníngar fyrir honum;
þecking hans velgjörnínga er uppspretta þack-
látseminnar vid hann, og því meir, sem vèr
heidrum Krist, því betur sem vér þeckjum hvad
honum egum ad þacka og hvers vèr megum
af honum vænta, þess innilegri og kroptugri

verdur vor elska til hans. Kappkostum þá einninn ad vara i hans þeckingu; ad fá æ betri og betri skilníng á hans elsku til vor, og ollu því, sem eykur vora betrun og framfør í gudrækilegum þenkingarhætti og breytni. En þó ofs hafi tekist ad fá toluverda þeckingu á kristinndómsins adal-sannindum, ætlum ecki ad þad sé nóg, því mest rídur á brúkun þeirrar fengnu þeckingar og hún á ad leidrétta hjarta og framferdi. Gjøri hún þad ecki, verdur hún manni ad dóms áfelli. Elskan sé ávoxtur þeckingarinnar og þessi elska sé ecki eintóm tilfinníng, heldur andi og líf, votti sig i verkinu eins og Kristur hefir bodid: sá, sem elskar mig, sá haldi mín ord.

Drottinn! Fadir vors Drottins Jesú Krists! Fadir alls, sem born kallast á himni og jordu! gef þú ofs ollum þinn krapt til ad styrkjast í anda og vorum innra manni, svo ad Kristur búi fyrir trúna i vorum hjortum, svo vér verdum rótfastir og grundvalladir og skynjum med ollum heilogum hver ad sé hæd og dýpt, lengd og breidd þeirrar elsku, sem Jesús Kristur hefir ofs audsýnt, og sannfærumst um og í verkinu vottum þá sannfæríngu, ad betra sé enn øll þecking ad elska vorn Endurlausnara Krist. Amen!

# A 1ta Sunnudag i Niu-viknaføstu.

## Bæ n i n.

Audveldt var þier, vor Skapari! ad búa svo til heiminn og oss, ad vier ecki hefdum þurst ad erfida; en gædska þin og speki sann þad betur henta, ad láta þorfina þvínga oss til erfidis. Vier kennumst vid þessa gædsku þina; þvi vier vitum, ad þótt erfidid lýi oss, fylgir þvi margfold blessan: heilbrygdi, unadsemd og gladværd; en einkum játum vier: ad erfidi se oblug verja gjegn syndsamlegum tillockunum. Lát gædsku þina vera oss minnisstæda, og hjálpa oss til ad hlýdnast þinum heilögum og gódum vilja! vinna dyggilega þad, sem oss ber ad vinna, og med gudrækni og ydjusemi ávinna oss þina nád og blessun hier og sidarmeir! Amen!

## Gudspjallid.

(Matth. XX, 1—16.)

Jesús sagdi til sinna Lærisveina þessa eptirlíkingu: Himnaríki er líkt þeim Húsfødur, sem útgéck snemma morg-

uns ad leigja verkamenn í víngard sinn. Ad gjørdum samníngi vid verkamennina ad daglegu peníngs-gjaldi, sendi hann þá í víngardinn. Nærri þridju stundu géck hann út, og leit adra ydjulausa standa á torginu; hann sagdi til þeirra: farid þér einnig í víngardinn, og hvad réttvíst er, mun eg géfa ydur. En þeir gengu á burt þángad. Hann géck aptur út um sjöttu og níundu stundu og gjørdi slíkt hid sama. Nærri elleftu stundu géck hann út, og fann enn adra standa ydjulausa. Hann sagdi vid þá: hvers vegna standid þér hér allann dag ydjulausir? þeir svørudu: af því engínn hefir leigt oss. Hann sagdi til þeirra: farid þér í minn víngard, og hvad réttvíst er, skulud þér fá. Þegar qvøld var komid, sagdi víngardsHerrann vid rádsmann sinn: kalla þú verkmennína og gjald þeim verk-kaupid, og tak til frá hinum seinustu allt til hinna fyrstu. Þá komu þeir, sem nærri elleftu stundu leigdir vóru, og medtók hverr þeirra sinn peníng. En hinir, sem fyrstir komu, þenktu ad þeir mundu fá meira; en hverr þeirra medtók sinn peníng. Þegar þeir høfdu medtekid

hann, mæglúdu þeir gégn Húsfødurnum og søgdu: þessir, seinustu hafa eina stundu erfidad, og þú gjørdir þá jafna vid oss, sem borid høfum hita og þúnga dagsins. Hann svaradi og sagdi til eins þeirra: vinur! ecki gjørt eg þér órétt; ert þú ecki ásáttur ordinn vid mig um einn penníng? taktú hvad þitt er, og far á burt; en þessum seinustu vil eg géfa eins og þér; eda, leyfist mér ecki ad gjøra af mínu hvad eg vil? ellegar, ert þú þar fyrir ráng-eygdur, ad eg er góðgjarn? svo verda seinastir hinir fyrstu, og fyrstir hinir seinustu; þvi margir eru kalladir, en fáir útvaldir.

## Inngángurinn.

Kristinndómurinn heimtar af oss vissar dygdir, og til þess ad gégna þeim þarf frá qvæmdarsemi; elskan sé framtakssøm, segir Postulinn; ydjuleysi og leti er þvi kristnum ósæmileg. Opt hefir þad þó heyrst, ad vér ættum ad vera framqvæmdar-mestir í þvi andlega, og ad latur erfidis madur gjæti verid vel kristinn. Þeir, sem slíkt hugsa, gjøra ráð fyrir ad Kristinndómurinn skipti sér ecki mikid af vorri tímanlegu velferd; þeir íminda sér máske, ad sá sann-

kristni egi strax í þessum heimi ad lifa nockurs-
konar Engla lifi, og eru þeir þó, ad vitni Ritn-
íngarinnar, þjónustusamir Andar; ad þeir
egi ad hlidra sér hjá storfum og fordast unad-
semdir þessa auma lifs. Ecki lýsa Gudspjollin
svo Krists trúarbrøgdum, heldur kenna, ad
þau séu lika ætlud oss til ímanlegrar velferdar.
Þau gjora rád fyrir, ad menn fáist vid ýmisleg-
ar framqvæmdir lífsins, og stýla til allra stétta
sinar áminníngar, til yfirbodara og undirgef-
inna, húsbænda og þénara, ríkra og fátækra,
til þeirra, sem kaupa og selja, brúka og mis-
brúka heiminn. Sumar skyldur útheimta ein-
rúm ad sonnu, en þær helztu ega af hendi ad
leysast í umgengni vid menn, því þar er oss
skipad ad láta ljós vort skína, og vegsama Fød-
urinn á himnum med vorum gódverkum.

Þessi heimur, eins og Gudspjallid gefur
ad merkja, er Guds víngardur; þar er ollum
verk ætlad. Á hverjum aldri og í hverju standi
er oss verk hugad. Um þridju, siottu og ell-
eftu stundu er oss skipad ad vinna, og ef vér
daufheyrumst vid þessu bodi, megum vér búast
vid ad heyra til vor kallad: hví standid þér
hér allann daginn ydjulausir? Menn geta
verid ydjusamir og þó forsómad hid naudsyn-
lega; haft margt fyrir stafni og þó ecki starfad
til gagns; en — þó hinn ydjusami se ecki ætíd
gódur og gudrækinn, veit eg hitt med vissu, ad
enginn er latur og ydjulaus sér ad syndlausu.
Þad vilda eg hafa leidt ydur fyrir sjónir, í þessu

rætu-korni, í hverri eg hefi áſett mér ad tala um loſt of almennann í øllum ſtéttum, ſvo þó Húſsbóndinn ſtundum viki því ad ſinum hjúum og Foreldrid ſegi ſinu áſqvæmi, ad ydjuleyſid ſé módir ótal ſynda, verdur hverjum tveggja þad tídum, ad géfa íllt ydjuleyſis eptirdæmi. Eg vil nú med nockrum ordum leitaſt vid ad ſanna: ad ſá ydjulauſi ſé, í allann máta bædi óviti og ſyndari, ad hann hverki lifi Gudi, heiminum, né ſjálfum ſér.

---

1.) Hann lifir ecki Gudi. Sá mikli og víſi Skapari gjørir engann hlut forgéfins. Litil umhugſan gétur ſannfært ſérhvern um, ad hann í einhverjum nytſemdar tilgángi hafi verid ſettur inní heiminn. Náttúra manſins vottar enga markleyſu; ber ecki á ſér hirduleyſis audkenni. Miklar gáfur eru manninum veittar og yfir allar ſképnur á jørdunni er hann ſettur. Skynſemi upplýſir hann, opinberanin frædir hann, og ſvo er hann gjordur, ad hærra og hærra gétur hann komiſt í Guds ſpeki. Þegar honum er nú ſvo mikid fveitt, og hann þanninn er audkénndur og adſtodadur af þeim Algóda, gétur þá nockurr hugſad, ad þetta ſé ſkéd óſyrirſynju, og ad ſá komiſt ſtrafflauſt af, ſem ecki brúkar þá krapta, er honum vóru þó til brúkunar veittir, og ecki lifir til annars enn ad eyda jardarinnar gædum og ſóa ſínum døgum eins og í draumi? Litum í kríngum oſs og

vèr munum sjá allt fullt af framqvæmdarsömum kroptum. Hreifing og áreynsla vidheldur öllum lífslausum og lifandi hlutum, og fullkomnan ens gjörvalla eblist med því móti, ad allt, svo ólikt, sem hvad er ödru, vinnur eitthvad á sínum stad, í sinni röd. Himintúnglin eru á sífeldri rás; dagur og nótt elta hvert annad. A jördunni, í vötnunum, um loptid er ekgin kyrrd; engin hlutur heldur kyrru fyrir; allt er á ferd, og midt á þessu líflega, ydjusulla skodunarpláttzi, skyldi madurinn einn vera ydjulaus? sæmir honum þad ad hann sè sú eina ydjulausa, lata sképna í heiminum? honum, sem orkar svo miklu, sem ætlad er svo mikid ad vinna sèr til frama, Gudi til dýrdar og heiminum til gagns?

Varla er nockur ímindan náttúrlegri vorum hjörtum, eda almennari medal manna, enn sú: ad allir egi Gudi reikníng ad standa; varla géta þeir klækja-mestu frá sèr hrundid þeirri hugsun — því allar þjódir hafa haft þá meiníngu — ad sá alvaldi Drottinn heimsins muni á tilteknum tíma, sem enginn veit, dæma mannkynid. Samvitskan hefir nú þegar uppreist í hvers manns brjósti þann dómstól, sem Ritníngin segir á sídan muni verda settur í skýum himins, og þadan heyrist sá úrskurdur, sem á sídan er von á. Gaungum fyrir þenna dómstól stundum og íhugum, hver skil vèr erum vidbúnir ad gjöra honum, sem skapadi oss, fyrir vorri breytni. Gjörum ráð fyrir sá mikli

Dómari segdi vid oss: "eg setti ydur í þad „stand, hvar ydur baudst margt tækifæri til „ydju, margur hentugleiki til framfara. Ydur „var kennt ad þeckja ydar skyldur; ydur var „unnt lífsins um mörg ár; þér gátud ordid „mörgum ad gagni; eg veitti ydur heilbrygdi, „nægtir, tómstundir; hvar eru ávextirnir af „mínum gáfum? hvad hafid þér unnid ydur „til þarfa, en ödrum til gagns? hvernig hafid „þér varid ydar rúmi? unnid þad, sem ydur „var ætlad í heiminum? eda erud þér forgéfins skapadir?" Þeir, sem eckert nytsamt adhafast, þeir, sem eru jördunni til byrdi, hugsi þeir sig um svar uppá þessar óttalegu spurníngar.

2.) Sá lati lifir ecki fyrir medbrædur sína eda heiminn framar enn fyrir Gud. Enginn madur í heiminum stendur svo sem einn sér; hverr hefir skyldu ad gæta vid sína medbrædur, Kóngurinn vid sína þegna, ölmusumadurinn vid þá, sem hann þyggur af; allir erum vér hverr ödrum vandabundnir, med ýmsu móti, ædri og lægri. Regla og farsæld getur ecki haldist og eblst, nema hverr þjóni ödrum med þeirri gjöf, sem hann hefir ödlast; yfirmenn eru ecki sídur komnir uppá undirmenn, en þessir uppá hina. Hverr á lidsinni og þénustusemi ad ödrum, og hverr, sem dregur sig í hlé, og vill ecki leggja sinn skerf til almenníngs farsældar, ætti þad skilid ad honum væri vísad burt úr mannlegu félagi. Vilji einhverr eckí erfida, segir Postulinn, hann skal ecki heldur

kta. Hverr sá, sem ecki vill adhafast félagi manna til gagns, hefir engann rétt til ad njóta góds af manna félagi.

Menn hafa stundum látid sér um munn fara: ad ydni og atorka væru skyldur, sem ad eins heimtust af þeim fátæka; mér skilst þá þessir ætli, ad auduginn sé svo sem leyfisbref til ydjuleysis; ecki er skynsemin því samdóma, og hverr sá, sem þeckir nockud til mannsins náttúru, veit ad hinum fátæka verdur þyngst um vinnu, en hugur vex þá vel gengur. Þó þad vidgángist tídum í heiminum, ad audugir og gøfugir menn hlidri sér hjá størfum, vyrdast þeir hinir sømu samt odrum framar skuldbundnir til ad vinna heiminum gagn; því engir géta þad betur. Þeir segjast máské ecki sækja neitt til annara, og þykjast, sem høfud, géta sagt vid fótinn eda høndina: eg þarf ydar ecki; já — séud þér ríkir, þá er ydur þørf á morgum høndum og fótum, egi audur ydar ad vardveitast. Séud þér í háu standi, þarf einhverja til ad vera ódædri og þéna ydur, og gétid þér þá hugsad, ad þér séud þeim um ecfert skyldugir, sem vinna fyrir ydur og lúta ydur? Gétid þér lagt hendur í skaut og vænt þess, ad adrir þéni ydur fyrir ecki neitt? Þér hafid þó vini, heimili, ættmenn, erud þér ecki hér vandabundnir? Þó ecki væri nema heimilid eitt, heimtar þad forsjá húsføðursins. Gétur sá sagt, ad hann elski þá, sem honum eru tengdir dýrustu bøndum, sem ecki vill ómaka sig, eck-

ert á sig leggja þeim til styrktar og frama? En, þad er satt, ad sá er grimmur og ræktarlaus, sem sefur í nádum, þegar skortur og naudir bjargarlausts heimilis hrópa, og hrópa forgéfins. Er sá Ektamaki? er sá Fadir? á hañ skylid ad nefnast þessum heilögu nöfnum? hverninn mun hann stadist géta á dómsins degi? Hugsi hann nú í tíma til þeirra óttalegu orda, sem finnast í fyrra Páls brefi til Timoth. Kap. 5. 8. og þannig hljóda: Ef einhverr rækir ecki sitt egid hús, sá hefir afneitad trúnni, og er ordinn heidíngjum verri.

3.) Fyrir Gud, fyrir heiminn lifir ecki sá lati og ydjulausi, en þessa sist lifir hañ sjálfum sér til gagns; hann ímindar sér máské, ad þó hann afræki sumi skylduverk, og láti litid gott af sér leida, hafi hann þó vel sjed fyrir eigin ánægju og valid sér hid góda hlutskiptid; hann lætur adra eiga líssins mædu, velur sér eptir ætlun sinni þess unadsemdir. En — mun mér ecki takast ad sanna, ad sá ydjulausi sitji ecki einúngis af sér alla framför, heldur opni sjálfum sér dyrnar til eydileggjandi heimsku-pára, og útiloki sjálfann sig frá allri sannkalladri unadsemd?

1.) Sá ydjulausi situr af sér framfarir sálar og líkhama og alla tímanlega gæfu. Þau eru lög vorrar náttúru, þau kjör vors lífs, ad eckert fæst, sem gott má heita, eda mikid í varid, án erfidis og áreynslu. Gud hefir sett verd á hvern hlut, og framfarir kosta fyrirhöfn.

Þad er satt, ad framtakssemi fer stundum á mis vid þad, sem hún eptir leitar: sá fljóti sigrar ecki ætíd á vedhlaupinu, ne hinn frækni í bardaganum, en eptir hlutanna edlilega gángi, fæst ecki sigur í bardaga án styrkleika, ne ad vedhlaupi án flýtirs. Af ollu erfidi hefir madur einhvern ábata, en sál hins lata girnist og hefir eda fær ecki (Ordsqv. b. 14, 23.) Hvert sem vèr snúum huga vorum til sálarinnar framfara eda heilbrygdi líkhamans, er þad víst: ad æfing kraptanna er hid rètta framfarar medal hvers fyrir sig. Letin og ydjuleysid veikir jafnt sálar og líkhams krapta; eins og ydjuleysid eitrar kroppinn med vanheilsu, svo eydileggur þad sálar-gáfurnar, og gjörir þær bestu jafnar hinum lökustu. Sá mikli munur á gáfum manna, kémur ecki einúngis af þeim mismun, sem náttúran upphaflega gjordi á þeim, heldur miklu framar af misjafnri alúd manna í því, ad æfa þær gáfur, sem þeim ondverdlega vóru fengnar. Til litils kémur ad hafa gódar gáfur, séu þær ecki brúkadar; þad gengur því næst ad misbrúka þær. Engin dygd er heldur ad hafa miklar gáfur, heldur ad brúka þær vel, og med gódri brúkun ad ávaxta þær. Hversu ydjuleysi spilli heilsunni, er kunnugra enn um þurfi ad tala; en ecki vedur ossogum af því sagt, hver pest þad er manneskjunnar tímanlegu velferd. Óregla, rádleysa, hirduleysi, óþrifnadur, þetta eru einkénni letinnar. Þannig segist Salomóni frá: Eg geck um

ckur hins lata — segir hann — og um vín-gard hins fávísa, og sjá, hann var alþak-inn þyrnum og netlum, og stein-girdingin var nidur-dottin. Eg vyroti þetta fyrir mér, skodadi huga minn um og feck lær-dóm. Sá lati fær marga hugrauñ, hann á vísa fyrilitníngu gódra manna, hann er illa þockadur hjá flestum; aud og upphefd nær hañ aldrei, á medan sá nockurr er til, sem þetta girnist, og svo mun þad lengst verda. Hann neydist til ad audmýkja sig fyrir þeim, sem sín-um yfirmonnum, sem hann traudlega mundi annars hafa álitid sína jafníngja. Mun nú þetta vera sælusullt líf? eru þetta unadsemdirn-ar, sem verdt var ad kjósa sér? og þá kémur fátæktin, sem ferdamadur, og skorturinn, sem hetja. Þó — þetta er ecki nema ofurlítill partur af þeirri ólucku, sem ydjuleysid eptir sér dregur; því þad verdur einatt:

2) Tilefni til affaraverstu lasta og heimsku-para. Sálu mañsins er svo varid ad hún getur ecki lengi haldid kyrru fyrir, hugreñ-íngar og girndir eru optarst í hreifíngu. Sé þeim vísad á stefnu, fara þær taumlausar útí alla óhæfu, sem fyrir verdur; þegar vér adhof-umst ecki neitt gott, er hid illa hendinni nærst; því segir Ritníngin: ad þegar sá óhreini andi hafdi fundid húsid tómt, hafi hann tekid sér þar bústad med sjø ondum sér verri. Hverr madur, sem athugar breytni sína gágngæmlega, mun verda þess vís, ad ydjuleysis

tímarnir vóru hans dygd hættulegastir; þá hreifdu sér vondar tilhneigingar í hans hjarta; þá komu honum í hug syndsamleg fyrirtæki; þá áformadi hann þau verk, sem seinna gjördu líf hans hrólegt og vesælt. En séu einsöakir ydjuleysis-tímar hættulegir, hvad mun þá sífellt vana-ydjuleysi? Þad upprætir smámsaman alla dád og dygd úr sálunni. Afafar girndir leida mann tídum afvega og koma til ad drýgja stór-glæpi; þær sefast þó einhvernt'ma; letin fer hægra, hún er lík vatni því, sem á engann veg getur runnid, en spillir loptinu med skadlegum dompum, qveikir og uppelur í sér eitradar nödrur og ólifjunar jurtir; hafi hún einusinni flekkad sálina, er útgjört um hennar heilbrygdi, og þad versta er, ad þessi löstur vekur ecki jafnfljótt samvitskuna, sem adrir stórkostlegri, svo ad ólukkan er því vissari og sárid banvænna.

3.) En þó letin sé svona skadleg dygdinni, kannské henni verdi samfara þess töluverdari unadsemdir? máské þad mæli fram med henni, ad hún frelsi mann frá þúngum veraldar áhyggjum, og gledji sálina med blídri ánægju, sem ecki finn'st í veraldar umsvifum? Nei, þad er ödru nær.

Hvörd heimtir náttúra mannsins; hvörd leysir skynsemin, og þad veitir unadsemd ad fullnægja náttúrunnar þörf, en enginn stærri svinur unadsemdar og gledi er til, enn ydjuleysid. Sá, sem ecki veit, hvad þad er ad vinna,

veit ecki heldur hvad er ad hressa sig med hvild. Anægja manneskjunnar er undir því komin, ad hún hafi ætíd eitthvad hrósverdt fyrir stafni, sem haldi vakandi hans kroptum; hvild kémur sér vel, en bragdlaus er hún, nema erfidi sé á undan gengid. Þegar sálin er sífellt adgjordalaus, hnignar öllum hennar krapti hún vekist og dregst upp, og sú unadsemd, hverrar hún þykist kénna af hvíldinni endar med leidindum. Hér um géta þeir vitni borid, sem eyddu miklu af æfi sinni vid störf, en drógu sig sídan frá veraldarinnar hávada í þeim tilgángi, ad njóta meira nædis og smacka lífsins inndæli í hvíldinni; en — þar, sem þeir bjuggust vid ad finna Paradís, vard fyrir þeim hrjóstrug og ánægjulaus eydimörk. Med söknudi minntust þessir hinna fyrri daganna, þegar þeir gloddu sig vid ærlegt erfidi og jardneskar sýslanir. Eg þori ad vitna þad til allra, sem þeckja nockud til manna edlis, eda hafa tekid eptir ydjusömum og ydjulausum, og munu allir sanna: ad stór sé munurinn, hvad ydjumadurinn er gladlegri, enn ydjuleysinginn; hversu hinn er kátari, jafnlyndari og gódlyndari enn þessi. Sá ydjusami lífgar sérhvert samqvæmi og finnur hversvetna unadsemd. Ydjuleysinginn er á sjálfum sér leidur, og þeim til ama, er hann umgéngst; engum finnst tíminn eins lángur og þeim ydjulausa; engum liggur optar illa enn honum; ydjuleysid óspekir sinnid, vekur þær

girnd-

girndir, hverjum aldrei verdur fullnægt, og vidqvæmni, sem spillir ollu gamni.

Af þessu er audsært, hversu sáluslegt, syndsamlegt og vesælt ydjuleysid sé. Þessar hugleidingar hvetji oss til þeirrar ydjusemi, sem kristnum sæmir. Færum oss í nyt tímañ, medan Gud géfur oss hann, og látum skyldur vors kalls ætíd hafa fyrirúmid, en á þeim tímum, sem afgángs verda frá þessum syslunum, vorum oss ad ydjuleysid med sínum lasta her ecki yfirfalli oss. Medan adrir brúka sína frítíma aña hvert til syndsamlegrar skémtunar, eda til einkis, tokum oss eitthvad fyrir hendur, skynsomum sképnum verdugt, fallegt, hrósverdt. Munum til þess, ad ydjuleysi er á nærstu troppu annadhvert vid vesæld eda synd, og máské hverttveggja, því þetta tveñt er náskyldt. Med atorku, ydjusemi og gudrækni skulum vér kappkosta ad búa oss undir annann heim. Guds ríkis egum vér fyrst ad leita og þess réttlætis, sem honum gedjast, þad ber oss ad gjora, hid annad má ecki eptir skilja; vanti gudrækni og rádvendni, verdur ydjusemin til einkis eda verr enn einkis. Þegar vér sameinum gudrækilega alúd, sem kristnum sómir, vid þá atorku, sem af oss heimtast, sem innbúum þessa heims, þá breytum vér fyrst samqvæmt vorri kollun. Þegar vér, ad Postulans bod', erum ecki latir í

því, sem vèr egum ad gjøra, og ásamt þvî glóandi í andanum, Drottni þjónandi. Amen!

# A 2añ Sunnudag í Níu-viknafôstu.

## Bæn i n.

Drottinn, sannleiksins tilisti Höfundur! þú hefir í þínu ordi ecki einúngis gefid oss áreidanlegustu tilsögn, um þad, hvernig þú vilt vjer dýrkum þig, heldur jafnframt vísad oss hinn beinasta veg til vorrar sonnu og varanlegu farsældar. Kjenn oss ad þeckja og verduglega þacka þessa þína dýrmætu velgjørd, og brúka hana eptir þinni tilætlun. Þitt ord festi rætur í vorum hjørtum, svo opt, sem vjer þad heyrum; þad veri vort athvarf, lífgi vora elsku til þín og traust á þjer, og gjøri vor hjørtu fús til hlýdni vid sannleikann og skyldur vorar, en oss hæfilega fyrir þá sælu, er þú nádarsamlega hefir oss hritid. Æ! gjør oss verduga ad nefnast þín børn og Lærisveinar þíns Sonar! Lát þitt ord ecki forgefins verda oss bodad, heldur ná sínum retta tilgángi, sem er r ad gjøra oss góda og sæla.

Þá munum vjer og í eilífdinni gladir þacka þína mildi, ad þú leystir oss af myrkranna fjotrum, og fluttir oss í ríki þíns elskulega Sonar, já, í ljóssins og sæluunar dýrdlega ríki. Amen!

## Gudspjallid.

(Lúc. VIII, 4—15.)

Þegar margt fólk var samankomid, og þad flycktist til Jesú úr Stodunum, sagdi hann í eptirlíkingu: Sá géck út, er sádi, til ad sá sædi sínu; en þegar hann sádi, fjell sumt utan hjá veginum, vard fótum trodid og fuglar loptsins átu þad. Sumt fjell á hellu, en þegar þad spratt upp, visnadi þad, af því þad hafdi ecki vokvann. Sumt fjell á medal þyrna, en þyrnirinn spratt upp med og kjæfdi þad nidur. Sumt fjell í góda jord, þad vóx upp og bar hundradfaldann ávoxt. Þegar Jesús hafdi þetta sagt, kalladi hann: hverr eyru hefir ad heyra, heyri hann! Hans Lærisveinar spurdu hann ad: hver væri þessi eptirlíking? Jesús svaradi: ydur er unnt ad vita leyndardóma Guds ríkis, en þeim odrum í eptirlíkingum,

svo sjáandi sjái þeir ecki, og áheyrandi skilji þeir þad ecki; en þessi er eptirlíkíngin: Sædid er Guds ord; en hinir vid veginn eru þeir, sem heyra þad, en eptir þad kémur hinn vondi, og tekur ordid burtu úr þeirra hjörtum, svo þeir skuli ecki trúa og verda hólpnir. Þad, sem á helluna fjell, eru þeir, sem medtaka ordid med fögnudi, þegar þeir heyra þad, en hafa enga rót, hverjir um stundarsakir trúa, en falla þar frá á freistíngar tímanum. Þad, sem fjell á millum þyrnanna, eru þeir, sem þad heyra og velkjast í sorgum, audæfum og girndum þessara lífdaga, kjefjast og færa engann ávöxt: Þad, sem í góda jörd fjell, eru þeir, sem heyra ordid og geyma þad í gódu og sidsömu hjarta, og færa ávöxt med þolinmædi.

## Inngángurinn.

Jesús lýsir því med upplesinni eptirlíkíngu, hvernig kénníngu hans var tekid af hans landsmönnum, og hvern ávöxt hún færdi hjá hans tilheyrendum. Úr sumra hjörtum tók hinn Vondi ordid strax, segir í útskíríngu eptirlíkíngarinnar. Þessir veittu því lauslega eptirtekt, edur alls ecki og því var ecki kyn ad þeir

gleymdu því. Nockrir létu ofsóknir þær, sem þeim vóru vísar, er Jesú gengu á hönd í þá daga, aptra sér frá stadfestu í vidurkénníngu og hlýdni sannleikans. Adrir áttu svo mikid ad sýsla vid jardneskt storf, þeirra hjortu vóru svo full af veraldlegri umhyggju, ad hinn himinski sannleiki, líkt og sædi midt á medal illgresis, nidurkjæfdist og færdi ecki ávoxt. Til vóru þeir þó, sem ecki einúngis heyrdu ordid med fognudi, heldur geymdu þad dyggilega í sínu hjarta og þad, sem mest umvardar, sýndu þess ávexti í sinni breytni, sumir meiri, sumir minni.

Vidlíka og gæck til á Jesú holdsvistardogum, vidlíka gengur þad enn; hvísleiga er Jesú lærdómi enn þá tekid og misjafn er. Því ávoxturinn af hans predikun. Somu eru og orsakirnar nú, sem þá til þeis, ad hann enn ber lítinn ávoxt hjá morgum; einúngis med þeim mismun, ad nú hindra ofsóknir ecki frá medkénníngu og hlýdni sannleiksins. Því meiri yfirrád yfir hjortum manna hafa syndsamlegar girndir og mátalaus elska heimsins og hans munadar. En þeir einir, sem elska sannleikann, þeir heyra Jesú rødd, geyma ordid í gódu hjarta og færa ávoxt med stoduglyndi.

O! ad vér allir værum þeim ordsins heyrendum líkir, sem Jesús líkir vid þá gódu jord, ad vér, lausir af girnda fjotrum, elskudum sannleikann af hjarta. Þá mundi Jesú kénníng þykja elskuverd; þá mundi oss lánga til ad heyra og nema þá himnesku speki, ad

geyma hana alúdlega í vorum hjørtum, og vér mizdunir þá og hlýdnast sannleikanum, já, af egin reynslu sannfæraft um, ad Kristi lærdómur er kraptur Guds til sáluhjálpar.

Svo er laungun eptir sannri og varanlegri farsæld í oss rík, ad ef vér sannfærumst um, ad Jesú lærdómur hafi í sér krapt til ad efla hána; hvetur hún oss vafalaust til ad þeckja og heidra og brúka þad medal, sem hjálpar til ad ná takmarki vorra óska. Því vildi eg nú fyrir ydur brýna þau sannindi: ad Krists lærdómur sé kraptur Guds til sáluhjálpar, og ad vér sjum því sjálfir skuld í, ef hann ecki hefir þann ávøxt, ad betra oss, ad gjøra oss hólpna. Látid, gódir brædur! hugann fylgja mínum ordum, til ad sannfæraft hér um.

1.) Kristinndómurinn er kraptur Guds til sáluhjálpar. Guds miskunsamur og gódur vilji er, ad allir vèrdi hólpnir, og Jesú lærdómur er þad sáluhjálpar medal, sem oss er frambodid. Medal þetta er ecki einúngis hentugt, heldur og kroptugt, og þessi kraptur er frá Gudi. Til farsældar, til ánægju, bygdrar á stadfastri rádvendni breytninnar og hugarfarsins, skapadi Gud sína skynsemi gæddu skepnu manninn; hann leiddist afvega, vard syndugur, og þessvegna til eilífrar sælu óhæfilegur. Því sendi Gud sinn Son í heiminn, mannlegri

Syni til endurlausnar, og taladi vid þad á hin-um sídustu dögum, fyrir Soninn, Sonurinn var hans trúr erindsreki, fullkomnadi allt, af-lauk því verki, sem honum var ætlad, og eptir-skildi mannkyninu sinn lærdóm, sem leidarvísir til farsældar. Þetta er Ritníngarinnar skýlaus kénníng, og hvörr, sem vill vita sannleikann, get-ur gengid úr skúgga um, ad Jesús kom í heim-inn, til ad upplýsa og betra mannkynid, því Gud gaf Syni sínum vitni: þaug verk, sem hann gjördi, vitnudu um þad, ad hann væri sendur frá Gudi, og ad Gud væri med honum. Jafnvel hans óvildar-menn urdu ad játa: ad enginn hefdi talad, eins og hann, og þeir, sem gáfu gaum ad hans verkum, sögdu: ad eng-inn gæti gjört þau, nema Gud væri med honum. Jesú gjörvalla líf, hans einlæga gudrækni og framtaks-mikla mannelska, sem kostadi svo mikla sjálfs-afneitun, var lika sam-hljóda vottur þess, ad hann væri frá Gudi kominn, og ad tilgángur hans komu væri — eins og hann sjálfur sagdi — heimsins endurlausn, og kraptur hans lærdóms kraptur Guds til sáluhjálpar. Eins vísst og þad er: ad hann kom til ad endurleysa heiminn, eins vísst er hitt, ad hans lærdómur og verk vóru heimsins lausnar-ar medal.

En, hafi Gud ætlad Krists lærdóm til þess ad verda farsældar-medal mannanna, þá má nærri géta, ad hann muni vera til þess hæfilegur, og eins og Postulinn ad ordi kémst:

kraptur Guds til sáluhjálpar; hverr gétur um þad efast, þegar Gud hefir i þeim tilgángi látid boda hann heiminum. En med því ad skoda hofud innihald Jesú lærdóms og bera saman vid tilgánginn, getum ver þó enn betur sannfærst um hid sama, ad hann sé kraptur Guds til sáluhjálpar, og skuldin hjá monnum, ef þessa kraptar gjætir ecki. Jesú lærdómur á ad gjora menn sæla, med því ad frelsa þá frá vanþeckíngu, synd og dauda; hverr, sem þeckir hann og skilur hans bodord og fyrirheit, sá hlýtur ad vidurkenna, ad hér til sé hann óvidjafnanlega hentugur. Eda, er ecki i Jesú lærdómi ad sá fullkomnustu og áreidanlegustu þeckíngu á Gudi, hans verkum og vilja? er þad ecki audskilid hverjum manni, allteins þeim einfalda, sem hinum vísa, sem Jesús kenndi um Gud? má Jesú lærdómur ecki med fullum rétti heita ljós, sem skín i myrkri? hans tilsogn tekur af oll tvímæli um þad, hverr ad sé Guds gódur og algjördur vilji; hann er því besta medal til ad frelsa frá vanþeckíngu. En hinn sami lærdómur hefir ecki i sér minni krapt til ad frelsa frá syndinni. Hann géfur syndaranum hollustu rád til ad snúa sér frá illu til góds, til ad temja og laga sínar girndir, afleggja syndsamlegann vana, yfir hofud til ad komast undan syndarinnar yfirdrottnun. Eins kennir Jesú lærdómur manninum elsku til eins góda, styrkir hans krapt til dygda, og vísar á rád til þess ad réttlætast fyrir Gudi. Hvar

finnest þvílkir lærdómar, sem þeir, er Guds ord inniheldur? þeir, sem ecki alleina upplýsa hugskotid heldur og leidretta sinnid og breytnina, og gefa krapt til fullkomnunar? sem ecki einúngis skipa: þetta skaltu gjøra, en hitt fordast, heldur gjøra manninn hæfilegann til ad hlýdnast bodordinu? Eins áreidanleg eru þau heilrædi, sem Jesú lærdómur gefur syndugum manni til ad komast hjá maklegu straffi fyrir drýgdar syndir; því hann kénnir honum ad þeckja Guds nád, segir, ad hjá honum sé mikil fyrirgefning; kénnir manninum ad ydrast og betrast og sídan ad vænta Guds nádar og syndanna fyrirgéfníngar vegna Endurlausnarans, sem saklaus dó fyrir þá seku; og loksins frelsar Jesú lærdómur oss frá daudanum; hann er, eptir Postulans ordatiltæki, sá sídasti óvinur mannkynsins, sem Jesús hefir sigrad; hann hefir, eins og sami Postuli ad ordi kémst, leidt í ljós lífid og ódaudlegleikann. Hans ord gefur oss vissu um þad, sem vér annars hefdum haft meiri orsok til ad óska enn vona, ad sá sé gædskuríkur og ráskanlegur vilji Skaparans, ad leida oss gégnum daudans dymma dal til eilífs lífs, og í þessu eilífa lífi heitir hann oss þeirri sælu, sem auga hefir ecki séd, eyra ecki heyrt og engum hefir í huga komid. Um þetta fyrirheit er tekinn frá monnum allur efi med Jesú Krists upprisu frá daudum, og uppstigníngu til himna. Hann er farinn burt til ad tilbúa oss stad, og hefir lofad ad

flytja, til, sín alla sína réttu játendur, svo þeir séu þar, sem hann er.

Fyrst ad innihald Jesú lærdóms er þvílíkt, verdist ecki ofhermt af Postulanum; ad hann sé kraptur Guds til sáluhjálpar. Hann er oss af Gudi géfinn til þess, ad vér skyldum hólpnir verda; hann getur afmád allä þá eymd, sem vanþeckíng, synd og daudi leida yfir mannkynid, því hann upplýsir skynsemi mannzskiunnar, betrar hjartad og framferdid, gjörir samvitzkuna rósama og géfur vissustu von um eilífa sælu eptir daudann; játum þá og finnum, ad Jesú lærdómur sé kraptur Guds til sáluhjálpar.

2) En hefir nú Guds ord þennann krapt til sáluhjálpar án mismunar hjá ollum, sem þad heyra? eda nægir ad menn heyri þad? gétur þad fyrir heyrnina eintóma ordid Guds kraptur til sáluhjálpar? Ecki geck þad svo til á hérvistardogum vors Endurlausnara. Ordid gat ad eins fært ávoxt hjá þeim, sem geymdu þad í gódu og sidsomu hjarta. Því mun þess engu sídur þörf nú, þegar þad bodad er af daudlegum vorum. Ecki kenndi heldur Postulinn Páll ad þad væri ánægjanlegt til sáluhjálpar ad heyra Guds ord; vid því var ecki heldur ad búast af honum, sem lagdi svo ríkt á í ollum sínum kenníngum, ad menn hlýdnudust sannleikanum, og sýndu ávexti trúarinnar í breytninni. Já, í ánünnstum ordum gjörir hann ecki rád fyrir krapti Guds ords til sálu-

hjálpar hjá öðrum enn þeim, sem trúa. Til þess að finna rétta meiningu þessara orða, er nauðsynlegt að vér ransökum hvað á þessum stað merkir að trúa, að vera trúaður. Að trúa einhverju, merkir í voru máli, að á-líta eitthvað fyrir satt, sem hugurinn vyrðir fyrir sér, eða aðrir segja manni, en ólíklegt er, að Póstulans meining sé á þessum stað, að ecki þurfi annað, enn halda Jesú lærdóm sannann, til þess að finna verkanir þess kraptar Guðs til sáluhjálpar, sem hann gjörir ráð fyrir að í honum sé, og honum verði samfara; traudlega mun hann og meina þá svo kölluðu sáluhjálplegu trú, eður þá trú, að maðurinn, vegna Jesú pínu og dauða, fái fyrirgéfníngu sinna synda og ei-lífa sælu, þegar hann ydrast og tileinkar sér hans fullnægju-gjörð. En svo vafalaust, sem það er, að trúin innibindur þetta hverttveggja, svo visst sem það er, að hverr sá, sem vill finna í Jesú lærdómi krapt Guðs til sálu-hjálpar, verður að viðurkénna og vera sann-færður um, að lærdómurinn sé sannur; svo nauðsynlegt, sem það er fyrir hvern kristinn, að hafa þá von að verða hólpinn fyrir Krists skuld, svo vissr er það, að trú yfirgrípur enn meira, þegar hún er fullkomin, og þá fyrst sýn-ir hún og gétur sýnt sinn krapt til sáluhjálp-ar. Þetta viljum vér nockuð gjörr yfirvega.

Sé eg staðfastlega sannfærður um einhver þau sannindi, sem eg álit mikilsverð og mér nauðsynleg, þá læt eg það ósjaldnast í minni

breytni, þvi þad er vort edli ad fara eptir því, sem vér höldum satt og hollt, og hegdi madurinn sér ecki samhljóda því, er hann segist álita sér hollt og naudsynlegt, þá trúir hann ecki, heldur annadhvert tælir sjálfann sig, eda vill tæla adra, ef hann segist trúa. Ad trúa Jesú lærdómi er þá ecki einúngis ad vidurkénna, ad vera sannfærdur um ad hann, med öllum hans bodordum og fyrirheitum, sé sannur og frá Gudi kominn, heldur og ad breyta svo og vera svo til sinnis, sem samqvæmt er Jesú bodordum og fyrirheitum. Þetta vil eg upplýsa med nockrum dæmum. Ef eg trúi Jesú lærdómi, þá er eg og sannfærdur um þad, sem þar í er kénnt um gudlega Forsjón, og álít þad heilagann sannleika; eg reidi mig þá uppá Guds födurlegu forsjá, vænti af henni, hverninn sem hagur minn breytist og allt veltist, alls hins besta; er þessvegna ánægdur med hlutfall míns lífs; sé eg þad ecki, efist eg um gædsku og vísdóm Guds vega, eda sé eg óánægdur med mitt hlutfall, þá trúi eg því ecki, sem Jesús hefir kénnt um Guds gædskurfku forsjón. Ef eg trúi Jesú lærdómi, þá er eg viss um ad kjærleikans bodord er hid ædsta bodord, eg lifi því samqvæmt, tek innilega hlutdeild í kjörum minna medbrædra, og leitast vid ad efla eptir megni þeirra velferd, fjarlægja þeim allt tjón, allann skada; en ef eg gjori þetta ecki, eda mig gyldir einu hverninn mínum náúnga vegnar, nýti eg ecki þau tækifæri, sem mér bjód-

aſt til ad gledja og hjálpa, eda ef eg leitaſt vid ad gjöra ödrum ſkada, leggſt á lítilmagnann, áſeiliſt hinn ríka, þá er víſt ad eg trúi þvi ecki, ſem Jeſús hefir kennt og bodid áhrærandi framqvæmdarſamann mannkjærleika. Ef eg trúi Jeſú lærdómi, þá eru og hans fyrirheit um Guds nád og eilíft líf mér gudleg ſannindi; eg efaſt þá ecki heldur, en tel mig þeſs ſælann, ad eg hefi ſvo gledilega von, og leitaſt vid ad gjöra mig hennar verdugann, med því ad hreinſa mig æ betur og betur af allri ſaurgun holdſins og andans; þvi þetta ſkilyrdi fylgir von þeſſari í Guds ordi. Þegar eg hefi fullnægt því, hugga eg mig vid Guds gledilegu fyrirheit í þjáníngunum, og læt þau ſemja ſykra mér daudans bitúrleika. Ef eg ecki brenti þann. ſeu mér kjærari heimſins gædi heldur enn Guds fyrirheit, hid ſýnilega heldur enn þad óſýnilega; ſé eg áhyggjulaus um kjör mín annars heims, um þad, hvert eg má vera víſs um Guds nád edur ecki; ſé eg þollaus í þjáníngum og huglaus í hættum, goldaſullur þegar daudinn nálægiſt, eins og þeir, ſem enga von hafa; hverninn get eg þá ſagt ad eg trúi Jeſú lærdómi? þad er ad ſkilja: trú á Jeſú lærdóm innibindur ecki einúngis ſamſinníngu hjördorðſins ſannleika og trauſt til fyrirheitſins áreidanlegleika, heldur og breytni þeſſari ſamſinníngu og þeſſu trauſti ſambodna, og þetta má ecki adſkiljaſt, því Gud hefir þad ſamtengt. Trúin á ad yfirgrípa allt þad, ſem Jeſús hefir kennt viðvíkjandi betrun

hjartans, fridi samvitskunnar, og brúkun alls þessa samqvæmt gjafarans tilætlun. Med því móti kémst madurinn aptur til þeirrar tignar, sem syndin felldi hann úr, og Guds mínd endurnhast í honum. Þá reynir madurinn sjálfur sannleika Póstulans orda, þessara nefnilega: **Krists lærdómur er kraptur Guds til sáluhjálpar þeim, sem trúa.**

Þessi lærdómur, um hvern Póstulinn segir, ad hann sé kraptur Guds til sáluhjálpar, er sá sami, sem ydugleg er oss bodadur; þær lífs reglur, þau fyrirheit, sem hann inniheldur, eru yduglega fyrir oss brýnd og ítrekud. Medtökum hann med trúnni, svo ad hann géti sýnt í oss sinn eginlega krapt, sinn gudlega krapt til sáluhjálpar, og ad ávextirnir sjáist í vorri breytni, því hann er ad sönnu kraptur Guds til sáluhjálpar, en ecki án mismunar hjá öllum, héldur einúngis þeim, sem trúa, þeim, sem heyra ordid, vardveita þad í gódu og sidsömu hjarta og í þeim ásetníngi, ad færa ávöxt med stödugleyndi. Berid saman vid þessar tvær greinir heilagrar Ritníngar ydar breytni gáid ad hvernig þér heyrid, en verid þó ecki einúngis heyrendur, heldur gjörníngsins gjörendur! Amen!



# A Sunnudaginn i Føstu-inngáng.

## Bænin.

Skírn þíns elskulega Sonar minnir oss, Drottinn! á vora skírn og þan heit, sem vier í henni høfum hier unnid; á þad, hversu ófullkomlega vier høfum efnt þau. Í skírninni erum vier inntekuir í ríki hans, á hverium þú hefir velþóknun, og med því skilyrdi frambodin þín nád, ad vier høldum þann sáttmála, sem vier þá vid þig inngaungum; en vier høfum ecki, sem skyldi, efnt vor heit; vier høfum af breiskleika og gáleysi syndgad. O! ad enginn þirfti ad bæta þeirri játningu vid: ad hann af hyrduleysi eda med ásetníngi hefdi rofid sitt skírnar heiti. Drottinn! hjá þier er mikil fyrirgefning! miskuna oss og lát ecki af ad drága oss til þín! Send þú oss styrk þíns Anda til betrunar! fyrirgef oss vor afbrot hans vegna, sem er høfundur vorrar velferdar og sáluhjálpar, og hreinsa vora samvitsku af øllum daudum verkum! Kienn oss ad gánga verduglega vorri køllun, vardveita trúna og góda samvitsku! Hjálpa oss, þú, sem ert máttugur í breiskleikanum, til ad vera verdugir þegnar þíns Sonar, og ná því sælu hnossi, sem þú af nád þinni

hefir oss fyrirhugad, og þinn Sonur med sinni verdskuldun afrekad. Amen!

## Gudspjallid.

(Matth. III, 13—17.)

Jesús géck frá Galílæa til Jórdanar, hvar Jóhannes var ad skíra, til þess ad hann skírdist af honum. Jóhannes varnadi honum þess og sagdi: mér er þorf ad eg skírist af þér, og þú kémur til mín. Jesús svaradi: láttú nú svo vera; því svo ber oss allt réttlæti upp ad fylla. Jóhannes lét þad þá eptir honum. En þegar Jesús var skírdur og hann sté upp úr vatninu, þá luktust himnarnir upp yfir honum, og Jóhannes sá Guds Anda ofanstíga í dúfu líkíngu og yfir hann koma; en rödd af himni sagdi: þessi er Sonur minn elskulegur, ad hverjum mér vel þocknast.

### Inngángurinn.

Skírnin er ecki burttekt holdsins saurugleika, heldur sáttmáli godrar samvitsku vid Gud. Med þessari grein bendir Postulinn

Pétur kristninni nærsta eptirtakanlega til þess, hvad skírnin eginlega merki — án þess ad eigna henni nockurn heimuglegann helgunar krapt, fyrir hvern sá skirdi, sér óafvitandi, ødrum ó-skiljanlega, skyldi verda Gudi þócknanlegur — fullyrdir hann, ad hún sé sáluhjálpar medal; þad flýtur naudsynlega af því, er hann vottar: ad skírn og sáttmáli gódrar samvitsku sé hid sama; ad svo miklu leiti eru þad saunmæli, ad skírnin sé naudsynleg til sáluhjálpar, en sáttmáli er allt annad enn sáttmála-rof.

Heidnir menn, eptir sinu náttúru ljósi, gjørdu sér von um náð þeirrar veru, er þeir dýrkudu sem Gud, þegar samvitskan fordæmdi þá ecki, og engum heilvita kristnum hefir til hugar komid fyrir alvøru, ad sáluhjálpin fengist nema gudlega væri lifad og gód samvitska vardveitt, edur ad sáluhjálp væri moguleg med vondri samvitsku. Barnsbadid, sem skírnin og kallast, merkir þá hreinsun hjartans og framferdisins, sem Kristur heimtar af sínum játendum, minnir á þad, ad þeim sem Kristi tilheyra, beri líkt og Postulinn Páll vitnar um sig, ad æfa sig í því, ad hafa óskerdta samvitsku fyrir Gudi og monnum. Þetta er sá mikli heilagi sáttmáli, sem vér hofum gjørt vid Gud; vér hofum ecki lofad ad hafa góda samvitsku — því þad var ad lofa meiru enn oss er audid ad efna — heldur ad æfa oss í því, ad leggja allann huga á þad, ad ødlast góda

samvitsku og vardveita hana óflekada. Vor kallan er mikil og heidurleg, ad leggja hug á ad gánga henni verduglega, gjörir manninn heidurs- og elsku-verdann medal manna, og á þesshattar manni hefir Drottinn velþóknun; hans blessan fylgir þeim manni bædi hér og annars heims.

Vèr skulum brúka þessa gudrækni stundu til ad íhuga hverr med ödrum:

1.) Hvad innibindist í þessu skírnarheiti, ad æfa sjálfann sig í því, ad hafa óflekada samvitsku fyrir Gudi og mönnum, og

2.) Hversu gott og sáluhjálplegt þad sé manninum, ad hafa þá medvitund.

---

Hvad hid fyrra áhrærir, þá útheimtist til þess:

1.) Ad madurinn gèti æft sig í því, ad hafa óflekada samvitsku fyrir Gudi og mönnum, ad hann kosti kapps um ad útvega sèr svo fullkomna þekkíngu á skyldu sinni, sem honum gètur audnast. Samvitskan á ad vera vor leidtogi; sè leidtoginn blindur, hver von er þá til þess ad rètt leid verdi farin? Samvitskan á ad segja oss í hvert sinn, hverninn breyta skuli og stjórna votri breytni, en hve ninn fer ef hún þegir eda sleppir stjórninni, eda segir rángt til vegar? Bædi eg'n umhugsan og Gu's ord eru þau ljós, vid hverra birtu hún á ad finna veginn til Guds ríkis um lífsins tdum öglögu vegu. Villugjarnt er í þessum heimi, þó eru eink-

um í þessu-tilliti tvær afvegir, sem varast þarf. Sumir nefnilega stúrla samvitskuna með því, sem lítið er í varið, og, vegna smámuna, afrækja það, sem meira á ríður. Þeir tíunda myntu, anis og kúmen, en gleyma heldur miskunsemi og réttlæti. Þeir stunda alúðlega helgar tíðir, og vona með því, að bætt gæti fyrir það hjá Gudi, sem þeim verður á í breytninni. Aðrir, og sá mun hópurinn stærri, fara ecki í svo stránganu né nákvæmann reikníng við sjálfa sig um þeirra breytni; þeir viðurkénna skyldu sína að stunda gudrækilegt líf, edur elska dygð; en dygð kalla þeir einstaka mannkosti og það þá, sem best ega við skap þeirra; að svo búnu ætla þeir sig algjörda, forsóma því aðrar skyldunnar greinir, sem þeir á sína egin vog finna léttvægar, og kalla það ecki að meida samvitskuna. En hvað kémur til, að menn þanninn afvegaleidast, og annaðhvert þjá samvitskuna að óþörfu, eda í þánkaleysi fara ecki í svo nákvæmann reikníng við hana, sem skyldi? Hvað annað enn þetta: að þeckíngin á skyldunni er ecki svo fullkomin, sem þörf er á. Miklu vardar því, að samvitskan verdi viss; mikil naudsyn er, að vér gjærum vor við þessum afvegum og mælum breytni vora eptir Guds óbrjáluðu boðorðum, svo oss hverki hendi sú fásinna, að meta það mest, sem minna á ríður, né látum oss nægja einstaka góðverk, edur æfingu einstakra dygda, því vér vitum vel, að þó einhverr héldi allt lögmálið,

nema eitt þess boðord, sá er sekur vid þau oll. Allt, sem Gud hefir bedid oss ad varast, er oss jafnskyldt ad varast, og þad, sem hann hefir skipad oss ad gjora, er oss allt jafnskyldt ad gjora; ecki er í voru valdi ad kjósa hverra Guds bodorda vér sjálfir viljum gæta, og hver brjóta, oll eru oss jafnholl, oll í gædskurikum tilgángi gefin. Einhverjum kémur til hugar: þad er ecki svo audgjort ætld ad þeckja náqvæmlega sína skyldu. Nei, audgjort er þad ecki jafnan, en því heldur rídur á, ad menn kasti ecki svo, sem höndunum til þess ad abla þeirrar þeckíngar, er svo miklu vardar, ad undir því er komid, hvert vér getum haldid vort skirnar heiti og og verid vissir um Guds velþócknun hér og annars heims; og ef satt skal segja, þá er þad ecki ordugleiki þeckíngarinnar, sem leidir mann ó þá tvo áminnstu afvegu, heldur einhver hjartans spillíng. Þad kémur ecki af því ad menn géti ecki þeckt hvad þeir ega ad gjora, bædi er þad skrifad í þeirra hjortu og kennt í Guds ordi, heldur af því, ad þeirra girndir blinda þá. Þeir líta skackt til og ætla sinn hag heidur, eda unadsemd ad breyta eins og þá lystir. Einlægur, hreinskilinn vilji ad þjóna Drottni trúlega, er affara betri enn mesta þecking. Sá, sem vill innilega vardvelta góda samvitsku, hañ villist traudlega afvega, honum bregdst sjaldan ad finna hid rétta. Gódur vilji er sigursæll, því Drottinn styrkir hann.

2.) En monnum yfirsjest af brádrædi, af gadgætni, af þeim breiskleika, er lodir vid vort edli, en sjer þad seinna, er hann sá ecki fyrr; þá er samvitskan meidd, en þó ecki svo ad hana megi ecki græda, og sú grædsla, sem hér á vid, er: ad bæta þad aptur, sem madurinn er sér medvitandi, ad hann hafi rángt adhafst. Þetta er ad sonnu opt torveldt, ætld bísna þúngt og aukmykjandi; en þvi vissari vottur þess er þad ad madur vilji æfa sig i þvi, ad vardveita góda samvitsku bædi fyrir Gudi og monnum, þar af sjest best, ad þad sé full alvara. Eda mun þeim alvara ad vardveita góda samvitsku, sem hefir nockra ró i sér, medan sú synd, er hann gat bætt fyrir, á honum hvilir óbætt. Mun þeim, alvara, sem er sér þess medvitandi, ad hann hafi med prettum eda ofriki dregid undir sig góts sins náúnga, en finnur þó engann vilja ad bæta fyrir sig, heldur feitir sig á ránguf engnu fé, eda geymir þad sér til gamans? O! hvad nefnir svo spillt manneskja samvitsku? hún þeckir ecki hennar vidqvæmni, ecki hvad sárt hún gétur skorid; og hvad mikid er til þess vinnandi ad útvega henni ró! En kannské þad sé ecki i þinu valdi ad bæta fyrir þad, sem þú ránglega hafdir af odrum, eda gjordir á annars hluta; vara þig, minn Bródir! ad láta ecki spillíngu þina predika þér þad ad vera ómogulegt, sem ecki er ómogulegt, en sértu viss um þinn einlæga góda vilja, bid þá Gud liknar og ætladu hans miskun, ad áfella þig ecki fyrir

Þad, sem Þer er ómögulegt vidgjörda. En ef Þú gétur bætt fyrir misgjörd Þína, Þá vit fyrir vissi, ad Þad er vafalaus skylda, hvad sem kostar, og ef Þú forsómar Þessa skyldu, Þá er samvitska Þin sofnud, eda hefir mist tilfinníngu ens rétta og ránga. Set Þad ecki fyrir Þig, ad sú synd, sem ádur var hulin monnum, verdur, Þegar Þú fyrir hana bætir, uppvís, ad menn syna Þér minni vægd enn Gud Þeim, er hann módga. Þad er gott fyrir Þig, ad Gud — ef eg mætti svo ad ordi komast — gleymi Þeirri synd Þinni, sem hann ádur vissi, Þó menn fái aptur advita hana, og Þad er ecki meir enn maklegt, ad sá kénni til misgjörda, sem Þær drhgdi, og sá, sem sær á Þeim fyrirgéfníngu hjá Gudi, vinnur ecki ofmikid til, Því sælir eru Þeir, sem misgjördirnar eru fyrirgéfnar. Ecki dugir, verdi odruvísi fyrir syndina bætt, ad frida samvitskuna med Þess innilegri gudrækuis ydkunum, svosem med fostu, bænahaldi og Þesshattar, eda gjöfum til fátækra, Því vor helgasta skylda er réttvísi, og ádur enn vér gétum ordid edallundadir, eaum vér ad gjalda hverjum sitt edur vera réttvísir; en hvad gudræknis ydkanir áhrærir, Þá vitum vér ad Drottinn vill heldur miskunn enn offur, og ad skinhelgi er honum vidbjódur. Þad grædir líka samvitskunnar sár best, sem er svidamest, Þegar Þad á vid sárid, en ecki er annad vidqvæmara enn ad bæta fyrir sínar misgjördir, Því heldur, sem Þad kostar meiri sjálfsafneitun.

3.) En — eptir ad bætt er fyrir drygdar syndir, á hverr sá, sem vill vardveita góda samvitsku, ad leggja allann hug á ad gjæta sín vid þeim snorum, sem ádur hafa ordid honum skjædar. Þad verdur hverjum einum því hægra, sem ydranin hefir verid innilegri. Hafi fjegirnd, til dæmis, vid mørg tækifæri freistad einhvers svo mjøg, ad hann prettadi marga í vidskiptum, og undirþryckti adra í þeim tilgángi ad audga sig, sé þá hans fyrsta umhugsan ad deyfa sína aura-elsku, med því ad læra ad meta rétt, og ecki um of, aud þessa heims, ad láta sér nægja hófleg veraldar gædi, en kannast vid hversu ónógur mikill audur er til ad gjøra mañinn sælann. Hafi einhverr lífad í gjálífi, og vanrækt þess vegna skylduna vid Skaparann, hverfi sá aptur til Guds, og flýti sér ad leita hans medan hann er ad finna; hann innprenti sínu hjarta djúpustu lotníngu fyrir þeirri almáttugu Veru, í hvers hendi hann er og verdur eilíflega. Þannig skal hverr leitast vid ad lækna sín synda sár, og uppræta þá spillíngu, sem fleckad hefir hans samvitsku; ad kosta kapps um þetta, er vottur þess, ad madurinn vilji láta sér umhugad ad vardveita ófleckada samvitsku; ecki má neitt af spillíngu hjartans eptir vera, engin synd manninum svo kjær, ad hann ecki leitist vid, og þad med alvørugefni, ad útbyggja henni, því sé nockurr af þeim spilltu portum eptirskilinn, er lagfæríngin hálf-verk

og.

og gagnslaus; skéllíngin etur þá um sig á ný, og allt kémur, fyrr enn varir, í sama horfid.

4) Lokfins er þad einka hollt bædi til ad þeckja sína skyldu og sjálfann sig, sem er ómissandi til þess, ad samvitskan verdi vardveitt óflecckud, ad prófa sjálfann sig ýdugleg a. Enginn sá dagur ætti ad koma yfir oss, ad vér forsómudum þessa naudsynlegu ydju. Heidíngjar kennudust jafnvel vid hvad hollt þetta væri, og nockrir þeirra, sem vanda vildu rád sitt, létu engann dag hjá lída svo, ad þeir ecki fyrr enn til hvíldar gengu, athugudu þad, sem adhafst höfdu Midur ætti þó ecki kristnum ad fara, sem hafa inngengid vid þann lifanda Gud, sáttmála gódrar samvitsku; höldum daglega reikníng vid sjálfa oss; þess hægra veitir, þegar ad þeim mikla reikníngsskapar-degi kémur, ad gjöra skil fyrir vorri breytni; spyrjum oss á hverju qvöldi: hvad adhafdist eg í dag Gudi til stygdar eda mennum til meins? hverjar skyldur hefi eg brotid? hvad forsómad af því, sem Gud eda minir medbrædur höfdu rétt til ad heimta af mér? med þessu verdur samvitskunni haldid vakandi; sé hún ecki þanninn opt kollud til ad setjast á Dómstólinn, mun myndugleika hennar hnigna, hjartad spillast jafnvel manni óvitandi. Sé þetta ecki gjört, gleymist audveldlega: ad fyrir ædra Dómstóli enn veraldarinnar á mannkynid von á reikníng ad standa; ugglevsid er þess ólucka. Menn eru optar vondir af því þeir hafa enga lífsreglu, eckert á-

form, heldur enn af hinu, ad þeir hafi þann ásetníng, ad gjøra illt. Þeir fylgja fýsn sinni athugalaust, og hugleida ecki, vita því ecki heldur hvad þeir gjøra, en rád vid þessu er þó ecki annad enn þad, sem nú var talid: ad halda samvitskunni vakandi med sjálfsprófun. Hún átelur hart þann, sem til vinnur, en átolur hennar eru hollar og aptra frá því ad baka sér annad verra. En jafni samvitskan til fulls, er uggvænt hún vakni fyrri enn um seinann, þegar verst gégnir á daudastundunni, sem er sama og á Dómsins degi.

Þessi eru þau helztu rád til þess, ad manni takist ad vardveita óflekkada samvitsku fyrir Gudi og mønnum, edur, sem er hid sama, til ad halda sitt skirnar heiti.

Nú er þá eptir, í ødru lagi, ad minnast á: hversu heilsusamleg þessi æfing sé, og hvad gott af því leidi, ad æfa sig í því, ad hafa óflekkada samvitsku. Þetta má innibinda í tveimur greinum: því góð samvitska frelsar manninn frá skelfingum annars heims, og møgru volædi þessa lífs.

1.) Góð samvitska frelsar manninn frá skelfingum annars heims. Máské annars heims tilhugsan skelfi ydur ecki; þad er vel, sé þad af því þér hafid lifad vel, en ef þessi rósemi eda hugprydi kemur af því, ad þér hugsid aldrei til annars heims, eda þess reikníngs, sem þér egid í vændum, þá vitid fyrir víst, ad þér standid á flædi skéri. Skelfingar annars heims

géta yfirfallid, einkum þessa athugalausu, mjög skyndilega, og sundurkramid þá mestu fullhuga. Samvitskunnar kraptur er ríkari í vorri náttúru enn svo, ad hann verdi upprættur; svæfa má hana um stund, en mörg atvik lífsins vekja hana skjótt og stundum óvart, og þegar hún vaknar eptir lángann svefn, er enginn fögnudur ad verda fyrir hennar slögum. Hún slær syndarann med tilhugsun þess ósýnilega Dómara og væntanlega dóms, og optarst gjörir hún þetta á þeim vonda degi, þegar helzt er þörf á hugsvölun. Vol er svo mikid í varid ad hafa samvizku frid. Látum hugann hvarfla til þess, sem vér allir egum von á, til lífsins nidurlags, þegar vér finnum til daudans átekta; eflaust mun þeim degi nægja sú þjáníng, þó samvitskunnar ógnanir ecki bætist á daudans skelfíngu. Ef vér þá á sóttarsænginni vid eilífdarinnar takmörk, þegar qvedja skulum allt, sem oss er kjært í heiminum, ef vér þá, segi eg, þar ad auki plágudumst af þessum efasemdum: hvad mun nú um mig verda í þeim heimi, sem opnast mér? og ef vér qveddum svo þetta líf, med þeirri qvídafullu eptirbid, ad hegníngarinnar stund væri komin; hverr gétur hugsad til þvíllkrar plágu!

En — eg gjöri rád fyrir sumir hugsi: „ad þad sé ecki góð samvitska, sem vinni til „nádar hjá Gudi, eda gjöri manninn vissann „um hans útvalníngu; ad allir verdi ad leita „og adnjóta Endurlausnarans verdskuldunar,

„ sér til sálar velferdar." Þó Krists verd-skuldan, Br. m.! sé bendanleg og mesta velgjörd Guds, hefir Kristur hvergi gefid oss leifi til ad syndga í hennar trausti. Gód samvitska er audkénni kristinna, og þeirra skírnarheit, vottur þess ad vér megum tileinka oss Krists verdskuldun; hún er sá vitnisburdur heilags Anda, ad vér séum Guds born; hún hefir gjört margañ heidíngja óruggann á daudastundinni. En verid vissir um, ad sá kristni verdur þar ecki óruggur, ef hana vantar. Því allt annad, sem menn hafa fundid uppá til ad hugga sig med á þeirri vondu tíd, er valtara enn hús, sem byggt er á sandi. Sá einn gétur huggad sig vid Krists verdskuldun og Guds nád, sem er sér þess medvitandi, ad hañ hafi einlæglega viljad æfa sig í því, ad hafa óflekkada samvitsku. Sá hinn sami gétur og med róssomu gédi horft fram á veg allrar veraldar, og stígid framyfir tímans og eilífdariñar mót.

2.) En eins og gód samvitska frelsar manninn frá skélfingum annars heims, eins er hún verja gégn mørgu volædi þessa lífs. Allar þær misgjørdir, sem samvitskan fordæmir, verda mañninum med ýmsu móti ad plágu, jafnvel í þessu lífi; enginn hefir svo vikid af réttlætisins beina vegi til lengdar, ad ecki hafi fengid tilefni til ad ydrast sinnar fásinnu, hvert sem þad var audur, upphefd eda lystíngar holdsins, sem tældu hann, urdu þessi ímyndudu lífsins gædi honum nærsta dýr. Girndaña Herra-

dæmi er þúngt ad þola, en þær taka vid stjórn-inni yfir manninum, þegar hann sleppur undan samvitskunnar reglubundnu yfirrádum, og halda honum í ánaud; ein misgjørd dregur med sér adra, en syndin er ecki einúngis lands og lyda tøpun, heldur plága hvers manns.

Sá, sem framgengur rádvandlega, sá framgengur þann veg, sem er óhult ad fara, en ótal skelfingar mæta þeim er gánga hinn breida veg. Þeim, sem illa breytir, er samvitskan tídum meinlegur förunautur á daginn og fer ecki á burt á qvøldin, né í náttmyrkrinu, heldur skelfir med endurminníngu lidins dags. Hrædsla og hugleysi eru tídum förunautar vondrar samvitsku. Sá, sem er af henni plágadur, þorir ecki ad koma fyrir manna augu, nema í dulár-búníngi, og af því hann sjálfur er sér ills med-vitandi, tortryggir hann alla, sem hann á nockud vid ad skipta, og þykist sjá ávítur á hvers manns svipi, eins þeirra, sem ecki kemur til hugar ad finna ad breytni hans og ecki vita ad hún er vítaverd. Vond samvitska setur og tídum audkenni á mannsins andlit, eins og Gud setti fordum á **Kain**, svo þad, sem innra býr verdur ecki dulid, og því er ecki kyn þótt sá sé sífeldt, sem á flótta, sem illann mann hefir ad geyma, og flýi þótt enginn elti.

Ólíkur þessum er sá, sem hefir æft sig í ad hafa góda samvitsku fyrir Gudi og mønn-

um. Annadhvert er hann öruggur, eda spakur og rólegur. Hann hefir aldrei tælt hinn saklausa einfeldníng; aldrei prettad sinn náúnga í vidskiptum; aldrei audgad sig af annara neyd, né feitt sig á annara sveita. Djarft getur hann því litid uppá hvern mann, og med Samúel sagt: Hér em eg, vitnid nú á móti mér: hefi eg tekid nockurs uxa edur asna? hefi eg prettad nockurn eda undirþryckt? sé svo, vil eg bæta fyrir. Sá, sem getur þanninn krafid Gud og menn til vitnis um sína rádvendni, metur ad litlu álas eda illt umtal óhlutvandra. Þad, sem óspekir hinn, er býr yfir vondri samvitsku, gengur framhjá þessum; hans hreinskilni er tifaldur skjoldur; verdidin midar forgefins á hann í sínum eitrúdu skeytum. Menninа, sína stallbrædur, óttast hañ ecki, og tilhugsan Guds skelfir hann ecki, af því hann óttast Gud sinn Dómara.

Heidurs- og elsku-verdur er hverr sá, sem æfir sjálfann sig í því, ad hafa óflеckada samvitsku fyrir Gudi og mönnum. Gudræknir Foreldrar audsýndu oss mikla velgjörd, þegar þeir létu inntaka oss ómálga og nýfædda í sáttmála gódrar samvitsku vid Drottinn. Minnisstæd skyldi oss og vera sú heilaga stund, þegar vér á únga aldri sjálfir, vid Drottins

altari hátíðlega endurnýudum vort Skírnar-heit, og í áheyrn margra votta lofudum því þeim Alvísa, ad vera honum trúir til dauðans; minnisstæd sú velgjörd Drottins, ad hañ gjörði vid oss þennann sáttmála góðrar samvitsku, lét oss fædast af kristnum Foreldrum, í kristnu landi, hvar hans Sonar heilagi lærdómur kénnist til upplýsingar skynseminni, til betrunar voru framferdi og hugsvölunar hjartanu. Látum nú allt þetta verda vakandi fyrir vorum hugskots augum! allt þetta hvetja oss til einlægrar hollustu vid vorn Födur á himnum, þess minnugir: ad þá fyrst, er vér æfum oss dyggilega í því, ad hafa góda samvitsku, verdur oss blessunar von af því, ad vér erum fluttir úr myrkranna ríki í ríki Guds Sonar og í ljóssins ríki. Drottinn! styrk oss alla breiska og hviklynda, til ad þjóna þér af öllu hjarta, og eptir þinni nádarríkri tilætlun efla vora egin velferd med því, ad æfa oss í ad vardveita óflekkada samvitsku, og halda vort Skírnar-loford! Amen!

# A 1ta Sunnudag í Föstu.

## Bæ n i n.

Til þess hefir þú, himneski Fadir! sett oss hjer í heimi í freistínga skóla, ad vjer æfast skyldum í þeim verkum og áformum, sem annars heims áttu ad verda oss ad ríkuglegri uppskjeru. Margar og margbreyttar eru þær freistíngar, sem oss mæta, en þú hefir útbúid oss med þeim kraptum, sem gjöra oss sigurinn, med þinni adstod, mögulegann, þegar vjer höldum oss til þín med bæn og árvekni. Þinn elskulegi Sonur var freistadur á allann hátt, sem vjer, þó án syndar; hann sann til vors breiskleika og rak þó freistarann frá ser. Kjenn oss ad strída og sigra, eins og hann stríddi og sigradi! Þinn kraptur se máttugur í vorum breiskleika! Amen!

## Gudspjallid.

(Matth. IV, 1—11.)

Jesús var leiddur af anda á eydimörku, svo hann yrdi freistadur af Djöflinum. Þegar Jesús hafdi fastad 40 daga og 40 nátta, húngradi

hann sídan. Freistarinn géck þá til hans og sagdi: ef þú ert Guds Sonur, þá bjod þú ad steinar þessir verdi ad braudum. Jesús svaradi: skrifad er: madurinn lifir ecki af einusaman braudi, heldur af sérhverju því ordi, sem framgengur af Guds munni. Þá tók Djøfullinn hann med sér í þá heilogu borg, setti hann uppá musteris bustina og sagdi til hans: ef þú ert Guds Sonur, þá fleyg þér hér ofan af; því skrifad er: ad Gud muni bjoda englum sínum, ad þeir beri þig á høndum, svo þú steitir ecki fót þinn vid steini. Jesús svaradi: enn aptur er skrifad: ecki skaltú freista Drottins Guds þíns. Djøfullinn flutti hann þá med sér uppá ofurhátt fjall, og sýndi honum øll ríki veraldar og þeirra dýrd, og sagdi: allt þetta mun eg géfa þér, ef þú framfellur og tilbidur mig. Jesús svaradi: far á burt frá mér, Andskoti! því skrifad er: Drottinn Gud þinn skaltú tilbidja og honum einum þjóna. Þá yfirgaf Djøfullinn hann, en englar af himni komu til Jesú og þjonudu honum.

Inn-

## Inngángurinn.

Med Skírninni innvígdist Höfundur vorrar trúar til þess svo kallada spámannlega embættis síns; svo nefna kirkjunnar Lærifedur þad verk hans, ad hann kenndi trú og sidferdis leidréttíngu í 3 ár á Gydíngalandi; en ádur enn hann birjadi þetta starf, heyrum vér, eins og frá er sagt í uppleisnu Gudspjalli, ad hann hafi, og þad ecki stutta stund, verid á eydimörku, þad er: á afsídis stad, hvar engin bygd var. Optar er þess getid, ad Jesús hafi tekid sig afsídis frá mönnum, og stundum verid heilar nætur á bænum á afviknum stödum. Jesú dæmi er í þessari grein mjög eptirtakanlegt, því heldur, sem hann var ólíkur ad háttsemi þeim mönnum, sem á seinni öldum fóru á eydiplátz og tóku sér þar adsetur, upphaflega í þeirri gódu meiníngu, ad fordast heimsins freistíngar, og vardveita því heldur sálir sínar fyrir lífsins spillíngu. Ad þessir menn hafi ordid ad afrækja margar þær lífsins skyldur, sem einn á ad odrum, er audvitad, og ad þeir med tímanum, sem í eydiplátzum ínngengu sambúdarfélög, hafi ecki umflúid holds og blods freistíngar, er kunnugra enn um þurfi ad ræda; þeirra dæmi er vorri öld skír vottur þess, ad

„Góð meiníng enga gjöri stoð,
„En gylda skuli Drottins boð."

Þessum monnum var vor Endurlausnari slíkur, optar var hann í fjölmenni, ecki sneyddi hann sig hjá lífsins gladværdum; hann var nockrumsinnum, sem um er gétid, ad heimbodum, sem gaf óvinum hans tilefni til þess lastmælis, ad hann væri vínsvelgur; og yfir hofud hafdi hann mikid samblendi vid allsslags menn. Þvi verki, sem Fadirinn hafdi hönum gefid, var og þannig háttad, ad þvi vard ecki odruvísi fullnægja gjord. En hann tók sig þó á stundum afsídis frá monnum og leitadi einveru, helzt eptir Skírnina, ádur enn hann hóf upp sína rödd og bodadi ydrun og trú. Af hans dæmi lærum vér hid sama, sem oss er kënnt í hans ordi, ad vér ad sonnu í sambúd vid menn egum ad lifa og lífsins skyldum dyggilega gégna, en þó ecki afrækja vid og vid ad gánga inn í vort svefnherbergi, loka dyrunum aptur og tala vid Fodur vorn í leyni; vér megum ecki svo samlaga oss heiminum, ad vér verdum sjálfum oss ókunnugir og Gudi óhandgengnir, en til þess er einveran hentug ad umgángast Gud og sjálfann sig. Þvi skal nú á stundarkorni þessu vera vort guđrækins erindi ad yfirvega:

1) Hvad gott megi hafa af einveru ëdrum og sinnum, og

2.) Hvad þar egi ad vera vort umþenkíngar efni.

---

Au umhugsunar, og þad umhugsunar i einrúmi getum vér ecki verduglega gégnt vorri

jardneſku köllun; ſött er þad, ſem vinna megi verduglega án umhugſunar, venti hvaj verdur breytnin ſiálfri ſér ósamhljóda og ósæmileg ſkynſömum manni. Sé ecki umhugſan vidhöfd, kémur hverr hlutur oſs ódauvist fyrir ſiónir enn hann ſidan reyniſt.

Egi ſkynſemi ad gæta notid ſinna krapta, hljótum vér ad gánga aſſidis frá heimſins hávada. Í einrúmi getum vér beſt igrundad hvad ſé gott, hvad illt, ſkynſamlegt eda ſávíslegt í manna breytni; þar getum vér látid hugann, ſvo ecki glepur fyrir, hvarfla bædi til hins umlidna og ókomna, þar ſamid reglur fyrir vera breytni. En hvernig getur ſá nockud igrundad til hlytar, ſem ſífeldt lifir í lífſins glaumi eda ſá ordid ſér ſiálfum rádandi, ſem eckert igrundar nema kannſké, ſvo ſem á hlaupum? Þeim einum tekſt þad, ſem optar enn ſiáldnar og þad í einrúmi hugſar um ſína köllun; honum er ecki hætt vid ad hrekjaſt hingad og þángad fyrir lífſins bylgjum, eins og ſkip veltiſt undan hafſins ölgu ſjóum. Ur einverunni kémur hann med hugprýdi og róſemi, því þar hefir hann lært ad meta rétt hluti þá, ſem meſt ósþekja gédid. Þadan kémur hann vidbúinn ad mæta lífſins freiſtíngum, ſem hann hugſadi um, ſtyrktur af þeim áſetníngi og þeim lífs-reglum, ſem hann hefir valid ſér.

An igrundunar gétur madurinn ecki verduglega gégnt ſinni köllun, og þeſsi igrundan hlýtur ad vera vort einveru verk, því þá nýt-

ur skynsemin best sinna krapta; en án igrundunar nytur madurinn ecki helrur heims þessa réttilega. Sá, sem forsómar igrundun i einveru vegna lífsins unadsemda eda heimsins starfa, gjorir sjálfum sér mikinn skada, og er ecki audveldt ad segja hvert verra sé ad forsóma naudsynlega igrundun vegna hins eda þessa. Sá, sem i sífellu nytur lífsins unadsemda, þreytist á þeim um sídir, því þær verda honum bragdlausar; ef hann hlífradi sér hjá þeim vid og vid og nyti þeirra í hófi, finndi hann lengur bragd af þeim og gæti lengur notid þeirra.

Eins þreytir heimurinn um sídir þann, sem med storfum lengi átti vid hann ad skipta. Í vidskiptum vid heiminn mæta margvíslegar tálmanir, þar er ad búast vid manna brygdlyndi og hreckjum. Sá sem alltaf „ndur í stímabraki vid heiminn, er sem í sífelldu stridi; þar er von á ovildar og ofundarmennum, vid trygdarleysi þeirra, sem létust vera vinir, vid ofmetnadi yfirbodara, sérdrægni og hollustuleysi undirgéfinna. Til einkis er ad hverfa frá lífsins storfum til þess unadsemda, í von um ad létta þanninn á sínu hjarta því þær orka ecki meiru enn því, ad madurinn gleymi um stund sínu boli; krapt géfa þær ecki til ad bera lífsins byrdi, þvert á mót er sálin því ístodulausari til ad standast nýa mótgángs báru, sem hún venst framar á lífsins dálæti.

Einka rádid til þess ad unadsemdir og storf lífsins þreyti mann ecki um of er, ad draga

sig um stund frá manna umgengni, og gèfa sig í einveru á tal vid Gud. Gack inní þitt svefnherbergi, sagdi vor Endurlausnari, loka að þér dyrunum, og bid þinn Fødur í leynum, og hann mun þér opinberlega endurgjalda; þeß munu sjáſt berlea merki, að þú hafdir gott af því að taka þig um stund afsídis frá heiminum. Í einverunni fær sála þín rósemi, þegar hún er þreytt, frid, þá hún er óróleg, og krapt, er hún kennir sins vanmáttar. Í einverunni hverfur heimsins dýrd og lífsins volædi; þar ser fram hjá manni heimsins skvaldur, svo varla heyrist ómurinn.

En — svo gagnlegt, sem það er vegna vorrar kollunar í þessum heimi, og til þeß að njóta heimsins gæda vel og brúka þau rétt, að taka sig afsídis frá honum vid og vid, er það samt enn gagnlegra vegna vors undirbúnings undir annann heim. Sá, sem ávalt lifir í heimsins óróa, hann lifir traudlega fyrir sálu sína, því hún samlagar sig heiminum, sem uppá vissann máta liggur í hinu vonda, og það er kristnum bannad. Fyrir flestum mun brýnt í uppvextinum, undir eins og þeim er kennt að þeckja Gud og sína skyldu, að uppheſd og audur ie mannelskunnar dýrmætasti fjársjódur; og þó um þetta væri þagad, er ecki annad að sjá á fjøldans breytni, enn þeir meti þeiss heimsins gædi mest, svo ákaflega sækjast þeir eptir þeim. Fáa sjáum vér meta skyldu sína meira eda jafnt veraldlegum gædum. Þannig getur bædi heimsins

breytni og líka álit á hlutunum tælt oss og villt afvega; því er svo hættuleat ad hugsa aldrei í einrúmi um velferd sálar sinnar; þar fær madur ad heyra þann sannleika, sem heimurinn þegir um, en Guds ord predikar. Í einrúmi er útausid ydrunar-tárum, þadan uppstíga einlægust bænar andvorp til hjartnanna Skapara og Endurskapara; hér er kostur á ad smacka krapt eptirkomandi aldar í umgengni vid Gud og himininn. Sá, sem er ad öllu ókunnugur þessum andlegu einveru stofum, mun traudlega gjöra sig hæfilegann fyrir himininn.

Miklir menn, gudhræddir og dygdugir, hafa ætíd verid mikid fyrir einveru, þegar lífsins skyldur leyfdu; efálaust hafa þeir fundid hjá sér laungun eptir ædri unadsemd enn kostur gafsti á í heimsins solli. Födurlands vinurinn semur í einrúmi þær rádagjördir, sem skulu verda almenníngi ad gagni; hér dvelur sá upplýsti vid sitt ígrundunar efni, morgum til leidarvísirs; hér umgengst sá gudrækni Drottinn. David vitnar bædi um þá unadsemd og gagn, er hann hafdi af einverunni med þessum ordum: eg umgeckst mitt egid hjarta og minn andi ígrundadi rækilega; eg hugsadi um minn veg og sneri mínum sporum til Guds vitnisburdar, og hans hugsvølun gladdi mína sálu. Vor Frelsari, sem af öllum, er lifad hafa á jördunni, þurfti síst med einverunnar til þess ad stadfestast í þeim ásetníngi, er byggi hann undir himinsins dyrd, var 40 daga í ein-

veru ádur enn hann inngéck sitt Embætti, og tídum í sinu Embætti fór hann afsídis frá mönnum, og var stundum heilar nætur uppá fjöllum eda í aldingordum á bænum til Føds, ursins á himnum.

Þegar vér nú í annann stad, eins og ráð var fyrir gjört, vyrdum fyrir oss þad, sem í einverunni á ad vera vort helzta umhugsunar efni, mún sjást enn berleaar, hve mikils góds megi af henni vænta. Þad er einkum þrennt, sem í einverunni á ad vera og getur verid mannsins verdugasta umhugsunar efni, þad er Gud, heimurinn og vort egid hjarta.

1.) Hugsum til Guds, þegar vér erum einir. Þad er allrar gudrækni, alls sidgædis máttarstólpi ad hafa Gud opt í huganum, enn hverr hugsar rækilega til Guds í-heimsins solli? er þad mögulegt þar, sem svo margt glepur fyrir, svo margt, er ymislega verkar á oll skilningarvitin? er þar mögulegt ad hugsa, ecki einungis um hid ósýnilega, heldur þad, sem bágara er ad festa á hugskotsins sjón, enn nockru ödru ósýnilegu. Ritningin kémst svo ad ordi um þá ógudlegu: ad þeir séu án Guds í heiminum. Þeir neita þó ecki Guds tilveru, heldur láta sig hana litlu varda, og þegar þeir hugsa aldrei til Guds, verda þeim engin not ad Guds tilveru, og breytni þeirra sýnir þad.

Innrætum djúpt sálum vorum í einrúmi þann dýrmæta sannleika: ad sá er til, sem öllu rædur, öllu stýrir, Höfundur gjörvallrar nátt-

krunnar, og umgaungumst þanninn þessa helsogu, mikla Veru, ad vor hjörtu betrest. Vér hugsum ecki til Guds í þeirri veru, ad vér væntum ad fá fullann skilníng á hans leyndardómum; til þess er engin von, ad oss, sem ersidt gengur ad þeckja oss siálfa og þá hluti, sem eru fyrir vorum augum, takist ad þeckja hinn Osýnilega, hans veru og hans veg. Umgenginn vid Gud á ad hafa þann tilgáng, ad sálum vorum verdi sýnt um ad trúa því, ad vor Skapari sé vor Fadir og Drottinn. Vor skynsemi á ecki ad forvitnast um leyndardóma Guds veru, heldur læra ad skynja þá Guds fullkomnun, sem oss er í hans ordi, eda í hans verkum fyrir augum afmálud. Skodan Guds fullkomnunar á ad kénna oss lotníngu fyrir Gudi og vekja hjá oss inniléga laungun eptir ad nálgast þá Veru, ad því leiti audid er, sem er uppspretta alls lífs og sælu. Ef vér leitum Guds þannig, munum vér skjótt finna hann, því ecki er hann lángt frá einum og sérhverjum af oss; öll náttúran er full af Gudi. Ef vér lítum upp til himinsins, sjáum vér þar hans dýrd; þegar vér litumst um á jördunni, blasa þar vid hans dásemdir. Náttúran, í öllum sínum tilbreytíngum, er auglýsing Guddómsins hátignar. Gud uppfyllir allt og lífgar allt, því í honum lifum, erum og hrærumst vér. Þó náttúran sé ecki Gud, ber hún audsjáanlega merki Guddómsins; hennar hátign og fegurd kémur frá uppsprettu allrar hátignar og

fegurdar; hún vísar oss á hinn Ósýnilega. Þegar sá guðrækni vyrdir hana fyrir sér afsídis, umgengst hann Gud og dýrkar í hans mikla Musteri, og kémur úr þessu Musteri med helgudum, háum tilfinníngum hjartans, er láta heimsins freistíngar missa krapt til ad locka hann, og lífsins mædu, til ad óspekja ged hans.

2.) Heimurinn er hid annad einverunnar ígrundunar-efni. Oss rídur mjög á ad þeckja hann og hans gædi rétt, og láta eckí þeirra tælandi útlit bleckja oss. Sé madur sjaldt í sambúd vid heiminn, er ecki audgjört ad þeckja hann rétt; hverst madur vid og vid frá honum, tekst þad betur, þad er ad skilja: sé þad gjört í þeim tilgángi, ad vega á rétta vog þá sælu, sem hann hefir ad bjóda, því þá er líklegt ad menn læri ad gángast ecki fyrir lít, sem haldid er fáríslegt.

Skodum heiminn vandlega í einrúmi — kannské vér þeckjum þar villu vorra ýngri ára, og sjáum, ad heldur enn ecki höfum vér ad undanförnu látid fegurd hans bleckja oss; betra er ad þeckja villu sína einhverntíma, heldur enn ad gánga alla æfi í villunni. Medan adrir í einrúmi hugsa mest um þad, ad leita lags til ad ná sem mestu af veraldlegum gædum, skulum vér vyrda nákvæmlega fyrir oss, hvers þau veraldlegu hopp muni vera í raun réttri verd; vér getum þá látid hugann hvarfla bædi til þeirra, sem þessi hafa hlotnast, en urdu ecki ad sælli fyrir þad, og til hinna, sem sinjad var um

þau, og vóru þá ydugloga med glødu bragdi og róleau gédi; en einkum skulum ver hugleida vora umlidnu æfi og spyrja oss sjálfa: hvert heldur vér vórum sælastir, þegar vér lifdum gudlega og spakferduglega, ellegar þá vér, vegna laungunar eptir heimsins gædum, gleymdum Gudi, eda syndum náúnganum ójefnud? spyrjum oss: hvert hondin hafi ecki opt hast litid, þegar hugurinn vænti mikils? og yfir hofud: hvert heppni vor hafi nockurn-tíma fullnægt vorum óskum? ransokum og, hvert ecki muni verda samfara hverri syndsamlegri athofn og skemtun, lángvinn óróſemi hugarins þar, sem samvitskan vakir? Sé spurningum þessum rétt svarad, gjori eg rád fyrir, ad betri þecking fáist á heiminum og hans gædum, heldur enn sú sær hrójad ser af, sem aldrei grenslast eptir þvílíku, og sannfæring um: ad annarsstadar sé ad leita farsældar, enn í eign eda nautn heimsins muna.

Þegar vér hofum látid hugann hvarfla til þess, sem lidid er af vorri æfi, þá snúum honum til þess ókomna og athugum hvernig heimurinn muni synast oss, þegar vid hann egum ad skilja. Hugleidum hvernmn sá þegómi muni verda átlits, sem nú skin svo fagurt fyrir vorum augum, þegar vid hann á ad skiljast mun ecki ljóminn fara af honum, þegar oss tekur ad sortna fyrir augum? hver breytni mun þá þykja mikils og hver litils verd? þegar komid er ad hinum myrkva dal og daudans skugga, mun veroldin og hennar þyrd verda

sálitlegri heldur enn þá Freistarinn sendi manninum hana frá ofurhárri fjalli og gjordi hana fala fyrir synd. Hugleidum þetta í tíma og í einrúmi, og vér munum verda hyggnir, meta heiminn og heimsins gædi rétt, og þau munu þá ecki freista vor til syndar.

Þegar vér þannig í einrúmi höfum lært ad meta rétt heimsins dýrd, þá lærum og med ígrundun ad vyrda fyrir oss heiminn, sem part af Guds mikla ríki; hugleidum vandlega, ad heimurinn er og verdur undir umsjá og umrádum Skaparans; meiri hluti manna gleymir þessu, og sjer því ecki nema veraldlega hlutanna; aud, sæfist, stundum ofsakalaust, stundum hjá ómaklegum; eydast aptur eins óskiljanlega; dygdina nakta; velgengni keypta fyrir synd eda útvegada med kjænsku. Þanninn koma hlutirnir stundum fyrir sjonir þeim, sem lauslega líta til; en sá, sem betur adgætir og þad í einrúmi, svo sem í Guds nærveru, sjer meira enn útbord hlutanna; hann verdur þess var, ad madurinn ad sönnu velur sinn veg, en ad Drottinn er sá, sem rædur hans sporum; svo þó madurinn gángi eptir eigin vild, eru á honum eirhver leyniles bönd innra, svo hlutirnir fá þau afdrif, sem hinn Almáttugi vill. Lestir hins vonda straffa hann; reynsla hins rádvanda verdur hans umbun; þegar hann hefir rekid frá sér Freistarann og forsmád hans tælandi bod, koma Englar og þjóna honum; allt mannlegt er svipúlt; eilífdin uppsvelgir

manna gledi og sorg, hatur og elsku, og seinast þeirra endurminningu; ekkert verdur eptir af þeirra nærverahndi tilveru, nema þad eina, ad réttlátum skal vel vegna eilíflega; þeim illa, sem illa breyta. Hin sanna virska er því, ad óttast Gud og halda hans bodord; þad ber ollum ad gjora; því hvad stodar þad manninn, þótt hann vinni allann heiminn, ef hann lídur tjón á sálu sinni?

3) Vort þridja umhugsunar efni í einrúmi er vor egin breytni, hid sanna ásigkomulag vorra hjartna. Ad þeckja sjálfann sig vel, hefir ætíd verid haldid eins torveldt og gagnlegt. Madurinn er treaur til ad leita sinna egin bresta, og þó hann leiti blindast hann einatt svo af sjálfselskunni, ad hann sjer þá ecki. Vidskipti manna innbyrdis auka ordugleika sjálfsþeckingarinnar. Nóg er af smjadri og falsi í heiminum, þegar nockrir leagja þad fyrir sig ad pretta, þá er ecki kyn þótt adrir verdi prettadir. Hrós er eins illa áreidanlegt medvitni og last sullgyldt mótvitni. Margir látast vyrda þann, sem þeir ecki vyrda, og hrósa stundum til ad ávinna sér hrós, því færstir eru þad, sem þeir sýnast. Í einrúmi hverfa missýningarnar; þar lærir sá kristni ad hafa um sjálfann sig hóflega þánka eins og hann á ad hafa, eptir rádleggingu kristinndómsins.

Mannsins breytni verdur dæmd af honum sjálfum, af ødrum mønnum og af Gudi.

Guds dómur er sá réttasti; mannanna ecki ætíd mikilsverdur, en þar á ridur, ad vor dómur um egin breytni komi sem nærst Guds dómi; einvera er því nærsta ómissanleg til rannsóknar þeirrar, sem verdur ad gánga á undan dóminum, hún er þad, sem vísar oss á vora huidu bresti.

Prófum oss því siálfa í einrúmi; spyrjum oss ad, hvert manna dómar um vora breytni séu sannir, eda hvert vér óskum, ad breytni vor væri alkunnug; vor áform, vorar óskir, vorar hugsanir, allt þetta opinbert? hvert eckert af æfi vorri sé svó ásigkomid, ad vér ógjarnan vildum ad ódrir vissu þad? hvernig Gud muni um þad dæma? Ecki er þad til ad stæra sig af, ad hafa sneydt hjá glæpum; ecki mikilsverdt ad finna í fari sínu einstök gódverk, nema hvertveggja sé ávöxtur þess ásetníngs, ad vardveita óflekkada samvitsku. En finnum vér ecki hjá oss neckra drotnandi illa girnd? vaknar ecki í oss ofund eda illska, þegar vér jöfnum vorum kjörum saman vid annara, og ætlum oss setta hjá? hofum vér látid oss vera eins annt um ad leidrétta vor hjörtu, eins og ad stunda þad, ad breytni vor væri óadfinnanleg? hefir Krists andi búid í oss; sannleikans, gudrækninnar og kjærleikans andi? og þar vér lifum í von um annad lif, hefir sú von sigrad í oss óhóflega elsku til þessa lífs?

Þesshattar ransókn getur útvegad oss naudsynlega þeckíngu á sjálfum oss, máské ecki svo inndæla vorum metnadi, en þess hollari fyrir vora velferd. Ransókn lík þessari skédur best í einrúmi og þar hardtnær einúngis.

Gud, heimurinn og vort egid hjarta, þetta þrennt sé umhugsunar efni vorra einveru-tíma, og þó vér játum skyldu-verk vor í samblendni vid menn ætíd hafa fyrir-rúmid, þá gleymum ecki vid og vid ad gánga afsídis frá heimsins glaumi, umgángast Gud og vort egid hjarta. Þad er hollt bædi fyrir vora jardnesku og himnesku köllun; gjörir líf vort hér bædi skynsamlegra og ánægjumeira, heldur enn annars gæti ordid, annadhvert í sífelldum umsvifum eda sífelldum unadsemdum. En þad er mest verdt, ad **ígrundan í einveru** fordar oss syndum, og kénnir oss ad standast freistíngar, en nema þær dygdir, hverra uppskéra bidur vor annars heims. Amen!



# Á 2añ Sunnudag í Föstu.

## Bænin.

Sitt verkid hefir þú, Drottinn! hverjum af oss ætlad; hverr á ad þjóna ödrum med þeirri gjöf, sem hann hefir ödlast. Einum vyrdist þó ætlad meira enn ödrum; samt er svo af þjer umbúid, ad þínum vilja skyldi verda gegnt, eins af þeim, sem þýngra kall er ætlad og hinum, sem ljettari byrdi bera, því þinn kraptur verkar í rauninni allt í öllum; án þín megnum vjer eckert. Styrk hvern einn af oss til ad standa trúlega í sinni stjett! hún veri torveld eda audveld, og lát hvern, sem þad gjörir, uppskjera gledilegann ávöxt sinna verka og ecki þreytast þegar þinn vilji er ad láta ávöxtinn ecki koma svo fljótt í ljós, sem brádlæti manna kynni æskja, heldur kjenn einum og serhverjum ad eignast sálu sina í þolinmædi og erfida í voninni! Amen!

## Gudspjallid.

(Matth. XV, 21—28.)

Jesús geck burt frá Genezareth og fór í landsbygdir Tyri og Sidó-

nis. En svo bar vid ad kanversk kona gèck út af þeim sömu takmörkum, kalladi eptir honum og sagdi: Herra! Sonur Davids, miskuna þú mér! dottir mín qvelst illa af Djøflinum. Jesús svaradi henni engu ordi. Lærisveinarnir bádu hann og søgdu: láttu hana fara, fyrst hún kallar eptir oss. Jesús svaradi: eg er ecki sendur nema til fortapadra sauda af húsi Israels. En konan kom, tilbad hañ og sagdi: Herra! hjálpa þú mér! Jesús svaradi: þad er ecki gott ad taka braudid barnanna og kasta því fyrir hundana. Konan sagdi: satt er, þad, Herra! en þó eta hundarnir af molum þeim, sem detta af bordi drottna þeirra. Þá svaradi Jesús: o kona! mikil er þín trú! verdi þér svo sem þú vilt. A þeirri somu stundu vard dottir hennar heilbrygd.

## Inngángurinn.

Vorn Frelsara furdadi á Trú þeirrar módur, sem til hans kom þess erindis, ad leita líknar dottur sinni. Trú gétur á þessum stad þýdt innilegt traust á Jesú, þad er: stadfasta von um, ad hann bædi gæti og vildi bæta úr hennar bøli, og líka þó einlægni og fylgi, med

hverju hún leitadi afqvæmi sinu líknar, þared hún lét hverki Jesú afsvar, undanfærslu né sneidyrdi aptra sér frá ad knýa þess betur á. En — eins og vorn Frelsara furdadi á trú þessarar heidnu módur, eins gëfst oss tídum orsök til ad dást ad hverri gódri módur og hennar einlægni og alúd, med mestu sjálfs-afneitun ad annast afqvæmi sitt, sjá fyrir øllum þess þørfum og þess tímanlegu og eilífu velferd.

Ef vér vyrdum fyrir oss alla þá mædu, andstreymi og raun, sem hver ein gód módir hefir ad bera vegna síns afqvæmis, frá því fyrsta augnabliki þad tekur til ad myndast undir hennar hjarta, þángad til daudinn burtflytur hana edur þad, og vér sjáum hana ávalt audsýna somu þolinmædi, og med somu náqvæmustu elsku annast sitt afqvæmi, er ecki án orsaka ad oss miklast hennar Trú. Vér skulum á stundarkorni þessu vyrda fyrir oss: hina gódu Módur, og þar af taka tilefni ad prísa Guds dásemdir í þessari grein hans rádstafana; því ef vér sjáum Guds krapt nockursstadar máttugann í breiskleikanum, þá er hann þad hér.

---

Hver ein módir finnur á sér strax, sem hún er ordin med barni, ad þad rætist, sem Drottinn fordum taladi til vorrar fyrstu módur Evu: fjølga mun eg eymdir þínar, þegar þú verdur ólétt. Þó módirin ádur sé heilsugód, verd-

ur hún þá þegar heldur óhraust, eda midt á mill, þess ad vera heilbrygd og veik. Ohraustleiki hennar og þyngsli vara vid allann medgönguu tímann í heila 9 mánudi, og þess á milli, ad annara áliti, leidindasull tími, endar loksins med fæðingarinnar þrautingum. Þetta lídur nú góda móðir þolinmóðlega; hún hugsar lítid til þess sem hún hefir ad bera; öll hennar umhugsan midar til þess, ad fóstrid henar sé ad bergnara. Leidindi og oged, sem stridir á alla óhrausta, en ecki síst þá, sem med þessum hætti eru veikir, varast hún eins og verdur, en temur sér blidu og gladlyndi, þvi hún veit ad þetta er fóstrinu eins hollt og hitt er þvi skadlegt, en allt, sem hún veit þvi muni skadlegt, fordast hún, sem heitann eld. Rólega og med gudrækni bidur hún sinnar lausnar, og þó hún hafi hrygd, þegar hennar stund er komin, gleymir hún þvi skjótt og sinni launaun mædu, þegar madur er af henni í heiminn borinn. En — nú heist hennar mæda fyrir alvöru; nú sjást daglega margir vottar hennar módurdygdar. Það nysædda afqvæmi er — eins og allir vita — hin veikelaste skepna í Náttúrunnar ríki; enga bjorg gétur það veitt sér; það gétur lítid annad enn hljódad og grátid. Margföld ulmhyggju, ódnelegar vökur, nægiæmist uppápostum kostar það módurina, sem optast hefir þo fleira ad sinna, ad koma sínu afqvæmi á fótinn, og þo það sé gjört. er ecki mikid komid af því, sem hún þess vegna verdur á sig ad leggja. Hverr veit

allt þad, hverr gétur talid þad allt, sem góð móðir verdur ad muna og gjøra, fyrri enn um hana verdi sagt: ad sómasamlega hafi hún uppklakid afqvæmi sinu? Já, þó þad se ecki nema eitt, heimtar þad alla móðurinnar umhyggju og hvad þá, ef mørg eru?

Hefi þvi nockurr mattur þúnga skyldu á honum, er þad vissi sú móðir, sem verdur ad annast mørg afqvæmi, og vill reynast þeim øllum góð móðir; hún verdur ecki einúngis ad annast þeirra líkhamlegu þarfir og í þvi, sem ødru, vera fødursins trú medhjálp, heldur og þær andlegu. Hún vakir ecki einúngis yfir barnsins dapra lífs-ljósi fyrstu stundir ad finnar, gætir þess medan þad er óviti og hálfviti, ad ecki fari sér ad voda, og til þessa útheimtist mikil umhyggja og árvekni; heldur ser svo best, ad hún hefi líka auga á sidferdi barnsins ad þad ecki venjist á þad athæfi, sem hindrar þess sonnu velferd. Þess géd verdur hún ad laga, temja þess tilhnegingar, og géfa þvi fyrstu mentun til Guds ríkis; hún má ecki þreytast þó tregt gángi, þó ávøxtir hennar vidburda sýnist litlir; bernsku sins afqvæmis misvirdir hún ecki; bresti þess umber hún med nærgætnu umburdarlyndi. En svo innilega, sem hún elskar þad, lætur hún þó ecki vanta hentugar ávítur eda hirtíngu, þegar hún ætlar þetta naudsynlegt þvi til leidrettíngar.

Gángi eitthvad ad barninu, er þad móðurinni þyngra enn á henni sjálfri liggi, en þessi

þúngi sviptir hana þó ecki ráddeild til ad leita afqvæmi sinu allrar þeirrar líknar, sem fengist getur. Hún brúkar fyrst egin ígrundun til ad finna rád, og þegar hún nægir ecki, leitar þeirra, sem hún hugsar betur geti, og leitar med allri þeirri alvöru og fylgi, sem módur-elskan þrýstir til; hennar trú er mikil; henni er alvara; med því ad úrausa sínum heitu hjartans tilfinníngum, veitir henni hægt ad hræra serhvert manns hjarta. Dæmi þess sjáum vér á þeirri módur, sem Gudspjallid segir frá. Vegna sins afqvæmis hljóp hún eptir framandi manni, eptir Gydíngi, sem hún vænti ad mundi geta líknad henni; heidin var hún og vissi ad Gydíngar hofdu vidbjód á heidnu fólki; þetta setti hún ecki fyrir sig; hún let ecki heldur afsvor þau og ámæli fyrir heidni, er hún feck ad heyra af þeim Miskunsama, á sig fá, heldur bad þess innilegar og veitti eptirfør þeim, sem hún bjóst vid, ad ecki mundi geta látid sig fara sinjandi. Jesú Lærisveinar komust vid eda sigrudust af hennar einlægni, og Drottni þókti nóg adgjort og fullsýnt hvad módur-elskan orkar. Mørg dæmi eru til, sem sanna nogsamlega, ad sú góda módir telur ecki eptir sér neitt þad, sem hennar afqvæmi getur ordid til bjargar, þegar því áliggur og henni er mogulegt ad gjøra med óflecksadri samvitsku, hversu mikid, sem kosta kynni.

Barnid vex upp; er ecki, eins og ádur, í ollu komid uppá Foreldra sinna umonnun. Módyrinnar nágvæmni umbreytist nú í inni-

leguſtu hluttekningu í ollum þeſs kjørum, hvert, sem eru blíd eda ſtríd. Hún fagnar þeſs fögnudi og grætur þeſs tárum. Þeſsi hluttekning byrjadi snemma; hún varir eins lengi og lifid. Gledibros barnſins gladdi módurina, þegar þad ómálga lá í hennar kjøltu; þeſs grátur snart sárt hennar vidqvæma hjarta. Framfør þeſs á æſku-árunum var hennar fögnudur; hvad sem ad því gék var hennar sorg. Med þeſſu sama ſinni verdur módurin þó barnid er ordid fulltída. Ad frétta því vegni vel, ad þad hafi gott ord á sér, er henni innilegaſta gledi. Vegni því midur enn hún vildi, verdur hún fyrſt til ad lidſinna því med allri þeirri adſtod, sem í hennar valdi er, og hverr getur sagt hvad sárt hana tekur ad vita þeſs mein, en géta ecki ad gjort, eda frétta, ad þad sóttrodi þær lífs-reglur, sem hún innprentadi því, flecki sitt líf med syndsamlegu athæfi, og baki sér þannig Guddómsins misþóknun. Já, þetta er hid beitta sverd, sem sálgad hefir morgu módur-hjarta, og þó lætur hún ecki af ad elſka sitt afqvæmi; hún er góð módir, ecki einúngis ſinna gódu, heldur og hinna midur ortudu afqvæma; leins vill hún hverju þeirra vel; þad góda afqvæmi gledur hana med hreytni ſinni; hitt, sem villſt hefir afvega, ollir henni enn meiri áhyggju, bædi vegna þeſs tímanlegu, og enn heldur þeſs eilífu velferdar; fyrir þeim ollum bidur hún jafn einlæglega til Guds, og fyrir þeim, hvad helzt, sem meſta hafa þorf hans miſkunar og leidrettingar

til sáluhjálpar, þar, sem hennar kraptar þrjóta. Þar leitar hún Guds, sem einn er máttugur ad frelsa frá daudanum.

Hver manneskja er heidursverdari enn sú góda módir? hennar kallan er heidurleg, og hennar breytni elskuverd. Heidurleg er hennar kallan; hún er verkfæri í Guds hendi til vidurhalds þeirri kynslód, sem vér þeckjum ypparlegasta í Guds ríki á jordunni; af henni fædist sú skepna, sem ein hefir skynbragd til ad þeckja Skaparans dásemdir, og skynsemi til ad þeckja Skaparann af hans verkum; þeckja rétt frá raungu; þeckja sína köllun og ávordun til eilífs lífs, eilífrar sælu í Guds dýrdar ríki. Elskuverd er líka breytni þeirrar gódu módur, sem dyggilega gégnir þeim þúngu skyldum hennar stands; sem med óvidjafnanlegri nákvæmni annast sitt hjálpar-þurfanda afqvæmi; skirir þess dapra lífs ljós, sem af hennar lífi er qviknad, og varnar ad enginn kaldur gustur komist ad því, til ad slöckva þad; hún, sem fordar því ollum meinsemdum lífs og sálar; sem mentar þad, sem leidir þad med aga og umvöndun til Drottins, ad þad verdi, ecki ad eins tímanlega, heldur eilíflega farsælt; hún, sem gjörir allt þetta med þeirri einlægni, sem engum, nema þeirri gódu módur var géfin; med þeirri blídu, sem einkanlega féll í konunnar hlut, og hún gjörir allt þetta, ecki í von umbunar af barnsins hendi, heldur af því hjarta hennar þrýstir henni til þess; hún gjörir ecki mun á

asqvæmum sínum, þótt eitt sé henni eptirlátara enn annad. Hvar finnst þá elska jafn móduréelskunni, nema hjá Gudi, Höfundi allrar elsku, sem aldrei þreytist ad gjöra gott sínum skèpnum, sem med óþreytanlegri þolinmædi umber barna sinna breiskleika, ræktarleysi, mótþróa; sem lætur sína sólu upprenna yfir vonda og góda, og rigna yfir rangláta og réttláta.

Sú góda módir er mikil hetja. Sú, sem Gudspjallid umgetur, þreytti vid Drottinn og sigradi med bæninni, svo hann hlaut ad miskunna henni og hennar dóttur. Efi hverrar gódrar módur er sisellt strid. Þær hetjur, sem í hernadi ávinna sèr ódaudlegt nafn, berjast þó sjaldan heilann dag í senn, og ecki marga daga æfinnar, og fá þó mikla umbun af mönnum, nád sins Kongúngs, þöck sins Fødurlands, heidur þeirra, sem frægd hinna verdur kunn. En — hverr tekur eptir hinni gódu módur, einkum sé hún af lágu standi, sem alla æfi lifir mest innan egin húsveggja? Madur hennar elskar hana, sé hann gudlega sinnadur; ad börnin heidri hana, er líklegt; brestur optar vidid á allri umbun af manna hendi fyrir þad, sem vel er gjört; hjá Gudi, sem öll gódverk umbunar, eru þó launin viss, en þau sjást ecki ad sinni, og verka þess vegna minna á mannesskjuna, heldur enn sú nálæga sýnilega umbun. Velferd asqvæmisins er sú kóróna, sem hin góda módir berst fyrir; nái hún henni, þykist hún hafa fengid ærna umbun fyrir sína mædu, og

reynslu, sjálfsafneitun; bregdist henni þessi laun, vyrdist allt hennar starf forgefins, leitar hún Guds, tekur hann Alvissa til vitnis, ad hún hafi gjört þad, sem í hennar valdi stód, bidur hann Algóda miskunar sér og sinu afqvæmi, og væntir líknar þó lengur sé ad bída, því hún veit, ad undir forsjón hins Algóda og Almáttuga hlýtur hvert gott verk ad bera fyrr edur sídar ávöxt, og sá réttláti Dómari umbuna þegar hans tími er kominn, allt þad, sem gjört er eptir hans bodi, þad því ríkuglegar, sem meiri mædu og sjálfsafneitun kostar. Sá, sem sáir, hann verdur ad sá í voninni.

Von um umbun hjá Gudi hefir hverr sá, sem gott gjörir; hvad kémur þá til, ad hin góda módir, gégnir dyggilegar enn flestir adrir sinni mædusullu módur-skyldu? þad er ecki vonin einsömul, sem géfur henni afád og krapt til þess. Hofsundur alls góds hefir svo tilbúid hennar hjarta, ad hún verdur ad hlýdnast þess roddu; raunar er hvers manns hjarta svo tilbúid, ad þess tilfinningar, á medan þad er óspillt, verda samtaka skyldunnar bodi; med þessu er manninum gjört audveldt ad hlýda Gudi. En eptir því, sem meira reid á skyldu, þeirri, sem tilfinning hjartans ætti ad hvetja til, því sterkari var hjartans tilfinning gjörd af Skaparanum. Af því þad vardadi svo miklu mannkyninu til vidurhalds og velferdar, ad módur-skyldunni væri med alúd gégnt, var módurshjartad svo tilbúid, ad sú þúnga skylda vid af-

qvæmid er því yndi; tilfinning hjartans þrýst-ir til þess, sem skynsemin og Guds ord gjörir ad skyldu. Þessi elsku tilfinning er módur-hjartanu svo eginleg, ad eckert getur hana deyst ne upprætt, nema frekasta spilling eda mesta vesæld, og þó ecki nema hjá nockrum mædrum. Þannig hefir Guds vísdómur hvervetna opin-berad sig, og opinberast daglega í hans verk-um. Þad veika gétur hann gjört oblugt, hans kraptur er allsstadar jafnmáttugur.

Í því vér hösum þá gylldustu orsök til ad dást ad módur elskunni, og þeim kraptaverk-um, sem eptir hana liggja, géfst oss tilefni til ad vegsama vísdómsfulla nærgætni Skáparans, hver med þessu móti gjördi þá þúngu módur-skyldu léttbæra, og sá um ad þeirri skepnu skyldi verda borgid, sem fædist vesælli enn adrar skepn-ur, og lengi frameptir æfinni er uppá foreldri sitt komin En — hví fædist barnid svo vesælt? hví er þad ecki sjálfbjarga strax eptir fæding-una? þad hefdi þó létt til muna módur-skyld-una; þar til svarast: ad þó oss sé ofætlan ad vita Guds rád, þykjumst vér í þessu og svo sjá vott Drottins ótakmörkudu speki. Barnid og Foreldrid sameinast því sterkara elsku bandi, sem barnsins þörf er meiri og lengri, og foreldr-isins umönnun þorfinni sambodin; barnid hlaut ecki einúngis ad verda sjálfbjarga undir Föd-ur og Módur umsjá, og af þeim læra ad leita sér atvinnu, heldur átti þad og ad nema í for-eldra húsum uppfrædingu um lífsins skyldur og

sá þar af foreldranna dæmi fyrstu æfingu i ad gegna þeim. Væri þorf barnsins ecki svo laung, sem hún er, mundi það varla bida hiá foreldrunum þess tíma, ad nema hefdi lífsins fyrstu speki, sem er ad óttast Gud og halda hans bodord; væri hún minni, mundi afgvæmid ecki finna eins mikla skyldu og nú til ad elska sitt foreldri; en fyrir þvi er sied med módurelskunni ad afqvæminu verdi borgid, þó þess þorf sé bædi mikil og laung.

Vér hofum þá um stund vyrdt fyrir oss hina gódu módur, hvar til Gudspiallid gaf oss tilefni. Orsok hofum vér fengid til ad dást ad hennar trú, hennar nágvæmni, hennar þolinmædi, hennar innilegu elsku til síns afqvæmis og óþreytanlegu umonnun fyrir þess velferd; skyldi sundum vér oss ad álita góda módur heidurs og elsku-verda; ad dást ad þvi, hversu hún getur afneitad siálfri sér, vegna síns kollunar, og hversu Guds kraptur sýnir sig i henni máttugann. Medfram gaf þetta umtalsefni oss orsok til ad dást ad Skaparans speki, sem tilbió svo módur hiartad, ad módurskyldunni vard dyggilega gegnt, svo ordug, sem hún sýnist. Tilgángur þessara hugleidínga var sá, ad benda mædrum og eins þeim, sem eru i þeim vændum ad verda mædur, til þess, hvermed réttu megi gód módir heita, og upporfa þær til ad keppast eptir svo heidurlegri nafnbót, þvi ad heita módir, er lítilsverdt hiá hinu ad vera góð módir. Þér siáid, ad ydar-

kallan er mikil og ydar stètt tignarleg firir Gudi, þegar vel er i henni stadid, en fyrst hún er tignarleg, þá er ecki ad furda þótt hún, sie eifid; hún er þó ecki svo erfid, ad ydur sie ómøgulegt ad standa verduglega i henni. Mæda sú, sem henni fylgir, umbunast ydur ríkuglega, þegar Gud blessar ydar vidburdi; hinnest unadsemd fyllir hjarta gódra mædra, þegar þær gegna trúlega módur-skyldunni, og á himnum eru ydar laun mikil.

En — minn tilgángur vár og, ad, allir skyldu af þessum seinu hugleidingum hvetiast til ad veita góðum mædrum þá vyrdíngu, sem þær hafa svo gyldann rètt til, fyrir þá mædur, sem þær bera; fyrir þá vel-jord, sem þær audsýna manniegu félagi, þegar þær uppala þoð góda, dygdada medlimu; en einkum sie þetta sagt Fedrum og bornum. Sú góda módir á ad sonnu heidur ad ollum, hún er i allra augum hin heidurs og ecki verdasta manneskja, en ad engum á hún unnilegri vyrdingu og elsku, heidur en heim, sem svo beinlínis njóta ávaxta heimar e fidu skyldu sem Fadir og afqvæmi hans. Þèr reynid, sælu Fedur! sem fenaid hafid góda módur ydar bornum, þèr reynid þad satt ad vera, sem Salómon sagdi, ad sá, sem eignast konu, hann eignast gódann hlut og medtekur þócknun af Drottni. Sá eignast gódann hlut, sem eignast þá konu, sem reynist góð módir, blíd, skynsom, alúdleg i ad gegna sinum skyldum,

Þér únglíngar, sem eigid gódar mædur! hugsid opt til þess, hversu mikla velgjörd Drottinn hefir ydur veitt, þegar hann gaf ydur gódar mædur; verid þacklátir vid Drottinn fyrir þessa miklu velgjörd; sýkrid mædrum ydar þeirra mædu med fúsri hlýdni og innilegustu elsku; þeirra mæda er nóg þó þid ecki bætid á hana ad sjálfskaparvítum; hugsid til þess, hvad sárt þvi vidqvæma módur-hjarta muni svída, se þess elska endurgoldin med þverúd edaósidum. Látid ydur umhugad, ad gledja ydar mædur med öllu, sem þér getid, en vitid fyrir vísst, ad engin umbun er gódri módur dýrmætari enn framfor ydar i gódu sidferdi, þvi mödirin girnist helzt og öllu framar síns afqvæmis tímanlega og eilífa velferd. Þetta er sú kórónа, sem hún berst fyrir; þetta sú umbun, sem hún af ydur girnist, og girnist hana af þvi hún elskar ydur. Umbunid þá, elskulegu únglíngar! fedrum og mædrum þeirra elsku til ydar med þvi, ad stunda alúdlega allar dygdir, sem er ydar beinsti vegur til tímanlegrar og eilífrar velferdar; gledjid med þvi ydar Foreldra, og þócknist Födur allra, frá hverjum ad kémur allt gott, og svo gott Faderni og Móderni, af hvers miskun vér væntum alls góds og eptir hvers blessun allir mæ. Þócknist honum med þvi ad gledja ydar foreldri, med framförum í vitsku og nád hjá Gudi og mönnum! Amen!



# Á 3ja Sunnudag í Føstu.

## Bænin.

Þú þeckir, Drottinn! vorn breiskleika, því þú ert vor Skapari. Þú veitst hversu veikir vjer erum, þegar syndin freistar vor; frá vorn egin hjarta sprettur þessi freistni — girnd þess lockar og tælir oss — En þú ert sá nærgætni Drottinn, sem ecki tilreiknar þeningann breiskleika. Þader einúngis syndsamlegur ásetníngur og athæfi, sem þú straffar. Sælir erum vjer, ef mótstødu veitum þeim tillockunum til hins vonda, sem ydduglega áreita oss, og sigrum freistíngúna; þú munt nádarsamlega umbuna serhvern þesshattar sigur, serhverja sjálfsafneitun med unadarfullum fridi hjartans, og gledirikri von Serhvert sigur yfir vondri girnd hjartans gjørir oss fullkomnari, þjer þócknanlegri, og því sælli, sem oss betur fer fram í enu góda. Þú, sem ert máttugur í breiskleikanum, ebl þú þann krapt til mótstødu ens illa, sem þú hefir gjædt oss med; bend oss þegar vjer røsum, og vek vora samvitsku, svo ad vjer flýtum oss ad hverfa aptur til þín, ádur enn oflánat komumst útaf leid, en snúum oss af øllu hjarta frá syndarinnar þjónustu, hverrar endurgjald er dandinn. Amen!

## Gudspjallid.

(Lúc. XI, 14—28.)

Jesús rak út Djöful frá þeim, er mállaus var, og þegar Djöfullinn var útfarinn taladi hinn mállausi, en fólkid furdadi þad. Nockrir sögdu: fyrir Belzebúb Djöfla-höfdíngja rekur hañ Djöfla út. Adrir freistudu Jesú, og leitudu eptir teikni af himni. Þegar Jesús sá þeirra hugreñíngar, sagdi hañ vid þá: hvert ríki, sem í sjálfu sér er sundurþyckt, mun eydast, og hvert hús yfir annad hrapa; sé Andskotinn í sjálfum sér sundurþyckur, hvernig fær hans ríki þá stadist, fyrst þér segid mig fyrir Belzebúb útreka Djöflana? en ef eg útrek þá fyrir hann, fyrir hvern útreka þá ydrir synir? þar fyrir skulu þeir og verda ydar dómendur; en ef eg rek út Djöflana med Guds fíngri, þá er Guds ríki sannlega til ydar komid. Þegar hinn sterki hervopnadi vardveitir sitt andyri, þá er allt í kyrrdum sem hann á; en þegar annar yfirsterkari kémur og yfirvinnur, flettir þessi hinn öllum hertygjum, sem hann treysti á, og sundurskiptir svo herfánginu. Hverr, sem ecki

er med mér, hann er á móti mér, og hverr, sem ecki samansafnar med mér, sá sundurdreifir. Þegar óhreinn andi fer út af manninum, ráfar hann um þurra stadi, leitar ad hvíld, en finnur ecki; þá segir hann: eg vil hverfa aptur í hús mitt, hvadan eg fór út; en þegar hann kémur, finnur hann þad sópad og prýdt. Þá fer hann og tekur med sér sjø anda honum verri, og þegar þeir eru innkomnir, byggja þeir þar, og verdur svo þess manns hid sídara verra hinu fyrra. En þegar Jesús hafdi talad þetta, hof kona nockur af fólkinu upp raust sína og sagdi: sæll er sá qvidur, sem þig bar, og þau brjóst, hver þú mylktir! Jesús svaradi: já, ad vísu! en sælir eru þeir, sem heyra Guds ord og vardveita þad!

## Inngángurinn.

Vondska Jesú óvina, þegar þeir eiondu hans gædskurikustu kraptaverk Djofuls kravti og adstod, var komin á hæstu troppu og þad svo mjøg, ad Jesús gjørdi ráð fyrir ad synd þeirra mundi ecki verda fyrirgefin; ecki af því, ad hjá Gudi væri ecki mikil fyrirgefning, held-

ur hins vegna, ad hin þeim, sem svo vóru ordnir vondir, var lítil von um leidrettingu. Þad ástand getur madurinn komist med laungum syndavana af ásetníngi, ad hann á örðugt apturhvarfs, og þó honum komi til hugar ad sjá ad sér, veitur hönd úr, þegar vaninn er ordinn ad annari náttúru; þó hann birji, kémur sá óhreini andi þá minnst varir, med sjö adra sér verri, í það hús, sem opid stendur, og flytur þángad aptur, svo þeiss manns hid síðara verdi verra hinu fyrra.

Af náttúrunni er madurinn hvorki vondur né gódur, en getur ordid annadhvert eda hvorutveggja; og hjá allflestum er bædi gott og illt margvíslega samblandad og samtvinnad. Syndsamlegar tilhneigíngar eru til í voru hjarta, þær eru ekki synd, því Skaparinn hefir svo gjört manninn, og bl..t svo od minda þá skylu, sem atti adf eist .st .f freistíngunni fullkomnast, og med þeim hætti ávinna sér tímanlega og eilífa sælu; en sú syndsamlega tilhneigíng, þó hún sé ekki synd, getur hæglega leidt til syndar, og leidir — því midur — þráfaldlega afveiga.

Þegar þeim girndum er hlýdt, sem strída gegn Guds lögmáli, verdur þar af synd, en syndin hefir margar tröppur ein er hærri annari; en allra synda edli er það, ad steypa manninum í glötun og spilling.

Þá fyrstu tillockun til syndar er hægast ad sigra; torveldt veitir þeim ad leidrettast sem lengi hefir syndinni þjónad, því, þó betrunar

verkid se áformad og byrjad er ætíd hætt vid nýu falli, og þar ad auki þykir ætíd betra heilt enn bætt. Eki einúngis er því hægast, heldur og hollast, ad varast þá syndarinnar ásæku. Eitt af því sem áríðandi er til þess ad madurinn geti varist synd, og einkanlega hennar fyrstu ásókn, og sem naudsynlegt er, er: ad þekkja hennar venjulegu adferd. Postulinn Jakob lýsir því best, hvernig hún ad manni rædist, er hann segir: ad hvorr freistast, þegar hann af sinni egin girnd tilteygdur og lockadur verdur. En því næst mun reynast alvarleg hugvekja ad þeckja hvad af því leidi, ef menn láta girndina teygja sig og locka, sem sami Postuli vottar med þessum ordum: þegar girndin hefir getid, fædir hún synd, en þá syndin er fullkomnud, fædir hún daudann, Jak. 1, 14. 15.

Af þessum ordum getum vér lært ad þeckja syndarinnar uppruna og áleitni, ásamt hennar ávexti, sem er daudinn. Sú þecking er naudsynleg þeim, sem vilja henni verjast og varast þær ófarir, sem eru syndarinnar vissu forunautar. Vid áminnst ord Postulans skulum vér því láta um stund hugann dvelja, og af þeim uppvørfast til ad fordast syndarinnar svikrædi.

---

Postulinn segir: ad hvorr einn freistist, þegar hann verdi teygdur og lockadur af egin

girnd. Ad sonnu eru til útvortis freistingar, eda þó framar freistinga tilefni, en þad mundi engann kapt hafa, ef girnd sú, sem í manninum býr, teygdi hann hverki ne lockadi. Frá hjarta mannsins kémur því freistingin eginlega; þar eru af Skaparanum faldar þær tilhneigingar, sem eptir hans tilætlun vakna og verda framqvæmdarsamar, og þrýsta til áforma og verka. Þessar tilhneigingar eru blindar, þær þeckja ecki mismún gódś og illś; athuga ecki hvad gagnlegt er eda skadlegt; sjá ecki greinarmun ens sanna og ósanna. En þeiś sterkari eru þær og draga manninn nú á þessa, nú á hina sídunna, eptir sem þeim í þann svipinn býdur vid ad horfa.

Þad gétur þeśs vegna ecki hjá því farid, ad madurinn stundum finni hjá sér tilreyningu til einhvers þeis, sem annadhvert í sjálfu sér eda vegna útvortis atvika er syndsamlegt. Þetta vottar ad sonnu breiskleika vors edlis, og ad vér erum undir syndina seldir, en reiknast ecki manninum til syndar; því ad finna í sér tilhneigingar, sem Skaparinn hefir þar látid, er manni ósjálfrádt; tilhneigingarnar hafa sinn vísdómsfulla tilgáng; þó þad af þeim leidi, ad madurinn syndgar, mun þeirra ecki mega án vera; en þad er audvitad, ad manni er ósjálfrádt ad finna þær í sér lifna, eins og honum er ósjálfrádt ad finna til húngurs, þorsta og þreytu; því eckert af þessu er mannsins egid verk, heldur hans, sem er Hofundur vorrar

tilveru. Þetta viljum vèr nockud gjörr athuga. Í hverjum manni er tilhneiging sú, sem þrýstir til ad vidhalda lífinu, og abla þess, sem naudsynlegt er til lífsins viduhalds, já, menn vilja gjarnan lifa rósomu og glödu lífi. Hvad naudsynleg og gód þessi tilhneiging sè, er bersýnilegra enn um þurfi ad tala, og hversu hæglega hún geti leidt og leidi mann afvega, sañar daglega reynsla til hlítar, því opt verdur hún orsök til gripdeilda og pretta í innbyrdis vidskiptum manna, og allra þeirra lasta, sem þar af geta sprottid, í stad þess ad hún eginlega ætti ad koma manni til ad verja líf sitt, fordast hættu, kenna ydjusemi, hóffemi, framsýni og adrar dygdir þessum áþeckar, sem gjöra lífid sælla enn nægtir. Tilhneiging sú, sem ásýsir mannkynid til kynsjölgunar, er eins naudsynleg voru edli, en alkunnugt er, hvernig hún geiur tælt manninn til mestu og óttalegustu illverka; ad hafa þessa tilhneigingu er ecki synd, því þad er manni ósjálfrádt, heldur leidir hún til synda sè henni ecki stjórnad af skynsemi. Þad vòr, til dæmis, ecki synd, ad David Konúngi leist vel á þá fridu Bersebu, því svo er náttúrinn gjördur, ad fridleikur hrærir hans hjarta, en þetta vard tilefnid til hans syndar; þad var freisting til syndar; hefdi hann stadid af sèr þessa freistingu, mundi breytni hans nú geta verid oss eins upphvetjandi eptirdæmi og fall hans er hárolandi vottur manniegs breiskleika. Þad er ad skilja: sèrhvert freistast, þegar

hann verdur tergdur og lockadur af sinni girnd, en hann syndgar ecki fyrir þad þó hann freistist.

Í vorum hjörtum er sædi allra synda og þetta sædi eru vorar tilhneigingar; þær locka oss og tevaja, en gjöra ecki mun á r ttu og raungu, á gódu og illu, á dygd og synd; þegar þær hreifa sér, þá erum vér á regan ötum góds og ills, og getum farid og forum adrahverja leidina því vér erum þá eins nærri bádum. Allt er undir því komid hverja stefnu vér tökum, hvern veginn vér kjósum, hvert vér heldur viljum vardveita góda samvitsku, eda saurga hana med syndsamlegu áformi og athæsi. En nú synir hin syndnga tilhneiging sinar vélar fyrir alvöru, eda madurinn vottar sinn breisklefka, því þegar hér er komid, áformar hann ecki hid illa strax, hann einsetur sér máské heldur ad varast synd, en óskar í sínu hjarta einúngis ad þad, sem samvitskan segir honum ad sé synd, væri sér leyfilegt og syndlaust. Sæll er sá, sem á þessu hættulega augnabliki gáir sín og hrindir frá sér samstundis þeirri syndsamlegu hugsun. Því hverr sá, sem í hjartanu leyfir sér ad óska, ad þad væri leyfilegt, sem samvitskan er búin ad segja honum óleyfilegt, hann er ecki lángt frá falli, já, hann hefir þegar gefid syndinni færi á sér, og á nú verra enn ádur ad komast undan hennar áleitni. Samvitskan bendir honum ad sönnu, og vilji hans hefir enn ótta fyrir eda vidbjód á syndarinnar saurgun, en hons

um þykir þad þó girnilegt, sem ósk hans vakti, og vidurkennir sér um hug ad þad sé leifilegt, og þegar svo er komid, mundi hann þacka hverjum þeim sem gæti sannfært hann um, ad þad, sem hann girnist, en samvitskan segir óleyfilegt, væri syndlaust, eda ad minnsta kosti afsakanlegt; svo þo hann vilji ecki syndga, vill hann fá samvitskuna til ad breyta sínum dómi og segja þad saklaust, sem hann lángar til. Svo girnilegt þykir honum þad, sem girndin vekur, og mun hann nú saklaus og hreinn af synd? Nei, þetta stríd vid samvitskuna, þessi tregda í ad hlýda hennar bodi, vottar ad syndin þykir girnileg, ad hrædsla fyrir henni er horfin, og ad hann ecki vill vegist hennar rjelum. Væri hann rádvandur fyrir Gudi, mundi hann hrædast þá ósk sína, sem rís gegn samvitskunnar vidvörun; hann mundi állta þessa heimuglega samsinningu til syndar, vidurkenna ad hér af væri hætta búin, og flýta sér ad hrynda óskinni frá sér, svo hún ecki rótfestist í sálunni. Géfi madurinn rúm þessari syndsamlegu eptirlöngunun og tíma til ad rótfestast í sálunni, þá er stigid hid fyrsta fótmál til syndar, en þegar hid fyrsta fótmál er gengid, þá er audgengid hid annad og þridja. Postulinn Jakob mundi, ef hann tilvissi, ad vér kæmumst í þessa freistni, kalla til vor og segja: vara þig nú, madur! girnd þín býst til ad geta synd, hún verdur þegar med synd, ef þú ecki hindrar hennar áform; en syndin fædir daudann; reyndu

þvi þó syndsamlegu ósk, sannfærdú sjálfann þig um, hvad rángt og hættulegt þad er. sem þig fýsir til, og hver blucka þér er búin ef þú gætir þín ecki. Ad ala óskina í hjartanu, gjørir hana sterkari enn hún var í upphafi, og af því magnast girndin svo, ad hún leidir eptir sig hrøiunina, en hver ein hrasan getur ordid ad falli, og hvert fall ad tjóni. Því af innilegri ósk til þess, ad hid óleyfilega sé leyfilegt, vaknar smámsaman í sálunni efi um, ad þad sé synd, sem samvitskan þó fordæmir. Þad, sem manninum þykir æskileat, vill hann og ad sé leyfilegt, og fær traudlega komid því fyrir sig, ad þad sé bannad, sem hann finnur innilega laungun eptir; því sterkari laungunin er, þess fyrr ler hann ad efast um réttdæmi samvitskunnar, og leitar nú ecki ad hennar ástædum, heldur verdur sem talsmadur sinnar girndar gégn samvitskunni, og framkemur med öll rok, sem honum til hugar koma, til ad sanna med, ad annadhvert sé þad ecki synd, eda ad minnsta kosti lítil synd og Guds-barna brestur, ad láta eptir þeirri syndsamlegu tilhneigingu, sem nú í honum drottnar. Af því hans laungun er innileg, finnur hann fljótt þær ástædur gyldar, sem hana réttlæta eda afsaka, og því fljótrádari hann er, þess fyrr verdur hann lockadur og teygdur til syndar. Sannleikans leitar hann ecki; samvitskan gæti sagt honum hann, en hennar ástædur yfirvegar hann ecki; hann leitar heldur ad átyllu gegn hennar røksemdum, og

selur svo fyrir siálfum sér hid sanna og rètta, en fegrar med ollu móti þad syndsamlega háttalag, sem honum er ordid svo girnilegt. Þó þad væri synd, sem mig lángar til — svo talar hann vid siálfann sig — er þod þó aldrei annad enn mannlegur breiskleiki; Engill getur madurinn ecki verid, og Gud er miskunsamari enn svo, ad hann göngi í hardasta reikníng vid breiskar skepnur sínar fyrir smávegis yfirsjóuir. Siálfur hefir hann lagt þessa tilhneigingu í mitt hiarta, sem mig nú lángar til ad fullnægja; hvernig getur þad þá verid hans vilji ad eg deydi hana? Eg sie líka marga, sem hafa á sèr þad ord, ad þeir séu hygginir og gódir menn, eg sie þá gánga hina somu leid, sem mig nú fýsir til; þeir vita þó mismun á rèttu og raungu. Mín samvitska er líklega í villu, eg skil ecki rètt hennar bendíngar nè Guds ord, hún er of vidqvæm, þar hún stendur svo fast á móti því, sem mig lángar til, en adrir gódir menn leyfa sèr. Ætti eg í ollum smámunum ad fara þannig ad hennar rádum, mundi eg engrar ánægju mega njóta í lífinu, og þad er þó hættulegt fyrir heilbrygdi mína, sem mèr er bodid ad vardveita, eins og minn dýrasta fésjód í þessu lífi. Velmegun mína er mèr og skyldt ad efla, og hennar vegna mun vera leyfileg harddrægni og nockur kjænska í vidskiptum. Upphefd er og mikilsverd; egi eg ad komast til nockurs frama, má eg ecki vera svo vandur ad, med hversu móti þad fæst, sem svo er gott og gagnlegt;

og ofir höfud gétur margt hvad, sem rángt er í sjálfu sér, ordid naudsyn. veana einhverra s...legra atvika, og þá undir eins leyfilegt og rétt — og, — þó þad væri synd, sem mig nú lángar ad gjora, er þ. d þó fyrirgéfanlegt, ad leyfa sér þad rett einusinni, og sídan aldrei optar.

Þetta, kjæru Tilheyrendur! þetta flýtur af þeirri villu, þá madurinn óskar ad þad sé leyfilegt, sem girnd hans hnegist ad, en samvitskan mótmælir; svo gáfadur er madurinn, þegar girnd hans vakir, og hann leitast vid ad réttlæta eda fegra sína syndsamlega eptirlaungun og veikja samvitskunnar myndugleika; hann skapar sér þaňig efasemdir, blindar vitid, ruglar samvitskuna, tælir sjálfann sig. Þegar svo er komid, er hann ... nær enn ádur, þá hann ad eins óskadi, ad þad væri leyfilegt; hugur hans er nú drúckinn af þeim fögnudi, sem hann býst vid sér veitist af þeirri syndsamle u atheorn; girndin er ordin mögnud, samvitskan kraptminni, og skammt ófarid ad því fótmali, sem gétur steypt manninum í tímanlega og eilífa glötun. Hann gétur snúid aptur, en þad er nú ordid miklu torveldara enn þad var í freistíngarinnar birjun, því hann finnur ecki einúngis syndsamlega girnd í hjartanu, óskar ecki einúngis ad þad væri leyfilegt, sem samvitskan segir syndsamlegt, heldur hefir leingur n lótid hañ finna ástædur fyrir því, ad hann syndgi ecki eda syndgi ecki til muna, þó hann hlýdnist siñi girnd; þad er ad skilja: girndin hefir gétid,

hún geňgu nú þángað með synd og afbrot, og á synum tíma fæder hún synd, en syndin fæder dauðann. O! að þeir væru sem fæstir, sem hér gæti þeckt einn synda sögu! Þegar hér er komið, er ecki eptir nema að einsetja sér að syndga, að leita tækifæris, og þegar það er gjört, er hjartans sakleysi farið, madurinn orðinn sakfallinn við Guð, verkið verður og eptir ásetninginn drýgt, kom eckert, sem hindrar hann; nú hefir þá girndin fædt syndina, sem aptur fæðir af sér dauðann, of einni syndsamlegri athöfn fljóta fleiri sjálfkrafa; þeim verdur minna fyrir að syndga aptur, sem syndgað hefir einusinni. Samviskan verdur óviðqvæmari þá syndgað er í annað sinn, heldur enn hún var í fyrsta sinni; hún er nú ecki lengur svo hátolud hún fer að verda þegiandaleg, vitið blindast edur sjer í tíð annað enn það eina, sem girndin breidir fyrir þess sjón, nefnilega: fögnuð hins syndsamlega fyrirtækis. Það fer svo um síðir, að það kémst uppí vana fyrir mañinum að syndga. Samviskan lætur að sönnu enn þá við og við til sín heyra, en hún talar ecki hátt né svo mjög um, hversu breytni mannsins sé raung og syndsamleg, heldur um þær ófarir, sem syndaranum séu búnar og sem kémur að honum hræðslu; syndarinn fer að hugsa um sitt ástand, grædir dauðanum, óttast eilífdina, og vill nú sjá að sér, bæta ráð sitt, og nockrum leckst, þó svo lengi sé komið, að flýa sig undan syndarinnar yfirdrotnun; en

torveldt veitir þad, og margir gêfast upp í þessu orduga stridi, fresta því og hugsa betur gángi í annad sinn, en gæta þess ecki, ad því lengur, sem apturhvarfinu er frestad, því torveldara gjöriſt þad, og svo reyniſt þessum, sem einusinni ætladi, en hætti aptur apturhvarfsins vidburdum; því þó hann nú birji, heppnaſt ecki hans vidleitni; hann fellur í sömu syndir aptur og aptur; en — hvers er annars von, þegar syndavanans herradæmi bætiſt á mátt þeirrar tilhneigíngar, sem kom manni fyrſt í freiſtni? Fyrſt ecki var gjörd meiri tilraun í upphafi til ad standa á móti freiſtíngunni, eda mátt ventadi til þess, er engin von til ad nú verdi vidrádid, nema med meſtu áreynslu og sjálfsafneitun. En þegar madurinn hefir nockrumsinnum forgêfins einsett sêr ad betraſt, og gêfiſt upp, þreytiſt hann og leggur árar í bát; loksins missir hann og laungun til betrunar, annadhvert af því hann heldur sêr þad ómögulegt, eda til enkis, þar sem syndir sêu ordnar stærri enn svo, ad þær verdi sêr fyrirgêfnar, eins og orræntíngin svo tídum predikar syndarônum, og þess manns hid sídara verdur verra enn hid fyrra. Svo mikil hætta er þeim búin, sem láta girndina teygja sig og locka, og koma sêr til ad óska: ad þad, sem samvitskan segir ólevfilegt væri leyfilegt og syndlauſt, leyfir sêr sídan ad leita ad aſtædum til ad rêttlæta med edur fegra þad syndsamlega verk, sem samvitskan rædur honum frá, en

girndin hvetur hann til, því hér af flýtur opt-ar sá ásetningur ad syndga, en af ásetningin-um verkid, og af einu syndsamlegu verki mørg þesshättar, svo hid syndsamlega athæfi kémst loksins uppí vana, sem giørir apturhvarfid mjøg svo torveidt, og mann-nn því tregari til aptur-hvarfs, jafnvel því tregari til ad girn-st sína betrun, eda hafa þar til nockra vidleitni, sem synda-vaninn er ordinn lengri.

Ó! hversu rádlegt er þá strax í upphafi freistingarinnar ad gjæta sín vid þeim slæga ó-vini vorrar velferdar, syndinni! ad býast til ør-uggrar varnar strax, sem girnd til einhvers, er samvitskuna meidir, tekur til ad hreisa sér! Þá er þad ecki mjøg torveldt, ad standa fast fyrir; þar til hefir Drottinn veitt manninum næga krapta, og krapta þá, sem hann hefir veitt, vill hann nádarsamlega styrkja, þegar madurinn vill þyggja hans styrk. Ad madur-inn verdi snogglega yfirstiginn af hrísleari hreys-un, af því hann í þann svipinn gáir sín ecki, hugsar ecki til samvitsku eda skyldu, er alltídt; ad varast þesshättar að fullu og ollu, er mjøg sá-um og máské engum gefid; en þetta er ollt annad en ad syndga gégn samvitskunni. Af því falli, sem svo er undir komid, gétur hverr einn, sem gódur vill vera, ódar risid, og hrøsunarinnar endurminning þénar honum ad eins til þess meiri varúdar og einlægari árvekni sídan, und-ir eins og ángur fyrir syndina heldur hans sam-vitsku því heldur vakandi. En ad syndga af

ásetníngi og giera þad ad vana sínum, þad er mannsins vissa tjón og þad, sem Postulinn kallar: ad gánga eptir holdinu. Ásetníngs syndir, sem af sér fæda daudann, eru þær, sem girndin gétur, en ecki fæda þær syndir daudann, sem medurinn, sér ósjálfrádt af breiskleika vors edlis, gjörir sig sek í.

.O! ad vér allir vissum vís fria fyrir, ad vér hefdum nockurntíma vísvitandi gefid lausañ tauminn syndsamlegri girnd! o! ad vér hefdum þá gledilegu medvitund, ad alla kraptа hefdum brúkad til ad deyda strax þá illu girnd, þegar vér fundum hana í oss lifna, ádur enn hún gat syndina! o! ad hverr af oss hvërjum einusinni vard þad ad syndga, fengi nú hugaad sig vid þann vitnisburd samvitskunnar, ad hañ þá strax hefdi aptur snúid, og ecki látid hinn óhreina anda, hvern hann einusinni hefdi frá sér rekid, fá aptur rúm í þá búsi med sjö ödrum óhreinum öndum sér verri, sem hann eitt sinn var rekinn úr! O! þad er torveldt, Brædur mínir! ad sjá ad sér eptir þad madur hefir einusinni látid sigrast fyrir freistíngum, og þó aptur sé þá snúid, er mikid af ordid, þegar samvitskan ber med sér ávekann alla æfina, og þad, sem gjört er, gétur ecki ógjört ordid. En þó er því torveldara ad hverfa aptur til Guds, sem lengra er komid afleidis. Fljótar enn varir vex apturhvarfsins órdugleiki, þángad til lítid vantar á, ad þad verdi ómögulegt, því syndin gétur daudann.

Drottinn! þú vilt ad allir verdi hólpnir, leid oss ecki í freistni, heldur frelsa oss frá illu! leid hvern þann, sem villist, aptur á rétta leid; vek hans samvitsku, svo hann sjái hættuna, þó hann hafi ecki viljad heyra hennar vidvaranir vid syndarinnar feikrædi, og gef honum hug til ad berjast, mátt til ad sigra, og alúd til ad færa sér sigurinn í nyt, svo hann ecki aptur falli frá þér, eptir þad hann hefir einusinni hætt ad þjóna syndinni, en lifa réttlætinu. Amen!

## Á Sunnudaginn í Midfostu.

### Bænin.

Daglega bidjum vjer þig um daglegt braud, daglega mettar þú, himneski, alvaldi Fadir! allar þínar lifandi skepnur! og vjer ímindum oss, ad þad se partur þinnar Guddóms sælu, ad þú hefir máttinn og viljann til ad láta þennann gædsku-vott verda kunnann ollum skynjandi verum. Þinn Sonur, þín sónilega mind, líktist þier í þessu, á medan hjer var á jördunni. Kienn oss ollum ad líkjast þier og honum í þessu! gief oss til þess máttinn og viljann, því án þín megnum vjer eckert! Lát oss kannast vid og reyna

sannleika þessara orda þíns Sonar: sælla er ad giefa enn þyggja. Hjálpa oss til ad verda ríkum af gódum verkum! þeim verkum, sem þú vilt nádarsamlega umbuna med eilífri sælu! Amen!

## Gudspiallid.

(Joh. VI, 1—15.)

Jesús fór yfir um sjáfar-hafid Galilæa, sem liggur vid Stadinn Tiberías, og mikill mannfjøldi fylgdi honum eptir, því þeir sáu þau kraptaverk, sem hann gjørdi á þeim, er sjúkir vóru. Jesús géck uppá fjall nockurt og settist þar nidur med sínum Lærisveinum; en þá var Páska-hátíd Gydínga nálæg. Jesús leit upp og sá, ad mikill mannfjøldi kom til hans. Hann sagdi þá vid Philippus Lærisvein sinn: hvar kaupum vér braud svo þessir neyti? — en þetta sagdi hann til ad freista Lærisveinsins, því Jesús vissi sjálfur hvad hann vildi gjøra — Philippus svaradi honum: braud fyrir 200 penínga nægir þeim ecki, svo hverr einn fái nockud lítid. Einn af Lærisveinunum, sem hét Andrés, bródir Símonar

Péturs, sagdi honum: úngmenni er hér, sem hefir 5 byggbraud og 2 fiska; en hvad skal þetta á medal svo margra? Jesús sagdi: látid menning setjast nidur ad borda. Í þeim stad var gras mikid; og þar settust nidur ad borda karlmenn ad tølu nær 5 þúsundir. En Jesús tók braudin, þegar hann hafdi þackir gjørt, og fékk sínum Lærisveinum, en þeir fengu þeim, sem til bords høfdu settst, líka af fiskunum svo mikid, sem hverr vildi hafa. En þegar þeir vóru mettir, sagdi Jesús til Lærisveinanna: safnid saman þeim leifum, sem af gengu, svo ad eckert spillist. Þeir gjørdu svo og fylltu 12 karfir med þessar leifar, af þeim 5 byggbraudum, hverjar vóru auk þess, sem þeir høfdu neytt. En þegar þessir meñ sáu þetta teikn, sem Jesús gjørdi, søgdu þeir: þessi er sannarlega sá Spámadur, sem í heiminn skal koma. En þegar Jesús formerkti, ad þeir mundu koma og handtaka hann til ad gjøra hann ad Kongúngi, veik hann einsamall lengra burt á fjallid.

## Inngángurinn.

Medal þeirra mørgu dásemdarverka, sem Jesús gjordi, medan hann umgeckst hèr á jordu, var og þad eitt, ad hann mettadi húngrada; vèr megum fyrir víst ætla, ad hann hafi optar líknad þeim, sem matþurfandi vòru, helldur enn Gudspjallamennirnir geta þess; ecki hofum vèr þad allt uppskrifad eptir þá, sem Jesús gjordi, ad vitni Jóhannesar. Svo starlega brýndi hann fyrir sínum Lærisveinum, og tilheyrendum þá skyldu, ad metta húngrada, klæda nakta, vitja sjúkra, og þær skyldur adrar, sem hafa þad augnamid, ad burtrýma eda gjora léttbærara, eins og má, eda audid er, jardneskt volædi, ad líklegt sýnist hann med sinni breytni hafi gefid þeim, sem hann umgeckst, lifandi eptirdæmi þess, er hann kenndi og áminnti um, og þad optar enn einu eda tvisvar sinnum, því Kennarans eptirdæmi er undir eins besti leidarvísir og kroptug uppþvatníng til ad gegna kenníngu hans. En, hversu ann vorum Frelsara hafi verid um ad þessum kjærleiks skyldum væri gégnt af sínum játendum, er audrádid af því, sem hann gjörir rád fyrir ad fram muni fara á Dómsdegi, þegar hverr skal úttaka eptir því, sem hann hafdi tilunnid; hann lætur Dómarann leggja á þennann úrskurd: fyrst þèr hafid mettad húngrada, klædt nakta, gefid þyrstum ad drecka, vitjad sjúkra, allt eg þad, sem mèr gjørt, og

þér, sem þetta hafid gjört, gángid inn í minn fögnud.

Ein, svo vìsst sem þad er, ad vor Frelsari bædi lagdi ríkt á vid sína játendur um þær skyldur, sem annadhvert burtrhma eda gjöra léttara jardneskt volædi, og líka gaf sjálfur hid fegursta mannkjærleika eptirdæmi, svo víst er og hid annad, ad hann ecki, þó margur bædi fyrr og sídar hafi þad ætlad, áleit þad hèlagleika eda nockra dygd ad vera þurfandi. Fátækt er ecki dygd; stundum er hún ávoxtur syndsamlegrar breytni; hún frelsar frá sumum syndsamlegum freistingum, en er stundum megn freisting til syndar. Audur er eins hverki synd né dygd, stundum annadhvert dygdar umbun, eda synda endurgjald; hann leidir suma afvega til margvíslegrar óhæfu, en er og verja gegn þeim glæpum, sem fátæktin annars freistar til. Dómur vors Frelsara um audlegd og fátækt er þessi: Sælla er ad gefa enn þyggja; og þessi heilögu ord viljum vèr á stundu þessari láta vera vort umþenkingar- og gudrækuis-efni.

---

A.) Sælla er ad gefa enn þyggja, sagdi vor Endurlausnari. Enginn getur gefid nema eigi, og ecki má heita ad sá þyggi, sem ecki er þurfandi, þó hverr þurfi med annars lidsinnis margvíslega. Þegar vor Frelsari sagdi

Þá skulla ad gefa enn þyggja, er vafalaust meiningin sú, ad sá væri sælli, sem hefdi ráð og hjarta til ad gefa, heldur enn so, sem væri uppá adra kominn og þyrfti gjafa vid. Athugum nú, hvilikur sannleiki þetta er. Sá, sem hefir rád til ad gefa, er sælli enn so, sem er þurfandi.

1.) Ad svo miklu leiti, sem hann getur veitt sér þad, er náttúrunnar þorf útheimtir: fót, fædi og húsa-skjól, og svo litid, sem þeim, er veraldar láni hafa ad fagna, máske þykir koma til þeirrar sælu, ad hafa ecki skort á þessu, er þó þetta allt þad, sem þorfin útheimtir, og hverr sá, sem þad fær af veraldlegum gædum, er nægir til ad bæta þessa þorf, sá hefir fengid þad, sem nægir. Eda mun þeim, sem ecki getur ablad sér þessara naudsynja, þykja litid til þess koma, ad hafa þad til dagléga sem líkhamans þorf útheimtir? Margur hverr ver til þess ollum sínum kroptum, allri sinni umhugsun, ad ná þessu hnossi, daglegu braudi, og kallar sig gódu bættann, ad sá þessa umbun allra sinna verka. En sá, sem á ad géta gefid, hlytur þó ad hafa nockud afgáng daglegs brauds, og er því þeim mun sælli enn sá, sem eckert hefir aflagum, og engann afgáng af lífsins fyrstu naudsynjum, en því meiri afgángurinn er, þess sælli getur hann verid, því hann getur med þessum afgangi ablad sér margra þeirra gæda, sem manninum eru mikilsverd; frjádur frá sífelldu líkhams erfidi getur hann brúkad lífid til margs, sem sá má ecki hugsa til,

hverjum tregt gengur ad abla lífsins forstu nauds synja; honum gefst kostur á, ad útvega sér marga þeckíngu, sem bædi prýdir hvers manns líf og er partur af hans sælu; hann nýtur margra unadsemda, sem oreginn ecki þeckir; Því hafi hann nockud til ad gefa, hefir hann nockud til þessarar brúkunar.

2.) En vyrdum nú fyrir oss kjör þess, er nockud hefir til ad gefa, í samanburdi vid þurfamannsins, ad svo miklu leiti, sem vidvíkur sambúd vid adra í mannlegu félagi.

Frá alda-ödli hefir þad svo tilgengid manna á milli, ad þurfamenn hafa verid lítils metnir; þad á vel vid, séu þeir sjálfir, med syndsamlegri breytni valdir ad sinni vesæld; en því midur hafa og dygd og dugnadur tídum verid ómaklega fyrirlitin, þegar álitlegann búníng vantadi, hvad þá heldur, þegar fátæktin hefir á þau sett sitt audkenni. Ad fátæktin er fyrirlitin, án þess ad er gád hverninn hún sé undirkomin og hverninn í henni lifad, þad er tegund af því rángläti manna, sem hægra er yfir ad qvarta enn leidrétta. Þad mun því lengst af þar vid lenda, ad hverr sá, sem er svo snaudur, ad hann verdur af ödrum ad þyggja, mun mæta heimsins forirlitníngu, nema hann sé ad dugnadi og rádvendni miög framúrskarandi, sem fáum er gefid, og mun þó öllu til skila haldid, ad honum sé ecki sami, ad minnsta kosti, vísad á hinn ædra beck. Sá aumgi þar á mót, þótt hann sé engum serdeilis kostum bú-

inn, á visst ad geta med sóma umgengist menn og umflúid þá fyrirlitninguu, sem aumínginn svo opt verdur ad bera. Mun þetta ecki töluverdur hagur fyrir hinn auduga og þúng raun fyrir hinn snauda? er nú ecki munur á sælu þeirra? Af náttúrunni er madurinn dramblátur; heidur er honum girnilegur, fyrirlitníng þúngbær. Þad er þó ecki lítill annmarki fátæktarinnar, ad hún, sem optarst ollir því, ad sá verdur fyrirlitinn, sem hún hefir lagt lag sitt vid, en audnum má telja þad til gyldis, ad hann útvegar manni sóma, hvert heldur þetta skédur réttvíslega eda ránglega, kémur þeim þad nidur á sama stad, sem fyrir verdur. Sá, sem hefir ród til ad gefa, hann hefir þá fyrst þad, er þörf hans útheimtir, nýtur margrar unadsemdar lífsins, hefir frjálsari hendur enn þeir fátæku til ad brúka tíntann sér til framfara í nyísamlegri þeckíngu og fallegum fródleik, og loksins fær hann tilhlýdilega vyrdíngu af sínum félögum. Volædi hins snauda er aptur á mót í því innifalid, ad hann vantar þad, sem enginn getur án verid, egi hann ad heita óqvalinn; má ecki smacka neina lífsins unadsemd; fer á mis vid maklega vyrdíngu, en fær í þess stad tídum ad kenna á ómaklegri fyrirlitníngu. En hvad er þad ad reikna, ad hafa ród til ad gefa, þó því fylgi þessi hagnadur, sem nú er sagt, hjá hinu, ad brúka efni sín til ad gefa? hvílíkrar unadsemdar getur sá ecki notid, sem med efnum hefir hjarta til ad klæda nakta,

metta húngrada, létta af mannlegu volædi, og hverju mikid hefir sá ecki Gudi ad þacka, sem fengid hefir medalid í hendurnar til ad ná þessari unadsemd, og útvega sér svo fésjód á himnum.

Med viti sínu og dugnadi géta menn mörgu gódu til vegar komid, en í veg fyrir margt illt. Til þess þarf þó meir enn medal-vit, og til tölu-verdra framqvæmda er nú farid ad þurfa meir en vitid eintómt. Ad abla sér vits, er ecki heldur allra, síst þad vit, sem miklu af stad komi. Med audnum er hægast ad gjöra ödrum gott, svo hefir þad lengi verid, og þó er hann ecki nú sídur til þess hentugur, enn hann hefir verid; sælla er þá ad géfa enn þyggja.

Ad þyggja er fyrir marga hin mesta raun, já, svo þúng, ad menn vita dæmi til, ad nockrir hafa heldur útaf dáid í vesæld, enn leita sér, sem þurfamenn, líknar; og þótt allir séu ecki svo vidqvæmir, ad þetta taki sér svo nærri, sjá allir, ad þad hlýtur ad vera þúngt ad eiga undir annara gódvilja, og verda ad sækja í þeirra hendur þad, sem þörfin kallar eptir. Þad er ecki heldur ad vísu ad gánga, ad sá fái ætíd sína þörf bætta, sem áliggur, hjálp, ef hjálp má kalla, er framar þeim til reidu, sem menn vita til ad muni géta umbunad; eda mun nú ecki rétt lýst? stundum vantar máttinn, stundum er viljinn ecki betri; og þó líknad sé, er þess stundum ædi lengi ad bída, stundum verdur hún, sem þurfandi er, nockud ad heyra med líkninni; og — er þá ecki sælla ad géfa enn þyggja? En,

hverjar áminningar fljóta þá fyrir oss af þessum hugleidingum, eda af þessum ordum vors Frelsara: sælla er ad gefa enn þyggja?

B.) An efa má oss þad til hugar koma, ad kristinni trú hafi verid gjort mjog illa til, þegar kennt var, ad hún heimtadi af monnum, ad þeir skyldu lifa í sífelldu volædi, forsmá alla lífsins unadsemd, oll heimsins gædi. Þessi ord vors Frelsara eru audskilin: sælla er ad gefa enn þyggja, og af þeim audrádid, ad hann taldi þad enga sælu ad vera vesæll, ad hafa eckert til ad gefa eda njóta, en sæla vildi hañ gjora mennina. Eda væri ecki von þótt trúin yrdi fyrir lasti, ef þad væri satt uppá hana, ad hún heimtadi af monnum, ad þeir plundu sig sjálfsa naudsynjalaust, lifdu í volædi og sjálfskapadri eymd, eins og ecki væri nóg ósjálfrádt jardneskt volædi ad bera, nema menn leitudu þess og bokudu sér þad ad sjálfskaparvítum. Getur nockur manneskja ordid betri eda Gudi þócknanlegri fyrir þad, ad hún er vesæl og þurfandi? vor Frelsari hefir sagt, ad vesælt væri ad þurfa gjafa, sæll væri sá, sem gæti gefid. Svo lángt er frá því, ad vor trú telji nockrum þad til gyldis, ad hann er þurfamadur. Þad er því ækra vor vafalaus skylda, ad kèrpast eptir þeirri sælu, ad vèr framar gætum verid í þeirra tolu, sem hafa rád til ad gefa, heldur enn hinna, sem verda ad þyggja. Idni, þrifnadur, hófsemi eru hollar dygdir, hverr sem temur sèr þær, sèr sjálfum og því fèlagi, sem

hann lifir í til góds, hann mun, sem optarst hafa ráð til að gefa, og þessi unaðsemð, að vera uppá engann kominn, að vera engum um neitt skyldugur, nema bróðurlegann kjærleika, eptir Postulans boði, það er þess verðt, að nockuð sé fyrir unnið. Þær nefndu dygðir eru í reyndinni inndælar, en þeirra ávoxtur blessaður; því hvilík sæla er það ecki, að vera ecki þurfandi, og þó enn meiri að geta gefið makslegum þurfamonnum, sem uppá einhvern máta hafa ratað í það hörmungar ástand, að verða að þyggja! Hvílík raun er það ecki, til dæmis, að sjá munaðarlaust barn, gjært af náttúrunni velskopuðum líkhama, ljsgudum af Guds innblæstri gáfaðri sálu, að sjá það uppalast í ollu reiðileysi, eða rèttara: uppreflast? að hugsa til þess, að sá blómlegi líkhami afmindast af óþrifum og skorti á þeim aldri, sem var vegurinn til mannsins fulla blóma; að vita til þess, að sálarinnar gáfur, vegna hirduleysis, dofna, þegar þær áttu helzt að dafna; að villinn hnegist til ens verra, að únglíngurinn lærir illt eitt í staðinn Guds orða og góðra siða, sem í æskunni best læraft, og verður svo, í stað þess með aldri að vaxa í náð hjá Gudi og monnum, leiður hverjum manni, en viðbjóður í Guds augum! hversu æskilegt væri þar, sem svona ástendur, að hafa efni og hjarta til að koma í veg fyrir ens saklausa únglíngs ófarir! mundi ecki kjærleiksverk honum audsýnt mega heita, að frelsa sálu frá dauðanum? væri ecki

tilvinnandi, ad hafa opt fundid til þreytu, ad hafa opt sparad vid sjálfann sig, ef fyrir þad fengist sá unadsemd, ad geta nú hjálpad, þegar tækifærid gefst, þeim munadarlausa; og mun ecki endurgjalds von hjá honum, sem sagt hefir: hvad þer gjordud einum af þessum mínum minnstu brædrum, þad gjordud þer mér, ef medvitund góðverksins er ecki nóg umbun? mun ydjuleysis gamanid — ef gaman skal kalla — sællífisins iñdæli, eda falleg búnings ágæti komast í nockurn samjöfnud vid þá unadsemd, sem sá ber úr býtum, er hjálpar einum þessara smælíngja?

Ad sjá gamalmennid máttfarid af ellinnar þúnga; gamalmenni, sem eyddi sínum kroptum, medan tilendiust, öllum, sem hann til nádi, í þarfir, ad sjá hann svo vanta naudsynlega adhjúkrun og atvinnu, þær seinustu stundir lífsins og geta ecki lidsiñt, þad er sorglegt; en ad vilja ecki lidsinna, ókristilegt. Ad sjá Eckju, sem ádur lifdi sælu lífi med maka og börnum, ad sjá hana med þessum saklausu afqvæmum, er ádur vóru hennar unan, sockna nidur í eymd og skort, svo hennar fyrra lífs unan er nú ordin hennar sárasta plága, hverr getur stadist þad, eda sied slíkt tilfinningarlaus? Er sá ecki sæll, sem getur gefid, þegar eitthvad af þessu sjest eda fréttist?

Látum nú vera, ad eitthvad beri til þess, ad margur, sem vildi komast í þad ástand, ad geta gefid, vegna einhverra atvika gæti þad ecki; hér þarf hverki til ad koma leti né óspilun, ad svo fari um hagi manns; en þad er þá

mikilsverdt, ef ecki verdur lengra komist, takist manni ad fá egin Þørf bætta, svo hann Þurfi ecki ad leita til annara; Þá bendíng finnum vér adra í Þessum Jesú ordum: sælla er ad géfa enn Þyggja. Hér ad framan er vikid á hvílík raun sé ad vera Þurfandi; máské sumir af ydur hafi reynt Þad? Þér vitid Þá betur enn adrir, hvad inndæl ad er tilhugsan Þeirra daga, á hverjum Þér ecki vissud hvad nærsta dag mundi fást til ad metta med ydar húngur, og sáud ecki ønnur úrrædi, enn leita Þess til annara; Þad getur best sagt ydur hvad inndælt er ad vera ecki uppá adra kominn. Eg veit margur verdur til ad lidsinna Þurfamønnum, en vel væri ad greind vantadi ecki til ad Þeckja Þá sønnu Þurfamenn frá ydjulausum húsgángi; en Þó svo sé, veit eg margir hafa Þá sømu tilfinníngu, ad naudugir vilja vera Þurfamenn, sé annars kostur, og Þó sú manngædska géfist, sem líknar gjarnan og stundum framyfir efni, svo getur gædskan sjálf ecki ætíd bætt allra Þurfamanna Þørf. O! Þad er miklu betra, ad leita allra leyfilegra bragda til ad fá sér atvinnu heldur enn ad ætla uppá annara gjafir, Því Þó gjafir fáist—og Þá tekst best til Þegar svo fer—er miklu sælla ad géfa, heldur enn Þurfa ad Þyggja. En vegurinn til Þess ad verda ecki uppá adra kominn, er hinn sami, sem til hins, ad géta gefid; ydni, Þrifnadur, sparsemi eru Þær dygdir, sem best verja mann Þeirri Þúngu reynslu, ad verda Þurfandi, nema einhver sérdeilis óhøpp

adstedji, svo sem ad heilsan veikist, slis uppá-falli, bjargrædis stofn bili snögglega. Ad verda skort ad lída af einhverri þessháttar reynslu, er ad sönnu nærsta þúngur kross, ad verda þessvegna ad leita annara, er nóg mæda; þó er þad ærin huggun, ad madur er þá ecki sjálf-ur valdur ad sinn boli, en hitt er óbærilegt, hafi madur sjálfur uppá einhvern hátt og eins og sýnist vísvitandi steypt sér í volædi, annad-hvert med leti, óþrifnadi, óspilun eda ofneptslu. Allt þad bol, sem madur bakar sér sjálfur, hlýtur ad reynast tvöfaldt þýngra enn þad, sem manni er ósjálfradt, þvi ad lída saklaus er tolu-verd hugfró, en ad lída sekur, kallar Postulinn Pétur; ad lída, sem þjófur og mordíngi, og séu jafnvel þeir þurfamenn vesælir, sem ecki eru valdir ad sínu boli, hvad mun þá mega ætla um hina, sem auk volædisins plágast af þeirri medvitund, ad þeir áttaki hvad þeirra giördir vóru verdar. Þeir finna máské ecki til þess, hafa enga tilfinníngu síns bols, sinnar óvyrd-íngar; þeir hafa ecki ransakad sína breytni; þess verr eru þeir farnir, þvi þá er lítil von til, ad þeir nockurntíma endurvitkist, eda læri ad leita sér atvinnu med ærlegu móti. Líklegast fer þad svo fyrir þessum, ad þeir samvitskulaust láta ala sig á brauði sannra þurfamanna, þvi bágt er ad þeckja hina frá þessum á stundum; og enn opt-ar er hætt vid lítid sé um þad gefid, hverjum gefid er, svo hinn sanni þurfamadur verdur ad qveljast, missa naudsynlegrar adstodar og

atvinnu, þegar ollum verdur ecki bjargad. Sá heilsuveiki ydjumadur eydir sínum stkustu kroptum og lídur þó skort, til ad finna sér og sínum braud, af því ad hinn lati nennir ecki ad erfida og lætur forsorga sig. sem þurfamann, en ollum er ecki hægt ad bjarga til hlýtar, þegar fleiri gjorast þurfamenn, heldur enn orsok er til, eptir rádstofun ens mikla Húsfodurs. O! hversu vesælt er þad land, hvar þeir eru fleiri, sem verda ad þyggja, heldur enn hinir, sem ráð hafa til ad gefa! hvad ottalegt er ad hugsa til þess, sem af því leidir, ef allir vilja heldur vera í tolu þeirra, sem þyggja, enn hinna, sem gefið geta? mun þad félag manna, sem er svo komid, geta stadist? Ofbodslegt er þad lækningsmedal, sem Forsjónin brúkar því landi til viðreisnar, hvar margir ætla mest uppá gjafir, en fáir hugsa til þess ad verda færir um ad gefa, þad er: hallærisins eydilegging. Ólucklegt er þad félag manna, hvar fáir finna hvilíkur sómi þad er ad gefa, og hvílík minkun, ad verda ad þyggja ad sjálfskaparvítum. J ollum londum eru nógu margir samt, sem hmislega rata í þá ógæfu ad verda ad þyggja, þótt enginn steypi sér viljandi í þyndanna afgrunn, og þótt eitthvert bygdarlag væri svo heppid, ad hafa fáa eda enga þurfamenn, bjódast morg tækifæri til ad njóta þeirrar unadsemdar, sem þeim er heitid, er gefa. Afgángsleifar þarfarinnar má brúka til nytsamlegra fyrirtækja, sem á sínum tíma bera þann ávoxt, gd-

margur húngradur fær sadníngu eda nakinn klædnad; til þeirra fyrirtækja, sem ebla uppbyfíngu og sidgædi og varanlega farsæld margra, aldra og óborinna.

Vér skulum því, gódir Brædur! láta oss vera annt um med ydni, framsýni og hóssemi ad komast í þeirra tolu, sem heita sælir af því þeir gefa gefid, og takist oss þad, þá brúkum líka þad sælu-medal, sem lánad er, til þess ad abla oss varanlegrar sælu, og lettum af mannlegu volædi, sem best vér höfum vit á. Se oss sinjad um þessa sælu, þá látum oss lynda ad komast hjá þeirri þúngu raun, ad vera odrum til þýngsla, ad minnsta kosti fyrir sjálfskaparvíti. En þóknist forsjón Guds ad reyna oss med þeim krossburdi, þá berum hann, eins og kristnum hæfir, þolinmódlega, og huggum oss vid þad, ad vér lídum saklausir.

En þú, Drottinn! sem rædur öllum gædum og hefir leyst oss ad bidja þig um daglegt braud, blessa þú svo allra erfidi, ad sem flestir verdi þess umkomnir ad gefa, og fáir naudstaddir, svo þessir fáu geti fengid naudsynlegt lidsinni þegar áliggur, ad þeim verdi borgid; en hinir, sem gefid geta, njóti þeirrar sælu, sem gódsemi veitir kjærleiksfullu hjarta. Daglegt braud med því hugarfari, sem lætur ser þad nægja, er mikill ávinníngur. Þar um bidjum vér þig, Drottinn! veit oss þetta mikla

hnoss! allra augu vona til þín, því þú gefur øllum þeirra fædu í hæstilegan tíma. Amen!

# A Maríu Bodunar-dag.

## Bænin.

Í þjer, Drottinn! lifum, erum og hrærumst vjer! Þú lifir og ríkir, en vjer lifum fyrir þitt fulltíngi. Frá þjer kiemur øll góð og fullkomin gjøf. Vegsamad se þitt heilaga nafn, fyrir alla þá mildi, sem þú audsýnir oss, skjepnum þínum! fyrir þau gjædi, sem þú skópst oss í Náttúrúnnar ríki! fyrir þá elsku, sem þú audsýnir oss í Nádarinnar ríki! fyrir sendíngu þins Sonar, og alla þá nád, sem oss þar med er veitt! Kienn oss ad meta rett gædsku þína! Skapa í oss þad hugarfar, sem þeim sæmir, er af þínum Syni eru kalladir til arftøku heilagra í ljósinu! fyll vor hjørtu med kristilegum tilfinníngum, og gjef ad allir, sem kristnir heitum, íklædumst Kristi! hvfum hjørtun ætíd gagntekin af heilagri lotníngu fyrir þinni endalausu hátign, af innilegri þacklátsemi, fyrir þína margføldu nád, og af sonarlegri audsveipni vid þína mildiríku og oss siálfum hollu forsiá! Þetta er þad hugarfar, sem þjer líkar; þad hugarfar, sem eptir þinni nádarríkri tilætlun gjørir oss hólpna. Amen!

## Guðspjallið.

(Lúc. 1, 26—37.)

Á hinum siötta mánuði sendi Guð Engilinn Gabríel, í borg þá í Galilæa, sem nefndist Nazareth, til þeirrar meyar, sem fostnuð var þeim manni, er Jóseph hét, af húsi Davíðs, og heiti meyarinnar var María. Engillinn géck inn til hennar og sagði: heil sértú náðarfulla! Drottinn er með þér! blessuð ertú á meðal qveña! En þegar hún sá Engilinn, varð hún hrædd af hans orðum, og hugleiddi hvílík væri þessi qvedja. Engillinn sagði: óttast þú ecki, María! því þú fannst náð hjá Guði. Sjá! þú munt barn géta í qviði þínum, og son fæða, og hans nafn skaltú nefna Jesús; hañ mun mikill verða, og kallast Sonur ens Hæsta. Drottinn Guð mun og géfa honum sæti Davíðs föðurs hans, og hann mun ríkja yfir Jakobs húsi að eilífu; endir hans ríkis mun heldur enginn verða. María svaraði: hvernig má þetta ské, fyrst eg hefi engann mann kennt? Engillinn svaraði: heilagur Andi mun koma yfir þig, og

kraptur hins Hæsta mun yfirskyggja þig, því hið heilaga, sem af þér mun fædast, skal nefnast Sonur Guds. Og sjá þú! að Elizabeth frændkona þín hefir og son gétið í elli sinni, og þessi er sjötti mánudur hennar, sem kollud var óbyrja; því fyrir Gudi er ekkert ord ómáttugt. Maria sagdi: sjá! eg er Drottins þjónustu qvinna, verdi mér eptir ordi þínu! en Engillinn veik á burt frá henni.

## Inngángurinn.

Maria Jesú Módir ljet strax í ljósi það gudlega sinnislag, sem hún ysirbjó, þegar Engillinn Gabriel færdi henni þann gledi-bodskap, að hún verda ætti Módir hins fyrirheitna Konúngs, vors guddómlega Endurlausnara. Hún ljet þetta sinnislag í ljósi med fáum, en eptirtakanlegum ordum, þessum nefnilega: sjá! eg er Drottins þjónustu-qvinna! verdi mér eptir ordi þínu! Ordin gefa til vitundar djúpa lotníngu fyrir Guddóminum, og þacklætisfulla audsveipni við hans rádstafanir. Það sama sinni, er Maria Jesú Módir ljet hér í ljósi, fylgdi henni alla hennar æfi. Það var ekki einúngis hið gledilega, heldur og hið sorglega, sem hún tók á móti med auð-

mýkt og audsveipni; og — ef vér athugum hennar lífs-sögu, var meiri partur hennar lífs-tilfellа sorglegur. Svo ítarlega rættist spádóms ur Guds mannsins Símonar um sverdid, er hann sagdi mundi særa hennar hjarta; þó var hún —, eins og merkja er af Gudspjalls-sögunni — ætíd hin sama audmýktarfulla Drottins þjónustu-qvinna, þacklát og audsveipin; þvi henni var sýnt um ad geyma Guds ord í sínu hjarta.

Þad gudrækilega sinnislag, sem á Maríu skartadi, er einmidt þad sama, sem af kristnum heimtast, og kristnum vel sæmir. Þar um óska eg ad eptirfylgjandi hugleidíngar sannfæri oss alla, og uppörfudu til ad gjöra oss þad tamt og eginlegt.

---

1.) Sú fyrsta tilfinníng, sem vaknar í mannsins hjarta, þegar hann lætur hugann hvarfla til Gudsdómsins, er djúpasta lotníng fyrir hans hátign; ecki einúngis þegar vér í vorum gudræknis ydkunum nálægjum oss þeim Ósýniliga, finnum vér oss gagntekna af þessari audmýktar tilfinníngu, heldur fylgir hún hverjum og einum gudlega sinnudum alla hans lífs vegu. Hann ber med sér, hvar sem hann fer, hugarfar fullt af lotníngu fyrir Drottins mikla veldi; þad hlýtur og svo ad vera, því hverr sá hlutur, sem fyrir vor augu ber, gefur tilefni til þessarar tilfinníngar; oss er ómögulegt ad skoda

dýrð og veldi hans, er skóp himininn, jörðina og sjóinn og allt, sem í þeim er, án lotníngar. Allt frá því mesta til ens minnsta; stjarnan, sem tindrar á festíngunni, ormurinn, sem stirnir á í jarðarinnar dupti, vitnar um ena fullkomnustu speki og volduguſtu almættis hönd. Vér þeckjum hverki hlutanna orsakir né getum rakið þeirra afleidíngar; þannig er oss ofvaxið að vita hvernig vér erum til ordnir, eda hvert vér flytjumst þegar hédan skal halda, en medan dveljum hér, sjáum vér oss umkríngda af vors Guds dásemdum. Smámunir eru oll þau verk, sem liggja eptir mannlega orku; oll sú prýdi, er mannleg ment fær til vegar komid, í samanburdi vid þá dýrd náttúrunnar, sem blasir hvervetna á móti. Sú ómælanlega himinsins hvelfíng; sólarinnar mikli ljómi; hafsins geysilega vídátta; hvert fyrir sig yfirgengur lángt alla vidburdi mannlegrar orku og vitsmuna. Já, ecki einúngis í þessu stóra, heldur og í hinu smáa, verdum vér þreifanlega varir vid Guddómsins máttugu hönd. Þó ecki sé allt hid skapada til þess gjört, ad veita sálunni unadsemd þegar madurinn skodar þad, gefst henni samt allstadar tilefni til lotníngar fyrir Drottins skapanda almætti. Hvert, sem vér rennum auganu, sjáum vér nóg til þess, ad med oss vakni djúpasta lotníng fyrir Skaparanum.

Þad eykur jafnvel lotnínguna fyrir Skaparanum, ad hann, svo berſýnileg, sem hans

verk eru, felur sig þó vorri sjón, er sjálfur ósjónilegur, þótt vér vitum að hann ecki er lángt í burtu frá einum og sérhverjum af oss. Hañ felur sig í sinni tjaldbúð og svarar frá sínum helgidómi, segir Ritníngin. Frammi fyrir þessari miklu og voldugu ósjónilegu Veru verdum vér í egin tilfinníngu ad engu, finnum til þess, ad vér, eins og Spámaðurinn ad ordi kémst, erum eins og dupt það, sem eptir verdur í metaskálinni eda dropinn í vatnsfötunni. Vér sañfærumst um, ad í Drottins augsýn hæfir oss ad gledjast med hrædslu, því vér vitum, ad hans voldugi armleggur getur á hverju augnabliki, sem móti honum rísum, gjört oss ad dupti. Óttalegar eru margar þær framqvæmdir guðlegs almættis, sem oss koma fyrir sjónir bædi í náttúrunnar og nádarinnar ríki. Vér þreifum á því, ad bædi kjör einstakra manna og heillra þjóða, eru jafn-fullkomlega í hans hendi. Náttúrunnar biltíngum, sem opt eru óttalegar í sínum verkunum, rædur sá Alvaldi. Tídum má sjá í heiminum, hversu Drottinn, eins og Maria saung, hrindir dramblátum af stóli, en upphefur lítiláta. Í Mósis og Spámannanna bókum heyrum vér óttalegar hótanir Drottins, stíladar til þverbrotinna yfirtrodslumanna; en í bókum ens Nýa Testamentis er sýnt, hvad ríkt Guds réttlæti gángi eptir, ad hans heilaga vilja sé fullnægt, þegar forlíkan syndanna verdur ad ské fyrir Sonarins milligaungu. Náttúrunnar og Forsjónar-

innar verk, logmálid og Evangelium sameinast þannig til ad minna oss á þau hátidlegu Ritningarinnar ord, sem oss aldrei ættu ad gleymast og þanninn hljóda: þegi þú, madur! og vit, ad eg em Gud. eg vil á jørdunni frægd vinna Ortist Drottinn allar þjódir og gefid dyrdina honum, sem gjørir mikla og óransakanlega hluti og dásemdir, sem ecki kunna ad teljast.

O! ad þessi innilega lotning fyrir hinni ædstu ósynilegu Veru, væri djúpt innrætt allra manna sálum! hún mundi opt leggja hapt á vora spillingu, stansa gjálfid, gjöra gudsdyrkunina einlæga, kénna oss innilega vyrdingu fyrir Guds húsi og helgum tídum; reka í útlegd alla vanhelgun Guds nafns, sem blygdunarleysid svo tídum leyfir sér. Gésum gaum þvi, ad Ritníngin kallar ecki tilgångslaust alla gudrækni og trú, Guds ótta, og þad á morgum stodum, heldur af þvi, ad sú eiginlega og fyrsta tilfinníng hjartans vid Guddómsins íhugun, er óttafull lotníng, ad vísu enginn þrælsótti, heldur sú hræðslu blandada vyrding, sem barnid finnur til í nálægd síns góda Fodurs, og undirgefni framm fyrir sínum Herra; þad er sú vyrdíng, sem samfara verdur elskunni og er hennar verulegur partur; sá ótti fyrir Gudi og hans nád, sem Spámadurinn Hósea's umtalar. Þessi ótti er ecki gagnstædilegur elskunni til Guds, heldur hennar adalpartur; ad elska Gud

og finna ecki til lotníngar fyrir hans hátign, er ómøgulegt.

2.) Tilhugsan Guðs vekur og í mannsins hjarta, eptir sinu eðli, elskunni náskylda tilfinn-íngu, sem heitir þacklátsemi. Sú lotning fyrir Guðdóminum, sem vèr hofum minnst á, er ecki þacklátseminni gagnstæðileg, heldur er það hennar eðli, að hún eykur lotnínguna; því þess fullkomnari og æðri Velgjorarinn er, þess innilegri þacklátsemi finnur mannsins hjarta sèr skyldt að auðsýna honum fyrir þegnar velgjorðir. Til Guðs gétur maðurinn ecki hugsað, án þess að minnast hans velgjorða. Ótal merki gæðsku og góðgirni hins hæsta Góða, sjáum vèr umkring oss í heiminum; hversu víðtómslega er ecki fyrir því sieð, að óteljandi fjøldi af margskonar lifandi skèpnum, finna ecki að eins atvinnu sína, heldur einnig fognuð. Af skynsamra manna eptirgrenslun gétum vèr því framar saunfærst um, að í hinni miklu víðáttu skøpunar-verksins sè engin tilgángslaus viðhofn, heldur hverr hlutur gjørður þeim skèpnum til nota, sem veitt var vit eða tilfinnina, eða hvertveggja. Margir þeir hlutir, sem forðum vóru haldnir, ef ecki skaðlegir, þá samt gagnslausir, kannast menn nú við, að sèu nærsta þarflegir, hverr í sinni røð. Svo gæðskurík ráðstafan er gjørð fyrir vorri atvinnu á jorðunni, svo nákvæmlega alið ønn fyrir vorum ûnaðsemdum, að hverr sá, sem með athygli vyrðir fyrir sèr Náttúrunnar auð og fegurð, hlýtur að finna

med sér lifna þacklátsemi til þeirrar Veru, sem skóp hann til ad njóta þessa auds og prýdi, se hjarta hans ecki kaldt og tilfinníngarlaust. Sá þackláti, gódi madur vyrdir ecki einúngis fyrir sér þá velgjorninga Guds, sem sameiginlegir eru ollum skepnum, eda ollum mennum; þessir hvetja hann ecki ad eins til þacklátsemi, heldur og hinir, sem honum eru serdeilislega veittir; og hverr er sá medal vor, sem ecki finnur orsok til ad kannast vid óþnilegann Verndara og hulinn Velgjorara, þegar hann stuclega hugsar um sína lífs-atburdi frá fyrstu barnæsku til nærverandi tíma, um þau gædi, sem honum hlotnudust; um þær meinsemdir og hættur, sem hann sneiddi hjá. Hverr finnur ecki — segi eg — vid þetta hugarfar, tilefni ad vidurkenna med Guds-manninum: minni er eg, Drottinn! allri þinni miskun, sannleika og trúfesti. Þér hafid máske tamid ydur ad þacka framar mennum enn Gudi þau lífsins gædi, sem ydur hafa hlótnast! Foreldrum eda ættíngjum gott uppfóstur og þessum aptur heidurlega stett i manna félagi. Þér þackid máske vinum ydar ein eda onnur gædi og hagsæld, sem ydur gledur, já, stundum eginn dugnadi og framárskarandi gáfum; en — hafid þer þá gleymt þvi, ad þótt þessar séu hinar nærstu orsakir ydar velgengni, ad til er hin ædsta og fyrsta orsok alls góds, sá Drottinn, sem frá upphafi hefir ollu nidurskipad, og samtengt orsakir hlutanna og þeirra afleidingar, og lætur menningu vera þau verk-

færi, sem hêna til að framqvæma hans vilja, að þessi sami má því með mesta rètti heita uppspretta alls góðs. Er ecki honum að þacka gott ætterni, og því sambodið uppfóstur, vinskaparins blessan, gáfnanna hæfilegleiki til eblíngar egin velferð, og — yfir höfuð — allt það, sem gjörir manñ að sælli á þessari jörðu?

Sumir njóta lítilla hagsælda, og hagur annara breytist til ens verra — þeir fyrri finna því ecki orsök til þacklátsemi — eins og nockurs hagur sè svá, að hann hafi ecki Guði nóg að þacka? Þeir síðari viðurkenna: að sá tími hafi verið, að þeir áttu Guði margt að þacka; þeir þykjast og þá hafa kannast við, að þeir áttu Velgjörara á himnum, sem lèt blessun falla í þeirra skaut. En nú er sá tími hjáliðin, segja þeir, því vèr erum sviptir þeirri gleði, sem vèr höfðum fest hjartað við. Þó sumar velgjörðir Guðs sèu nú frá yður teknar, er tilhlýðilegt fyrir það, að þèr gleymið því, sem þèr hafið þegið og lengi notið? Eru njótið þèr engra velgjörða Guðs framar, sem þackar sèu verðar? Hafið þèr gleymt því góða, sem yður var veitt áður frá fyrsta augnabliki lífsins? Sú þacklátsemi, sem úr af deyr, þegar nýar velgjörðir bætast ecki ofaná hinar fyrri, sem einúngis lítur á hið nálæga, en ecki hið umliðna, er ecki sú rètta þacklátsemi. Þesshattar breytni ber með sèr sjálfselskunnar vafalaus auðkenni. Er það mikilsverdt, að þacka Guði þá að eins, er hann veitir oss allt það,

sem vér óskum? gjöra ecki tollheimtumenn og syndugir hid sama? Þad eru þeir menn, sem miñst er ætlast til af. Þad heitir þacklátsemi, þad er ad vera barn Fødursins á himnum, ad vegsama nafnid Drottins, einninn þá, er hann felur sig í skÿi, eda svíptir maň einhverjum þeim gædum, sem hann ádur lánadi. Þá er sá rétti tími til ad votta Drottni sína þacklátsemi med þolinmódu, rólegu sinni; þá er tilhlÿdilegt, ad madur finni og kannist vid, hversu mikid gott ádur var þegid af Drottins gædsku. Já, þó vér séum svíptir nockrum þeim gædum, sem oss ádur hlotnadust, eda sinjad um önnur, erú þó eptir ordin nockur, sem þackar eru verd, sem vér njótum annadhvert sameginlega, eda hverr útaf fyrir sig; þad er þó nockursverdt, ad lifa undir laganna frelsi í fridi og ró, óhultur fyrir lífs- og eigna-tjóni, í því landi, hvar Guds orda ljós skín og getur verid lampi fóta vorra og ljós á vorum vegum, hvar sá gledilegi bodskapur um Guds Son, sem kom til ad færa sekum heim synda-qvittun og sálar-velferd, er kunngjördur. Til hvílíkrar þacklátsemi vinnur ecki sú von, sem oss er gefin í Guds ordi um eilíst líf, um hús, ecki med höndum gjört, eilíst óforgengilegt á himnum, þegar þad jardhús, sem nú búum í, verdur ad falla! Hösum vér ecki, þegar til þessa hugsum, orsök til ad undirtaka med Guds manninum David: Lofa þú Drottinn, sála mín! og allt, sem í mér er, hans heilaga nafn, og gleym engu

af því góda, sem hann hefir þér audsýnt! Hann fyrirgéfur þér allar þínar syndir og grædir allar þínar meinsemdir! En —

3.) Audsveip undirgéfni undir Guds heilaga vilja, er eitthvert hid mest árídandi sinnis ásigkomulag fyrir Guds augliti. Þetta innibindur undirgéfni skilníngsins undir gudlega opinberun, vidlíka og finna var hjá Maríu, þótt hún ecki skildi þann af Gabríel Engli færda bodskap. Þad innibindur og undirgéfni tilhneiginganna undir Guds lögmál, og hjartans undirgéfni undir þær Forsjónarinnar rádstafanir, sem vidvíkja lífsins atburdum. Þessi undirgéfni má ecki koma af því, ad vér vitum til einkis ad þverskallast vid þann Alvoldugu, heldur af hinu, ad oss má vera kunnugt, ad sú fullkomnasta Vera á skilid, ad vér hlýdum henni fúslega og treystum einlæglega.

Opt verdur oss, ófullkomnum skepnum, ad strída gégn Gudi, eda tregdast vid þá fullkomnu undirgéfni undir Guds vilja, sem vor trú af oss heimtir. Drambsemi skilníngsins gjörir stundum uppreisn gégn Guds opinberun, girndanna ákafi þverskallast vid Guds lögmál og Forsjónarinnar tiltanir; en í gudrækins manns hjarta er allur þessi mótþrói nidurþaggadur med þeirri trú, ad undir umsjá hins Algóda sé öllu sem best fyrir komid. Þó sá gudrækni sjái sig ófærann til ad rekja öll spor gudlegrar Forsjónar, vardveitir hann rósamt sínu og fullkomna undirgéfni undir Guds hei-

lága vilja, hvað sem ábjátar. Hann veit, að margt yfirgengur mannsins skilníng af því, sem viðber í heiminum; að hér sjáist ecki nema upptök eða miðbik Forsjónarinnar vega, en endirinn ecki fyrr enn tíminn endar; þángað til þar er komið, hljótum vér að gánga í von og trú; dymma verður eð hvílla yfir mörgum atburðum lífsins, hapt að leggjast á girndirnar og þjánlngar temja gjálífið. Þegar þú þjáist, Kristinn maður! máttu eð sönnu andvarpa, en ecki mögla. Þú átt að þegja, af því Drottinn gjörir það, og bída með þolinmæði, hugsa til Guðs með lotníngu og muna, að hann er Herrann; tala með varúð um það, sem þér er ofvaxið um að dæma; smámsaman opnast þér Forsjónarinnar helgidómur, senn sér þú skynbragð á því, sem Drottinn gjörir, þó þú vitir ecki nú hvað það merkir. En þángað til svo er komið, hæfir manninum auðsveipni og tilbeiðsla, að tala og hugsa áþeckt þessu: Guð! þú ert minn Skapari, eg er þinn, í þér lifi eg, er og hrærist, eg kém hvert, sem þú kallar mig, og það, sem þú skipar mér að líða, það líð eg án möglunar. Mitt er að stunda mína köllun, allt annað fel eg þér, hvers speki eg tilbið, hvers gæðsku eg opt hefi reynt, hverri eg því af öllu hjarta treysti. Þú munt á endanum, ef eg stunda af hjarta þinn heilaga vilja, gjöra mig sælann. Gott er það orðið, sem Drottinn hefir talað, hér em eg, gjöri hann við mig hvað hann vill; þvérði mér eptir hans orði!

Þanninn ber oss ad vera sinnudum vid Gud, ecki eina stund eda dag, heldur alla daga vors lifs; ecki einúngis á vorum gudræknis stundum, heldur og þá vér gégnum storfum vorrar jardnesku kollunar, eda á vorum hvíldar stundum leitum unadsemdar vid skodun hans verka. Taki lotning fyrir Guddóminum, þacklátsemi og audsveipni bústad í vorum hjortum, þá njótum vér þess, sem Ritningin kallar unadsemd í Gudi. Hugurinn snýst þá aldrei svo til Guds, ad hann ecki finni med sér innilegann fognud; stundum mun hañ verda eins og frá sér numin af heilagri gledi, og útausa sinum tilfinningum í þackargjord og bænum og lofgjord, álíkt og sálir helgra manna útjusu sinum tilfinningum í forndinni, eins og lesa má í Biblíunni, hvar þessi hjartnæmu ord finnast: *Mína sálu þyrstir eptir Gudi, þeim lifanda Gudi; hvenær mun eg þángad komast, hvar eg sjái hans auglit? Sæll er sá madur, sem þú hefir útvalid og lætur til þín koma! O! ad eg vissi hvar hann er ad finna, svo eg gæti komid til hans bústadar!* eda eins og Maria ad ordi kémst í sinum lofgjordar dikti: *minn andi gledst í Gudi mínum heilsugjafara! hans miskunsemi varir eilíflega!* Þegar vidlíka tilfinningar og þær, sem ord þessi gésa til kynna, lotníngar, þacklætis, audsveipnis tilfinníngar búa í hjarta voru og votta sína eginleau verkun í því, ad betra hjartad og prýda breytnina, þá verdur

vort dagfar kristilegt, ábeckt henner, sem fæddi vorn Endurlausnara í heiminn, sem var sæl af því hún trúdi; vér verdum þá ítka sælir af vorri trú hér og annars heims. Amen!

# A Pálma-Sunnudag.

## Bænin.

Þegar þú, vor guddómlegi Endurlausnari! komst í sídarsta sinni til Jerúsalem, var tekid á móti þier, sem veraldlegum Konúngi, en þitt ríki var ecki af þessum heimi, því stríddir þú ecki fyrir þad nje þínir þegnar fyrir þig, og þó varstú, þó ertú Konúngur, og Konúngur ad eilífu; þó heimsins ríki hrapi og eydist, stendur þitt ríki, því þad er byggt á sannleika; þess lögmál er kjærleikurinn. Vjer, sem heitum þínir þegnar, vjer bidjum þig og þinn Födur ad giefa oss sannleikstins og elskunnar og gudrækninnar anda! O! ad vjer værum likir Höfundi vorrar trúar! hefdum þann vitnisburd samvitskunnar, ad vjer elskudum sannleikann, ad kjærleikurinn væri svo ríkur í vörum hjörtum, ad hann audsýndi sinn krapt í öllum vorum vidskiptum vid náúngann, ad sönn gudrækni prýddi allt vort líf. Þá gætum vjer verid vissir um, ad vjer

ecki ad eins hietum, heldur værum kristnir, já, sannir þegnar sannleikans Konúngs, sem var einber náð og sannleiki og Guði hinn handgengnasti. Gjør þú oss, Drottinn! honum líka! þá verdum vjer hjer einnig þócknanlegir. Amen!

## Gudspjallid.

(Matth. XXI, 1—9.)

Þegar Jesús nálægdist Jerúsalem, og kom til Betphage vid fjallid Oliveti, sendi hann út tvo sína Lærisveina og sagdi til þeirra: fari þid í þad kauptún, sem gagnvart yckur er, þar munud þid finna ösnu bundna og fola hjá henni, leysid þau og leidid til mín; en ef nockurr finnur ad því, þá segid: ad Herrann hafi þeirra þörf, og strax munu þau látin laus. — en þad skédi, svo ad uppfylltist þad sagt er fyrir Spámanninn, er svo segir: segid Dótturinni Zion: sjá! þinn Konúngur kémur til þín hógvær, sitjandi á ösnu og á fola klifbærrar ösnu — Lærisveinarnir gengu á burt, gjørdu eins og Jesús baud þeim, leiddu med sér ösnuna og folann, lögdu klædi sín yfir þau og settu hann

þar uppá; en margt fólk breiddi sín klædi á veginn, og adrir hjuggu qvistu af trjánum og dreifdu þeim á veginn. En þad fólk, sem fyrir þeim géck og eptirfylgdi, kalladi og sagdi: Hósianna Syni Davíds! blessadur sé sá, sem kémur í nafni Drottins! Hósíanna í hæstum hædum!

## Inngángurinn.

Med hátídlegum gledilátum var tekid á móti vorum Endurlausnara; þad var ecki heldur furda, því menn gjördu sér þá von um, ad hann væri kominn til ad hefja sitt ríki í landsins Høfudborg, og frelsa þjódina frá yfirdrottnun Rómverja, sem bædi var hörd og tídum ránglát. Þaradauki þókti Guds útvalda fólki þúngbært, ad láta heidíngja yfir sér drottna, sem því vóru vidurstygd; Gydíngum sýndist nær, ad þeir mættu drottna yfir ødrum, heldur enn láta adra drottna yfir sér. Allir vildu því fylla þeirra flock, sem med miklum fagnadi hylltu Kongínginn Krist, kominn af Fedrunum eptir holdinu. Engum kom þá til hugar, sízt af þeim, er Jesú fylgdu til borgarinnar, ad hans ríki væri ecki af þessum heimi. Þad sýnist, sem jáfnvel hans egin Lærisveinar hafi gleymt því, er hann sjálfur hafdi sagt þeim um sitt blutfall í þeirsari ferd. Fáir vóru þeir á Jesú hérvistar-

dögum, sem gjördu sér í hugarlund, ad hann væri ljós til upplýsingar heidnum þjódum, ad hann væri til þess fæddur og í heiminn kominn, ad vitna um sannleikann. Vér, sem þetta vitum og játum, ad í þessu var og er hans Konúngs tign og nafn innifalid, eptir hans egin játníngu, vér viljum ecki lá þeim, er honum samtída lifdu og væntu, ad hann mundi uppretta Israels ríki, heldur viljum vér ransaka hvert vér — sem ad svo miklu leiti erum Krists þegnar, sem vér erum limir hans kirkju, hvert vér — segi eg — breytum eins og Krists þegnum hæfir, eda erum líkir vorum Konúngi; og þetta skal vera gudræknis ydja vor á þessari helgu stundu.

---

Sannleiki, mannkjærleiki, gudrækni vóru þrjú höfud-einkénni vors Endurlausnara, en finnum vér nú hin somu hjá oss?

Jesús vor Frelsari virdti sannleikann mest af öllu, og hafnadi öllu hans vegna, sem manninum er girnilegt; hann lifdi fyrir sannleikann og innsigladi sannleikann med sinni bitru pínu. Í heiminn var hann af Fodurnum sendur til ad vitna um sannleikann, og hann fullkomnadi þad verk, sem Fadirinn hafdi honum gefid. Þvílíkur sannleiksins vottur var hann medal sinna landsmanna, ad Sendibodar óvina hans gáfu honum þann vitnisburd: ad enginn hefdi talad, sem hann; og vér

vogum ad fullörda, ad enginn h. fi hvilikur ver-id, hverki fyrr né síðar. Sannleikurinn var sú kó-óna, sem hann bar-ist fyrir; sannleikans rödd var honum Guðs rödd, og hans unad-semd ad eðla sannleikans veldi. Med krapti og einurð bodadi hann þet sannleikann; med alúd útmáadi hann sannleikanum veg til manns-anna hjartna; med þolinmædi og vardugleika bar hann þá mædu, sem sannleiksins predikun bakadi honum. Þó serplægnum Leidtogum Þjódarinnar væri illa vid sannleikann, þó hañ væri gagnstædur kenníngum spilltra Presta og landsins trú, og í augum blindradrar alþýdu gudlast og synd, var sannleikurinn honum heilagri enn svo, ad hann léti nockud af þessu eda allt þetta koma sér til ad afneita honum. Hvorsu æruverdum báníngi, sem villan klædd-ist, hvörsu voldugа talsmenn, sem hún feck, var Jesús ætíd hennar móistödu madur. Já, í hans munni — segir Postulinn med mesta rétti — vóru ecki svik fundin. Á villunni hafdi hann vidbjód; vid enga skadlega villu hlifdist hann, og med hans vandlæti, sannleik-ans vegna, var ætíd samfara naudsynleg fram-sýni; nýr vottur þess, ad sannleikurinn var honum dýrmætur og annt um, ad honum væri samsinnt; hann þeckti svo þorf og breiskleika þeirra, sem lifdu honum samtída, ad hann á-leit þeim hollast ad kunngjora ecki ætíd sann-leikann berlega, heldur benda til hans ad eins,

og med því vekja þeirra athygli. Aldrei syndi hann merki til yfirdrepskapar; ekki var hann hræddur við menn, og ekki leitaði hann hrósunar eða hylli hjá þeim með kenningum sínum; hann var sannsögull og kenndi Guðs götu í sannleika, eins og þeir Skriftlærðu, hans óvildar-menn, um hann sögðu, þegar með sínum fagurgala vildu veiða hann í orðum; hann fór ekki í manngreinar álit. Sá andi, sem í honum bjó, var sannleiksins andi.

Hverr, sem hefir ekki Kristrs Anda, sá er ekki hans. Sá er ekki Krists réttur þegn, sem ekki elskar sannleikann af hjarta, sem ekki er sínum Konúngi líkur; sá gjörir vanvyrðu kristnu nafni, sem er svo óskrifstilegur, að elska ekki sannleikann. Sá, sem leggur að jöfnu sannleika og villu og engu tilkostar að þekkja sannleikann, heldur lætur liggja á milli hluta hvað satt sé eða ósatt, eða trúir í blindni því, sem aðrir trúa; hann er Jesú nærsta ólíkur, og fjarlægur því takmarki, sem skynsemi gæddir Guðs dýrkendur eiga að ná; hann getur ekki verið undirsáti sannleikans Konúngs. Þegar hann er í hóp enna trúuðu, fær hann að sönu kallað Jesús sinn Herra, en vilja Föðursins gjörir hann ekki, því það er Föðursins vilji: að sannleikurinn helgi mannsins hjarta. Hann er líkur þeim, sem fylgdi Jesú eptir meðan hann lifði hér á jörðu, einúngis til að horfa á hans furðuverk, en gjörðust þó ekki hans Lærisveinar.

Hverr, sem af pecking vienfi offækir sannleikañ og elskar meir myrkrid enn ljósid, hann er ecki Jesú þegn. Hverr, sem leitast vid ad hindra edur mýurkjefja sanna upplýsingu, forsvarar gamla hjátrú eda ósidu, sá fær ecki verid Jesú þegn, þvi hann er honum mjög svo ólíkur, en miklu líkari þeim Skriftlærdu, sem fordum ofsóktu Jesúm, af þvi hann kenndi sannleikann; hann gjörir ad engu Jesú verk, sem var ad vitna um sannleikann; hann huggar, kannské, ad hann gjöri Gudi þægt verk, og vandlætir fyrir þad, er hann ætlar rétta trú vera; en honum væri betra ad ransaka dyggileaa, hverr ad sé Guds gódur og algjördur vilji, og láta sér ecki verda þad, sem Postulinn gjörir rád fyrir, ad vandlæta óskynsamlega. Sá, sem vanvyrdir sannleikann eda lætur hann verda sér falann; sá, sem vegna eiginn hagnadar leynir honum eda meinaar hañ, eda, til ad ávinna sér mannhylli, hatast vid hann, sá hatast vid Jesúm, og er hans og sannleikans óvinur. Í þvilíkum manni býr ecki Krists heldur heimsins andi. Ad vera kristinn, þad er ad vera sannleiksins vinur, og hverr, sem vill kristinn heita, hlýtur ad meta sannleikañ mikils, leita hans med alvoru, hlýda honum fúslega, vidurkénna hann einardlega og efla sannleik-ns ríki alúdleaa. Þvi þeir einir heyra Krists rödd, sem elska sannleikañ. Einlæg og framqvæmdarsöm sannleiks elska er aud-

kenni hins kristna, og sá, sem ecki hefir sann-leikſins anda, sá hefir ecki Krists Anda.

Þad annad audkenni Krists og hans réttu þegna, er kiærleikurinn, sá kiærleiki, sem, eptir Guds orda bendingu, er uppfylling lögmálſins og ágrip bodordanna; sá kiærleiki, sem gjörir þad ad verkum, ad madurinn finnur mestu sælu í því ad gjöra adra sæla. Jesús audsýndi mesta kiærleika mannkyninu og audsýndi hann í verkinu; á sjálfum sér ljet hann þad elskunnar eptirdæmi fagurlega lýsa fyrir monnum, sem hann svo rétt og svo vandlega hafdi afmálad í sínum kénníngum. Hann elskadi ecki einúngis sína áhángendur, heldur og þá, sem ofsóktu hann. Hans kiærleiksfulla sála umfadmadi alla og jafnvel þá, sem hann píndu, og hans munnur bad fyrir þeim, sem hann qvöldu. Hverr hagur gat þad verid fyrir hañ, sem var í sælu hjá Födurnum ádur enn heimurinn var til, ad stíga nidur af himni til ad endurleysa mannkynid? hverra launa gat hoñ vænt fyrir þad, ad hann lítillækkadi sjálfañ sig og tók á sig þjóns mind? eda hvad geck honum annad til enn velferd mannanna? Med hvílíkri hógværd og óþreytanlegri þolinmædi geck hann ecki á móti ofsóknum sinna óvina og ofundarinnar árásum? med hvílíkri elsku þoldi hann ecki tregdu alþýdunnar, og breiskleika siña Lærisvena? hvílík elskund og sjálfsafneitun var þad ecki, sem kom honum til ad fórnfæra sjálfann sig, heiminum til velferdar! og hverju sás-

lega leid hann ecki líkhamlegann dauda til ad frelsa adra frá audlegum dauda, frá daudum verkum? hversu fáslega lét hann ecki lífid þeim sannleika til stadfestu, sem skyldi gjöra mennina frjálsa og sæla? hvílíkar þjáníngar þoldi hann ecki til ad minka manna þjáníngar? Já, hann geck um kríng, gjørdi gott og grædd alla, gjordi gott med ollu móti, sem Frædari, sem fyrirmynd, sem naudhjálpari, sem mannvinur; hans gledi var ad gledja og gjora gott ollum, sem hann til nádi.

Hverr, sem hefir ecki kjærleikann, sá er ecki Krists þegn né Lærisveinn; sá sem hefir ecki kjærleiksfullt sinnislag, hann þeckir ecki kristnidómsins adal-bodord, og hefir ecki lagad sig eptir dæmi Endurlausnarans; hverr, sem yfirtredur hofud bodord trúarinnar, er kaldur og afundinn sínum brædrum, og tekur enga hluttdeild í þeirra kjorum, hann fær ecki verid kristinn og ecki Krists undirsáti; sá, sem ecki brúkar sína krapta, sínar gáfur, sína audlegd monnum til góds, hann er Kristi nærsta ólíkur. Sá, sem lætur metnad eda sérplægni leida sig í vidskiptum vid menn, hann hrósi sér ecki af trú sinni, og nefni ecki Jesúm sinn Konúng, því hann vantar adal-audkenni Jesú þegna; hann vantar kjærleikann; hann yfirtredur fyrsta bodord trúarinnar, og gleymir því, ad vér hofum eina trú, eina skírn, einn Gud og Fodur allra. Hverr, sem hatar nockurn mann, ellegar med ásettu rádi gjorir mein,

hann er ókristilegur, hverſu kristileg, ſem hans tiltarjátning er; trú án kjærleika er kriſtnum vanvyrda, og gjorir kriſtna fráleita kriſtinn-dómſins Höfundi Já, hverr, ſem fóttredur ſvo Kriſts hoſud-bodord, ad hann gefur rúm oſunda innar eitri í hjarta ſínu, gledſt af annars boli, beitir vid náúngann prettum og óhreinlyndi, ſvrirgefur ecki mótgjørdir, vill ecki miſſa heiptrækninnar ſognud, hann hefir afneitad bædi Kriſti og trúnni, og er heidíngjum verri; þar ſem ſvo fráleitir leſtir drotna, þar er Kriſts Andi og kjærleikans andi burtu vikinn. Þad er augljóſt af ótal greinum ens Nýa Teſtamentis, ad kjærleikurinn er adal-lögmalid í Kriſts ríki og lögmálſins uppſylling. Þó eg taladi Engla og manna tungum — ſegir Poſtulinn Páll — ef eg hefdi ecki kjærleikann, þá væri eg hljómandi málmur og klingjandi bjalla; þó eg hefdi allann ſpádóm, viſſi alla leyndardóma, væri ſá trúmadur, ad eg gæti bræt fjöllin úr ſtad, en hefdi ecki kjærleikann, þá væri eg eckert; þó eg brytjadi allar mínar eigur nidur fyrir fátæka, og ljeti brenna minn líkhama, en hefdi ecki kjærleikann, væri mer þad engin nytſemi. Þeſſu eru og ſamhljóda oll bodord Kriſtinndomſins; já, eptirlíkíngin um hinn ſídaſta dag gjorir rád fyrir, ad helzt og fremſt muni ſpurt ad kjærleikans verkum, og eptir því ákvordud kjor manna annars heims, hverſu ríkur hverr einn finnſt af gódum verkum. Ad vera kriſtinn,

er ad hafa kjærleikann; sá, sem afneitar kjærleikanum, afneitar trúnni og honum, sem keypti oss dyrt og var kjærleikurinn, eins og Gud er kjærleikurinn.

Gudrækni var hid þridja adal=einkenni vors guddómlega Endurlausnara; hans gudlega og sonarlega hugarfar eignadi allt, sem honum mætti, þeirrar ædstu Veru tilhlutun, og vænti af henni alls, hagadi sèr í ollu eptir hennar heilaga vilja. Hann tilbad Gud í anda og sannleika; hann var því ætíd Gudi hlýdinn, já, hlýdinn til dauda á krossi. Dyggilega og alúdlega leysti hann af hendi sèrhverja skyldu; hann lifdi ad ollu leiti fyrir sitt ordugá og mædusulla kall, og gaf sitt líf út loksins med sonarlegri audsveipni og rósemi, eptir Fodursins vilja. Þetta er ad tilbidja Gud í anda og sannleika, ad gegna med sonarlegu hugarfari Guds heilogu skipunum. Af hlýdni vid Gud endurleysti Jesús mannkynid, vann fyrir þad, og vard því þad, sem hann skyldi verda, Endurlausnari og Naudhjálpari. Hann hlýddi Gudi einlæglega, og lifdi flecklausu, óstraffanlegu framferdi. Hann gat med sanni um sig sagt: ad sinn matur og dryckur væri ad gjøra Fødsins vilja; ad gjøra verk þess, er hann hafdi sendt; ad framqvæma hans vilja; ad heidra Fodurinn med því, ad breyta samqvæmt hans tilætlun. Já, ef vèr viljum skilja þessi merkilegu ord hans: Þeir, sem tilbidja Gud, ega ad tilbidja hann í anda og sannleika; ef vèr

viljum skilja þennann hofud lærdóm hans trúar-bragda, þá skodum framferdi vors Endurlausnara, og sjáum þar hans gudrækilega sinnislag. Ef vér viljum vita hvad kristinndómur, hvad trú, hvad gudrækni er, þá lítum til Jesú. Ef vér viljum sannfærast um hvad elska til Guds er og þackátsemi og lotning fyrir hans hátign, hvad traust á Drottni, hvad hlýdni vid hans heilaga vilja, þá skodum Jesú líf, og lærum af honum þad himneska hugarfar, þá gudrækni, sem oss sæmir, oss, sem kalladir erum til ad vera Guds heimamenn, hverra borgar-réttur er á himnum, þá gudrækni, sem lyptir oss yfir hid jardneska og lýnilega, en géfur oss forsmeck himinsins sælu.

Erum vér líkir vorum Endurlausnara í þessu? hofum vér nú íklædst Kristi? hofum vér af honum lært ad tilbidja Gud í anda og sannleika? Hafi trú vor ecki upplýst vora skynsemi, lagad vort hjarta, betrad vort líf, þá erum vér ecki kristnir. Ef vér ecki brúkum Krists logmál fyrir mælisnúru vors lífs, og reglu í þvi, sem vér gjorum eda vorumst; ef vér ecki hofum þad fyrir augum, hvad sem oss mætir, og látum þad ráda vorum verkum, en sætta oss vid vor kjor, þá erum vér ecki Jesú þegnar. Gjori trú vor oss ecki hyggnari, betri, rólamari og ánægdari med vort hlutfall enn þeir eru, sem ecki hafa þetta logmál, þá getum vér ad sonnu kallad Jesús vorn Kong, en erum samt engañveginn hans rettu

undirsátar, því undirsátinn á að hlýða lögum síns Konúngs.

Enginn ætli mikið uppá sína trú, ef trúarinnar ávexti vantar, og hyggi að því, að það eru ekki trúarinnar eginlegu ávextir að segja: Herra! Herra! að halda fast við trúarjátníng sína og efast ekki um kirkjunar lærdóma. Trúin á að sýna aðra ávexti með þessum, sem eru vissari og meira í varið: hún á að verka fyrirkjærleikann sýna sig í elsku til Guðs og náúngans, í elsku til alls, sem er satt og dygdugt; sjáist ekki þessir ávextir í breytninni, er trúin hégómi, en enganveginn sú sanna kristilega. Enginn treysti því heldur, að hann sækir vel helgar tíðir eða stundar rækilega þá útvortis dýrkun Guðs, því ef hann álítur þesshattar tilgáng, en ekki eins og vera ber, meðal til að ná tilgánginum, guðrækileau hugarfari og breytni, þá er hann illa tældur; ef hann þessvegna afrækir sína skyldu og ætlar, að velferð sálarinnar sé einúngis komin undir því, hvað opt og alúdlega hann biður eða sýngur, þó bænir hans og saungvar ekki betri hjartað, þá verður hans trú honum bókstafur, en bókstafurinn deydir.

Enginn reiði sig heldur eingaungu á sína réttu þekkíngu eða miklu upplýsíngu; enginn telji sér til gyldis eða álíti sig þessvegna vel kristinn, að hann rannsakar og prófar allt; því ef hans verk og vit, hans hugarfar og lífsreala, hans breytni og sannfæríng er hvað ödru gagnstætt, ef trúin gefur honum að eins birtu, en

ecki il og laungum til eins góda, þá er hann ordsins heyrari ad sonnu, en ecki þess gjörari og tælir sjálfan sig. Ad vera tráadur er hardt-nær hid sama, og ad vera dygdugur, og adal-partur Gudsdyrkunarinnar er hlydni vid Guds heilogu bodord, og hlydni er betri enn offur. Ad vera kristinn, þad er ad hafa fyrir lífsreglu ad vardveita ætid góda samvitsku fyrir Gudi og monnum; því skirnin er sáttmáli gódrar samvitsku vid Gud. Sá kristni álltur skyldu sína Guds bodord, sína kollun ad líkjast sínum Lausnara, ad íklædast Kristi, ad hafa sonar-leat, gudrækilegt hugarfar, eins og hann hafdi. Ef vér ecki finnum þad hjá oss, þótt vér séum kalladir, vér erum samt ecki útvaldir.

Sannleiksélska, kjærleiki og gudrækni, sem prýddi líf vors Endurlausnara, eru audkenni hans réttu þegna; en getum vér nú sýnt á oss þessi audkenni? Ef vér látum vor hugskots augu hvarfla yfir breytni þeirra kristinna manna, sem vér þeckjum, mun oss vyrdast, ad Krists Andi búi ecki ríkuglega medal vor. Traustid til gud-legrar forsjónar gefur oss þó þá von, ad hann sé ecki vikinn frá kristninni, heldur ad hann finnist hér og hvar medal ædri og lægri stétta, þó minna beri á honum enn heimsins anda, og þessi sái tídum yfirhond jafnvel í kristninni. Yfir því er ecki til neins ad klaga; þad eina, sem vér getum gjort og egum ad gjora er, ad ran-saka hvert Krists Andi búi í oss, hvert vér séum Krists réttir þegnar. Ef vér finnum

hjá oss þau áminnstu einkenni, þá aledjumst í þeirri trú, ad Jesús er vor Konúngur. Ef vèr finnum oss ábóta vant — og allir megum vèr játa, ad oss vanti mikid á þá fullkomnun, sem af Krists þegnum heimtast — þá leidrèttum vora bresti og keppumst eptir helguninni í Guds ótta; gjørum vora útvalníngu vissa; hættum ecki fyrr ad laga vor hjørtu og framferdi eptir Krists ordi og dæmi, enn vèr gétum verid vissir um, ad Krists Andi, sannleikans, elskunnar, gudræknínnar andi búi ríkuglega vor á medal. Oss rídur á miklu ad vita þetta fyrir víst, því Postulinn segir: ad sá, sem hafi ecki Krists Anda, sè ecki hans; en sá, sem lætur sig af Guds Anda leida, hann er Guds barn; ad vera Guds barn, Krists rèttur þegn, eda hans bródir og samarfi — Hvílík sæmd! hvílíkur sælu vegur! Amen!

# A Skírdag.

## Bænin.

Vor himneski Frelsari! þú hefir bodid oss ad minnast þín, þinnar pínu, þinnar útgaungu af heiminum, þinnar elsku, vorrar trúar og vonar, hvérrar Hofundur þú ert, med samnautn brauds og víns, og þetta

bod gafstú þínum Lærisveinum, þegar þú stódst reidubúinn til ad láta lífid fyrir mannkynid. Med þessu bodi vildir þú sameina hier hiørtu þinna játenda og þeirra hiørtu innbyrdis med elskunnar sterka bandi. Lát þá þenna þinn gædskyrika tilgáng á oss framkoma! lát þína hátídlegu og sameginlegu endurminníngu betra vor hiørtu, og gefa þeim frid og von! lát þau þvíngast af þinni elsku til ad elska þig og þad, sem þú elskar! lát þína minníngu gjøra vort lif gudrækilegt og elskufullt, og vora endalykt fridsama og sæla! Amen!

## Gudspjallid.

(Lúc. XXII, 14—20.)

Þegar stundin kom, settist Jesús til bords og hans 12 Lærisveinar med honum. Hann sagdi til þeirra: mig hefir af hjarta eptirlángad ad eta þetta Páskalamb med ydur ádur enn eg líd; því eg segi ydur: ad hér eptir mun eg ecki optar af því neyta, uns þad fullkomnast í Guds ríki. Hann tók kaleikinn, gjørdi þackir og sagdi: medtakid hann og skiptid honum á milli ydar; því eg segi ydur: eg mun ecki drecka af víndidar ávexti, þar til Guds ríki kémur.

Hann tók braudid, gjördi þackir, braut þad, gaf þeim og sagdi: þetta er minn líkhami, sem fyrir ydur géfinn verdur; gjörid þetta í mína minníngu. Hann tók einnig kaleikinn, eptir qvöldmáltídina; og sagdi: þessi kaleikur er nýtt Testament í mínu blódi, hvert fyrir ydur úthellist.

## Inngángurinn.

Hér heyrid þér, brædur mínir! hverninn så qvaddi heiminn, sem lifdi fyrir hañ, sem dó fyrir hann. Langar ydur ecki til ad qvedja hañ vidlíka, med sömu hugar-rósemi, sama blídlyndi, sama verdugleika, þolinmædi og undirgéfni undir Guds vilja? lísnar ecki med ydur, þegar heyrid lesid eda þér sjálfir lesid söguna um Jesú seinustu máltíd á þessari jördu, og qvedju hans til sinna fáu elskudu Lærisveina, þessi ósk: Minn daudi verdi, sem daudi hins réttláta? Eiklegt þykir mér ydur lángi til þess ad deya vel, því þad er máltak í voru og fleirum túngumálum, sem sýnist géfa til kynna, ad þad sé manna inniteg ósk ad deya vel; vér segjum neinilega: þegar endirinn er gódur, þá er allt gott. En þó þér finnid nú ecki þessa laungun hjá ydur, þá má eg fullyrda, ad hún vaknar seinna, þegar þér sjáid daudann nálgast og óvænt er, ad hann géfi

ydur úndanfæri; og eg óska af hjarta, ad þá verdi ecki um seinann ad óska sér: mitt daudi verdi sem daudi hins réttláta! Nú er tími til, medan nockud er eptir lífdaganna, ad huasa fyrir því, ad madur gæti fengid þessa nukils-verdu ósk, þegar Guds Andi hefir látid hana lifna í hjartanu, og hverr sá, sem vill láta sig það nockru varda, á ósta Guds adstod til þess, því hann vill ad allir verdi hjálpnir. Jesús hefir sýnt á sér sjálfum, hverninn sá rettláti deyi, og hefir kennt oss ad deya hans dauda. Hann hefir bodid oss ad minnast sín, síns dauda og sinna velgjorninga, og allt þetta á ad sam-verka til eins sama.

Hverr einn gódur madur huasar opt um sína burtfor af heiminum. Gud hefir talid vora daga. Það sæckar ecki vorra daga tolu, ad vér búum oss undir vort andlát, en gjorir daga vora hér gledilegri og vora útvalníngu vissa. Nú viljum vér því hugleida á þessari gudrækn-is stundu: hvernig Jesú endurminníng gæti búid oss undir sælann dauda.

---

Med hverju hugar-fari óskum vér helzt ad deya? efalaust med gudrækilegu og vongódu og kjærleiksfullu til allra manna. Þetta hugarfar má og á Jesú endurminníng ad verka med oss. Qvoldmáltidin er ecki einúngis gudrækn-is verk, heldur gjorir hún hjartad gudrækilegt og vongott; hún vekur med oss lifandi tilsinn-

ingu Guds miskunar, sem gaf oss Soninn til þess, ad enginn, sem á hann trúdi, skyldi fortapast. Af þessari tilfinningu sprettur innilegasta þacklátsemi hjartans, traust til þeirrar eilífu gædsku og fús undirgéfni undir hans hollu handleidslu og ráds álycktanir.

Jesú endurminning gjörir og hjartad kjærleiksfullt. Vid Drottins altari hverfur allur manna-munur; þar krjúpir sá voldugi med þeim vesæla; ríkur med fátækum; fávís med vísum. Allir birtast þar fyrir þeim sama, sem börn eins Födurs og Guds heima-menn vid sama bordhald. Enginn kali, óvild, hatur, má koma nærri þeirri helgu bordstofu. Fridur, samlyndi og elska sameinar alla gésti Drottins, samqvæmt bodi vors Endurlausnara (Matth. 5, 23.): þegar þú offrar þinni gáfu á altarinu, og þér kémur þar til hugar, ad þinn bródir hafi eitthvad á móti þér, þá láttu þar þína gáfu fyrir altarinu og far ádur ad sætta þig vid bródur þinn, og kom svo ad offra þinni gáfu. Hverjar tilfinningar sæma kristnum betur enn þessar? Þacklátsemi vid Födur miskunsemdanna, elskusemi og sáttgirni vid sína brædur, samarfa eilífs lífs. Med þessum tilfinningum óskar hverr gódur madur ad lifa, og þessar sömu tilfinningar géfa frid og verdugleika þeim sídustu augnablikum lífsins. En hversu óttalegt er ecki ad skilast frá þessu lífi, med hjarta Gudi fráhverfu og kjærleikslausu, eda jafnvel hatursfullu til þeirra, sem eptir lifa?

Ef vèr óskum ad deya med gudrækilegû hugarfari, í sátt vid alla menn, þá útvegum oss þetta hugarfar nú medan vèr lifum, og lærum þad einkum af vorum Lausnara vid hans endurminningu. Ad endurskapa sitt hjarta á daudastundunni, er heldur seint, og torveldara enn svo, ad nockur von sé til ad þad takist, undir syndbómsins oki, í strídi vid lífsins óvin. Ef þad má fullyrda um hvern lífsins dag, ad honum nægi sín þjáning, þá nægir víst daudadeginum hans þjáning. Þeim einum tekst á daudastundunni ad sýna sig, sem hetju og gudlega sinnadann, sem hefir tamid sèr þad ádur. Þad er gudrækni og mannkjærleiki, sem gefur lífsins nidurlagi frid og hugprýdi. Nemum þvî vid Drottins bordhald þad hugarfar, sem vèr helzt óskum ad taka med oss, þegar vèr eigum ad fara um hinn dymma dal og daudans skugga.

Qvøldmáltídin er og undirbúníngur undir daudann, ad svo miklu leiti, sem hún er medal til fridar vid Gud. Oss er ecki einúngis þörf á, til ad fá sælann dauda, ad hafa gudrækilegt og kjærleiksfullt hjarta, heldur og ad vèr seum vissir um vora útvalningu. Mørgum verdur þad í lífsins storfum og heimsins galsa, ad þeir hugsa ecki svo rækilega sem skyldi, um þann reikningsskap, sem þeir ega ad standa, fyrir sín ord og verk, þeim mikla Dómara; finna þvî ecki til sinna synda og láta sjálfselskuna tæla sig svo, ad þeir hugsa sèr í engu á-

bótavant. En þegar dauðinn nálgast, hverfur einatt mannsins ágæti; þá tekst sjálfselskunni eða sjálfsþóttanum ekki lengur að blinda samvitskuna. Því nær sem færist þeim æðsta dómstóli, þess betur sjer maðurinn sínar ávyrðingar, og þessari sjón verður, sem von er, samfara nögur qviði. Því er margur svo bróður, þegar heðan skal halda; því grípur margur til þess, samvitskunni til friðar, sem ekki getur gefið henni frið. Margur, sem á þeim heilbrygðu dögum var dramblátur, verður þá auðmjúkur, og hinn þánkalausi áhyggjufullur.

En — einka meðal við ángist og hræðslu á dauðastundunni, er fyrirheit Guðs gefið öllum iðrandi um synda fyrirgefníngu, reyna Jesú Krists, og þessa fyrirheits minnumst vér í þeirri heilögu qvöldmáltíð, já, þar er manneskjunni framboðin náð og gefinn kostur á Guðs miskun öllum, sem yðrast og trúa. Sakramentisins nautn veitir því hugaun og frið öllum þeim, sem láta hana upperfa sig til þess, er að mannsins leiti útheimtist til að komast í sátt við Drottinn sinn Dómara.

Ekki er það meiníngin, að nautn qvöldmáltíðarinnar, með hvað guðrækilegu hugarfari, sem hún tiðkast, sé ánægjanleg til að huggu oss í dauðanum. Óforsvaranlegt væri að predika kristnum svo svikula von; nei, hún er að eins meðal til að komast í sátt við Guð, og fá friðsamlegt andlát, að svo miklu leiti, sem í

mannsins valdi stendur. Í qvöldmáltídinni afneitum vér syndinni og heimsins spillíngu; vér lofum ad hverfa frá illu athæfi, en snúa oss til Guds og gódra verka, í stadu u trausti, ad hans miskunsemi vilji, vegna Jesú Krists, fyrirgéfa oss vorar syndir, þegar vér ydrumst og bætum vort lífnad. Ef vér látum oss umhugad ad halda þessi vor heit, þá er sá ókomni heimur oss ecki óttalegur. Eptir ad vér hofum endad vort skeid, getum vér vongódir litid upp til Drottins, sem vér hofum dyrkad med líkama og sálu og sagt: eg veit á hvörn eg treysti; þó eg ráfi um dymmi nn dal og daudans skugga, hrædist eg enga ólucku, þvi þú, Drottinn! ert med mér, þinn vöndur og stafur hugga mig. Það þvi heldur, sem qvoldmáltidin einnig stadfestir og lífgar vora von um líf eptir þetta. Hér er unnid fyrir báda heimana; vér einsetjum oss þá breytni, sem á ad gjora líf vort hér verdugt þeirri von, sem oss er gefin; vér segium ecki lausu vid þetta líf; heldur upporfumst til ad gégna trúlega þess skyldum, og bera þolinmódlega þess adkost; vér styrkium med qvoldmáltídarinnar samegínlegu n. utu þád éstar-bónd, sem á ad vera milli Krists endurlesstu brædra; en þetta gjorum vér af því, ad vér vitum ad vér erum ecki einúngis skapadir fyrir þessa jordu, heldur hins vegna, ad vor borgarréttur er á himnum, ad þar er vort rétta fodurland. Qvoldmáltidin er, ad svo miklu leiti,

sálarinnar upphafníng yfir hið í rtneska og samreining við þá sælu Anda, sem búa á himnum. Allur hugur vors Endurlausnara var á hinnum, þegar hann innsetti sína endurminníngar máltíð; hann leiddi og þángað umhuasun sinna elskuðu Lærisveina: þó eg drecki nú ecki optar á þessari jörðu með ydur af vínviðar ávexti — sagði hann — mun sá dagur koma, að eg dreck af honum með ydur í míns Födurs ríki. Tveir aðal þánkar liggja í þessum vonarfullu orðum: burtför hans sjálfs af jörðunni til Födursins ríkis, og samfögnuun hans Lærisveina þángað á sínum tíma; hverr fyrir sig miðar til að taka frá dauðanum hans skelfíngu, sem einkanlega er í því folginn, að hann flytur menn inn í nyann óþecktann heim, og svipt skilja oss að fullu og öllu við þá, sem þeir elskuðu á þessari jörðu.

Þó dauðinn því giöri enda á vorri hérveru, flytur hann alla Jesú trúu eptirbreytendur inn í Födursins ríki. Þessi von lifgast hjá þeim, sem Endurlausnarans minnast, og hún tekur frá þeim ótta fyrir grafarinnar myrkri og viðbjóð á holdsins rotnun. Þeir geta fengið vissu um, að dauðinn giörir ecki enda á þeirra tilveru, heldur umbreytingu á þeirra bústað; þá umbreytingu, sem framar er æskileg en gvíðvænleg, þar hann flytur þá til borgar Guðs lifanda. Þó borg þessi sé mönnum ókunnug, mega þeir víst ætla, að þar sé gott að

vera. Þángad er mannkynsins Endurlausnarí á undan farinn, eins og hann sjálfur sagdi, til ad búa stad sínum Lærisveinum: Eg fer, sagdi hann, til míns Födurs og ydar Födurs, til míns Guds og ydar Guds. Í míns Födurs húsi eru margar vetur, eg fer til ad undirbúa ydur stad. Eg kem aptur til ad taka ydur til mín, svo ad þér séud þar, sem ég er. Engin eptirgrenslan né ályktan skynseminnar getur veitt hinum deyanda manni, sé hann trúadur, eins fullkominn frid og þessi vafalausu fyrirheit hans, sem var sannleikurinn sjálfur, í hvers munni aldrei vóru svik fundin. En þessi von eilífs lífs verdur enn gledilegri, þegar vér gjætum þess annars atridis þessarar vonar, sem Gudspjallid bendir til med þessum ordum: Í míns Födurs ríki mun eg drecka med ydur af vínvidar ávexti. Hversu elskuverdann audsýnir Jesús sig ecki med þessum ordum! hann álítur samfösnun sína elskudu Lærisveina til sín í betra heimi, sem farsældar auka sér og þeim, hressir med henni þeirra sorgmæddu sálir og gledur af sjálfum sér. Þad sama vildi hann skyldi gledja og hressa alla sína játendur, þegar vid heim þennann ega ad skilja. Ad hvaurinn náttúrlega hvarfli til þessarar stundar, þegar vér minnumst Jesú útgaungu af heiminum, þarf ecki ordum um ad fara.

Vér sjáum annars-á Textans ordum, ad Jesús gjörir rád fyrir því, sem lengi hefir verid kjærasta von allra gódra manna, ad viná-

fundur sé væntanlegur annars heims, þó dauðinn hér adskilji þá. Að vinir skuli þeckjast aptur og uhá upp fornann vinskap. Yndisleg er von þeisi blidum sálum; hvørsu mjøg vegur hún ecki upp lífsins hégóma, og linar daudans sorgir; því ecki verdur því neitad, ad ecki gjørir annad daudann bitrari, heldur enn vidskilnadur vid elskada vini; hann særir jafn-tilfinnanlega hjørtu þeirra, sem deya, og hinna, sem eptir lifa, og þeir kénna mest þessa meins, sem hafa ødrum vidqvæmara og betra hjarta. Þegar sá gódi madur, umkríngdur af sínum børnum og vinum, qvedur í seinasta sinni þá, sem honum eru dýrmætastir á jørdunni, og med veikum rómi óskar þeim Guds blessunar og varatektar; þegar hann í seinasta sinni sjer þeirra andlit, heyrir þeirra raustu, sem nærstir eru hans hjarta, hvernig gjæti hann borid þessa sorg af, ef trúin, sem sigrar heiminn, gæfi honum ecki krapt og hugprýdi, ef enginn hvísladi ad hans anda þeirri huggun: eg og þeir, sem eg elska, munum finnast aptur í sælla heimi! A þessa huggun minnti Jesús sína Lærisveina ad skilnadi; á þessa huggun minnir oss hans endurminning; á þá gledilegu von, ad allir gódir skuli til Drottins á sínum tíma samansafnast.

Sú heilaga Qvøldmáltíd er því ecki einúngis uppþvatníng til gædræfilegs lífs, heldur og hentugur undirbúníngur undir farsælann dauda. En høfud atridid er, ad vér komum ad Herrans bordhaldi med þeim þaunkum og

r'lsinningum, señ gefa von um þær áminnstu blessudu verkanir. Njótum Drottins málltídar med sönnu alvörugefni í hvert sinn, sem þad værit seinasta sinni, og vér, eins og vor Lausnari, ættum þadan ad gánga útí daudann, og flytjast inn á þad óþeckta land, hvadan enginn er aptur kéminn, eins og vér ættum ecki framar á þessari jördu ad drecka af vínvidar ávexti med vorum ástvinum, Einhvern tíma kémur þó ad því, ad hverr og einn verdur til altaris í sídasta sinni, og enginn nema Gud einn veit, hverjum þad er ætlad ecki framar ad setjast ad því helga bordi med sínum brædrum. Pár til skulum vér láta huganu snúast í hvert sinn, sem vér etum af þessu braudi og dreckum af þessum kaleik. Hverr, sem vor Sönur er, hvert, sem oss er ætlad líf eda daudi, því hæfir med gudrækni og alvörugefni ad minnast dauda Drottins og búa sig undir sinn eiginn dauda. Daudi Drottins er alvarlegur atburdur. Syndir vorar, sem hann krossfestu, hverjar vér afsverjum, hverium vér eigum nied honum dánir, gefa og tilefni til alvörugefni og tilhugsan dauda og eilífdar, sem vér þokumst ætíd nær og nær, hlýtur ad hafa somu verkun. Med ydrun, med trausti til Drottins miskunar og gledifullri þacklátsemi til Endurlausnarans skulum vér því í hvert sinn halda endurminningar hátíd hans, sem dó fyrir oss, og med því búa oss undir þá gledilegu samfundi í betra heimi, sem hann hefir gefid oss fyrirheit um.

í sínu ordi. Þar til hjálpa þú þínum börnum, himneski Fadir! fyrir þíns Sonar skuld! Amen!

# A Lánga Frjádag.

## Bænin.

Vertú, Drottinn! oss syndugum líknsamur! oss, sem med syndum vorum hefum krossfest þinn elskulega; því fyrir vorar syndir er hann særdur, fyrir vorra misgjørda sakir er hann lemstradur, hegningin hefir á honum legid, svo vier hefdum fridinn, og fyrir hans benjar verdum vier heilbrygdir. Drottinn! lát hans qvøl og pínu gjøra oss heilbrygda, lækna vor syndasár, kenna oss ad hafa viđbjód á þeim syndum, sem hann krossfestu! Verka med oss innilega vyrdingu fyrir þeirri fullkomnun og heilagleika, sem þinn Sonur audsýndi í pínunni! fyrir þeirri þolinmædi undir þínum áløgum, sem fridadi hans gjed, þegar hann leid! Umønnun, fyrir vinum og óvinum, sem prýddi hans pínu! elsku til sannleiks og manna velferdar, sem fylgdi honum inn í daudann! Já, verka med oss innilega laungun til ad feta í fótspor hans, sem fyrir oss leid, því hann leid einnig oss til eptirdæmis! Amen!

# Jesú Krists Píslar Saga.

(Matth. XXVI, 30—75. XXVII, 1—66. Mark. XIV, 26—72. XV, 1—47. Lúc. XXII, 39—71. XXIII, 1—56. Jóh. XVIII, 1—40. XIX, 1—42.)

## Inngángurinn.

Spekíngurinn Seneka segir á einum stad í sínum ritum: ad sú sjón muni vera sjálfum Gudunum unnarfull, ad horfa á gódann mann í stríddi vid mótgáng; getur þad þá verid nockrum fagnadur, ad sjá hinn góda mann lída? getur sú sjón gladt Gudina? Enginn er þad gledi, ad sjá saklausann lída, nema þeim einum, sem fagna yfir ránglætinu, ef þeir eru nockrir, sem svo 'eru til sinnis. Mótlæti, og þá enn heldur þjáníng hins góda, saklausa manns, hlýtur ad vekja sorgar tilfinníngu í hvers manns hjarta, því þad er annadhvert vottur manna spillíngar, sem enginn er frí frá, en sýnir sig þá berstnilega, þegar sakleysi er misþyrmt, eda þeirrar heimsins óskiljanlegu nidurskipunar, sem mönnum hættir tídum vid ad klaga yfir, og freistar margra til ad segja med Sálma skáldinu: þad er til einkis, ad eg þvoi mínar hendur í sakleysinu. Maklega má oss því gánga til hjarta saga sú, sem vér nú heyrdum um sídarsta lífs atridi hans, er var sá saklausasti og besti medal mannanna sona; hans, sem eydt hafdi sínum lífsstundum til ad gánga

um kring, gjøra gott og græda alla. Gánga má oss til hjarta, ad heyra þessa sögu; mikkast má oss blindni og vondska mannanna; furdanlega megum vèr játa Drottins forsjón, er leid syndurunum ad fara þannig med sinn elskulega, ad útskúfa honum af landi lifandi manna. Þeckt gètum vèr í þessu dæmi hversu syndum spillt mannkynid er, og hversu Guds vegir eru oss ofháir og hans rád furdanlegt, sem lætur menniua áforma og framqvæma illt, en áseturr sèr ad snúa þvi til góds; þvi vèr vitum og trúum, ad illvirki þad, sem menn adhöfdust hèr, snerist heiminum til frelsis.

Þessar tilfinníngar vakna í vorum hjörtum, þá vèr hugleidum þann sorglega atburd, sem hèr er frásagt; en þá vèr skodum þann, sem lídur, tekur samt önnur tilfinníng yfirhönd, og hún veitir hjartanu unadsemd; þá unadsemd, sem Seneka gjørdi ráð fyrir hjá Gudunum, þá þeir sæu hinn góda mann lída, þad er lotníngar tilfinníngin fyrir þeim, sem lídur, sem sigrar jáfnvel þó hann deyi, þvi sálin er ósigrud, þegar hún fylgir þvi lögmáli, sem Póstulinn kallar hugskotsins lögmál, og lætur manna ógnanir eda misþyrmíngar ecki koma sèr til ad víkja til hægri eda vinstri.

Þared Jesús hefir einnig lidid oss til eptirdæmis, ad vèr skyldum feta í háns fótspor, þá vyrdum hann nú lídandi fyrir oss, sjáum hans hárign í hans nidurlægíngu, og lær-

um af honum ad lída og deya gudlega, kristnum verduglega.

Hvadin reyniſt í mótgángi, eins og gullid í eldinum. Þa kémur þad í ljós, sem innra býr hjá manninum. Margur er sá, sem í velgengninni hugſar og ſegir: mitt bjarg ſtendur ſtødugt; mér ſkal aldrei hugfallaſt. Margur hugſar medan honum leikur allt í lyndi, ad hann ſé meſti fullhugi, ad ſig ſkorti hverki hugprýdi né ſtødugly ndi, né adra þá ſálar fullkomnun, ſem gjørir hvern mann heidursverdann. En þegar medlætiſins ſól formyrkvaſt, óvænt bára rís, þad, ſem dilladi manni, bregdſt, þá kémur upp hid ſanna; þá verdur ſá, tídum, ſtødulaus, ſem ádur lézt mundi aldrei ſkeika; hann ædraſt og moglar og qveinar, gleymir tídum bædi ſóma ſínum og ſkyl u ſinni, og bidur fjøllin ad hylja ſig eda hálſana ad falla yfir ſig. Þeir eru færri, ſem bera vel þánganm mótgáng og gleyma þá Poſtulans rádleggingu: kaſtid ecki burt ydar ørugga móð, ſem mikil laun mun fá, né hinni: ſynid ydar trú í ſtødugIyndi. Nockrir eru þeir, ſem hafa ſvo dauſar tilfinníngar, ad mótlætid verkar litid á þá, þeir ſýnaſt því bera þad vel; en þad má ecki heita vel borid, ſem þeir finna ecki ad þeir bera. Adrir ſættaſt vid mótgáng einúngis af því, ad þeir ſjá ad ecki verdur undan honum komiſt, og þad er ſkynſamlega gjørt, en þad heitir þó, ad

gjora dygd úr naudsyn. Ad sjá mótgáng og píslir fyrir, géta hjá þeim komist, hafa næmar tilfinníngar, en gánga þó fúslega og med gledi úti þær, þegar skyldan býdur, og þó ecki til ad ávinna sér med því nocku n hag eda heidur, heldur einúngis vegna þess, ad menn álita þad skyldu sína fyrir sig og hag fyrir adra. Þad er sú sidgædis fullkomnan, sem vér med heilagri lotníngu sáum tilefni til ad dást ad í Píslar-sögu vors Endurlausnara.

Ad Jesús hafi vitad fyrir sínar píslir, vitad allt hvad yfir hann átti ad koma, vitna Gudspjöllin berlega; hann sagdi sínum Lærisveinum fyrir hvert sitt erindi væri til Jerúsalem í þetta sinn, og hver i medferd, hvern dauddaga hann ætti þar í vændum; en hverr, sem tekur eptir frásögunni um Jesú ángist í grasgardinum, gengur líklega úr skugga um, ad hann hafi fundid til þess, sem á honum lá; og úti þær píslir, sem hann sá fyrir, sem hann jafnvel fyrirfram kénndi til, úti í þær gekk hann viljuglega; ad lída heiminum til endurlausnar, trúnni til eflíngar, sannleikanum til stadfestu. Þad var verkid, sem Fadirinn hafdi honum á hendur falid, og þessu verki gegndi hann dyggilega þángad til hann gat sagt: Þad er fullkomnad! og særdist ecki undan ad lída allt, er honum var ætlad ad lída, sem kom ecki til ad láta sér þjóna, heldur til ad þjóna ödrum, og láta lífid mannkyninu til endurlausnar.

Gat: Jesús ecki komist hjá píslum og dauda? já, hann gat, því hann sagdi sjálfur: enginn tekur mitt líf af mér, heldur gef eg það sjálfur út; eg hefi vald til ad gefa það út og taka það aptur; en hann þeckti Fødursins vilja, og Fødurnum vildi hañ vera hlyðinn, já, hlyðinn til dauda á krossi. Var það von um heidur edur ábata, sem kom Jesú til ad gánga útí strídid, eda hreifti hann medan á strídinu stód. Ecki von um þann heidur, sem menn mest gángást fyrir; ecki heidur af mönnum, af þeim átti hann ecki von á odru enn fyrirlitníngu, hædni og spotti, og qvalafullu lífláti. Þetta var sú umbun af þeirra hendi, sem nærst og sýnileg var; en heidur hafdi hañ hjá sínum Födur ádur enn veroldin var til, og sá heidur, seiñ ecki gat vaxid. Samt géck Jesús viljuglega útí pínuna, géck í gégnum hana med vidqvæmni og því stodugliyndi og hugprýdi, sem ecki skeikadi; hañ gleymdi aldrei sínum verdugleika, hlydni vid Fødurinn, trausti til hans elsku; gudrækilega byrjadi hann sína pínu, niðurbeygdur undir tilhugsun þeirra písla, sem fyrir hendi vóru, og þeirra, sem þegar á honum láu, sem enginn getur lýst, enginn máské skilur, andvarpar hann til Guds: Sé það møgulegt, þá víki þessi kaleikur frá mér, þó ecki miñ, heldur verdi þinn vilji! Þegar óvinir hans yfirfalla hann, gengur hann þeim á vald og hefir ráddeild til ad bidja edq bjóda, ad Lærisveinar sínir séu ecki handteknir, undir eins og

hann sýnir á óvinum sínum, med því ad fella þá til jardar, mátt þann, er honum var enn nú gefinn til ad forda sèr. Dreginn frá einum ránglátum Dómara til annars, umkríngdur af blódþyrstum óvinum, svikinn af dygdalausum Lærisveini, spjadur af virstola þrælum og ósvífnum hirdmönnum, ormagna af margvíslegum misþyrmíngum og skapraunum, gèck Jesús sinn jafna gáng, med blídri, rólegri alvörugefni; rak til baka lögnar ákjærur, eda þagdi, þá sannleikurinn gat ecki fengid áheyrn hjá blindudum, blódþyrstum óvinum.

Þegar vondskan og offinn sigradi sakleysid, og sá ístödulausi Dómari felldi dóminn: ad fyrir skuli fólksins beidni, ad mordinginn skuli fá líf, en Jesús krossfestast; þegar hann svo var leiddur út til aftökustadarins, til ad neglast á krossinn midt á milli tveggja spillvirkja. Med hvílíkum verdugleika huggadi hann þá ecki þær konur, sem medaumkunarfullar fylgdu honum út af borginni: grátid ecki yfir mèr, segir hann, eg er ecki aumkunarverdur, heldur þèr og ydar afqvæmi, því syndin er lands og lýda töpun, og þessi borg, sem sockin er nidur í syndanna afgrunn, hlýtur ad eydileggjast. Og þegar hann sann sinn andláts tíma nálgast, hrópadi hann sigrihrósandi: Þad er fullkomnad! Þad mikla erindi mitt í heiminn, forlíkan heimsins vid Gud, endurlausn mannkynsins er nú af hendi leyst. Þad ordid, sem eg hefi talad mun verda morgum ljós,

morgum ættqvíslum leidarvísir til réttrar trúar, rádvendni, farsældar, og ríkuglea huggunar uppsprettq. Mitt dæmi mun uppörfa mörga til dygda, styrkja þá í lífsins stríði, svo þeir reyniſt Gudi og Sanaleikanum trúir til dauds, og minn daudi skal verda mannkynsins blessunar-ríkur; nú deg eg: Fadir! i þinar hendur fel eg minn Anda!

Þegar vér vyrdum fyrir oss þetta mikla dæmi, þegar vér hugleidum þess lídanda og deyanda Lausnara hugprýdi, stødugløndi, þolinmædi, gudrækilega, sonarlega hugarfar, blída og rósama sinni á þeirri vondu tíd, vakna þá ecki med oss innra djúpustu hrœringar, unun-fullu tilfinníngar, sem lypta oss yfir jardneska sorg og gledi, og láta oss smacka himinsins sælu? Já, í þínu nafni, mikli Endurlausnari heimsins! skulu øll kné sig beygja, þeirra, sem á himnum og á jordu og undir jordunni eru, og allar túngur skulu vidurkénna, ad þú sért Drottinn Gudi Fodur til æru.

Eins fáum vér tilefni til lotníngar fyrir vorum Lausnara, þegar vér hugsum ad hans breytni í pínunni vid vini og óvini. Þá, sem hann elskadi, þá elskadi hann og annadist allt til enda; hversu ástúdleg og hjartnæm var ecki hans qvedja til þeirra, þegar hann matadist med þeim í seinasta sinni og innsetti qvoldmáltídina, bad þá: ad muna til sín og elskast innbyrdis! Hversu nærgætinn var hann ecki vid þá fáu vini sína, sem med honum áttu ad

vaka í grasgardinum, en gátu ecki haldid sér uppi fyrir svefni! hversu blídur i adfindni sini! En — þegar óvina herinn kemur, hversu umhugad var honum þá ecki, ad lífi þeirra værí óhætt! hann gleymdi sér þeirra vegna. Þegar Petur i ofurhuga sinum ryckti sverdi, til varnar Jesú, aptradi hann honum og sagdi: ad af því mégi fljóta; ad hann farist fyrir sverdi, og hverr sá, sem sverdi rycki; grædді svo þann áverka, sem Petur hafdi veitt Kennimannahöfdíngjans þénara. Þessi sami Jesú ástvin Petur, hafdi optar enn einusinni heitid ad gánga i daudann med honum, ad láta sitt líf fyrir hann, og heit þetta var einlægt; ad lengdar fylgdi hann sinum Meistara, og vonadi, ad annadhvert mundi hans afleysi sigra; ellegar hans máttur eyda óvina hernum. En þegar von þessi þókt bread-st, hvé fur honum hugur. Af lífshræðslu gleymdi hann sinni skyldu og heiti, afneitadí sinum Herra og gjördi óvyrdíngu sinni köllun med meinsæri og formælíngum. Jesú fyrisögn, hans, sem þeckti sinn Lærisvein betur enn þessi þeckti sjálfann sig, hlaut ad rætast. Drottinn snéri sér vid, og leit til Péturs. Elska og fyrirgéfníng og umhyggja fyrir hans velferd var afmálad allt i Jesú tilliti, taladi meira enn ord eda ávítur. Petur skildi þetta, hans hjarta komst vid, hann geck afsídis og grét beisklega; hann gjördi bót, snérist af hjarta, vard upp frá þessu stadfastur i hinu góda, og bætti fyrir

sina hroſun, med innilegri alúd i ſinni kollun, og var Drottni trúr allt til daudans. Þetta var ávoxtur Jesú elſku vid hans fallna Læriſvein.

A Kroſsinn uppheng dur og med ſpill-virkjum reiknadur gleymdi Jesús ecki vinar ſkyldunni: hann ſá Þar vid kroſsinn ſina Módur og Þann Læriſvein, ſem hañ elſkadi. Hañ minntiſt ſinnar Módur, og gleymdi ecki ad ala önn fyrir hennar velferd, heldur gleymdi Því, ſem hann ſiálfur hafdi ad bera, Þerri pínu, ſem nú ſókti hans hjarta. Módir! — Þañig ávarpadi hann Þá, er hann ſann til Þeſs ſverdsins, ſem Simeon ſpádi ad mundi hennar önd i gégnum ſmjúga — Módir! ſjá! Þar er Þinn Sonur! og til Jóhannesar ſagdi hañ: ſjá! Þar er Þín Módir! I Þeſſum fáu ordum liggur fólginn alúdlegaſta umhyggja fyrir Módurinni, og innilegaſta tráuſt á dygd vinarins. Þeſsi rádſtafan er ohraſti vottur Þeſs, ad Jesús elſkadi ſina og elſkadi Þá til enda.

En Þegar vér reñum auga til breytni vors Endurlauſnara i pínunni vid hans óvini, vyrdiſt oſs ecki Þá hans dæmi hvad fullkomnaſt? Sá, ſem ſtjórnar gedi ſinu, er meiri enn ſá, ſem yfirvinnur borgir, ſegir Ritningin, en hvenær er torveldara ad ſtjórna Því, heldur enn Þá Þad verdur tilegnt med ſkapraunandi ertni og tilfinnanleguſtu misÞyrmingum. Verdur ecki fleſtum torveldt ad fyrirgéfa Þúngar mótgjördir, ad ſættaſt vid óvini og fyrirgéfa

þeim? Hverſu fáir eru þeir, ſem lagid ſè ad ſigrá illt med gódu? En hvernig breytti þá Jeſús vid ſna óvini? Med róſemi þeirri, ſem ſamfara verdur ſaklëyſinu geck hann þeim í greipar, ávarpadi þá hógværlega, ſhndi þeim ad eins med ſinu volduga ordi, ad þeirra rád var í hans hendi. Med blídu og medaumkun varadi hann ſinn brádaa Læriſvein vid ſyndinni; þann, ſem undir vinar ſkini, fyrir veſælann ávinning tród undir fætur ſèr ſkyldu og dygd, og vyladi ecki fyrir ſèr ad ſæra hjarta hins heilaga og vidgvæmta vinar. Þennann ávarpadi Jeſús þanninn: Vinur! hvar fyrir ertú kominn? Júdas! ſvikur þú mañſins Son med koſsi? Hvílikt er ecki þetta ávarp! hverſu vel lagad til ad hræra ſyndarans hjarta og frelſa hann frá glotuninni; en þad hafdi einúngis þá verkun, ad hann játadi ſynd ſína og örvænti, ſnaradi frá ſèr þvi lifi, ſem hann hugſadi væri ſèr þÿngri plága eñ añars heims pyſlir.

Hugleidum nú lika þá medferd, ſem Jeſús vard ad þola, og hverninn hann leid hana. Tilfinníngarlauſir menn tóku hann til fánga, drógu hann fyrir hinn andlega rètt. Þar var hann dæmdur ſekur í gudlaſti; ljúgvitni var keypt í móti honum; Þrælum var hann fenginn til vardveitſlu, ſem bædi misþyrmdu honum og hæddu hann. Svo var hann afhendtur heidníngjum; Landsdómarinn Pilatus bedinn ad kroſsfeſta hann, og þá hañ færdiſt undan, en

til ad fullnægja ákjærendum hans, hefir látid hann húdstrýkja í von um ad hann svo geti sloppid hjá þeirri synd, ad flecka sig med blódi hins Réttlóta, þá hræddu þeir hann til ad dæma Jesúm til dauda, med því ad hóta Keisarans reidi. Og loksins, þegar vondskan hafdi fengid sína vild, þegar þeir blódþyrstu menn sáu Jesúm festann upp med illvirkjum; kepptust þeir vid ad skaprauna honum, og beiskja hans sídasta qvala-tíma, med því ad hælast um vid hann, mana til ad stíga nidur af krossinum, og brixla um, ad hann hafi kallad sig Guds Son og treyst Gudi. Er ecki vondska þessi ofbodsleg? Hverr mundi hafa getad stjórnad gedi sínu vidlíka staddur og Jesús var hér? En — hvad gjordi hann? medaumkunarfullur hugsar hann til þeirrar ólucku, sem gudleysi og spilling sídanna leidir yfir lönd og lýdi, gleymdi sínum píslum, en gleymdi ecki ad vera miskunsamur, og — í stad þess ad reidast eda hefna sín, hvar til hann skorti ecki mátt inn — afsakadi vid Gud sína hatursmenn og bad fyrir þeim: Fadir! fyrirgef þeim — svo gat sá Heilagi bedid — þeir vita ecki hvad þeir gjöra!

Hvílíkt dæmi! hverr játar ecki, ad þennann skuli allir Guds Englar tilbidja, og fyrir hans guddómlegu tign öll knè sig beygja? Hverr finnur sér ecki ómögulegt í vidlíkum kríngumstödum ad breyta líkt þessu? Ofyrirsynju hefir þó ecki Postulinn sagt: Jesús hefir lidid

fyrir ydur, og ydur eptirdæmi gëfid, ad þër skyldud feta i hans fótspor.

Vyrdum fyrir oss Jesú dæmi einninn í hans pínu; sjáum hans blída hjarta, elskufullu breytni, og vitum til hvert ecki med oss vakn-ar laungun til ad feta í hans fótspor, og á-setníngur sá, ad reyna til ad líkjast honum ad svo miklu leiti, sem vor breiskleiki leyfir. Æ! ad vër gjætum lært af vorum Endurlausnara hugprydi, stödúglyndi, þolinmædi og gudræki-legt hugarfar í þeim þjáníngum, sem oss mæta í lífsins stridi; sáttgirni, vægd og fridsamt sinni, sem fúslega fyrirgëfur mótgjördir, þegar vorir medbrædur áreita oss og ángra!

Þú mikli Höfundur og Fullkomnari vorr-ar trúar! Þú, sem varst í Guds mind, en hjeldst þad ecki rán Gudi líkur ad vera, heldur lítillækkadir sjálfann þig og varst hlydinn allt til dauda, já, allt til dauda á krossi; þú, sem þolinmódlega, án mögtunar, tæmdir þann beiska kaleik, auinkadist yfir og badst fyrir þeim, sem píndu þig; hjálpa oss til ad líkjast þër! Þitt dæmi së oss lifandi fyrir hugskots sjónum afmálad! Sërhvër tilfinníng, hugsan, ósk vorra hjartna së þër helgud! Þitt himneska sinni verdi oss eginlegt og vor breytni þër sambodin! og þegar stundin këmur, ad þá

kallar oss hédan til þín, gef ad vér þá med von og öruggu trúnadar trausti gétum falid vorn anda í hans hönd, sem er þinn og vor Fadir! Amen!

# Á Páskadaginn.

## Bænin.

Til þín, eilífa Vera, vor Gud og Fadir! hefium vier á þessum hátídisdegi, þessum gledilega upprisudegi vors Endurlausnara, vor hiörtu. Med djúpustu lotníngu tilbidjum vier þitt vísdóms rád; þú, sem krýndir þinn Elskulega med dýrd og heidri, eptir ad hann hafdi lítillæckad sig til dauda, já, til dauda á krossi, svo ad sá, er leiddi marga brædur til þín, vard frumburdur framlidinna, og kom á undan þeim til þinnar dýrdar. Oss var rádgáta nidurlæging hins Heilaga; þad særdi vor hiörtu ad heyra hvernig honum var misþyrmt, honum, sem geck um kríng til ad giöra gott og græda alla; hversu hann var lagdur í daudans dupt; en ljós upprennur nú vorum skilníngi; vier sjáum, ad Jesú nidurlæging var vegurinn til upphefdar, hans daudi inngángur til lífsins, og þessi hugsan giörir oss ad nockru leiti skilj-

fanlega-atburdi lifsins, þvi vjer leidumst á þañ þánkq, ad þessa lifs atburdir verdi ad skodast vid eilífdarinnar birtu. Vjer imindum oss, ad hjer se mannsins nidurlæging, ad þar á eptir komi hans upphefd, og í kjorum vors Endurlausnara er þessi spegill oss fyrir sjónir settur. Fyrst vjer erum plantadir í líking hans dauda, svo munum vjer og verda likir hans upprisu. Þessi trú skal gledja oss og upporfa til ad gánga verdugleqa vorri kollun. Þar til styrki oss íhugan Jesu dýrdlegu upprisu, og þinn máttur, Drottinn! sem allt gjorir betur og yfirgnæfanlegar, enn vjer hofum vit á upp ad hugsa eda um ad bidja! Amen!

## Gudspjallid.

(Marc. XVI, 1—7.)

Þegar þvottdagurinn var umlidinn, keyptu þær Maria Magdalena, Maria Jakobs og Salóme dýrmæt smyrsli, ad þær kjæmu og smyrdu Jesúm. Snemma morguns einn þvottdaganna komu þær til grafarinnar um sólar uppruna. Þær sogdu sín á milli: hverr mun velta fyrir ockur steininum af grafar-munnanum! en þegar þær litu þángad, sáu þær ad stein-

inn var afveltur, hverr þó vær nærsta mikill. Þær gengu að grøfinni, og sáu úngmenni sitja til hægri hliðar, skrýddañ hvítu, síðu klæði, við hvað þær urðu óttaslegnar. Ungmeñið sagði við þær: ecki skulud þið hræðast! þið leitið að hinum krossfesta Jesú af Nazareth; hann er uppristinn, en er ecki hér; sjáið þann stað, hvar hann var lagður. Farið þið á burt, og segið hans Lærisveinum, einkum Pétri: að hann muni gánga fyrir þeim í Galilæu; þar munuð þeir sjá hann, eins og hann fyrri sagði þeim.

## Inngángurinn.

Enginn atburður í Jesú lífi hér á jörðu, var Lærisveinum hans minnisstæðari eñ sá síðarsti, nefnilega hans upprisa frá dauðum; þess var og von, því hann var svo óvenjulegur og óheyrður, að sá Hinn sami, er þeir sáu pýndann til dauða, lagdann seinast með spjóti í síðuna, og þar eptir jarðaðann, að sjá þennann, segi eg, gánga meðal lifandi manna, heyra hann tala við fólk, að matast með þonum, ferðast með honum frá einum stað til annars, það var ecki kyn, þótt allt þetta væri þeim minnisstædt. Þó Jesús optar enn einusinni segði sínum Lærisveinum fyrir, að svona mundi fara, var at-

þurdurinn óvenjulegri enn svo, ad þeir giœru honum trúad. Þegar þeir heyrdu þess fyrst getid, ad Jesús væri upprisinn, reyndu þeir søguna, þeir hugsudu, ad þær konur, sem fyrstar komu med þá fregn til þeirra, ad Jesús væri upprisinn, mundu ecki vera med øllum mjalla. Þeir somu, sem høfdu umgengist Jesúm, sáu hann og tøludu lengi vid hann upprisinn, þecktu hann ecki, trúdu ecki sínum egin augum; en þess tregari, sem þeir vóru til ad trúa jafnvel egin augum, þess markverdari vard þeim þessi atburdur sídan, og svo markverdur, ad þeir gjørdu hann ad høfud atridi sinnar kénningar og grundvelli trúarinnar. Þann dag, á hverjum atburdur þessi skédi, gjørdu kristnir sídan ad hvíldar- og helgum degi, ad samkomudegi allra, sem nefndu sig eptir Krists nafni, og eptir ad þeir fengu kirkjur, létu þeir í þeim og kríngum þær jarda framlidna, til ad gjøra upprisunnar endurminníngu þess lífligri og glediligri; því af þessu flaut, ad hún bodadist á þeim stad, hvar daudans herfáng var nidurlagt.

Jesú upprisu gjørdu Jesú Lærisveinar ad gyldustu ástædu fyrir sannleika þeim, sem hann hafdi bodad heiminum, og Postulinn Páll vogadi ad segja: ad væri Kristur eckí upprisinn, þá væri Postulanna og kristinn trú ónýt. En—vid bodun Krists upprisu sameinudu þeir þá kénníngu, ad von væri á upprisu alls holds. Sú kénníng er eitt af høfud-

atridum kristinndómsins; lærdómurinn um lif eptir þetta, er ecki eingángis máttarstólpi kristiligrar trúar, heldur allra trúarbragda, sem til eru i heiminum. Þar ad lýtur hvad eina, ad menn annathvert styrkist i þeirri sannfæringu, ad lif og umbun sé i vændum þegar þetta lif þrýtur, eda uppörfist til ad lifa svo stundlega, ad þeim vegni vel eilifega.

Vér viljum því i dag undir eins og vér hátídlega, med gledi, minnumst þess markverdasta atridis i Jesú lifi hér á jördunni, minnast þess markverdasta atburdar, sem oss öllum er fyrir hendi, vorrar endurlifgunar og upprisu. Vér viljum glæda med oss þá von, sem innrætt er vorum sálum af sjálfum Gudi, Hösundi vorrar náttúru, ad kjör vor séu ecki eingungis bundin vid þessa jörd. Vér viljum stadfesta þá trú, sem vor upprisni Endurlausnari hefir oss gefid: ad lifs sé von þegar þessu linnir. Þetta umhugsunar og gudrækni efni þykir best eiga vid Upprisu-Hátid hans, er med mesta rétti kallast: dauđans Sigrari og mannanna Lifgjafari.

---

Í því, sem Gudspjallamennirnir hafa uppskrifad af því, sem Jesús kenndi, finnum vér þess ecki getid, ad hann hafi framsett nockrar serdeilis ástædur fyrir þeim sannleika: ad lif sé til eptir þetta. Þess var eitt sinn leitad af þeim Londum hans, er neitudu upprisu fram-

tídinni, og brúkadi hann þá reksemdir, sem dugdu til ad sannfæra þá, sem hann átti orda-stad vid, en gátu ecki ordid eins sannfærandi fyrir alla; adrir enn þeir, Saddúceár, sem ecki trúdu upprisu framlidinna, þurstu ecki rok-semda fyrir upprisu daudra, á Jesú holds-vistardogum; því er þad náttúrlega tilgengid, ad Jesús minntist þeirra ecki í sínum kenn-ingum. En þessi trúar lærdómur: ad lif sé til eptir þetta, er þó sameiginadur ellum Je-sú kenningum, eins þeim, er vidvíkja trúnni, sem hinum, er framar mida til sidferdisins full-komnunar. Allstadar er gjort ráð fyrir því, ad madurinn, eda mannsins sála sé ódaudleg. Þar um vitna þessar greinir: Hrædist ecki þá, sem líkhamann aflífa, en géta ecki lífláti sálina — Safnid ydur fésjód á himnum — Fagnid, ad ydar verdkaup er mikid á himn-um. En þad, sem meira er: von eilífrar til-veru er óskiljanlega inngróin vorri sálu. Hvert sá madur, sem ecki er þónkalaus, leidist sjálf-krafa á þá hugsun, ad hann sé ecki einúngis skapadur fyrir þennann heim; því er sú trú svo almenn í heiminum medal allra þjóda, ad annad lif sé í vændum eptir þetta, ad marg-ir spakir menn hafa ætlad, ad hún væri oll-um medfædd.

Í allra manna hjörtum felst löngun ept-ir odru lifi, og sýnir ávexti sína med ýmsu móti, þeir vita ecki á stundum af því, ad þessi löng-un er í þeim kreptug, og optar en hún í þeirrá

sálum ecki annad enn eirdarleysi og lángan eptir einhverju fullkomnara og betra, enn hid nærverandi er. Þessi lángan er rótgróin flestum mönnum, þeir eru ecki ánægdir med hid nálæga, eira þvi ecki, sækja jafnan fram ad, og girnast eitthvad fullkomnara enn þeir þá hafa. Stædi nú í voru valdi, ad búa ad þeim kjorum, sem oss einusinni hafa hlotnast, alla vora æfi, þá mundum vér ad eins brúka þetta vald, er best þykir gánga, en jafnskjótt mundum vér ydrast þess, ef vér hefdum kósid oss þad ástand, er ecki gjæti breytst til ens betra, hjá oss mundi skjótt vakna lángan eptir umbreytíngu á hogum vorum, þvi ætid lángar oss í eitthvad þad, sem er fullkomnara og betra enn hid nálæga. Hafid þér ecki tekid eptir þvi hjá barninu, ad þad lángar eptir þvi ad verda stórt? og hjá þeim fulltída, ad hañ óskar sér einhvers añars enn þad er, sem hann hefir? sjái hann ecki veg til, ad hans egiñ hagur batni, óskar hann tídum þeim framfara, sem honum eru nákomnastir. Þessi lángan eptir einhverju betra enn hid nálæga er, fylgir manninum þángad til hann er kominn ad takmarki allra óska og starfa og vonar, og grafarinnar ró býdur honum til hvíldar.

Þessari laungun til einhvers betra enn hid nálæga er, fylgir einninn vidleitni ad bæta hag sinn, og þessi vidleitni sýnist liggja falinn í allri náttúrunni; ósjálfrádt sýnist hún sameginleg hinni lífgudu og líflausu náttúru; krapt-

ar náttúrunnar eru allstadar í starfi og strídi vid þad, sem hindrar þeirra verkanir. Líf og daudi, villa og sannleiki, vit og fávitska eiga strid saman innbyrdis, og veitir ymsum betur. Sú ádur ádur áminnsta lángan, og þessari laungun samfara vidleitni ad ná einhverju betra og fullkomnara enn hid nálæga er, sýnist berlegur vottur þess sannleika, ad Gud hafi ætlad oss lengri tilveru, heldur enn þetta stutta líf. Þad er líklegt, ad strídi náttúrunnar krapta muni einhverntíma linna, ad lífid sigri daudann, ad regla fái yfirhönd, ad sannleikurinn útrymi villu og dygdin syndinni. Í þessum heimi gétur ecki þessi gledilega von ordid ad uppfyllingu; þad forna strid náttúrunnar krapta, sem er þeim jafngamalt, vidheldst til þessarar stundar; hiti strídir vid kuldq, vatn vid eld, daudi vid líf. Drottinn sagdi í öndverdu: ad svo lengi, sem heimurinn stædi, skyldi ecki linna sumar né vetur, sád né uppskera, frost né hiti, og hans ord blyfur ad rætast; stridid vidheldst medan heimurinn stendur; Forsjónin sier þad naudsyn, vegna ædra augnamids, ad fridur komist ecki á ad svo komnu. Öll skepnan blytur her ad vera í neckurskonar ánauð, madurinn ecki hvad síst, og þad, sem merkilegast er, þá vyrdist, sem þeir mestu og bestu menn þjáist ecki hvad minnst; hjá þeim er og innilegust lángun eptir einhverju betra og ædra enn hinu nálæga. En — er þad líklegt, ad þetta strid og þessi þjáning verdi endalaus?

ad hlutir skapist til ad eydilegajast aptur; þeir verjist eydileggingu, verdi yfirbugadir og streitist þó vid ad komast upp aptur? Tilfinning vorra sálna er samtaka sanleikans roddu i Guds ordi, og hún heitir oss þvi, ad lifid skuli sigra daudann, ad allir hlutir skuli endurnyast, leysast af forgengilegleikans fiotrum og ná þeirri dyrd, sem þeim var ætlud. Einunn og mátanu veit enginn daudlegur; vér þeckium ecki þá dyrd, sem á sidan mun vid oss opinber verda.

En — eins og strid er í allri náttúrunni, þeirri lifgudu og lifslausu, eins og madurinn verdur vid hana ad strida, eins er strid i oss siálfum innra. Fyrir skynseminnar liós dreifur tidum vanþeckingar ský, þad byrgist opt af villunnar og sávitskunnar myrkrum. Viljans frelsi þvingast af girnda og tilhneiginga fiotrum; jafnvel þeir fullkomnustu af mannanna sonum mega játa um sig med Postulanum: ad virkja þeirra se hálfverk, ad þeir stundum ecki giori hid góda, sem þeir vilji giora, og yfir höfud ad tala, ad þeim se ecki einúngis ætlud barátta ytra, heldur og strid hid innra; ad þeir hafi ecki enn þá nád hnossinu, þeirri fullkomnun, sem þeim er skapad ad ná; þeir beslu seaja med honum: vér stundum þar eptir, og finna þol, eins og hann, laungun eptir ad leysast hédan úr lifsins ánaud, til ad vera med Kristi. Ad sonnu megum vér telja oss enar ædstu skepnur Guds af þeim skilnilegu, af þeim, sem vér þeckium; oss er ad sonnu leyst ad drottna yfir him-

vsins fualvm, sjáfarins fiskum og yfir öllum þeim skepnum, sem hrærast á jördunni. En — drottnum vér Ld lika yfir sjálfum oss? gætum vér þa stjórnad gédi voru? rádum vèr vid þær girndir og tilhneigíngar í oss, sem vér sjálfir játum, ad vér ættum ad stjó na? og, ef vér rádum ecki vid þær, hvad verdur þá úr voru Herradæmi? erum vèr þá ecki í ánaud? og sèum vèr þad, finnum vèr þad? er þá ecki von ad oss lángi eptir frelsi, eptir betra ástandi, en hér veitist? Oss rennur stundum upp inra sannleiksins ljós, en þad dapræst tídum; villunnar þoku ský byrgir þad opt, en ecki er audgjort ad reka þetta ský á burtu. Vèr finnum á stundum Guds krapt í oss máttugann, og þessi kraptur, Guds kraptur í trúarinnar, hjálpar oss til ad yfirvinna heiminn, til ad gánga vorri himnesku köllun. En — hversu opt þará móti kennum vér ecki vors vanmættis, finnum vorn vilja eins og fjötradann, svo þad geda, sem vér viljum gjora, gjorum vér ecki; værí þá ecki óskandi ad losast úr þessum fjötrum? Drottinn skapadi oss til ad þjóna réttlætinu og ætladi til, ad þessi þjónusta veitti sáluni mestu unadsemd; er þá ad furda, þott oss lángi inní þad land, hvar réttlætid byggir? Samvitskan bendir oss til vorrar köllunar, hún áviltar oss, þegar hana vanrækjum eda henni gleymum, þegar breytum henni gagnstædt. Í þessu stridi á madurinn hér, frá því hann hefir lært ad þeckja greinarmun góds og ills, og þángad til vège

ferd hans er á enda. Mundi þá Drottinn hafa skapad oss einúngis til ad strída? látid oss þeckja íllt frá gódu oss til plágu, en ecki hafa fyrirhúgad oss sigurinn? mun sá Alvaldi ecki frelsa vorn frjálsa anda frá holdsins fiötrum? já, vissulega! Sá, sem innrætti vorum sálum laungun til frelsis, og þvi innilegri, sem þær einlæglegar leitudu hans, sem þær skapadi, og betur þecktu sína tign og ákvordun, hann mun hafa hagad hlutunum þannig, ad þessari laungun mun verda fullnægt. Drottinn sjálfur mun frelsa born sín úr allri ánaud, þegar þau eru hæfileg ordin til ad hafa fullkomid frelsi; medan þau eru hálfvitar, verda þau ad agast og mega ecki fá allann sinn vilja, en þegar barnæskan er lidin, er í vændum hid fullkomna Guds barna frelsi.

En — máske allir finni ecki hjá sér þessa laungun eptir betra og fullkomnara ástandi en þvi, sem hér er kostur á ad komast í? máske heir hugsi þvi, ad ánægjuleysi og beird sú, sem morgum manni fylgir í þessu lífi, sé einn af ávöxtum mannsins spillíngar, og ætli, ad sá gjori réttast, sem nýtur lífsins og heimsins eins og best getur, en ecki ad Postulans bodi: eins og þeir, sem ecki brúka hann. Þar er til heidurleg ánægja og óheidurleg ánægja. Þad er heidurlegt, ad vera ánægdur med lítid, ad kjósa heldur frelsi enn nægtir. Hitt er ecki heidurlegt, ad vera ánægdur med þá sælu, sem Rautn heimsins gæda veitir, eda med þá sidferd-

is fullkomnun, sem manninum venjulega fylgir; ad þeckja enga plágu nema sjúkdóm, engan skort annann enn þann, er líkhamans þörf minnir á, þad er engin dygd, heldur brestur, þad er manninum vanvyrda. Sú ánægja, sem svo ástendur, getur ecki verid frá Gudi. Enginn madur, sem ødrum tók fram ad viti eda mannkostum, hefir notid þeirrar ánægju í lífinu, og ecki liggur nockud stórt eptir þá í heiminum, sem svo vóru skapi farnir. Hyggnir og miklir menn, þeir fundu ætid í sér laungun, já, innilega laungun eptir einhverju ædra og betra enn þessi heimur hefir ad bjóda, og hvad er þá líkara, enn løngun eptir betra enn hid tímanlega er, sé frá Gudi komin í mannsins edli? mun hún ecki þess vottur, ad madurinn bædi þecki sína kollun og sína bresti? mun hún ecki sýna hvadan sálin er komin og hvert hún vill komast? Þessi løngun gjørir ecki manninn sorgfullann eda duglausann; henni fylgir lifandi trú og von; von um, ad þad muni fást þó seinna sé, sem hugann innilega eptirlangar. Løngunin vekur kappid, en kappid gefur von um sigur; í voninni nýtur sálin þess, er hana eptirlangar; þad er sá forsmeckur himinsins sælu, sem margur gódur madur hefir hér á jördu fengid, pantur þess, ad Gud muni á sídan uppfylla allra gódra manna eptirlaungun, og láta þá sadda verda, sem nú húngra og þyrsta eptir réttlætinu. Í hvert sinn, sem Guds sannleiki upplýsir vora skilníng, svo vér þeckj-

um rétt frá raungu; í hvert sinn, sem Guds kraptur styrkir oss til ad sigra heiminn eda oss sjálfa, smeckum vér fyrirfram þá sælu, sem eñ fullkomnari er fyrirbúin þeim fullkomnudu. Þanninn predikar vort egid edli og vort ástand í þessum heimi oss þau somu sannindi, sem Jesús hefir stadfest med sínum ordum og med sinni upprisu, ad lífs sé von eptir þetta; vér þurfum þá ecki lángt ad fara til ad fá ánægjanlega sannfæríngu um þennann mikilvæga hofudlærdóm trúarinnar; þann lærdóm, sem upplýsir fyrir oss rádgátu þessa lífs, og gefur voñ um, ad hjartans eptirlángan verdi-mettud, þeg. ar hún er ordin samhljóda Gúddómsins heilagu vilja, snúin ad því, sem er satt, rétt og gott; Nærum þá og lífgum eptirlánganir vorra hjartna, sem híngad stefna, verí þær og víss vottur þess, ad vér erum frá Gudi komnir og förum hédan til Guds, hvert vor Endurlausnari er á undan oss kominn til ad tilbúa oss stad! lifi med oss, fylgi oss, hvar sem vér erum, elska sannleiks og dygdar, lángan eptir framför í allri sálar fullkomnun, hvert sem oss gengur med eda móti, í gledi og sorg, hvert sem vér erum einir á ferd um lífsins veg, eda odrum samferda.

Þegar vorid skrydir jordina sinum blómum og lífgar allt, skal þeisi sjón, í því hún dillar oss, benda til þeirrar prýdi, sem náttúran á í vændum á eilífdarinnar vori; og þegar haustid aptur afklædir náttúruna sumar-skartinu, og kanfar hennar blómgandi og lífgandi krapt,

Þá vaki samt i oss von þess lífs, er ecki mun stansa, þess blóma, er aldrei mun folna! Lifi Þú i vorum hjörtum lángað eptir því fullkomnara! Lánai oss þá til hans, sem er hinn sami frá eilífd til eilífdar og aldrei elldist. aldrei umbreytist þó himnarnir fyrnist og allt brennist, deyi og eydist; og til hans, sem elskadi oss og gaf sig i daudann fyrir syndugt mannkyn, og hefir heitid oss, ad ver skyldum fá ad vera þar, sem hann er, þar, sem hann hefir tilbúid oss stad.

Þó mer þvi gángi allt i vil á þessari jördu og heimurinn hlæi mer á móti, lát mig samt, Drottinn! midt i velgengninni, hugsa til þess, ad annad ædra og betra er til enn þad, sem best er af þessu tímanlega; og þegar lífsins mæda þreytir mig og óspekir, kenn mer þá, Drottinn! ad hefja hugann til þín! kenn mer þá ad vona og bída minnar endurlausnar! og þegar mín endurlausn tekur ad nálgast, og daudinn, þinn sendibodi, kémur til ad sækja hvad þitt er, lát þá laungunina eptir þeirri dýrd, sem þá kenndir mer ad þeckja og vænta, gjöra mer vidskilnadinn hægann vid allt þad, sem bindur hold mitt vid heiminn! Amen!

S

# A annann Páskadag.

## Bænin.

Vier hefium í dag vor hjörtu, mikli og máttugi Gud! í hædina til þin, snúum þeim frá þessum heimi til himinsins, þángad, sem vier vitum vorn Endurlausnara undan oss farinn; þángad, sem vier vitum ad vort retta födurland er. Vier hugsum til þeirrar miklu og gledilegu trúar; sem vor upprisni Endurlausnari hefir oss bodad, ad allir hans rett-trúadir skuli eilíflega þar vera, sem hann er og fagna hans fognudi og eginn fognudi, ad endadri þessa lífs nidurlægingu. En æ oss, Drottinn! vor hugur hángir svo fast vid þenna heim, eins og vor líkhami vid þessa jörd; drag hann því til þín, frá heimi þessum til himinsins! gef ad vier finnum í oss faanud af þeirri tilhugsun, ad oss er ætlud vist med þínum elskulega Syni i sælunar bústödum eilíflega, þegar hofum kappkostad, med þinni nádarríku adstod, ad gjöra oss þessarar sælu verduga, med því ad hreinsa oss af allri saurgun holdsins og andans. Lífga, Drottinn! vora laungun eptir því himneska! Lát lífsins hjegóma og lífsins mædu hverfa oss, verda einkisverda í samanburdi vid þá ómælan-

legu dýrdar Þýngd, sem oss er Heitin í hinu eilífa Lífi! Amen!

## Gudspjallid.

(Lúc. XXIV, 13—35.)

Tveir af Jesú Lærisveinum gengu á hans uppríſu dag til kauptúns nockurs, sem var frá Jerúsalem 60 skeida-rúm og hét Emaus. Þeir vóru ad tala um þad sín á milli, sem vid hafdi borid. En þad skédi svo, þegar þeir þanninn rædduſt vid og spurduſt á, ad Jesús sjálfur nálægdiſt þá og géck jafnframt þeim; en þeir þecktu hann ecki. Hañ sagdi vid þá: hvad er þad fyrir rædu, sem þid reykandi heudlid um yckar á milli og erud hriggvir af? Þá svaradi annar þeirra, ad nafni Kleóphas: ert þú svo framandi í Jerúsalem, ad þú veitſt ecki hvad á þessum dögum þar inni gjörſt hefir? Jesús spurdi: hvad er þad? Kleóphas svaradi: þad, ad Jesús af Nazareth, hverr ed var spádóms-madur, máttugur í verkum og ordum fyrir Gudi og öllu

fólki, var af vorum Hofudprestum og Høfdíngjum seldur í fyrirdæmíngu daudans og krossfestur, en vér vonudum ad hann mundi endurleysa Israel; er nú sá þridji dagur í dag sídan þetta skédi. Nockrar qvinnur hafa og skélft ockur, sem árla høfdu hjá grefinni verid, en fundu ecki hans líkhama, komu og qváduſt sjed hafa Engil, sem sagdi hann lifa. Nockrir af ockur gengu til grafarinnar, og fundu eins og konurnar høfdu sagt, en Jesúm sáu þeir ecki. Jesús svaradi: o! þér heimskir og tregir í hjarta ad trúa því, sem Spámennirnir hafa talad! hlaut Kristur ecki þetta lída, og inngánga svo í sína dýrd? Hann tok til frá Móses og øllum Spámønnunum og lagdi út fyrir þeim allar þær Ritníngar, sem af honum vóru. En þegar þeir tóku ad nálægjast kauptúnid, sem þeir gengu til, ljetst Jesús vilja lengra gánga. Þeir neyddu hann og søgdu: vertú hjá ockur, Herra! því lidid er á daginn og farid ad qvølda. Hann géck inn og var hjá þeim. En svo skédi, þegar hann settist med þeim til bords, ad hann tók braudid, blessádi þad og braut og rétti ad

þeim, þá opnuðust þeirra augu svo þeir þecktu hann; en hann hvarf frá þeim. Þeir sögdu sín á milli: brann ecki ockar hjarta í ockur, þegar hann taladi vid ockur á veginum og útlagdi fyrir ockur Ritníngarnar? Þeir stódu strax upp og snéru aptur til Jerúsalem, hvar þeir fundu þá ellefu samansafnada og þá, sem med þeim vóru, hverjir sögdu: Jesús er vissulega upprisinn og hefir birtst Símóni. En hinir sögdu frá hvad gjörst hefdi á veginum, og ad þeir hefdu þeckt hann í því hann braut braudid.

## Inngángurinn.

Þeir Jesú ástvinir, sem í raunum sínum höfdu gengid frá Jerúsalem til Emaus, og á þessum vegi talad vid ókénndann mann um tilefni sinnar sorgar, þeir urdu eins og frá sér numdir af fögnudi, þegar leiksins þecktu, ad sá ókénndi madur, sem vid þá hafdi talad á leidinni var sá, er þeir vóru ad spyrja, sem látinn, þeirra elskadi, harmadi Drottinn og Lærimeistari. Þad var ecki furda þótt þeir yrdu gladir vid, því atburdurinn var gledilegur og kom þeim auk þess harla óvart. Þeir trúdu, því þeir sáu, þeir gátu því og gladst. En — sælir eru þeir, sem ecki sjá og trúa þó, því án trúar gefst ecki fögnudur. Látum

oss gjóra ráð fyrir, að þeir sömu Jesú ástvinir, sem þecktu sinn Drottinn, í því hann braut brauðið, hefðu strax þar á eptir farið að tortryggja sín egin augu, og hugsa þetta hefði verið missýning, það væri ecki allt sem sýndist, og margt kynni oðru líkt að vera, og annað þesshattar, sem tortryggnin svo tíðum minnir á; þeir hefðu ecki fundið stórann fognuð með sér vakna við sjónina, þess var ecki heldur von. Þanninn gengur það hverjum manni, sem er efablandinn og þorir ecki að trúa því, sem er gledilegt, hann getur ecki glaður verið. Þetta trúarleysi á heima hjá morgum, einkum á vorum dogum; þess er líka von, þar ed þær aldir vóru fyrri, sem ollu trúðu: því það er sannreynt, að frá hjátrú til vantrúar eða trúarleysis er stutt stig og fljótfarið. Það liggur og í eðli mannsins, að hann á bágt með að trúa bæði því, sem er sorglegt, af því hann helzt kýs það væri óskéð, og líka því, sem er einka gledilegt, því hann vogar ecki að vænta þess, ef ské mætti að vonin síðan bregdist honum til þess sárari rauna tilfinníngar.

Madurinn er sjálfur að nockru leiti sekur í vantrú sinni, því átaldi líka Jesús sína Lærisveina fyrir vantrú og hjartans hardúð, og kalladi það heimsku þessara, sem um er getið að við hann toluðu á veginum til Emaus, að þeir trúðu ecki því, sem Spámennirnir hofðu um hann skrifað; stundum vill maðurinn ecki trúa, og þá er ecki kyn, þótt hann

trúi ecki; stundum skortir ecki viljann, og trúin kémur þó ecki; en mun þad ecki koma af því, ad madurinn vyrdir ecki svo rækilega fyrir sér, sem skyldi, þau gudlegu sannindi og sína kollun. Þad er víst, ad þess rækilegar, sem vér vyrdum fyrir oss Guds verk, þess ædra, sem vort umhugsunar efni er, því heldur fá þau ædstu og gledileguſtu sannindi rúm í vorum hjörtum, þad er: því hægra egum vér med ad trúa.

Líklegt er ad hjarta mannsins sé aldrei fúsara til ad trúa, heldur enn þá hann, frí vid lífsins storf, gégnir sínum gudrækuis ydkunum, einkum á þeim hátidis-dogum, sem minna hann á þau gledileguſtu sannindi trúarinnar, eins og þessi hátidisdagur, sem haldinn er í minníngu þess dýrdlega atridis Jesú lífs, hans dýrdlegu upprísu og opinberunar fyrir hans vinum. Þeisi hátidisdagur minnir oss undir eins á þau gledilegu fyrirheit Guds, ad þegar dagsverki voru hér er lokid, skuli allir trúadir þángad flytjast, sem vor Endurlausnari nú ríkir, og med honum ríkja eilíflega. Von hvers eins réttkristins, bygda á þessu fyrirheiti Guds, sem styrkir manninn til ad gégna trúlega lífsins skyldum og bera þolinmódlega lífsins mædu, skulum vér á þessari gudrækuis stundu lífga og styrkja med því ad hugleida: **hvad salufull sé vilhugsan eilífs lífs.**

Þegar vér tølum um annad líf, tølum vér um þad óþeckta land, ſem ótal ferdaſt til dag-lega af vorri ætt, en hvadan enginn hefir aptur-komid til ad ſegja frá, hvernig þar er ad búa. Gudi hefir ecki heldur þócknaſt, ad opinbera mønnum berlega þad ſælufulla heimkynni, ſem annars heims er ætlad þeim gódu. Eitt vit-um vér ſamt, þetta nefnilega: ad þar ríkir ſá ſami Gud, í hverjum vér hér erum, lifum og hrærumſt; þad góda, ſem vér þeckjum hér í oſs, þad fagra ſem hér var ad ſjá í kríngum oſs, mun efalauſt þar verda enn fullkomnara og prýdilegra. Þar munum vér, ecki ſídur enn hér, géta hoft-rndi af ad ſkoda Guds verk, ad hlýda hans heilaga vilja, og ad taka hlutdeild í heilogu ſamfélagi þeirra útvøldu. Hér í ſa-mindum vér oſs, eptir Guds orda leidarvíſir, innifalda ſælu eilífs lífs, hún gétur, eptir edli ſínu, ecki ſmackaſt ødrum, ecki gladt adra enn þá, ſem þeckja nú þegar eitthvad betra, ſem hafa eitthvad kjærara heldur enn ad afla og enda aptur því aflada jardneſka gótzi, ecki adra enn þá, ſem byrjad hafa ad lifa fyrir eilífdina, og finna því í ſér krapt eptirkomandi aldar. Þeſsir hafa og efalauſt lidum hér á jørdu mett-ad løngun ſinna hjartna, og gladt ſig med ſkodun og ígrundun ſkøpunarverkſins dáſemda, þeir fundu unun í því, ad þeckja Skaparann af hans verkum.

Þeim er og efalauſt ſú trú glediſeg, ſem kennir, ad í vændum ſé ad ſjá meira af Guds

mikla ríki, og þeckja betur hans mestu dásemdir. Hverr sá, sem gefur gaum ad Guds verkum, jardarinnar marabreyttta skrauti, hennar ýmislegu, morgu, ólíku skepnum ad edli og ásigkomulagi, hefir opt tilefni af undrun og gledi ad upphrópa med David: Drottinn! hversu morg eru þín verk! þú gjördir þau oll med vísdómi. Hann óskar og opt, ad skilid gæti þann vísdóm Guds, sem í þeim er opinberadur; því jafnvel þeir, sem best hafa igrundad og vandlegast skodad Guds verk, hafa orsok til, ad játa, ad þad, sem þeir vita um þau viti, sé lítid í samanburdi vid þad, sem þeir ecki viti. Þeir vita, ad enginn getur talid, því sídur þeckt allar þær skepnur Guds, sem hræraft á jordunni. Enginn hefir sjed allt þad, sem hrærist og lifir í jardarinnar sjófinum, og þó jordþessi sé vid um sig, er hún hid minsta af heimsins miklu vídáttu. En — þá lángar til ad þeckja meira, sem þeckja nockud af skopunarverksins dásemdum; þeim er því gledilea sú tilhugsan: ad lífs sé von eptir þetta; þeir telja sér víst, ad þar muni gésast kostur á ad sjá meira af þeim og þeckja betur, og búast vid mesta yndi af Guds dásemda skodun og þeckíngu.

En — fleiri hafa yndi af ad skoda Guds verk, heldur enn þeir, sem mest til þeirra þeckja; jafnvel þessir gleyma stundum sinni þeckíngu, og vekja hjá sér, med einfaldri skodun Guds dásemda, þá somu unadsemd, er sá ófródi almúgamadur nýtur, þegar hann horfir á

Guds dásemdir med gudlegum tilfinníngum í hjartanu, Hverr og einn getur síed, þegar eptir því vill taka, hverſu allt hræriſt og lifir, hvad mikill grúi af ſkepnum ſer um loptid, hræriſt á jorduñi, ſyndir í hafinu, hverſu Drottinn vidheldur ollu, annaſt hverja ſína ſkepnu, gleymir engu; hverſu hann klædir graſid á akrinum, fædir fuglinn í loptinu, upplykur ſinni hendi og ſedur allt, ſem lifir, med ſinni bleſſun, gefur hverri ſkepnu ſitt fódur í hæfilegann tíma.

Þegar eg yrdi fyrir mer þann alſtirnda himin, þann grúa af ſtjornum, ſem enginn hefir hingad til getad talid; þegar eg ſkoda Dyrd þíns himneſka herſkara, þá Almáttugi! og íhuga, hverſu þú ſettir ſól hjá ſólu, verold hjá verolldu, og mældir allra veg, og vidheldur ollu, ſvo eckert raſkaſt, eckert ſer aflaga, þá finn eg til þeſs, hvad ſtór þín hátign er, hvad máttur þinn er ótakmarkadur. Þá vaknar mitt hjarta, gleymir lifſins hegóma, finnur ad eins til þinnar Dyrdar, trúir þínum fyrirheitum og gledſt í trúnni, qvídir ecki dauda, grof eda rotnun, því þad finnur í ſer gudlegann krapt eptirkomandi aldar, og byſt vid ſkodun Guds Dyrdar enn meiri á landi hinna útvoldu, heldur enn á jordu hinna daudlegu.

Þad mætti mikid vera, ef annar heimur yrdi óſagrari enn þeſsi, ef Gud ecki þar einninn opinberadi ſig í ſínum verkum, ſem hann ſvo dyrdlega hefir gjort í þeſſum heimi. Vil

fegurd þeſſarar jardar er ad ſonnu forgengileg, hún ſølnar og eydiſt. Þad líf og kraptur, ſem í øllu er, deyr þó hverki ne hverfur; þegar veturinn hefir afklædt jørdina ſinu ſkrauti og um ſtund ſtanſad hennar frjóſgunar krapt, kémur vorid, ſem lífgar allt og klædir ſá noktu jørd aptur í nýhann blómlegann búníng. Guds andi fer þá yfir þá jørd, ſem er tóm og í eydi, og endurſkapar hana, eda ad minnſta koſti, endurnýar hennar áſýnd. Gud lætur ecki af ad ſkapa og vidhalda, hann þreytiſt ecki á því; engin ſín verk aſmáir hann ſvo, ad hann ſetji ecki onnur í þeirra ſtad. Þad er því líklegt, ad vér annars heims finnum ſá dýrd Drottins, ſem hér gledur vorar ſálir, edur adra ecki minni. Ecki talar Ritníngin ſvo um annad líf, ſem þad muni verda óprýdilegra enn þetta, hún kennir ad ſonnu: ad hold og blód geti ecki erft Guds ríki, en í þeſs ſtad ſegir hún, ad ſálin muni aptur íklædaſt óforgengilegum, dýrdlegum, andlegum líkhama; hún kennir: ad jørd þeſſi muni forgánga med øllu, ſem á henni er; ad himnarnir muni fyrnaſt og ſlitaſt; en hún gjørir líka rád fyrir nýum himni og nýri jørdu. Eptir þeſſum bendíngum Guds orda getum vér med viſſu vænt þeſs, ad ſeu margar dáſemdir Guds á þeſſari jørdu, muni þær ecki verda færri á þeirri nýu, og þyki oſs yndi ad ſkoda þær hér, muni oſs verda þeirra ſkodan enn gledilegri annars heims, þá vér med auknum gáfum og helgudum til-

finníngum, sáum ad skoda Guds dyrdar ríki og tilbidja Gud, sem opinberar sig í sínum verkum og födurlegu forsjá.

Pad er yndi hins gudhrædda í þessum heimi, ad rekja spor gudlegrar forsjónar, ad hugsa um Guds handleidslu á sér og ødrum, og hugur hans stadnæmist opt vid þetta ígrundunar-efni. Vér vitum, ad Drottinn styrir øllu smáu og stóru. Ríki kollkastast ecki, titlíngar falla ecki á jørdu án þess himneska Födurs tilhlutunar. Hans rád er speki, hans stjórn gædska og födurleg nád; en — vér skynjum þad ecki ætíd, þad er oss ofhátt, og af því leidir tøluverda ógledi; því þótt vér játum, ad Guds hugsanir og álygtanir séu ødruvísi enn mannanna, lángar oss til ad skynja þær, og einhver hin mesta og tignasta lífsins gledi er þad, ad skynja hvad Gud gjørir. Vér trúum ad sønnu, þad sé Guds rádstøfun, þegar oss mætir eitthvad sorglegt, en vitum ecki á stundum tilgáng Drottins, og allra síst medan mótlætid yfirstendur, þegar vér seinna þykjumst skynja hvers vegna vér vórum hirtir, þeckjum vísdóm Guds vega, og sjáum hvada gagn vér høfdum af mótlætinu; þegar vér konnumst vid þá Födurhønd, sem leidir oss med sorg til betrunar, vitsku og sálar rósemi; þegar vér finnum þess margann vott í vorum eda annara kjørum, ad allt verdur ad þéna þeim til góds, sem Gud elska; þegar vér í heimsins stærri atburdum sjáum þeckjanleg merki gudlegrar tilhlutunar, þá

njótum vér þeirrar unadſemdar, ſem oſs mundi ecki ſol fyrir hvern annann fögnud, er veitiſt á þeſſari jördu.

Mun nú ecki þeſsi fögnudur vera forſmeckur þeſs, ſem von er á annars heims, þegar allt ſkal upplýſaſt fyrir oſs, ſem nú er þúngſkilid? þegar von er á, ad þeckt fáum, hvers vegna vort hlutſkipti vard hér þetta, en ecki annad, og hvers vegna oſs var úthlutad þvi mótlæti, ſem nú andvörpum yfir? þegar allar efaſemdir, ſem nú ángra oſs, ſkulu hverfa, af þvi vér þá ſjáum ecki lengur gégnum dymmt gler, eda eins og í rádgátu, heldur augliti til auglitis. Þá munum vér enn hyggnari kannaſt vid þá ſömu gudslegu ſpeki og nád í hlutanna gángi og vorum kjörum, ſem vér nú þeckjum og dáumſt ad í ſköpunariñar dáſemdum. Þetta er ſú ſæla, ſem gudhræddum er ætlud í himnarîki, ad ſvo miklu leiti, ſem hún er innifalin í ſkodun og þeckingu Guds verka.

En mannſins kallan er ecki einúngis ad ſkoda og igrunda, hann unir ſér ecki heldur vid þad eitt, hann vill hafa eitthvad ad ſtarfa, honum nægir ecki ad þeckja Guds verk og hans ályktanir, hann vill og ega þátt í ad framqvæma Guddómſins vilja, ad gagnaſt einhverjum og af þvi uppſkera gledi. Eckert lætur ſá rádvandi ſér eins annt um hér í lifi og þad, ad þeckja Guddómſins vilja ad ſvo miklu leiti, ſem honum vidkémur, og hlýdnaſt hinum ſama glödlega og fullkomlega. Í þeſſari ydju finnr

ur hann frid í medlæti, hugsvolun í mótgángi. Verdi honum nockud ágeingt, blessist hans störf, gledur sú tilhugsan hann innilega, ad Gud láti sig ecki lifa til einkis. Annad líf getum vér ecki ímindad oss, nema eins og fullkomnun þessa lífs; þanninn talar og Ritníngin um þad, sem segir: ad vér sèum, hèr börn, en fullordins árin komi á sídan; en þegar svo ástendur, þurfum vér ecki ad gjalda því, ad annad líf verdi oss leidinleg hvíld; heldur er hitt líklegt, ad eins og vèr á þessari jördu fáum nóg ad starfa, og því meira, sem oss eykst dád og dugur, eins mun og þar gefast kostur med laúsum og lidugum anda og auknum kroptum ad þjóna Gudi í heilagleika og rèttlæti. Ecki vitum vèr hverjir kraptar oss muni þá bætast, eda hvernig vér med þessum eignm Gudi ad þjóna, og taka hlutdeild í hans forsiónar endalausa verki. En ecki munum vér endurlifna til óþarfa, til vöjuleysis; ecki mun oss aukast kraptar til einkis. Vísdómur og kraptur mun oss bætast til þess, ad vèr því betur getum þjónad vorum Drottni; þá verdur ecki heldur þörf á ad þrælka fyrir líkhamlegri naudþurft. Vinnan mun þá ecki framar þreyta, því vèr munum finna í oss Guds krapt og hressir og gladir gjöra þad, sem Gud ætlar oss ad vinna.

Þegar vèr íhugum þetta væntanlega sælu-stand vort og jöfnum því vid hid besta og fullkomnasta, sem vèr þeckjum hèr — vèr getum ecki ödruvísi gjört oss þad skiljanlegt nè um

þad talad, nema med mannlegum ordum — þá gleymum því ecki, ad þad ædsta, sem madurinn gétur ímindad sér, er þó minna enn þad, sem í vændum egum; því þad, sem auga hefir ecki sjed, eyra hefir ecki heyrt, og engum hefir í hug eda hjarta komid, þad hefir Gud ætlad þeim, sem hann elska.

En — nú ad endingu skulum vér íhuga eina þá sælu tegund, sem Gud hefir heitid þeim útvöldu, og þad er sá samstlagsskapur heilagra, sem Guds ord talar um. Þeir, sem búa yfir blídu hjarta og finna unadsemd í sambúd vid góda menn, géta best metid þetta Drottins fyrirheit. Hvílík unadsemd er þad ecki, ad hitta hér hyggna, góda, blídlynda menn, og binda vid þá vinskap! en — þad heppnast ecki opt á þessari jördu; tídum er hér bil á milli þeirra, sem saman eiga; stundum hittast þeir ecki, stundum skilja þeir aptur strax, sem fundist hafa, hverr fer sinnar leidar einmana og bera sinn harm í hljódi. Þeir, sem saman ljeku í þeirri áhyggjulausu æsku, þeir, sem vóru stallbrædur uppvertinum, verda ad skilja; daudinn kémur og adskilur þá, sem lífsins bilángar leyfa ad saman búi, því leidin fjölga daglega. Bein hinna framlidnu rotna, og minníng þeirra fyrnist skjótt á jördunni; þad trúfasta vinar hjarta geymir hana. Því er naudsyn ad muna Guds fyrirheit og vona eilífs lífs, þá ridur á ad trúa og vona, trúa því, ad þeir daudu lifni aptur, ad þeir finnist aptur, sem hér urdu ad skilja, og þeir,

sem ecki funduſt hér; því í Guds dýrdar ríki finnaſt þeir ecki einúngis, sem hér vóru adſkildir, heldur og þeir, sem hér ecki ſaman nádu. Ecki eru þeir hyggnu og heilögu menn týndir, sem í fyrndinni lifdu á jördunni, þeirra nöfn eru í lífſins bók, þeir eru geymdir hjá Gudi. Já, hjá honum eru allir þeir, hverra nefu, dæmi og verka ávextir enn þá ſjaſt á jördunni; þeir, sem ſtridu hid góda ſtríd, vardveittu trúna og góda ſamvitſku. Þar veidur þá ad finna, sem í Guds nafni tölubu til enna fyrri ættgöfla, þoldu ofſóknir og vóru þó trúir ſinni köllun, og þá, sem grundvölludu Kriſts kirkju med ſínum ſveita og blódi; já, alla, sem á öllum öldum, í öllum löndum, vóru ſallt jardar og ljós heimſins, eda innan ſinna húſveggja dýrkudu Drottinn med hreinu hjarta, og fóluſt fyrir heiminum.

Er þeſsi tilhugſan ecki ſælufull? eda er þeſsi von of inndæl? hafi Gud lagt nidur þeſſa eptirlaungun í mannſins hjarta, er honum ecki um megn ad láta hana ſedjaſt, og hefir hann ecki lofad ſínum útvöldu Englanna ſamfélagi á himnum? hefir ecki vor Endurlauſnari, Engla og manna Konúngur lofad, ad ſafna ad ſér ſínum dýrkendum, ſvo þeir ſéu þar, sem hann er? ſá hefir lofad þeſſu, hvers fyrirheit ecki bregdaſt. Og þegar von er á ad komaſt til hans og ſiá hann, ſem er Guds ſkínleg ímind og ljómi hans dýrdar, mannkynſins kórónа og heimſins Lauſnari, þá er ecki ofvænt ad trúa því

ad vèr á sídan komast munum í samfèlag helg-ra manna, Guds ástvina, og vorra vina og lifa med þeim eiliflega sælir, hjá honum, sem dó fyrir vorar syndir og uppreis oss til rètt-lætis. Svo gledilegt er Guds fyrirheit, svo sælufullt þad ástand, sem útvaldir ega í vænd-um. Hugsum opt til þess; látum þessa til-hugsun svkra oss lífsins mædu, sem ecki kemur í neinn samjöfnud vid þá dýrd, sem von er á í Guds ríki. Látum hina sömu giöra ríka í vorum augum heimsins dýrd, og þar vèr hofum þvílíkt fyrirheit; þá hreinsum oss nú þegar af allri saurgun holdsins og and-ans, og fullkomnum vora helgun í Guds ótta; því inn í samfèlag Guds útvaldra má enginn óhreinn eda vanhelgur koma. En — hreinhjartadir skulu Gud sjá. Amen!

# A 1ta Sunnudag eptir Páska.

## Bænin.

Margann jardneskann fögnud veitir þú, Drottinn! oss, þínum skepnum, sem vier med þacklátum hjörtum

vidurkennum; en — þú tilreiddir oss annann miklu hollari, ædri og varanlegri, sem undir eins betrar vor hjörtu, fullnægir allri þeirra eptirlaungun, og gefur oss forsmeck þess himneska fagnadar, sem þú hefir heitid og tilbúid ollum trúndum hjá sjálfum þier í dýrdinni. Pad er sá fögnudur, sem vier finnum í vorri trú, þeirri fullvissu, ad þú, almáttugi og gódi Skapari! ert og vilt vera vor ástrikur Fadir og verndari. O! hvad þad gjörir oss sæla, ad hugsa um þá náð og blessun, sem þú hefir oss veitt og fyrirhugad; ad hugsa til þín og þeirrar elsku, sem þá audsýnir oss og munt audsýna eiliflega; þeirrar umönnunar, sem þú ber fyrir vorri velferd, þad er ædsta unadsemd lífsins. Kienn oss ad leita hennar og finna hana! Kienn oss ad trúa þó vier ecki siáum! Amen!

## Gudspjallid.

(Jóh. XX, 19—31.)

Ad qvøldi þess sama þvottdags, þegar Lærisveinarnir vóru samankomnir, og høfdu lokad dyrunum, sökum hrædslu vid Gydinga, kom Jesús þar, stod í midid og sagdi til þeirra: fridur sé med ydur! en þegar hann hafdi þetta sagt, sýndi hann þeim hendurnar og

ſína ſídu. Læriſveinarnir glödduſt vid ad þeir ſáu Herrann. Jeſús ſagdi þá enn aptur til þeirra: fridur ſé med ydur! Eins og Fadirinn ſendi mig ſvo ſendi eg ydur. En ſem hann ſagdi þetta, blés hann á þá og ſagdi: medtakid þér heilagann Anda! hverjum helzt þér fyrirgéfid ſyndirnar, þeim eru þær fyrirgéfnar, en hverjum, ſem þér apturhaldid þær, þá eru þeim þær apturhaldnar. En Thomas, einn af þeim tolf, ſem kalladiſt Tvíburi, var ecki med þeim þegar Jeſús kom Hinir Læriſveinarnir ſögdu honum: vér höfum ſjed Herrann. Thomas ſvaradi: nema eg ſjái naglaförin í hans höndum, láti fíngur minn í naglaförin og leggi höndina á hans ſídu, trúi eg því ecki. Eptir átta daga, þegar Læriſveinarnir vóru þar inni og Thómas med þeim, kom Jeſús — ad luktum dyrum — ſtód midt á medal þeirra og ſagdi: fridur ſé med ydur! ſídan ſagdi hann vid Thomas: réttú þinn fíngur híngad og ſkoda mínar hendur, lyptú upp hendi þiñi og legg á mína ſídu; vertú ecki vantrúadur heldur trúadur.

Thómas sagdi til hans: Drottinn minn og Gud minn! Jesús svaradi: af því þú sást mig, Thómas! trúdir þú; en sælir eru þeir, sem ecki sjá og trúa þó! Mørg ønnur teikn gjørdi Jesús í augsýn sinna Lærisveina, hverra hér er ecki gétid; en þetta er ritad, svo ad þér trúid: ad Jesús Kristur sé Sonur Guds, og ad þér svo trúandir hefdud lífid í hans nafni.

## Inngángurinn.

Hér gaungum vér í trúnni, segir Postulinn, á sídan munum vér gánga í skodunni. Þad var því ecki kyn, ad vor Frelsari ataldi sinn Lærisvein Thómas fyrir þad, ad hann vildi ecki trúa þeim stallbrædrum, sem sied høfdu hann upprisinn, og tæki honum vara fyrir trúarleysi, samt minnti á þá miklu naudsyn fyrir alla menn, ad trúa fleiru enn því, sem þeir sjálfir sjá. Í veraldlegum efnum verdum vér jafnvel mørgu ad trúa, sem adrir vita betur, og erum ecki færir um ad ransaka ad fullu og øllu. Stridsmadurinn trúir sínum Hershøfdíngja, og gjørir þad, sem þessi fyrir hann leggur; Lærisveinninn sínum Kennara og yfir høfud hverr ødrum í því, sem ætla má ad sá viti betur, sem ødrum vill koma til ad trúa. Þetta er því heldur naudsyn, sem hverjum einum er

óſært ad þeckja allt, ſem hann þarf ad þeckja ſvo fullkomlega, ad eptir því gæti hagad ſinni breytni. En ſvo ókunnugt, ſem oſs er hid ſýnilega, ſvo fátt, ſem vèr allfleſtir þeckjum af því, og ſvo óſullkomin, ſem þeſsi þecking er, ſvo erum vèr enn verr farnir. Þegar vor hugur vogar ſèr útyfir takmerk hins ſýnilega, og vill þeckja nockud til ens óſýnilega eda andlega; en þad andlega og þecking á því er þó í raun rèttri meſt árídandi. Sè því trúin í veraldlegum efnum naudſynleg manninum, og þad vidurkènnum vèr og ſýnum med vorri breytni, þá ættum vèr enn heldur ad kannaſt vid þeſſa naudſýn vora í andlegum efnum, þeim mun fremur, ſem ſæla mannſins er undir því komin, ad hann trúi meiru enn því, ſem hann ſjálfur ſèr. Því ſælir eru þeir, ſem eckí ſjá, en trúa þó.

Enginn hefir ſied Gud, þó er hann eckí lángt frá einum og ſèrhverjum af oſs; gjördi madurinn ſèr þad ad reglu, ad trúa engu nema því, ſem hann ſæi, mundi hann verda ad vera ſem heidíngi án Guds í heiminum; þá gæti hann engann ſognud haft af þeirri tilhugſun, ad gædſkurík og vísdómsfull Vera væri Hofundur hans tilveru, verndari hans lífs og athvarf í mannraunum. Hann gæti þá eckí heldur gladt ſig vid von annars lífs, því enginn hefir enn ſied út fyrir takmork þeſſa lífs. Ad ſá eingetni Guds Sonur, ſem er í Fodurſins ſkauti, hefir oſs þetta kunngjort,

gêtur ecki komid þeim vantrúudu ad augni, því nú audnast engum framar ad sjá hann eda heyra nema í hans ordi, og sá, sem ecki vill trúa odru enn því, sem hann sjer, gêtur ecki því trúad. Svo mikid sanninn er þad, ad sælir eru þeir, sem ecki sjá en trúa þó.

Fyrir heyrnina, segir Postulinn, kêmur trúin, þad er: enginn gêtur trúad, nema hann sé uppfræddur, nema honum sé kênnt; en samt stendur enn nú í mannsins valdi, ad standa á móti trúnni, eins og hann gêtur stadid á móti uppfrædingu, og enginn er mögulegt ad fræda, nema hann vilji sjálfur láta sig fræda. Gud skapadi manninn svo, ad hann gêtur jafnvel stadid á móti heilögum Anda; frjáls er hann skapadur og med frelsi vildi Drottinn ad hann skyldi drýkka sig; honum er ecki þient med naudugri þjónkun; því ljet hann manninn gánga hér í trúnni, eins og barnid, medan á þess uppfóstri stendur, verdur ad hlýda sínu foreldri, þó þad ecki skilji tilgáng þess, sem fyrir þad er lagt; eins er varid mannsins ástandi hér, og hefir sömu von um á sínum tíma, sem barnid, þá þad er ordid fullordid, ad þeckja tilgáng agans og uppfóstrunar sins. En — trúna má ecki bresta þó skodunina vanti. Trúin er óþverrandi gledi-uppspretta manninum, auk þess, ad hún á ad vera lífsins leidtogi til Guds.

Gledi trúarinnar verdum vér áskynja í ordum Jesú Lærisveins Thómasar, þegar hann hrópadi upp yfir sig: Drottinn minn

og Gud minn! þessorar gledi hefdi hann ecki notid, ef hann enn hefdi ecki trúad því, ad Jesús væri upprisinn. An trúar væri og hvers manns lif gledilaust, því er oss miklu vardandi, ad vèr, ad svo miklu leiti, sem oss er mogulegt, gródursetjum trúna í vorum hjørtum, þar til óska eg mætti verda oss upphvatning eptirfylgjandi hugleidingar um **gledi Trúarinnar.**

---

Trúin lyptir huga mannsins yfir hid synilega, yfir jardarinnar gl:s og jardarinnar mædu til hins ósynilega, allra hluta Hofunds, til hans, sem er Fadir alls þess, er born kallast á himni og jordu; til hans, sem skóp allt í endvordu, vidheldur ollu, annast allt, upplýkur sinni hendi og sedur allt, sem lifir, med sinni blessun. Sá trúadi umgengst Gud, dáist ad hans verkum og þeim fullkomlegleikum hans, sem þau kéña honum ad þeckja. Hann framgengur fyrir þessari miklu Veru med innilegustu lotningu, því hann kannast vid þann mikla mismun, sem er milli mannsins og Guds, mannsins, sem er daudleg skepna, og Guds, sem er Skapar allra skepna, sá sami í dag, gjær og ad eilifu, og í hverjum vèr lifum, erum og hrærumst. Hann hugsar til og gledur sig vid Drottins nádarríku forsjón, sem eins nær til ens smærsta og þess stærsta, eins til einstakra manna og ti alls mannkynsins. J þessari trú ad Gud sá

gædskurki og alleina vési, sé hans Fadir og verndari, finnur hann óþverrandi gledi uppsprettu. Þegar hann vyrdir fyrir sér þá gudsdómsins fullkomnun, sem vèr kollum heilagleika og rèttlæti, lætur hann þessa hugsun hvetja sig til ad kappkosta ad likjast honum, og gédjast honum med sinni breytni, med því ad lifa í heilagleika og rettlæti, en hin sama hugsan er honum ecki einúngis upphvatníng til dygdar, heldur og ný gledi uppspretta, því nú veit hañ, nú trúir hann ad sá er til, sem sjer hans hjarta og umbunar hans trúmennsku, en lætur hid góda málefni loksins bera sigurinn úr býtum. Hann hugsar um sína kollun og gledur sig vid þá von, ad honum er eilífd fyrirhugud til ad ná því fyrirsetta takmarki, og lifir samqvæmt þessari von. Þó hann búi í daudlegleikans landi, finnur hann med sér, ad sál hans er ecki einúngis skopud fyrir þennann heim. Hann trúir Guds ordi, og þó allt í heiminum sé daudlegt og forgengilegt, gledur hann sig vid trú sína, og þessi trú, hún er sigurinn, sem heiminn sigrar, kénnir honum ad afneita veraldlegum girndum, fykjast ecki í heimsins dýrd, og orvýlnast ecki í heimsins mótgángi. Hann gledur sig vid ad hlaupa og fullkomna sitt skeid, ad vardveita trúna og góda samvitsku.

Þannig er þeirri gledi háttad, sem trúin veitir hjartanu; hún lyptir sálunni yfir hid jardneska, vekur hjá henni gudlegar tilfinníngar, gudlegann ásetníng, hvetur ad gæta sinnar kol-

unar. Er sá þá ecki sæll, sem ecki sier en trúir þó? Þvi eckert af þessum gledileguſtu sanninndum vorrar trúar sjáum vèr, og enginn gèta þau gladt nema þann, sem trúir.

Þessi gledi er mikil og hún er holl mañinum, þvi hún betrar og gledur jafnframt hans hjarta; sá er því sæll, sem nýtur þessarar gledi; hann hefir sína lystíngu í Drottins logmáli, og framgengur sinn veg óstraffanlega. Vèr gètum annars fengid fullkomnustu sannfæríngu um yfirburdi þeirrar andlegu gledi, med því, ad bera hana saman vid þá jardnesku gledi. Sú jardneska gledi, kann ad sönnu blidka og hressa gèdid um stund, en þad er ecki nema med vissu skilyrdi; hennar verdur ad njóta med varúd og hófi, egi hún ecki ad spilla mannsins hjarta; madur verdur ad velja þad besta fyrir gledi-efni og gjæta þess, ad hjartad ecki ofþýngist af henni, í stad þess ad blidkast og hressast.

Hverr sá, sem gjörir jardneska unadsemd ad hofud-augnamidi sinna óska og áforma, og er óvandur í valinu hvad þad er, sem veitir honum fognud, sá er á glötunarinnar vegi. Sá lifir ecki framar Gudi, sem lifir heiminum; já, med því ad lifa sínum girndum, fær hann meiri og meiri óbeit á ad lifa Gudi, og gleymir bædi honum og sinni áqvordun og eilífdinni í heimsins solli og lífsins gjálífi. Mikill er þá munurinn á Trúarinnar gledi og heimsins gledi, þessi setur hæglega spillt mannsins hjarta, hin

hihtur ad betra þad. En — sleppum nú þeis-
um annars mest verda kosti þeirrar andlegu
gledi, þeir einir geta matid rett hvers verdt þad
er, ad hin andlega gledi betrar hjartad, sem
þeckja, hverfu inndælt þad er, ad hafa þá
medvitund, ad sér dag fra degi fari fram í dygd
og Guds ótta; en hinum, sem ecki hafa smack-
ad, hvad sætur og ljúfur Drottinn er, þeim
er þad ókunnugt. Þessir géta, og þad af eg-
in reynslu, ef ecki lært ad þeckja trúarinnar un-
adsemd, þá samt hvad litid er varid í þá jardn-
eslu gledi, og þeir munu ecki géta rekid sig úr
vitni um, ad sú jardneska gledi veitir engann
fullkominn fögnud hjartanu; þó madurinn njóti
hennar, finnst honum eithvad vanta, ef hann
vantar trúarinnar fögnud, en hann veit ecki
hvad þad er. Sá, sem stjórnast af girnd sini,
og hleypur eptir þeirri gledi, er honum þykir
girnileg, kostar ollu til ad ná því hnossi, er los-
ar honum miklum fögnudi; en þegar þetta
hnoss er fengid — þad fæst stundum, sem von
er, því þess er leitad med alúd og fylgi — finn-
ur madurinn ecki þann fögnud, sem hann svo
innilega sóktist eptir, og stundum keypti nærsta
dýrt. Hann finnur ad sönnu fögnud, einkum
í fyrstunni eptir ad hann gat fullnægt sini laung-
un, en fögnudurinn vard miklu minni enn hann
bjóst vid, og þegar frá lidur, kémur annad á
diskinn, enn rád var fyrir gjort, fyrst leidi,
sídan vidbjódur. Madurinn finnur, ad hans
Ynndan hefir tælt hann, hleypur svo fljótt, sem

tækifæri bÿdst frá þeim sonnudi, er honum nú ecki smackast, og fer ad leita annars, þvi hañ hugsar ad valid hafi ecki verid rett, og þó þessi fengna unadsemd sé honum ónóg, muni sú jardnesk gledi til vera, sem fullnægi mañsins hiarta; en þessi nÿa leit fer engu betur enn hin fyrri, nema midur sé, og seinasti ávextur margvíslegrar eptirsóknar jardneskra unadsemda verdur sá, ad hún oll til samans tekin geti ecki veitt hjartanu ánægjanlega gledi. Eptir ad madurinn hefir notid allrar þeirrar unadsemdar, sem í gégnum þau fim̃ skilníngar-vit getur veittst sálunni, eptir ad hann hefir tekid hlutdeild í ollum jardarinnar lystisemdum, er hann litlu nær, nema hvad egin reynsla sannfærir hann nú loksins um þad, ad eptirleit jardneskrar gledi geti þreytt manninn, og ad nautnin verdi opt ad leida, ad annad tignara og ædra hljóti þvi til ad vera, sé madurinn skapadur til gledi, egi hjarta hans nockurn tíma ad njóta innilegs fridar og gladværdar, og finna sína laungun mettada, og þvi skyldu ecki allir komast ad raun um, ad þad er tignara og ædra, sem á ad gjora manninn sælann, sem fullnægja skal hans viti og hjarta, heldur eintóm nautn jardneskra unadsemda. Þeir, sem ecki hofa þetta reynt, þeir trúa þvi varla; þeir hugsa þad sé annadhvert vanþeckíng gódra hluta, eda óbeit á gledi, komin annadhvert af veikindum eda orvæntíngu um ad geta notid heimsins fagnadar, en ef þeir vildu frædast af þeim, sem ordnir eru þreyttir

af eda leidir á jardneskum munadi, munru þeir géta gengid úr ollum efa um, ad jardnesk gledi er manninum ónóg; og þeir væru sælir ef þeir trydu, þó ecki hefdu sjálfir reynt. Hér á þad og vid: sælir eru þeir, sem ecki sjá en trúa þó. Sá kristni þar á mót er sæll, og þessa sælu á hann ad þacka sinni trú, þar finnur hann næga ynadsemd í þeim lærdómum, sannindum og fyrirheitum, sem hann trúir. Trúin er honum mikill fjársjódur, dýrmætari enn allar heimsins gërsemar. J trú sinni finnur hann fognud, sem giorir hjartad rósamt. Hañ forsmáir ecki þá ædri jardneisku gledi, þó hann álíti adra betri og fullkomnari; hañ dæmir þá ecki heldur hardt, sem dæma hér um honum ólíkt, og láts þá jardnesku gledi hafa fyrirúmid fyrir gledi trúarinnar, en hann finnur med sjálfum sér, ad hann hefir útvalid hid góda hlutskiptid, og veit ad hann er miklu sælli enn hverr sá, sem valid hefir honum ólíkt, og kosid heldur heimsins munad, enn trúarinnar gledi, þvi hañ hefir þad, sem hans hjarta girnist, og veit ad hans fognúdur verdur ecki frá honum tekinn, því hann ber allt sitt med sér. Honum kemur því aldrei til hugar ad sjá ofsjónum yfir þeim, sem dag hvern lifa í allskyns munadi og sællífi, sem svo tídum er osundar efni heimsins bornum; því þó hann sjái ad þeisir hafi þad, sem hann vantar, veit hann ad sá fognudur, sem munadur heimsins veitir, kemst ecki í samjöfnud vid þá gledi hjartans, sem hann nýtur, þegar

ar hann í ſinni einveru med bænar andvarp-
um ſnýr huga ſínum til Guds, ígrundar hans
gædſku, og finnur ſig hrærdann til ſøſgjørdar
og þacklætis og elſku til hins óſýnilega Fød-
urs, ſem elſkadi hann ad forrabragdi, ádur enn
hann gat þeckt þann elſkurika, þvi ſídur þackad
honum og elſkad hann. Já, þegar þú, kriſtni
madur! hugſar til þeſs ad ſá, ſem býr á himn-
um, ſá, ſem heſir gjört himininn, jørdina og
ſjóinn og heldur trygd æfinlega, hann vakir yfir
þer og þínum á jørdunni, og ad allt verdur
undir hans fødurlegu ſtjórn ad þéna þeim til
góds, ſem hann elſka. Og þegar þú ſier ſvo
ſem álengdar inni eilífdarinnar ſælufullu heim-
kynni, hvar þer er ætlud eilíf viſtarvera, nædd-
iſt þú þá ecki til ad upphrópa vidlíkt og Thó-
mas: Drottinn minn og Gud minn! nær
eg heſi þig ad eins, þá hyrdi eg hvecki um
himin né jørd! Þú gleymir jørdunni, jard-
arinnar gledi og mædu; þinn hugur er kom-
inn á undan þer í Paradíſar ſælu, og þú ert
ſæll af þvi þú trúir þó þú ecki ſjáir; þin trú
veitir þer ecki ad eins innilega gledi, heldur þá
gledi, ſem nægir þinu hjarta, uppfyllir alla þeſs
eptirlǫngun, og þeſsi gledi, hún er trú og
ſtadføſt, hún fylgir manni í ellinni, og yfirgéf-
ur hann ecki í daudanum; hún lætur hjarta
hans fagna þeim føgnudi, ſem enginn hlutur
fær frá honum tekid. Sá trúad heldur ſinni
gledi ſvo lengi, ſem hann vardveitir trúna og
góda ſamvitſku; þó aldurinn ſæriſt yfir hann,

þó fjörid og med þvi æsku gladlyndid dofni, þo unfan brepti sér, þó heimurinn snúi vid honum bakinu, unadsemd trúarinnar ysirgefur hann ecki fyrir þad, trúarinnar gledi verdur hin sama í mótgángi, elli og dauda, og þá trúfostust, þegar mest á liggur.

Slik gledi er sú jardneska gledi, henni er torvelldt ad halda; hvad vænt, sem oss þykir um hana, hvörsu dátt, sem vér ad henni látum, fyrr eda sídar hleypur hún frá oss: hún fylgir oss nockud á leid, svo fer hún burt til ad fylgia ödrum vidlíka lángt og reynist þeim ecki fylgisamari; sá er því illa komunn, sem hefir bundid vid hana sitt hjarta, því söknudurinn verdur þá sár og lífid volædisfullt. Heimsins gledi fylgir þeim úngu; þeir fullordnu sjá hana bregda fyrir endrum og sinnum, en sá gamli man ad eins til þess, ad hún géck med honum á leid, og er sú endurminning honum líklega enginn fögnudur. Vesæll er þá sá, sem ecki þeckir adra gledi enn þessa hættulegu ónógu og svikulu jardnesku, því æskan lídur skjótt og ellin eda daudinn er ecki lángt frá neinum, og hvad verdur þá til á þeim árunum, sem færstum gedjast, ef menn þeckja ecki annan fögnud enn þann, sem svo er örrár og stöpull?

Trúin er ecki einúngis gledirík, heldur er sú gledi, sem hún veitir, stadföst og varanleg; leitum þá þessarar gledi, og hrósum happi ef ver finnum hana, því hún mun verda oss trú, reynast þá best, er oss mest áliggur, og gjöra

vora elli, ef hennar er ætlad ad bída skulum, þolanlega, en daudañ vægann, já, jafnvel gledilegann; trúin hefir sýnt ýslarvottum hinninnar opinn á daudastundunni, og kennt þeim öldrudu ad bidja eins og Simeon bad lausnar frá lífsins starsi og armædu med þessum ordum: Látta nú, Drottinn! þjón þinn í fridi fara! min augu hafa sied þitt hjálpræði. Þeir, sem sækja á þau efri árin, á hverjum kraptarnir rèna og þad æskunni eginlega gladlyndi hverfur, þeir þurfa einkanlega med trúarinnar fagnadar, sem hreisi þeirra ged, lètti þeim lífsins byrdi og gledji þeirra hjörtu; ecki gètur sá heimur, sem nú er farinn ad snúa vid þeim bakinu, sem aldrei gat fullnægt mañsins hjarta; á þessum mædu og eymda tíma ordid hins aldrada athvarf. En — sælir eru þeir, sem á hinum yngri árum lærdu ad trúa, þó þeir ecki sæu, og ad gledja sig vid trúna, þvi þá gètur trúin enn heidur nú, á þeirri vondu tíd, verid þeirra athvarf og gledi uppsyretta. Sá gudhræddi gamli madur, sem látid hefir sína unadsemd vera, ad halda sèr til Guds, hann verdur honum þvi handgengnari, sem hann lengur temur sèr þennann sid, hann finnur sælu í þvi, þó veiki og elli beygi hann; svo opt, sem hañ hefur sína sál til Guds, gleymir hann sinni armædu og elli. Med gledibragdi minnist hann þeirra morgu velgjorninga Guds, sem hann þegid hefir á sinni löngu vegferd frá voggunni til grafarinnar; med hrædu

hjarta talar hann um Guds handleidslu á sér og sinum, og játar med hinum gudhrædda öldúngi þeirra forri tíma: minni er eg, Drottinn! allri þinni miskun, sannleika og trúfesti, sem þú hefir audsýnt þínum þénara. Hans vidurkénning er, ad Drottinn hafi leidt sig fódurlega, og hans unadsemd er, ad lofa Skaparann og þacka Forsjóninni. Þe'si vdja er endurnæring og skémtan hans elli árg. Hann trúdi, þótt hann sæi ecki, á þeim ýngri árum, og hann elskadi sina trú; nú elskar hann trúna því meir, sem hún er hans einka gledi, þared jardarinnar fognudur er horfinn, og trúin ein fylgir honum alla leidina, og er reidubúin ad sykra honum hans sídarsta tíma, hvers hann væntir med róseni og von í hjartanu. Hugurinn er hjá Gudi og í þeirri eilífd, sem nú þokast nær og nær, hvert hann nú þegar á ad flytja, og hans bænar andvarp er hid sama og forri: Drottinn! nær eg hefi þig ad eins, þá hirdi eg hverki um himin né jörd, því þó líf og sál vanmegnist, ertú, Drottinn! alla tíma mitt hjartans traust og hlutskipti. Svo gladur gengur sá inn í eilífdina, sem trúdi þótt hañ ecki sæi, og gladdi sig vid trú sína á allri sinni æfi. Sælir erú þeir, sem trúa, þó þeir ecki sjái. Lærum þá einninn ad trúa því, sem vér ecki sjáum, og gledja oss vid vora trú, þá skal vor æfi verda gledileg, jafnvel midt í mótlæti, og vor vidskilnadur fridsamlegur, Daudinn inngángur til þeirrar

eilífu gledi, hverrar forsmeckur ad trúarinnar gledi er, sem þeim einum veitist her, sem trúa þó þeir ecki sjái. Amen!

# A 2an Sunnudag eptir Páska.

## Bæn.

Þitt ríki, Drottinn! varir, æ og eilíflega, því það er sannleikans; dygdarinnar og gudræknannar ríki. Lof og dýrd se þier fyrir þá elsku þína, ad þú hefir einnig flutt oss í þetta þitt ríki, oss, sem sátum í myrkrunum! Lofud se þín miskunsemi, ad þu hefir flutt oss úr myrkrunum í ljósid! Kenn oss ad þeckja þig rett, svo þú viljir kunnast vid oss, sem þína rettu þegna, þú mikli Hirdir og Biskup sálnanna! Styrk oss til ad efla þitt ríki, sem ecki er af þessum heimi, sem er heiminum gagnstædilegt! Kenn oss ad strída vid heiminn og sigra heiminn, eins og þú vor Konúngur! strídðir vid hann og sigradir hann! Gef ad vier seum örúggir í strídinu, hvörki hrædumst heimsins steilfingar, nie latum oss locka af hans dálætis

svo vjer sigrihrósandi gjetum, þegar þar að kemur, qvadt heiminn og vegsamad þig, sem gafst oss þá trú, er heiminn sigrar. Amen!

## Gudspjallid.

(Jóh. X, 11—16.)

Jesús sagdi vid sína Lærisveina: eg er godur hirdir! gódur hirdir géfur sitt líf út fyrir sína saudi; en leigulidinn og hann, sem ecki er hirdir, hvers saudirnir eru ecki eiginlegir, þegar hann sjer úlfinn koma, þá yfirgéfur hann saudina og flýr á burt; en úlfurinn gripur saudina og sundurdreifir þeim. Leigulidinn flýr, vegna þess hann er leigulidi og gætir ecki saudanna. Eg er gódur hirdir, eg þecki mína saudi og eg þeckist af mínum, eins og Fadirinn þeckir mig og eg þecki Fedurinn; eg legg og mitt líf út fyrir mína saudi. Eg hefi líka adra saudi, sem ecki eru af þessu saudahúsi, þá birjar mér og hér til ad leida, og þeir munu heyra mína roddu; þar mun þá verda eitt saudahús og einn hirdir.

## Inngángurinn.

Í upplesnu Gudspjalli kallar vor Endurlausnari sig Hirdir, og optar er hann nefndur med því nafni í heilagri Ritníngu. Þetta nafn var á fyrri tímum heidurs titill Kongúnga og tignustu manna. Þegar Jesús gefur sjálfum sér þetta nafn og bætir því vid: ad hann þecki sína saudi, og gefi sitt líf út fyrir þá, lýtur allt ad því, ad Hirdir merki hér hid sama, sem Konúngur, hverju nafni hann optar nefndi sig, med hverju og spádómarnir um þan Fyrirheitna tala. Konúngsins skylda er, ecki einúngis ad þeckja þegna sína, og eptir þessari þeckíngu ad úthluta hverjum þeirra starf, sem best má henta, til sérhvers og allra sameginlegrar velferdar, heldur og ad vera sinna stríds-manna oddviti, og berjast fyrir þá. Í játníngu sinni fyrir Pílatusi sagdist Jesús vera Konúngur, en undir eins: ad sitt Ríki væri ecki af þessum heimi; ad hann væri til þess fæddur og í heiminn kominn, ad, bera vitni sannleikanum. Hefdi Jesú ríki verid af þessum heimi, mundi hann, eins og hvert annar Konúngur, hafa varid það med herlidi sínu; þetta er einnig Jesú játníng fyrir Pílatusi. En — Jesús átti þó stríd; því var ódruvísi varid enn þeim strídum, sem Konúngar eiga innbyrdis; hann bardist fyrir sitt ríki, og þared hans ríki er ævarandi — því hans ríkis mun enginn endir verda —

berst hann enn fyrir þad, og med honum ega allir hans þegnar ad berjast mót þeim samteginlega óvini. Jesús-Kristur bardist á medan hann var sýnilega nálægur á jördunni, vid heiminn, og hann sigradi þennann óvin, ad svo miklu leiti, sem hann hvörki hræddist hans skelfingar, né lét sig tæla af hans vlgvélum. Í hans fórspor ega allir hans þegnar ad feta, en allir, sem kristnir heita, þeir heita og hans þegnar; en þad er mikill munur ad heita og vera Krists þegn. Þó eina vill heimsins Sigurvegari þeckja fyrir sína þegna, sem med honum strída og af honum læra ad sigra heiminn, og þeir kristnir, sem rétt þeckja sinn Konúng og egin köllun, væraft ecki undan þessari helgu skyldu.

Verjum þa stundarkorni þvi, sem nú býdst oss, til gudrækilegra hugleidínga til þess, ad ígrunda þa skyldu kristinna manna: ad strída vid heiminn og sigra heiminn.

---

1.) Heimur kallest allopt í Guds ordi sérhvad þad, sem Gudi er ógagnstædilegt, edur kölun kristinna manna. Jóhannes kallar einkanlega allt þetta heim eda heimsins Hofdingja, og tekur vara fyrir ad elska heiminn, hvsin holdsins, hvsin augnanna og drambsamt lifernis; já, Ritningin fullyrdir: ad sá, sem vilji vera heimsins vinur, sá gjorist Guds óvinur; því segir Postulinn Páll: samlagid ydur ecki heiminum, og vor Frelsari sjálfur redi sínum

Lærisveinum til ad hrædast ecki heiminn, þvi eg hefi — sagdi hann — sigrad heimiñ, og þer munud og sigra hann. Yfir hofud inni bindst vor skylda, sem Krists rettra þegna i þessu tvennu: 1.) ad elska ecki heiminn, eda, sem er hid sama: ad samlagast ecki heiminum, og 2.) ad hrædast ecki heiminn.

Vér megum ecki samlaga oss heiminum, vér megum ecki elska heiminn; þvi vér vitum, ad Kristur og heimurinn hafa eckert samfélag. Ef vér þvi samlogum oss heiminum, hofum vér eckert samfélag framar vid Krist; vid þann góda Konúng, i hvers lid vér hofum þó gengid, þegar inntoku fengum i hans þjónustu. Ef vér festum ást vid heiminn, hofum vér — eins og Postulinn ad ordi kémst — gjorst Krists óvinir, þvi sá sem vill vera heimsins vinur, hefir gjorst Guds óvinur, og þá undir eins Krists, þvi hann og Fadirinn eru eitt. Kristur getur ecki þeckt þá fyrir sína, sem svo gjorast honum ótrúir, ad gánga i lid med hans svornum óvini, heiminum. En — hverr samlagar sig heiminum? og — hverr hefir ást á honum? Sá samlagar sig heiminum, sem ransóknarlaust hagar sér eptir því i hvert sinn, sem almennast vidgengst, þó þad sé ecki samqvæmt því sannleiks lögmáli, því réttlætis hodordi, sem kristinnar Konúngur hefir gefid sínum þegnum. Sá, sem ecki ransakar þetta algjorlegleikans lögmál, hvi skiptir sér af hvad þar er bodid eda bann-

ad, heldur eins og i blindni fer med straumnum, og hefir eckert, kristnum manni verduct, hofud augnamid, heldur er hvíkull i ollu sinu rádlagi, og eins siálfum sér ólíkur, nema i því eina, ad vera óstadfestur i ollu sinu radlagi, hann samlagar sig heiminum, og acktar því ecki verid Krists þegn. En — sá hefir ást á heiminum, sem gjorir eitthvad jardneskt adal-tilgáng allra sinna verka, leitar þess, sem þad væri hid ædsta góda, og framleggur alla krapta til ad bera þad úr býtum, sem hans hiarta girnist. Sá, sem dáist ad því einu, eda ollu framar, sem Jóhannes kallar heim og segir i heiminum sé, svo sem fýsn holdsins, fýsn augnanna og drambsamt liferni, hann elskar heiminn; því þad, sem madurinn elskar, þad vyrdir hann mikils, og vyrding er elskunnar verulegur partur. Sá, sem vyrdir meir munad heimsins og unadsemd þá, er hann veitir, heldur enn medvitund gódra verka og heidurlega siálfs afneitun, eda þá unadsemd, sem sigur yfir veraldlegum girnduni veitir hjartanu, hann elskar heiminn. Já, sá elskar heiminn, sem mest metur og dáist ad heimsins glingri, metur sig og adra því sælli, sem meira hlotnast ef því, þess meiri og heidursverdari, sem meira veitist af gud, metordum eda áliti, en þeckir ecki þann heidur, sem er af Gudi, ecki þann fiársiód, sem er á himnum, hverjum molur og ryd gétur þó ecki grandad. Þegar þetta er ad elska heiminn, er þá nacktur von til, ad sá gódi Hirdir, sannleik-

ans Konúngur, vilji þeckja þá fyrir sína þègnd, sem honum eru svo fráleitir, heiminum samdauna, heimsins vinir? Er líklegt að þeir eigi þann góða Hirdir Krist, sem honum eru svo ólíkir; hann hefir sjálfur sagt: að sínir saudir þecktu sig og hann þá; en hverki þeckir Kristur þessa, sem sína, né þeir hann, sem sinn Konúng. Hann strídði við heiminn, þeir samlaga sig heiminum; hann fiaradi heiminn, þeir láta sig af honum sigra. Vors Lausnara aðal augnamið, meðan hann umgéckst í heiminum var, að vinna það verk, sem hans Faðir hafði honum ákvarðað, og hans matur og dryckur var, að gjöra Föðursins vilja. Þetta, en ecki heimsins munaður, var hans æðsta góða; en sú sama er vor kallan; vèr finnum þetta boðorð skrifað með Guðs fingri í vor hiörtu, það sama boðorð hljómar allstaðar í Guðs orði fyrir vorum eyrum: gjættú þinnar köllunar og gáckú henni verðuglega, láttú þetta vera þinn mat og dryck, þína æðstu unaðsemd; þaninn hrópar Guðs orð til vor: afneita þú öllum veraldlegum girndum. Guðs heilögu boðorð, þau sèu þín lífs-regla minnisfest, hvar sem þú ert, hvað sem þèr mætir; hold þitt áttú að krossfesta með þess girndum og tilhneigingum, og deyða þinn eiginn vilja, svo þú gétir gjört Guðs vilja. Þetta gjöra, þetta ega að gjöra þeir, sem Kristi vilja tilheyra.

Vor Konúngur Kristur sókti ecki eptir heimsins munaði, hann áleit hann ecki það

hnoſsid, ſem verdt væri eptir ad hlaupa; ad ſönnu naut hann ilſſins ſaklauſu unadſemda, þegar þær budust, en ecki vóru þær hans helza og enn ſidur einka góda. Hann hafdi ædri unadſemd, ſem adrir ſáu ecki, ſem honum var dýrmætari enn allt annad; hann naut hennar innra med ſjálfum ſer, þegar allt amadi ad honum ytra. Heimſins dýrd var honum engin dýrd; þá meſtu uppheſd þeſſa heims ſlódi hann, þegar hún bód honum til boda; þegar fólkid vildi gjöra hann ad Konúngi, flúdi hañ frá því uppá fjallid; hann, ſem gat verid ríkur, valdi heldur fátækt, og audgadi med henni mannkynid. Þanninn var ſá ſinnadur, hvers þegnar vér viljum vera, hverjum vís er bodid ad líkjaſt; hann ſtrídd vid heiminn og ſigradi heiminn; ſem er vor kallan, hverki megum vér elſka heimiñ, né neitt þad, ſem í honum er, hverki megum vér elſka heiminn, né ſamlagaſt honum, ef vér viljum kriſtnir heita og bera nafn med rentu. Vor Konúngur hafdi ecki ſamfélag vid heiminn, elſkadi hann ecki, matti hann ecki mikils; hann var heimſins óvinur og ſigradi heiminn, og þad ſama ega þeir ad gjöra, ſem Kriſti hafa gengid á hönd. Mun heimurinn þeſs verdur, ad vér elſkum hann? elſkum hann — ſegi eg — því brúka megum vér heiminn, þó ſvo, ad vér ecki misbrúkum hann; þeir, ſem brúka heiminn, ega ad vera eins og þeir, ſem ecki brúka hann. Er heimurinn þeſs verdur, ad ega hann fyrir adal- eda

einka-vin? ad álíta þad sína mestu sælu, ad ná eda halda hans hylli, þeirri hylli, sem hann á stundum veitir þeim, sem minnst eru makiegir, en hatast vid hina, sem mestir og bestir eru? eda er hylli hans svo stødug, ad hún geti verid oss girnileg? kjósum vér ad vera þeirra vinir, sem elska oss í dag og synia alla blídu, en hata oss og fyrirlíta á morgun? og er ecki heimsins blída optastnær þesshattar vinfengi? Heimurinn hatadi vorn Frelsara og hefir hatad marga, sem kappkostad hafa ad feta í hans fótspor. Vér, sem þvingumst til ad elska vorn Drottinn, þann góda Hirdir, vér skyldum geta elskad þann, sem var og er hans svarinn óvinur. Hans gjafir, hverr eru þær verdar? eru þær í vorum augum svo dýrmætar, ad vér þeckjum enga ædri unadsemd enn þeirra eign eda nautn, eckert ædra hnoss eptir ad sækjast? er í hans valdi ad gefa þad, sem fullnægi laungun vorra sálna? eru gjafir hans ecki ordnum hefndar-gjafir, sem verda líkhama og sálu jafn skadlegar, eydileggja í einu tímanlega og andlega velferd mannsins? og þó ecki takist svo illa til, er þá nockurs hjarta fullnægt, þó heimsins allt dálæti veitist? Já, ef vér girnumst ecki ædri sælu enn þá, sem hin skynlausu dýrin eptirleita og finna, af því þau eru svo gjord, ad þau þeckja ecki hugskotsins lögmál, þá er mögulegt ad heimsins gædi fullnægi vorri eptirlaungun; en getur sá skynsemi gæddi og ódaudlegi andi blíd sér hana nægja? er engin tilfinning í vor

um sálum, ef vér annars leitum þar vel, sem heimtar meir enn líkhamlegar þarfir, sem óspekir oss og gjörir óluckulega, þó allt jardneskt eptirlæti ad oss hrúgist, verdi hún ecki fridud? heyrum vér ecki rödd í voru hjarta, sem skipar oss ad leita einhvers ædra enn þess besta, sem heimurinn hefir ad gefa? segir vort hiarta oss ecki, ad allur heimurinn med allri sinni dýrd sé einkisverdur, í samanburdi vid þetta hnoss, vid þá dýru perlu, sem heitir satt vid Gud, fridur vid vor egin hjörtu, sem oss lángar mest eptir, en sem heimurinn gétur ecki gefid, já, sem ecki fæst, nema vér hötum heiminn, strídum vid heiminn og sigrum hann, þad er: metum eckert af því, sem hann hefir ad bjóda, neins verdt í samanburdi vid þad himneska, þad andlega, vid fullvissuna um vors Guds velþócknun og nád? Kjósum heldur alla heimsins ávild, enn óvissu um, hvert í nád séum hjá vorum Drottni. Hvad gétur alls heimsins eptirlæti stodad þann, sem misst hefir Drottins nád? hvad gagnar þeim öll heimsins dýrd, sem misst hefir hjartans frid? og hverr gétur fundid í sér Guds frid, sem samlagar sig heiminum eda festir ást vid hann? Hvad stodar þad manninn, þó hann vinni allann heiminn, ef hann lídur tjón á sálu sinni? En — sá hefir þegar lidid mesta tjón, sem hefir fengid ófrid vid hennar adal-tilfinníngu, vid þann Höfudstjörnara vorra áforma og verka, sem vér köllum ýmsum nöfnum: skynsemi, medvitund eda samvitsku, höfud-leggjaf-

mannſins í honum ſjálfum og Dómara allra hans athafna og áſorma. Innbyrdis ſtrid, innbyrdis ófridur, er ecki án orſaka haldiñ ſorgelegaſti ófridur; ófridur innra í manninum er óttalegur, þad áſtand hid veſælaſta, ſem nockurr gétur ímindad ſér. O! þad er miklu betra, ad ſtrída vid heiminn, ad hafa fullkominn fjandſkap vid hann, heldur enn ad plágaſt af innvortis ófridi. Strídid vid heiminn gétur ordid inndælt og því inndælla, ſem madur betur leikſt i því. Kriſtur vor Konúngur, ſem ſigradi heiminn, hefir ſvo útbúid þá, ſem undir hans merkjum ſtrída, þá, ſem hann þeckir fyrir ſína, ad þeir mega þeſs vænta, ef dugſýna í þeſſu ſtrídi, ad ſigra heimiñ eins og hañ ſigradi, því vor trú er ſá ſigur, ſem heiminn ſigrar. En væntum ecki ſigurs, nema vér berjumſt, og berjumſt eptir þeirri ávíſun, ſem vor Konúngur hefir oſs gefid. Hugſum ecki heldur til þeſs, ad hafa undir eins frid vid Gud og vid heiminn, eda ad vér undir eins getum verid Kriſts fylgjendur og heimſins þrælar. Nei, Kriſtur og Belíal hafa eckert ſamfélag, ecki meira enn ljóſid og myrkrid. Strídum þá vid heiminn, látum ecki hans munad, ecki hans dýrd, ecki hans fjárſjódu gánga oſs ſvo í augu, ad vér gjörumſt ótrúir vorum rétta Konúngi, ſem keypti oſs dýrt; verum ecki ſvo illir ſjálfum oſs, ad vér, vegna heimſins hégóma, miſſum þeirrar ſælu, þeſs heidurs, þeſs fjárſjóds á himnum, ſem vor Lauſnari hefir oſs

afrekad og ætlad hjá siálfum sér í himnaríki; ef vér strídum dyggvir undir hans merkjum og sigrum heiminn.

2.) Ottist ecki heiminn, eg hefi hann sigrad, sagdi vor Endurlausnari. Hvad getur hann gjört oss? ofsókt, eins og hann ofsókti vorn Kóng; en hvad var þad, sem þessar ofsóknir orkudu gegn honum? þær gjördu ad eins hans sigur dýrdlegri. Heimsins velvild er oss hættulegri enn hans hatur, vinátta hans óttalegri enn hans fiandskapur, því fyrir Krist er heimurinn oss krossfestur og vér heiminum. Þad er hægra fyrir oss, ad hata þann, sem oss hatar, heldur enn hinn, sem sýnir sig vinveittann, og ad fyrirlíta þann, sem oss fyrirlítur, heldur enn hinn, er sýnist hafa oss í hávegum. Þegar vér, eins og kristnum hæfir, látum þad vera vora høfud eptirlaungun og høfud augnamid, ad efla Krists ríki, bædi í heiminum og innra í siálfum oss, því Guds ríki er og innra í oss, hvad gétur heimurinn þá gjört oss? mun honum takost ad svipta oss því, sem vér álítum oss dýrmætast? munu hans ofsóknir, hans hatur, géta nád frá oss því hnossi, sem vér eptir hlaupum? man hann géta nád fridi þeim, sem vér berum med oss innra, þeim fridi, sem Kristur vor Konúngur hefir oss gefid, sem lætur vor hjörtu hverki hrædast né skelfast? mun hann svipta oss þeirri gledilegu medvitund, ad Kristur

þecki oſs fyrir ſína, þegar vėr þeckjum hann fyrir vorn Hirdir. Heimurinn gėtur ſvipt oſs munadi ſínum, heidri og aud, en vėr leitum ecki þeſſa neins, vort kall er ecki ad á-vinna heimſins hylli, heldur ad baka oſs Kriſts vėana og vorrar köllunar heimſins hatur. Öllu framar viljum vėr líkjaſt verum Konúngi, og leita þeſs hunneſka, ſem þar uppi er, ſem var-anlegt er og eiliſt; en þad fallvalta jardneſka, þad er ecki vort ædſta hnoſs, þeſs vegna vil-jum vėr ecki flecka vora ſamvitſku med minnſtu ſynd viſsvitandi. Vėr hofum ædri ſælu, ſem vėr ſkeldum fyrir, heldur enn þá veſælu munad-arlíſis ſælu, ſem optar er líſs og ſálar hættu-legaſta peſt. Vėr hofum dýrmætari heidur, heldur enn þann, ſem heimurinn gėtur veitt; allir heimſins vildarmenn eru í ánaud, þótt þeir beri úr bötum ædſtu metord, klædiſt pur-pura og beri kórónur, og þá er heimſins heid-ur ecki goſuglegur; en vėr erum Kriſts frels-íngjar og Guds born, en bornin eru frjáls. Vorum ſeſjód aetur eckert grandad, heimurinn nær honum ecki, því hann er vardveittur á gódum ſtad á Himnum. Oſtókt gėtur heimur-inn oſs, hatad og deydt; ſvo mikid tókſt hon-um vid vorn Konúng, en á medan hann ſær oſs ecki til ad ſamlagaſt ſėr, verdur oſs óhætt, því þad er ſigurinn, ad láta eckert hverki locka ſig nė hræda til ad gjora frid vid heiminn, til ad gánga honum á hond.

Ottumſt þvi ecki heiminn, vor Kongungur hefir hann ſigrad, og vor trú, hún yfirvinnur heiminn, ſú trú, ad Jeſús ſé Guds Son, vor Kongungur; hann hefir gefid ſinum þegnum þau log, ſem kenna hvernin heimurinn verdi ſigradur, hvad þad ſé ad ſigra hann; hann hefir fengid oſs þau vopn i hendur, ſem vér eigum á heiminn ad bera, ſem á hann bíta, og þær verjur, med hverjum oſs er óhætt fyrir heimſins árásum. Gaungum þá i þeſſu algiorlegleikans logmáli; lærum þar, hvernin oſs ber ad ſtrida, ſvo vér ſtridum ecki eins og i óviſſu; lærum af vorum Kongungi og ollum hans trúum þegnum, af ollum þiódum og túngumálum, ad ſtrida vid heiminn og ſigra heiminn. Ef vér aldrei miſſum ſiónar á Hofundi og Fullkomnara vorrar trúar, megum vér gjora oſs viſſa von um ſigur; vér þurfum þá ecki óttaſt, ad vér ſláum i vindinn eda hlaupum forgefins, þvi ſá er med oſs, ſem máttugur er, og máttugur jafnvel i breiſkleikanum. Vér berjumſt ecki fyrir þann kranz, ſem fljótt viſnar, vér ſtridum fyrir þá óforgengilegu dyrdar kórónu, ſem Gud, ſá réttviſi Dómari hefir nú þegar aſſkildt ſkat þeim, ſem ſigurinn er af hans nád fyrirhugadur, af þvi þeir berjaſt dyggilega. Þegar allt þetta jardneſka, ſem heimſins born meta meſt, verdur eins og ad engu fyrir vorum ſiónum; þegar jardarinnar ſælgæti ſmackaſt oſs ecki, metord heimſins verda ſkrautvagari enn hégómi, og audſins ljómi deckri

enn myrkur; þegar daudans myrkur leggst yfir vor augu, þá ber sú sál, sem dyggilega bardist, med siálfri sér sinn fiársiód; hún gledur sig þá vid þá von, ad hún flotur nú til þess mikla Biskups og Hirdirs sálnanna, til þess Kongúngsins, undir hvers merkjum hún stríddi móti hans og egin óvinum, og med því gjordi sitt til ad eyda þeim, en efla hans ríki, og inngengur svo sigrihrósandi í fögnud síns Herra, til ad medtaka trúrra þjóna verdlaun; hræist nú um vid heiminn, daudann og alla Krists ríkis óvini, sem ecki gátu hana sigrad, heldur ad eins gjört henni sigurinn ordugann, einmidt til þess, ad hann yrdi því dýrdlegri. O! hvad sá er sæll annars heims, sem vardveitir hér trúna og góda samvitsku!

Ver gódi Hirdir og Kongur! þú, sem sigradir heiminn og sagdir þínum Lærisveinum, ad hrædast ecki hans ógnanir, kenn oss ad strída ecki sídur vid hans lockanir enn vid hans skelfingar! kenn oss ad berjast eins og þú bardist, og ad sigra med þér, svo vér megum eilíflega med þér ríkja! Amen!



# A 3ja Sunnudag eptir Páska.

## Bænin.

Svo lengi og margvíslega höfum vjer reynt, alvaldi Drottinn! trúfesti þína og náð, ad vjer finnum oss jafnskyldt ad offra þjer lofgjørdinni og þacklæti vorra hjartna, og ad treysta þinni fødurlegu forsjá, sem annast allar lifandi skiepnur med þeirri náqvæmni, ad ecki einn titlingur fellur á jørdu án þíns vilja. Í hvert sinn, sem hugur vor leitar til þín, finnum vjer oss gagntekna af þinni almáttugu elsku, sem allt umfadmar, allt annast, allt blessar, sem er hin sama vetur og sumar, í medlæti og mótlæti, í lífi og dauda. Kienn oss ad þeckia þína elsku, finna til hennar, gledja oss vid hana, elska þig aptur, sem elskadir oss ad fyrra bragdi, og lát þessa elsku verda svo kreptuga í oss, ad vjer metum þad vora ædstu sælu ad elska þig og vita oss af þjer elskada! Þad auki sælu medlætisins, og gjøri sumarsins inndæli tvøfaldt, lífsins raunir bærilegar, sem vara ad eins stutta stund; því þegar þú, vægætni Fadir! hefir byrgt þitt andlit fyrir oss um

lit-

litinn tíma, sjer þú oss aptur og vor hjortu fagna, og þann vorn fognud mun enginn frá oss taka. Amen!

## Gudspjallid.

(Jóh. XVI, 16—23.)

Jesús sagdi vid sína Lærisveina: innan lítils tíma munud þér ecki sjá mig, og þá enn innan lítils tíma munud þér sjá mig aptur, því eg fer til Fodursins. Þá sogdu nockrir af Lærisveinunum sín á milli: hvad er þad hann segir oss: innan lítils tíma munud þér ecki sjá mig, og þá enn innan lítils tíma munud þér sjá mig aptur, því eg fer til Fodursins? Hvad er þad hann segir oss: innan lítils tíma? vér vitum ecki hvad hann segir. En Jesús, sem formerkti ad þeir vildu spyrja hann um þetta, sagdi til þeirra: þér spyrjid ad því ydar á milli, er eg sagdi ydur: innan lítils tíma munud þér ecki sjá mig, og þá enn innan lítils tíma munud þér sjá mig aptur. Sannlega segi eg ydur: þér munud sýta og gráta, en heimurinn mun

fagna; þér munud hriggvir verda, en ydar hrigd ſkal ſnúaſt í fognud. Konan, þegar hún ſkal fæda, hefir hrigd, af því hennar ſtund er komin; en þegar hún hefir barnid fædt, minniſt hún ecki þeſs harmqvælis fyrir fagnadar ſakir af því, ad madur er í heiminn borinn. Þér hafid nú ad ſonnu hrigd, en eg vil ſjá ydur aptur; þá ſkal ydvart hjarta fagna og þann fognud ſkal enginn frá ydur taka; á þeim tíma munud þér mig og einkis ſpyrja.

## Inngángurinn.

Vorſins koma eda nálægd gledur, eptir edli ſínu, hjortu mannanna. Þad er mikid gledi-efni ad hafa afſtadid vetrarins óblídur, en eiga í þeirra ſtad von á vors-ºndinu, og ſumar-blídvidrinu, eptir Drottins gamla fyrirheiti: medan jordin er til, ſkal hverki vanta ſumar né vetur. Gledi þeſſari má og gjora rád fyrir ſamfara verdi þackláttar tilfinníngar hjartnanna, bædi fyrir vernd og mildi Drottins á þeim af-lidna tíma, og líka fyrir þá hans rádſtofun, hverri er ad þacka nálæg gledilegan tíma og ved-uráttu ſkipti. Nær hofum vér nóga orſok til ad koma fram fyrir Drottinn, tímanna Stjórn-ara, med þacklætis forn ſorra hjartna, fyrir þad hann lét vetrar óblíduna ecki vara ávalt,

nú sleppti af oss sinni verndar-hendi, þann stutta tíma, sem hún stód, heldur reyndist oss Fadir, eins um vetur og sumar. Vor hugur hvarflar undir eins til þess blída og strída í lífinu; þad líkist sumri og vetri, og hverigt varir ellíflega; sú er nærgætni þeis himneska Fødursins, heimar minnumst vér og, þegar tíma-breytingin er fyrir hendi, og þeirra orda, sem Jesús taladi vid sína Lærisveina undir skilnadsinn vid þá: Innan lítils tíma munud þér sjá mig aptur. Þvi uppá tíma breytinguna frá Vetri til Sumars og umbreytingu lífsins mædu í fognud, mega þessi ord heimfæraft. Hvert um sig varir lítinn tíma; í vísdómsfullum tilgángi hefir sá himneski tímaña Stjórnari þarninn tilhagad mannsins kjörum; um þad getum vér ecki efast, þvi reynslan kennir oss hvad holl oss se tilbreytni, og skynsemin med Guds ordi, ad allt þad, sem Gud gjörir, se harla gott. En í því vér med þessum tilfinníngum tökum á móti, eda bídum tíma-skiptanna, rennum vér auga voru til þess tíma, sem í hönd fer, hann er gledilegur í raun rétt-ri, því er ecki annad líklegra enn ad vonin gylli hann fyrir flestum. En sú von, sem bregdst, er ecki minni plága, heldur enn qvídi og hrædsla. Ecki ætladist Drottinn samt til, sá, sem gaf oss vonina, ad hún skyldi verda oss ad plágu, heldur átti hún ad vera vort athvarf og raunaléttir þegar móti blæs. Vér

erum sjálfir skuld í, verdi hún oss ecki ad þessu lidi, þot ef vèr gjætum þess ætid, ad vona skynsamlega mundi hún gledja oss, en ecki græta; þad er sú skynsamlega von, sú von, sem bygd er á Guds fyrirheitum, er Postulinn segir, ad aldrei láti til skammar verda. Oss vardar því miklu ad láta vora von stjórnast af skynseminni og því veria þessari stundu ad nema:

1.) Hvers vèr ad líkindum ecki megum vænta, og

2.) Hvers vèr med sannsýni megum vona á þeim tíma, sem í hønd fer.

---

1.) Med engum líkindum gætum vèr þess væni, ad nockur jardnesk gædi ætti verid nockurs manns stødug og ævarandi eign; ad vænta þess, mundi onnur eins bernska og sú, ad ætla á vorin ad aldrei kjæmi vetur, af því veduráttan er þá blíd. Hvergi er oss gefid þad fyrirheit, ad nockur tímanleg gjædi, þó oss veitist þau um lítinn tíma, skuli alla æfi heyra oss til, og reynslan, otal dæmi sanna, ad þau øll séu næsta svipul. Heilbrygdin, þetta dýrmætasta hnoss jardneskra gæda, hún er óáreidanleg; þó madurinn sé hraustur í dag og kenni sér ecki meins, getur svo farid, ad hann á morgun sé ordinn sjúkur. Enginn hefir neina vissu fyrir því, ad eigur hans skulu dvølt vera eda vidhaldast. Um audinn hefir einn forri alda Spekingur sagt: ad hann væri valtast-

ur vina; og eg veit ecki betur enn reynslan hafi sannad þad og sanni dagleza. Hid þridja ágiæti heimsins er ecki ollu stadfastara, eg meina: mannhylli og heidur; þar um segir Ritningin svo: madurinn blifur ecki lengi í heidrinum. Já, um oll lifsins giædi má fullyrda, ad þau sién sialfvalt ecki sidur enn lífid siálft. Allt er, eins og lífid siálft, sífelldum umbreytíngum undirorpid. Vér berumst áfram med lífsins straum; allt, sem oss tilheyrir, berst í sama straumnum, sem stundum sér yfir klöngur og steypist fram af hömrum. Hverr sá, sem hefir ecki látid eptirtekt hiutanna venjulegu atburda kenna sér þessi sannindi: ad allt jardneskt sé fallvalt og óstodugt, edur hann, sem gjörir sér von um, af því hann er heilbrygdur í dag, skuli hann aldrei kenna veikinda, og af því hann lifir nú í allsnægtum, skuli hann aldrei skort reyna, sá tælir siálfann sig. Vonin getur hæglega brugdist honum, af því vonin var óskynsamleg, og þad er enginn fegnudur ad missa þess, sem madur vænar og hefir launaun ad orlast. Verum því aldrei svo bernskir ad vænta þess, sem nockurs, er vist sé, sem svo hæglega getur brugdist. Þessi vidvaran er því naudsynlegri, sem þeir eru fleiri enn færri, sem ætla ofn.jog uppá hid ókomna þegar vel gengur. Dagurinn á morgun skal vera eins dyrdlegur og dyrdlegri enn dagurinn sá í dag; þanninn gjöra menn sér gjarnan í lund, þegar velgengnin dillar þeim, og þessi glada von gjörir

margann athugaleysinn í velgenguninni, og því óvidbúinn ad hún hallist; þessvegna verda hinir sömu huglausir, úrræda- og dádlausir, já, mótgunarsamir þegar það kemur, sem þeir áttu síst von á, en sem ætíd er eins vísst ad komid geti fyrir. Þad er ecki meining þessarar vidvörunar, ad menn vegna þess, ad nærverandi hagsæld getur brugdist, skuli lifa í sífelldum qvída og hrædslu fyrir mögulegum slisum, og vegna þessarar hrædslu gleyma nærverandi gædum og þeirra gledilegri nautn. Þad er ecki tilheyrilegt á vorin, ad fara þá strax ad qvída þeim vetri, sem væntanlegur er eptir komandi sumar; en hitt er bædi rétt og hollt, ad muna til þess, ad hverki vor né sumar varir ávalt, og skynsamlega breytir sá, sem á þessum gledi-tíma býst vid og býr sig undir þann ódlídari, sem von er á seinna. Æsku-madurinn þarf ecki ad qvída vesælli elli, en forsjállega er þad gjört, ef hann man til hennar og býr sig undir hana, kynni svo fara, honum væri ætlad ad bída hennar. Sú advaran, sem eg minntist á, midar einúngis til þess, ad vér búumst vid því, sem ad hondum getur borid, svo þad sorglega hitti oss ecki óvidbúna, en engannveginn til þess, ad hriggja oss eda spilla fyrir oss nærverandi hagsæld. Þad réttasta er, ad njóta þeirra gæda, sem veitast, med gledu hjarta, med þackláta hjarta vid Gjafarann, en vera þó jafnframt vidbúinn ad sjá þeim á bak, þegar vera skal, ad minnsta kosti, gjöra sér enga vissa

von um, ad þau gædi, sem um litinn tíma eru vor eign, muni verda oss trúfastari enn ødrum, eda þau, eptir edli sínu, gæta verid.

En — þad eru ecki einúngis þau jardnesku gædi, sem vèr verdum ad gjøra oss hófsega von um; vèr megum ecki heldur vænta, í vorum vidskiptum vid náúngann, allrar þeirrar ánægju, sem vèr óska kynnum. Þad liggur nærst allra sálum, ad elska sig mest, ad vilja verda ødrum fremri, ødrum sælli; þegar þetta er sameiginlegt óskum allra, og allir hafa þad augnamid ad eðla, sem best, egin hagsæld, og sækjast eptir því, sem þeir ætla til þess henntast, þá er ecki furda þó menn hæglega ágreini. Hverr fyrir sig þykist hafa rètt til ad eignast þad, sem hann hyggur sèr haganlegast, og sá er kraptur sjálfs-elskunnar, ad hún gètur audveldlega talid hverjum einum trú um, ad hann se betur enn hverr annar, til þess kominn, ad bera þad úr býtum, sem allir sameiginlega eptir sækjast. Ad ætlast til þess ad adrir skuli vera ødruvísi lyndir, og vidurkénna sinn náúnga sèr verdugri þeirra gæda, sem þeir girnast, er vant um of, og sú von bregdst vafalaust. Náúnginn dæmir vorn dugnad og maklegleika á annann qvarda enn vèr sjálfir, þegar forum í mannjøfnud vid vora medbrædur. Þad má oss ecki gleymast, ad hverjum er gjarnast ad halda mest af sjálfum sèr, og una því illa, ad adrir sækjast eptir því, sem þeir sjá sèr haganlegt, og álíta sig ødrum fremur maklega ad bera frá bordi.

Hér af kémur þad, ad margir, sem sólgnir eru í uppheſd eda aud, fari þeir ecki gjætilega med þeſſa ſína hoſud óſk, ſeli þeir hana ecki fyrir náúnganum, verda ad þola fyrirſtödu og óvinſæld af ödrum, ſem haſa ſömu epterlangan og ſama tilgáng í ſínum áformum. Alkunnugt er máltækid í voru máli: vyrdíngin ſkýr þá, ſem hana elta; hvar med bendt er til þeſs, ad ſá vyrdíngagjarni ſé tídum hindradur frá ad ná því, er hann ſækiſt eptir. Þeir, ſem eru ónægdir med ſinn hag, og til ad efla hann, vilja vera ödrum fremri, eda fyrri til ad ná því hnoſsi, ſem margir eptir hlaupa, þeir ſitja tídum med þad, ſem þeir ſíſt vildu. Sá, ſem lætur ſér laglega um heimſins ágjæti, ſær þad tídum ſoſandi; menn hjálpa honum til ad ná því, einmidt þeſsvegna, ad þad ſýniſt, ſem hann haſi ecki viljad taka þad frá neinum.

Í vinſkapar ſambandi voru vid menniná og á heimilum vörum, hofum vér enn meiri orſök til ad hafa hóf á von vorri um manna fullkomnun; því þeſs kunnugri og handgengnari, ſem menn verda innbyrdis, þeſs fullkomnari verdur ad ſönnu unadſemdin af fullkomnu ſamlyndi, og fullkominni ſamhljódun tilfinníngonna. En — komi menn ſér ecki ſaman, ſéu þeir ólíkin hverr ödrum í lund og tilfinníngum, verdur þad því meira ónægjuefni, ſem ſameiningin er nánari; þad er ad ſkilja: vilji menn eiga þann vin eda ſtallbródur, ſem eckert ſé ad, engann breiſkleika haſi, hvers tilfinn-

íngar í öllu séu þeirra tilfinníngum samhljóda, jafnvel í hinu ómerkasta, ad svipur hans sé ecki annad enn þeirra mind, þá leita þeir ad þeim skugga, sem traudlega og máské ecki er ad finna. Þó þeim breadist þessi von, geta þeir ecki kent ödrum enn sjálfum sér; þeir leita þess nefnilega: sem ecki er til. Menn ættu ad hugleida, ad allir eru ófullkomnir, ad allir hafa sína bresti, ad öllum, eins þeim og ödrum, sem vandabundnastir eru, getur yfirsjest. Vér höfum efalaust einhverja bresti, hver líkindi höfum vér þá til ad vænta, ad þeir menn, sem vér erum tengdir, sem vér elskum og heidrum, séu undanskildir því almenna breiskleika lögmáli? en séu þeir breiskir í einhverju eins og adrir menn, hvad er þá tilhlýdilegra enn ad taka til umburdarlyndis? Egi vægd' nockursstadar vid, á hún þad víst hér, þar sem um sambúd vid adra er ad gjöra. Aldrei ættum vér ad láta smábresti eda ólíka lund kjæla oss, eda gjöra þeim afundna, sem yfir höfud ad tala eru elskuverdir. Vid þessu rídur oss á ad gjæta vor, því þad er mála sannast, ad ecki tölurverdar mótgjördir, heldur misskilníngur, smá og einkisverd atvik verda, sem optarst, tilefni til missátta og þeirra sorglegu afleidínga, sem þadan koma yfir manna sambúdir. Enginn vænti því ofmikils af mönnum, vonin kann ad bregdast, og allir una því illa, þegar hún bregdst.

2.) Vér höfum ná vikid á þad helzta, sem ecki er vid ad búast í þessum heimi, sem vér

hofum eins litla orsok til ad vænta á vorum í hond farandi lífstundum, eins og egin reynsla mun kenna oss, ad vër hofum ecki ad undanfornu fundid þad. Ná viljum vër í annann stad hugleida: hvers vër gëtum med ollum rëtti vænt, á þeim tíma, sem fyrir hendi er.

Vër gëtum þá fyrst vænt þess, ad njóta iñvortis gladværdar, hjartans rósemi og samvitsku fridar, ef vër látum oss umhugad vera, ad lifa gudrækilega og rádvandlega í heiminum. Þañinn er því tilhagad af vorum Skapara, ad hverr sá, sem kappkostar med nockurri alvoru, ad dyrka Gud med hreinu hjarta og lastvoru dagfari, uppskër ná þegar þessa dygdarinnar umbun, gladvært sinni og rósama samvitsku; er ecki þetta mikill ávinningur? um þad geta bædi þeir vitnad, sem bera í sjálfum sër þessa himnesku unadsemd, samvitskunnar frid, og líka hinir, sem þennann frid vantar. O! hvad sæla finna þeir sig ecki, sem eru sër þess medvitandi, ad framgengid hafi í heiminum eins og fyrir Guds augsyn, og aldrei vísvitandi fleckad sig med neinni synd! En hversu vesælir eru hinir, sem midt í sinni óróleguu kjæti, midt í ollum upphugsanlegum heimsins fognudi, áreitast af samvitskunnar átolum fyrir drygdar syndir. Hvad mundu ecki þeir, sem njóta samvitsku fridar, vilja lída fyrir þessa dyru perlu, sem þeir hafa fundid? fyrir þad athvarf, sem þeir ega í sjálfum sër? fyrir þá hugsvolun, sem tilhugsan til Drottins veitir þeim, jafnvel á

þeim sorgleguſtu lifſins augnablikum? En hin- ir, ſem ecki þeckja þeſſa unadſemd, ſem vita hvad ſá vaknada ſamvitſka ſtíngur ſárt, hverſu mikid mundu þeſsir ecki tilvinna, od loſaſt gætu vid þeſſa plágu? hverſu miklu af veraldar ept- irlæti mundu þeir ecki vilja ſjá á bak, ef þeir med því móti giætu friaſt vid hann ovin, ſem innra býr og þeir komaſt ecki undan. Hverjirtveggja geta ſannad — hverr þó med ſínu móti — Ritníngarinnar ord, Gudhrædſlan er mikill ávinníngur; því þeſsi ávinníngur er gód og glød ſamvitſka.

Þad annad, ſem hverr einn rádvandur madur má ega víſt, er þetta: ad annadhvert verda útvortis kjør hans bærileg, eda hann gét- ur borid þau, þó ſorgleg ſýniſt, heidurlega. Ecki er í hans valdi ad ſkapa ſér verøldlega heppni; hvørki á hann rád á audi, eda upphefd í heiminum, eda ødru, ſem haldid er ágiætáſt. Enginn dauðleaur ætlur med ølu umflúid þad margvíslega bøl, hvar med lífid er blandad, en vid morgu lifſins bøli ega ein og ønnur lækn- is-medøl, og í voru valdi er ad brúka þau. Menn klaga tídum yfir því, hverſu ójafnt og jafnvel ſkréttvíslega heimſins gædum ſé útbýtt, og þad ſvo, ad menn ſkyldu ætla, ad þeir ein- ir væru ſælir, ſem þeſsi hafa hlotid, en hin- ir, ſem um þau ſomu hefir verid ſinjad, væru dæmdir til ſifelldrar ólucku. En — þad er hætt vid þeſſar umqvartanir ſéu ecki nijøg áreidan- legar, og mønnum ſé ofvaxid um ad dæma, hve

kjor megi best halda. Vér vitum til þess, ad sá ríkasti er ecki ætíd hinn ánægdasti, né hinn voldugasti ödrum gladværri. Í sálu mannsins mun þvi vera einhverr sá kraptur, sem meira gjörir ad því, ad efla mannsins farsæld, heldur enn þau kjor, sem hlotnast; það er meir komid undir manni siálfum, heldur enn því ástandi, sem hann lifir i, hvad sæll hann er: Þegar vér viljum því vita hvad sæll þessi eda hinn er, þá spyrjum ecki ad, hvad voldugur eda ríkur hann sé, heldur hverninn hann brúki audinn eda valdid; en þegar vér heyrum getid um einhvern mótlætismann, svo spyrjum ecki hvad ad honum gángi, heldur hverninn hann beri þad. Þessvegna getur sá gódi madur vænt þess, ef ecki ad hljóta, þá samt gjora sér hlutfall sitt þolanlegt. Ecki er vegur hans allur rósum strádur, en hér og hvar finnur hann á honum blómstur; aldrei bregdst allt, aldrei fledjar ed i e nu ollmæda; vonin getur jafnvel gjort lángvinnt mótlæti vidunandi, sem i fyrstunni þókti obærilegt; vonin býr í dygdaugu hjarta, og hánýsykrar þann beiska kaleik lífsins.

Loksins hefir sá gódi madur, sem rækirdyggilega sinar skyldur vid Gud og menn, von um Drottins blessun, en heidur og ástsæld þeirra manna, er hann á vid ad skipta. Menn eru ecki mikid fyrir ad kannast vid eda meta rétt miklar gáfur, dugnad eda frægdarverk annara, en eru sannsýnari þegar dæma skal um sidgædi. Eins i þessu, sem fleiru, eru menn nockr-

ad undarlegir; þeir þyckjaſt ecki vid þá nábúanum ſe hróſad fyrir rádvendni, þad er ad ſkilja: ef hann er rádvandur; en nóg mætti ad því gjøra, ad halda á lopt hans gáſum, framſýni og dugnadi. Af luckunnar gædum ofundar margur ſinn náúnga, en engin dæmi vita menn þeſs, ad nockur hafi verid ofundadur fyrir þad ad hann var betri madur enn adrir, og þó vidurkénna allir, ad þad ſe meſt verdt ad vera gódur, og med engu geta menn áunnid ſér viſſar heidur náúngans, enn med einlægri rádvendni; já, Ritningin ſegir: ad Gud gefi þad, ad jafnvel óvinir hins rádvanda verdi ad vera til frids med hann (Ordsqv. b. 16, 7. Þad er viſt, ad ſidgædi er grundvøllur alls heidurs. Miklar gáfur og framúrſkarandi dugnadur er eins og glampi, ſem fyrir bregdur um ſtund, én dygdin lík því ljóſi, er ſogar jafnt og ſtødugt; menn ſtara á hid fyrra med undrun, en dygdina heidra menn í ſínu hiarta. Hreinſkilin, einlæg gudrækni, ſameinud ſtødugri rádvendni, krefur vordíngu af mannſins hiarta, ſem kémur nærri lotníngu. Beſtu menn — þad er ſatt — fara ſtundum á mis vid þann heidur, ſem þeir ega med øllum rétti, en þad kémur af því, ad menn ſkilja ecki hvad þeir gjøra, og engannveginn af hinu, ad dygdin þegar hún þeckiſt rétt, falli ecki eptir vordíngu af hverju hjarta, og á endanum fær þad ætid ſvo, ad hinn rádvandi fær ſinn ſkyldu-ſkatt, heidur og virdíngu, þó ecki verdi fyrr

enn eptir sitt enda-dægur. Þegar hann hefir lengi gegnt sinni köllun dyggilega, kennir reynslan mennum ad þeckja hann rètt, og þegar hañ er genginn af heimsins skodunar-plátzi, verda hans v... eptir og koma til ljósins, því þau vóru i Gudi gjord.

Þessa má hinn gódi madur vænta, jafnvel á hinni vondu tíd, þegar aldanna sidir snúast til ens verra. En — er þad ecki mikilsverdt, ad vera í afhaldi hjá þeim, sem vid er ad skipta? Fái þad ecki bætt manni brest á luckunnar kjörum, leggur þad honum í hönd tækifæri til ëinna og annara gódverka, sem eru ágjætari enn hvert annar audur. Því betur, sem sá gódi madur þeckist, þess heldur vex hans ástsæld og virding, og hans elli, audnist honum ad bída heñar, verdur honum heidurs kóróna.

Nú höfum vèr um stund vikid á, hvers ecki má vænta, egi vonin ad rætast og ecki á sínum tíma snúast til ángurs; sömuleidis þad, er eptir hlutanna venjulega gángi, má búast vid. Þad er ágripid af þessum hugleidingum: stodugrar, veraldlegrar farsældar er óvit ad vænta, hún gèfst trauðlega nockrum manni; sífelldrar ánægju í vidskiptum og umgengni vid menn, skoldi enginn heldur gjora ráð fyrir. En sá, sem ástundar ad vardveita óflekkada samvizku fyrir Gudi og mönnum, hann má gjora ráð fyrir sálar fridi og sinnis rósemi, þolanlegu ástandi midt í lífsins raunum, elsku og heidri

gódra manna og jafnvel vyrdíngu þeirra, sem ecki mega gódir heita. Sá, sem þanninn vonar, getur heimfært uppá sig þetta Ritningarinnar ordatiltæki: Von hins rettláta er fögnudur.

Þer sjáid, ad hér er. þess einúngis getid, sem hinn rádvandi má búast vid í þessum heimi eptir hlutanna edlilega gángi. Eg get þess því ad lyktum: ad hinn rádvandi hefir enn glediligri von enn þessa, hann hefir nefnilega: vissa von betra lífs í ödrum heimi. Þó honum bregdist allt í þessu lífi, getur hann huggad sig vid þad, sem í vændum er, þegar þessu lífi linnir; sú von hins réttláta er sannkolllud gledi.

Í þessum heimi er hinn rádvandi ferdamadur; þá er nóg, geti hann gjört sér lífid vidunandi, meira girnist hann ecki, mienu hýst. hann ecki vid; hans rétta heimkonni og bólstadur er himininn; þángad horfir hans hugur, þángad vill hann ná; hann þreytist ecki gott ad gjora, því hann veit, ef hann þreytist ecki, ad á sínum tíma mun hann uppskera óþreyttur.

Hvert, sem vér vordum þá þetta efni fyrir oss med tilliti til þessa eda annars lífs, sannast þetta Ritningarinnar ummæli: **Von hins rettláta er gledi, en eptirvænting hinna vondu fyrirferst. Amen!**

# Á Bænadaginn.

## Bænin.

Alvísa, allstadar nálæga, heilaga Vera! frammi fyrir Þjer mætum vjer á þessari heilögu stundu, til þess í djúpustu hjartans audmýkt ad játa Þjer vorar syndir, bidja Þig fyrirgefningar og adstodar til ydrunar og apturhvarfs. Fyrir Þjer gjetum vjer ecki dulist, undan Þinni hegningu ecki skotist, því fyrir Þínum augum eru allir hlutir berir og naktir; Þú veitst hvad vjer gjörum, tölum, hugsum; hvad vjer megnum, og hvad vjer höfum gjört af Þvi, sem vjer megnudum ad gjöra samqvæmt Þínum heilaga vilja, og á sínum tíma muntú alvaldi Dómari! gjalda hverjum eptir hans verkum. Hjálpa oss því nú til ad dæma oss sjálfa, svo vjer verdum ecki af Þjer dæmdir! Kjenn oss med speigli Þíns ords ad þeckja vora rettu mind! Rek frá oss Þoku sjálfselskunnar og sjálfsþóttans, svo vjer ætlum oss ecki betri enn vjer erum, heldur sjáum vorra synda vidbjód og sekt! Vek i oss laungun til ydrunar og apturhvarfs, og gef oss árvekni og krapt til ad varast syndarinnar vielar og ĭrædi, Þvi Þú gefur máttinn og viljann til eus góda! Lát oss svo finna náð hjá Þjer, Þíns elskulega Sonar vegna, og gjör oss vissa um vora sáluhjálp! Amen!

## Pistillinn.

Esaj. LV, 6—7.

Leitid Drottins á medan hann er ad finna; kallid á hann á medan hann er nálægur. Sá hinn ógudlegi láti af sínum vegi, og íllvirkinn af sinni hugsun, og snúi sér til Drottins, þá mun hann miskunna honum, og til Guds vors, því hjá honum er mikil fyrirgéfning.

## Inngángurinn.

Samvitskan hefir fyrr og sídar sýnt herradæmi sitt yfir manninum, med því, ad benda honum, þegar íllt flaug í hug, og straffa, þegar íllt hafdi adhafst, med tilfinnanlegu hugarvíli, hrædslu og bróseini. Eginleg er, manns-ins hjarta tilfinníng ens rétta og ránga, eins á sínum, sem annara athöfnum, og á þessari tilfinníngu er bygd samvitskan. Otti fyrir þeirri heilögu Veru, sem gaf oss samvitsku, þennann Dómara vorra athafna, er eins náttúrlegur hverjum manni og tilfinníng réttar og ótéttar. Vér vitum, ad þeim Réttláta og Heilaga getur ecki gédjast rángleti og synd. Sá, sem er synda og ránglætis medvitandi, hræddist því ad öllum líkindum þann heilaga og réttláta Dómara; og þared öllum yfirsjest, þó allir meidi

samvitskuna med áſetníngs syndum, er nátt-úru... , ad allir ótúst Drottins rettláta dóm, og finni til hugar óróſemi, þegar þeir athuga sitt hjarta og breytni, og hvaſa um leid til þeis, er allt ſier, einninn þad, ſem í myrkrunum er hulid, og hefir kunngjört; ad hann muni gjalda einum og ſerhverjum eptir hans verkum.

Þeſsvegna hafa menn fyrr og ſídar leit-ad ýmſra bragda, þegar ſamvitſkan ákjærdi þá fyrir einhverja ſynd; þegar þeir hjeldu, ad ólucka ſú, ſem yfir þá kom, væri hegning fyrir drýgdar ſyndir, þá — ſegi eg — leitudu menn ýms-ra bragda til ad komaſt aptur í ſátt vid Drott-inn; því ſú ſama ſkynſemi, ſem ſagdi mönn-um, ad Gud hefdi andſtygd á ſynd og ſtraff-adi rángläti, hún ſagdi þeim og, ad hinn ſami væri ſáttgjarn, ad hjá honum væri mikil fyrir-gefníng. Aheit, offur eda gjafir, arátur og þjáníng likhamans hafa þó tídaſt verid þau medöl, er menn leitaſt vid ad frida ſamvitſkuna med, og ſætta ſig vid Guddóminn; og marg-ur ſáfródur fann í þeſſu mikinn hugfróa, og hugſadi med þeſſu ad komaſt hjá makleau ſynda-ſtraffi. Því komu og Guds menn ſtrax í fyrnd-inni fram og verudu vid þeſſari villu, og tal-udu þanninn í Guds orda ſtad vid þá, er hugſudu med fórnfæríngum einum ad bæta fyrir ſínar ſyndir: Eg ávíta ydur ecki ſegir Drott-inn, fyrir ydar fórnfæríngar ſakir; hugſid þier, ad eg muni vilja eta kjöt uxanna eda drecka blód hafranna? nei, offra þú Gudi

þacka gjörd og gjald þinum hærsta þin heit. Harmþrúnginn andi er þad offrid, sem hon- um þócknast, og sunduckramid hjarta mun hann ecki forsmá. Þessi harmþrúngni andi og sundurkramda hjarta er þad fyrsta ydrun- ar audkénni, og komi þadan lifnadar leidrétt- ing, er þad sú hrigd eptir Gudi, sem Post- ulinn Páll seair, ad engann muni ydra. Fyr- ir þá skepnu, sem veit, ad set er lögmál sett, ad hún yfirtredur þetta lögmál og ad lögmáls- ins yfirtrodslur draga eptir sig hegníngu, er náttúrlegt ad finna til ángurs. En þetta ång- ur er þó gagnslaust og ecki eptir Gudi, komi þad ecki til vegar þeirri lifnadar leidréttíngu, sem sættir manninn vid Gud, og ávinnur hon- um synda fyrirgéfníngu.

Ætlum ecki, gódir Brædur! ad eins dags tár, ecki margra ára tár, géti bætt fyrir eina synd; ecki heldur, ad föstur eda bænahald séu medöl til ad fá uppgjöf á óbættum syndum. Ætlum ecki heldur, ad eins dags gudlegar hugsanir séu þau réttu forlíkunar medöl. Nei, ángur og tár eiga ad hvetja oss til ad ydrast þeirra synda, sem tárin útpressa, bænir, föst- ur og gudrækilegar umhugsanir eiga ad hafa sömu verkun, en ydranin ein er þad af manns- ins sidu, sem getur útvegad hönum vissu um fyrirgéfníngu sinna synda. Ydrun bodadi Jó- hannes undir eins og hann bodadi Endur- lausnarans opinberun, og Jesús siálfur bod-

adi líka fyrst ydrun, þegar hann hof sitt spámannlega embætti (Matth. 4, 17.). Ydrun er oss og bodud í dag; til þess er dagur þessi ætladur, ad hann sé mönnum ydrunar-dagur; ecki í þeirri meiníngu, ad menn gjöri á einum degi ydrast, heldur ad eins byrjad ad ydrast; en sé vel byrjad, þá verdur annad audveldara. Upphvatníng til ad ydrast innheldst í eptirfylgjandi hugleidíngum, þær skulu kenna oss:

1.) Ad án ydrunar fáist ecki fyrirgéfníng syndanna.

2.) Ad hún fáist, þegar þeirra sé ydrast af hjarta.

---

1.) Án ydrunar getur ecki synda fyrirgéfníng fengist; þad er jafn-ómoguleat á Guds og manna síðu; Gud getur ecki veitt ödrum synda fyrirgéfníng en þeim, sem bæta ráð sitt, og ádrir géta ecki þegid synda fyrirgéfníngu enn þeir, sem ráð sitt bæta. Énga velþóknun getur Gud haft á vondum, og syndarinn er óhæfilegur til ad fá samvitsku frid, þangad til hann lætur af ad syndga. Ef vér athugum hvad synda fyrirgéfníng sé, munum vér skjótt sjá, ad Gud getur ecki veitt hana ödrum enn þeim ydrandi. Þegar vér segjum, eda og vér tráum, ad Gud fyrirgéfi syndurnar, meinum vér þetta: ad hann breyti vid manninn eins og hann hefdi ecki syndgad, heldur med alúd og einlægni gætt sinnar skyldu;

ad Gud álíti hann nú verdugann fyrir sína edsurlegu velþóknun og náð. Hverr, sem setur sér fyrir sjónir Guds heilagleika, réttlæti og speki, sér þet hæglega skilid, ad Gud getur ecki fyrirgéfid þeim syndina, sem enn þá elska hana, en er fráhverfur skyldu sinni, eda þeim, sem er óumvendtur. Gud getur ecki afneitad sjálfum sér, hann getur ecki breytt vid þann, sem heldur áfram ad syndga og vanrækir skyldur sínar, eins og vid þañ, sem hvorfid hefir frá syndinni og gætir skyldu sinnar. Hann getur ecki álitid þann verdugann sinnar velþóknunar, sem lifir í syndunum, því á syndum og óu ránglæti hefir sá heilagi og réttláti mestu misþóknun. Nei, þad er ómögulegt, ad Gud géti fyrirgéfid syndaranum hans syndir, nema hann ydrist synda sinna og bæti ráð sitt. Hvad mundi og af því leida, ef sá, sem heldi áfram ad syndga og elska syndina, ætti von á Guds náð og synda qvittun? Sá til nádar tekni syndari mætti ætla, ad Gudi væri jafnkjært hvert hans bodum væri hlýdt edur ecki; ad hann gjördi engann mun á dygd og lesti; já, ad Gud væri hverki heilagur né réttlátur; þetta mundi og gjöra hann stadfastari í syndinni, og réttlæta þad, ad hann lifir án Guds í heiminum. Þad er ofbodslegt ad hugsa, ad Gud fyrirgéfi nockrum þeim, sem ecki ydrast synda sinna, og þeisi vit bjódslega hugsan finnst þó medal kristinna manna; já, sumir eru svo frekir, ad þeir kalla þetta sitt vonar-akkéri.

Guð hefir — segja menn — heitið synda fyrirgéfníngu vegna Jesú Krists; hver á honn trúir, sá er réttlátur, honum eru hans syndir fyrirgéfnar. En — hverjum hefir Guð heitið náð vegna Jesú Krists? hefir hann heitið þeim náð, sem halda áfram í syndunum, njóta í uggleysi og með fögnuði syndsamlegs munaðar og syndarinnar ávaxta, og hafa enga laungun til ens góða, sem Guð hefir boðið? eða hinum, sem sjeð hefir að sér og snúið sér til Guðs af öllu hjarta? Hverr gétur, hverr má trúa á Jesúm? gétur sá yðrunarlausi það? má hann það? er það ecki miklu framar sá yðrandi, sem vill leiðréttast, sem ángrast af sínum syndum og vill af hjarta betrast? O! gætum vor, Brædur mínir! að vér ecki gjörum Endurlausnarann að syndarinnar þénara. Munið til þess, að Jesú lærdómur ætlast til, að yðran göngi á undan trúnni; innprentið yður því djúpt þennann sannleika, gróðursetjið hann svo í ydar hjörtum, að hann gleymist ecki; því Guð gétur ecki fyrirgéfið syndirnar öðrum enn þeim, sem yðrast af hjarta.

Já, sásinna er að hugsa, að synda fyrirgéfníng fáist án sannrar yðrunar; vér þurfum ecki annað enn spyrja vora egin samvitsku að, hún gétur leyst úr þessu. Hún segir þeim yðrunarlausa: hvernig gétur þú vænt synda fyrirgéfníngar, þú, sem enn þá ert viðbjóðslegur syndari, lángt frá Guði, leitar ecki Guðs; þú, sem leikur þér að syndinni, hefir yndi af henni;

hverninn getur Gud verid þér nálægur med sinni náð, þegar þú fiærlægist hann med þínum syndum? lángan til syndarinnar býr í þér; hverninn getur þá lángan til fyrirgefníngarhjá þér lifnad? Sá, sem illt girnist, getur ecki undir eins girnst gott; svo getur ecki sá, sem syndina elskar fyrir alvöru, girnst synda fyrirgefníngu. Já, þó Gud giæti fyrirgefid þeim ydrunarlausa, mundi hann ecki geta þegid þessa fyrirgefníngu; Gud mundi ecki bjóda honum fyrirgefníngu, nema med því skilyrdi, ad hann betradi sig, og ad þeim kjörum mundi sá ydrunarlausi, hjá hverjum elska til syndarinnar drottnar, aldrei vilja gánga. Hjá straffinu einúngis vill sá ydrunarlausi komast, en krapt til betrunar og fyrirgefníngu syndanna, sem Jesú lærdómur bodar, er honum ecki umhugad ad fá. Hann er því ecki hæfur til ad fá þá náð, sem Jesús hefir afrekad, hverrar tilgángur er hreinsan af syndum, hjartans og framferdisins helgan. Hér er þó annar vottur þess, ad án sannrar ydrunar sé ecki fyrirgefníngar ad vænta.

2.) En — sönn ydran á fyrirgefníngu vísa. Þegar syndarinn hefir snúid sér, er sinni hans horfid frá illu til Guds, því gémur og vill Gud álíta syndir hans sem ógiørdar, og veitt þeim apturhorfna á ný sína náð. Nú getur syndarinn og, vegna Jesú Krists, fengid áreidanlega von um Guds náð og fyrirgefníngu. Gud vill fyrirgefa þeim, sem ydr-

ast; orsök Guds misþóknunar er burttekin, þegar sá óguðlegi hefir látið af sínum vegi, og illvirkinn af sinni hugsun. Gud getur miskunad þeim, sem á hañ kalla og hans leita; það vill hann og; það hefir hann látið sinn Eiskulega boda heiminum til þess, að syndarinn skuli ecki örvænta, þegar hann athugar fjölda og stærd sinna synda, heldur ad eins snúa sér og lifa, og láta það vera sér því meiri uppörvun, sem meir er að bæta fyrir, og á fleiru að sá uppgjöf, til að flýta betrun sinni, til að vaka og biðja, svo ecki komi aptur í sama horfið og fyrri. Að fyrirgefa þeim ydrandi, er ecki gagnstædilegt Guds eiginlegleikum. Alvitskan getur ecki fyrirgefið þeim, sem hún sjer að muni áfram halda að yfirtroda reglunnar bod. Gud er reglunnar en ecki óreglunnar Gud, segir Postulinn. En þeim getur hann fyrirgefið, sem hefir einsett sér að hverfa aptur til föðurhúsanna, og sem hann sjer að muni láta verda af því áformi. Heilagleiki Guddómsins getur ecki haft velþóknun á þeim, sem elska hid vonda, en náð getur hann audsýnt hinum, er fengið hefir viðbjóð á vondskunni, og hefir það einlægt áform ad halda sér fast við það góða. Réttlætið getur ecki frikennt þann, sem bætir synd á synd ofan, en fyrirgefið getur það þeim, sem fer og syndgar ecki framar; og að Gud ecki einúngis geti, heldur líka vilji fyrirgefa syndirnar þeim, sem þeirra ydrast, það sannar sú endurlausn, sem syndugu mannkyni er feng-

fyrir Jesúm Krist. Til þess sendi Gud Son sinn í heiminn, ad allir, sem á hann trúa, og eptir hans bodi hverfa frá syndinni, ecki fyrirfarist, heldur hafi eilíft líf.

Manninum getur ecki verid alvara ad óska sér nádar, hann getur ecki trúad á Krist eda treyst því, ad syndin sé sér hans vegna fyrirgéfin, neina hann þecki syndarinnar eymd og sekt eins og hún er, hafi vidbjód á syndinni, og ecki einúngis af qvölda fyrir hennar afleidíngum; en undir eins og þessi sinnaskipti eru komin, þá er lánganin eptir Guds nád innileg og einlæg. Madurinn óskar þá ecki ad verda laus vid syndanna straff, heldur vid syndina siálfa; hann þángrar og þyrstir eptir réttlætinu, og nú getur hann því leitad hælis hiá honum, sem heiminum var gefinn til réttlætis, til helgunar og eilifrar endurlausnar; til hans, sem afmádi syndina, kénndi med sínum lærdómi og dæmi ad sigra heiminn, sem leiddi mennina til Guds og útvegadi þeim eilífa sáluhiálp.

An ydrunar fæst ecki nád hjá Gudi; en —
Þeir fá allir eilíft líf,
Sem yfirbót synda vinna.

Gjætid því þess, ad sú ydran, sem þessu á ad koma til vegar, hlýtur ad vera hin sanna ydran. Hana er hægt ad þeckja frá hinni, sem heitir, en ecki er, ydran. Af þeckíngu syndarinnar og þeirrar eymdar, sem hún leidir yfir syndarann, qviknar náttúrlega í hjarta mannsins ángur og tregi og óró semi hugarins, nærsta

misjafnt, ecki ad eins eptir stærd og vidbjóds-legleika þeirra synda, hvörra endurminning er vöknud í mannsins huga, heldur og einkum eptir hvers eins sérlegum kapnadi og ásigkomulagi; en þetta ángur er jafn-vernlegur partur yðrunarinnar, þegar því er samfara jafn-einlægur vidbjódur á öllum, ecki ad eins drygdum syndum og jafn-einlægt áform ad hata framvegis, ecki einúngis þær syndir, sem þá ángra hjartad, heldur allar syndir. Vidbjódur, innilegur vidbjódur á öllum syndum, og eins innileg lángan eptir allri þeirri fullkomnun, sem madurinn veit, ad Gud af sér heimtar, þad er hid sanna og vissa audkénni sannrar yðrunar. Sá, sem vill finna náð hjá Gudi, verdur ecki einúngis ad hætta ad syndga, heldur uppræta úr sínu hjarta alla laungun til ills, en gródursetja þar aptur elsku til Guds og hans boderda; hann verdur ad hreinsa hid innra, má ecki lída illgresid óupprætt, og svo þad vaxi þar ecki aptur, eptir ad akurinn er einusinni hreinn ordinn, verdur ad setja þar nýar jurtir, annars sprettur illgresid aptur; þad gengur eins til med þann auda akur og med þad tóma hús, sem sá óhreini andi fann sópad og prýdt, og flutti í aptur, af því ad ginn honum sterkari bjó þar fyrir. Sá einn getur því sagt, ad hann hafi umvendt sér, sem ecki einúngis hefir látid af illu, ecki einúngis upprætt úr sínu hjarta alla laungun til ens illa, heldur finnur þar og lifandi eptirlaungun til alls þess, sem Gudi vel líkar og hann hefir

bodid manninum ad ſtunta. Hann hefir fengid þau ſinnaſkipti, ſem eru hid ſama, og hin ſanna ydrán. Elſka til ſyndarinnar er dáin; elſka til þins góda lifnud. Þad er audvitad, ad hatrid til ſyndarinnar hlýtur ad vera einlægt, elſkan til ens góda innileg og breytnin á ad bera þeſs ljóſann vott. Sá, ſem grætur bætt fyrir ſínar ſyndir, á ad gjøra þad, hvad, ſem koſtar, annars hatar hann ecki ránglætid. Sá, ſem ángraſt af því, ad hann gjørdi ecki gott þó hann gjæti þad, hann verdur ad ſýna, ad ángrid ſé einlægt, med því ad ſtunda þad þeſs betur, ſem þad var lengur forſómad, eptir ad hann hefir tekid ſinnaſkipti. Med einu dæmi vil eg upplýſa þetta: Sá, ſem hefir med prettum í vidſkiptum, eda med einhverju ødru móti, ſafnad ad ſér rángfengnum audi, hann hættir þeſſari rángsleitni; hann ſegir: eg ydraſt minnar fyrri breytni, og vottur minnar ydrunar er ſþeſſi: ad eg nú ecki framar áſæliſt minn bródur í vidſkiptum. En lifir þú ecki af ávexti þinna ſynda daglega? er þá ecki neitt rángfengid ſé í þínu búi? hefir þú bætt nockrum aptur þad, ſem þú hafdir ránglega af hønum, eins og þú gatſt og áttir ad gjøra? Sé ecki neitt af þeſſu gjørt, þá er ydran þín ecki einlæg; tæl ecki ſjálfann þig; fátækt er betri en óſullkomin ydran; því einúngis hin ſanna ydran útvegar þér Guds nád aptur og ſynda fyrirgéfníngu. Þú átt ecki einúngis ad afneita ſyndinni, heldur øllum þeim hag, øllum þeim fögn-

ndi, sem hún abladi þér; það sannar þér sé alvarq að leidrèttast, en vanti þetta audkénni, er þín ydran draumur, af hverjum þá munt sé'nna vakna med skelfingu. Já, hverr sá, sem það er alhuga að finna náð hjá Gudi, hann bæti eins og verdur sínar yfirtrodslur, seli hitt Gudi, er ecki verdur fyrir bætt, og vænti svo nádar vegna Jesú Krists og þeirrar Guds miskunar, sem ecki heimtar af manninum meir enn hann getur, sem vill, að syndarinn snúi sér og lifi, því hjá Gudi er mikil fyrirgefning.

Svo snúum oss þá, Brædur gódir! til Guds af öllu hjarta, snúum oss svo vorar syndir verdi oss fyrirgéfnar; án sannrar ydrunar getur ecki fengist fyrirgéfning hjá Gudi, og hennar þurfum vér allir. Hversu margt og mikid er það ecki, sem samvitskan ásetur hvern daudlegann fyrir! Hvílíkur synda grúi finnst ecki í brjóstum kristinna manna, sem ega þó að vera heilagir eins og sá, sem þá hefir kallad! og hverr veit hvad opt hann fellur? hverr veit hvad hverr einn hefir á sinni samvitsku sem ecki ber á fyrir mönnum? hvad hverr líður fyrir sínar yfirtrodslur? hvad hverr óttast að sér þeirra vegna sé geymt? Öllum þessum, já, öllum oss er mesta naudsyn, að snúa sér til Guds af öllu hjarta, svo vorar syndir, sem gjöra adskilnad milli Guds og vor, verdi oss fyrirgéfnar. Vér erum víst ecki í tölu

þeirra réttlátu, sem ecki þurfa yfirbótar vid, snúum ofs þvi, svo vorar syndir verdi fyrirgéfnar, og vér sáum frid vid Gud og vor hjörtu afslegum synd, hennar sognud og hag, gjœtum vorrar köllunar, vorrar velferdar, tímanlegrar og eilifrar; leitum Guds nádar í tíma, og á medan vér hefum hans raust, þá forherdum ecki vor hjörtu. Snúum ofs af ölln hjarta, þá — eináungis þá — mun hann miskuna ofs, þvi hjá honum er mikil fyrirgéfning. Amen!

# A 4da Sunnudag eptir Páska.

## Bœnin.

Drottinn! þú vilt ad einn styrki annann, leidrétti og frœdi; þvi hvert á ad þjóna ödrum med þeirri giöf, sem hann hefir ödlast. Hjálpa ofs þvi hvörjum og einum til ad gœta þessarar skyldu! Þú, sem ert Sannleikans Höfundur, send þinn Anda yfir ofs alla, og lát hann leida ofs til þín um vegínn þinna bödorda! Lát ofs vid þad kannast, ad eins og þad er sú stœrsta velgjörd, sem einn getur ödrum sýnt, ad leida hann á sannleiksins og dygdarinnar veg, svo er ofs sjálfum

eckert hollara enn ad fara þessa leid; því þad giørir oss farsæla hier og annars heims! Lát þinn Anda kenna oss þá speki, ad álita jafnvel hid sorglega fyrir vorn ábata, þegar þess ávøxtur verdur sá, ad vier frædumst og betrumst til sáluhjálpar! Kenna oss, ad þess tilgángur, fyrst þad og kemur frá þier, hlýtur ad mida oss til góds, því frá þier kemur ecki nema gott! Amen!

## Gudspjallid.

(Jóh. XVI, 5—15.)

Jesús sagdi til sinna Lærisveina: nú fer eg til hans, sem mig sendi, og enginn af ydur spyr mig ad: hvert fer þú? heldur af því ad eg taladi þetta til ydar, þá uppfylltust ydar hjørtu af hrigd; en eg segi ydur þad satt: ad þad batar ydur, ad eg fari hédan; því fari eg ecki á burt, kémur ecki Huggarinn til ydar; en ef eg fer hédan, mun eg senda hann til ydar. Þegar hann kémur, mun hann straffa heiminn um syndina, um réttlætid og um dóminn; um syndina søkum þess: ad þeir trúa ecki á mig; um réttlætid: af því eg fer til Fødursins, og eptir þad sjáid

þér mig ecki; en um dóminn: því ad höfdíngi þessa heims er dæmdur. Eg hefi enn þá margt ad segja ydur, en þér kunnid eckí ad sinni bera þad. En þegar sá sannleiksins andi kémur, þá mun hann leida ydur í allañ sannleika; því hann mun ecki tala af sjálfum sér, heldur hvad hann heyrdi, mun hann tala, og hvad eptirkomandi er, þad mun hann kunngjøra ydur; hañ samt mun og gjøra mig dýrdlegann, því af mínu mun hann þad taka og kunngjøra ydur. Allt hvad Fadirinn hefir, þad er mitt; þess vegna sagdi eg ydur: ad af mínu mun hann þad taka, og kunngjøra ydur.

## Inngángurinn.

Þegar Jesús vissi, ad hann átti skamma stund eptir ad umgángast sína Lærisveina og fræda þá um leyndardóma Guds ríkis, hieldt hann vid þá lángt samtal, og bió þá med því nærsta viturlega undir þad bitra auanabiik, sem fyrir hendi var. Hann hvatti þá fyrst til eindrægni og samtaka í því verki, sem hann hafdi þeim á hendur falid; um þad, var honum mest hugad, því þad hafdi verid hans matur og dryckur, medan hans tími var, ad gjøra

Fodursins vilja; og hann sýndi med þessu, ad Guds verk var honum mest um ad gjora. En Þar nærst huggadi hañ þá med því, ad minna þá á Guds nádarríku forsión, og þá elsku hans og ununnun, sem þeir mættu uppá ætla. Ecki leyndi hann þá því, sem hann vissi fyrir þeim liggja; hann sagdi þeim þad nú strax, ad þeir mundu ýta og gráta, en heimurinn fagna; ad hans og þeirra óvinir mundu ossækja þá, eins og þeir hefdu ossókt sig, og jafnvel lífláta; já, hugsa ad þeir med þessu gjordu Gudi þægt verk. Þessi kjör sagdi Jesús ad Lærisveinarnir ættu í vændum, og vér getum ecki láð þeim, þó þeirra hjörtu uppfylltust med hrigd; þad var nóg hrigdar efni fyrir þá, ad eiga nú ad missa hann, sem þeir hofdu fest hjartad vid, af hverjum þeir væntu allra gjæda, hverjum þeir hofdu lifad med um nockur ár, dádst ad hans verkum jafnt og hans kenningum; en þad bætti þó miklu á, ad vid ossóknum var nú ad búast, hatri og jafnvel lífláti. En þess heldur má oss furda, ad Jesús fullyrdir samt, ad burtför sín verdi þeim til bóta: sannlega, sañlega segi eg ydur: þad batar ydur, ad eg fari hedan, sagdi vor Endurlausnari vid þá.

Med hvilikum rokum vor Frelsari hafi gétad þetta sagt, verdur inntak vorra gudrækilegu hugleidinga á þessari stundu.

Tolverd hafa þau gædi verid, sem Jesú Lærisveinar áttu von á, þegar þeirra Meistari

var frá þeim farinn ad sýnilegum nærvistum; því mikils misstu þeir, þegar hans misstu. og sannleiksins minnur segir þó, ad þad bati þá, ad hann fari frá þeim, þeim sé þad hagur. Vér þurfum ecki lengi ad grafast eptir, hvad þad var, sem átti ad bæta Jesú Lærisveinum missir hans nærvista. Hann sagdi þeim þad sjálfur med þessum Gudspjallsins ordum: nema eg fari hédan, kémur ecki Huggarinn til ydar, sá sannleiksins andi, sem eg mun senda ydur af Födurnum. Þad var þá sending þessa Anda, sem bæta átti Jesú Lærisveinum burtför þeirra ástvinar og Lærimeistara. Þessi sannleikans andi skyldi leida þá í allann sannleika, og minna þá á allt þad, sem Jesús hafdi þeim kénnt. Þetta fyrirheit rættist; þegar Jesús var burtfarinn af jördunni, kom sannleiksins andi yfir hans eptirfylldu erindsreka. Allt þángad til Jesús uppsté til himna, jafnvel eptir ad hann var upprisinn, gengu Jesú Lærisveinar í mearri villu. Þeir vissu enn ecki Jesú erindi í heiminn, og héldu ad hann mundi enn ætla sér veraldlega Kóngs tign í Gydingalandi, því spurdu þeir hann og, þegar hann hafdi safnad þeim út til Bethania, svo þeir væru sjónarvottar ad hans uppstigníngu: hvert hann þá ætladi sér ad vidrétta Jsraels ríki? Af þessari villu flutu margar rangar meiníngar, misskilníngur á Jesú kenníngum og verkum, og þadan flaut

aptur, ſem von var, tiegda ſkilnings og trúar, og framtakſleyſi i þvi verki, ſem þeim var huaad. Sannleikurinn var þannig hulinn fyri þeirra augum. Þeir numdu Jeſú kenningar, en ſkildu þær ecki til fulls. Von þeirra um veralldlega Konungs tign Frelſarans, og um eain uppheſd og metord i þeſſu riki, var eins og ſkyla fyrir þeirra ſkilnings augum, og þeſsi ſkyla hvarf ecki frá augum þeirra fyrri enn ſkyid huldi hann fyrir ſiön þeirri, ſem þeſsi von var bygd á. Eptir þad fóru þeir ſmámſam: an ad ſá adra þánka um allt þetta; þeir gátu nú med engum likindum framar hugſad ad Kriſts riki væri af þeſſum heimi, eda ad þeim væri ætlud veralldleg uppheſd fyrir þad, ad yfir- ſkid hofdu allt og fylgt honum eptir. Nú kom þeim ecki framar til hugar ad metaſt um, hverr þeirra eſftur ſkyldi ſitja i þvi jardneſka Meſ- ſias ar riki. Þeirra andi ſeck ædri hugſun: þeir gleymdu heiminum og heimſins dyrd, og ſnéru huganum til himinſins, hvert þeir ſáu ſinn Meiſtara fara, hvadan þeim var bodid ad vænta hans aptur, til ad ſafna þeim ad ſér, ſem vid urdu ad miſſa hans nærviſta, ſvo þeir væru eptir Jeſú fyrirheiti, hjá honum ſjalfs um og nióta ſömu dyrdar. Sannleikſins andi kom yfir Jeſú Lærisveina, og — eins og Jeſús hafdi heitid — leiddi þá i allann ſann- leika, og minnti þá á allt þad, ſem Jeſús hafdi kennt þeim, en ſem þeir hofdu ecki ſkilid fyrri, og af þeſſu ſannleiks ljóſi fengu þeir ecki

einúngis birtu, heldur og ylog hugfróa. Þeg-ar Jesú Lærisveinar hlutu þetta fyrir náviſtar missir vid ſinn Meiſtara, þeſsi hnoſs, getum vér ecki lengur efaſt um, ad þeim hafi verid ábati ad Jesús fór frá þeim. Upplýsing, þecking á þeim gudlega ſannleika, hvers verd er hún ecki? hvad vill ſá ecki fyrir hana gefa, þeſsa dýru perlu, ſem hana fundid hefir? Jesú Lærisveinar elſkudu ſannleikann ſvo, ad þeim var gledi ad lída fyrir hann hrakníngar og mis-þyrmíngar og jafnvel daudann. Sannleikſins andi var máttugur í Drottins erindsrekum, þeir gleymdu ſér, mundu ad eins til ſinnar koll-unar og vonar; hid fyrra gjerdi þá framtaks-ſama og örugga í verki ſinnar kollunar, ſvo þeim tókſt ad ſteypa til ſulls myrkranna veldi; hid ſeinna lét þá gleyma því, ſem þeir lidu, horfa ecki á hid nálæga tímanlega, heldur hid himneſka og eilífa, ſem þeir áttu í vændum, eptir ad þjónad höfdu Gudi trúlega hér, med öllum lífs og ſálar ſameinudum kroptum.

Sá ſannleiks andi, ſem í þeim bjó, ſañ-færdi heiminn um ſynd, réttlæti og dóm. Um ſyndina, af því þeir, ſem Jesús birt-iſt, kéndi og í hverra augſýn hañ gjördi krapta-verk, trúdu ecki á hann; um þá ſynd, ad þeir elſkudu meir myrkrid enn ljóſid. Sá ſami ſañ-leiks andi ſannfærdi heiminn um Kriſts rétt-læti, því nú ſáu menn, ad ſá, ſem uppreis af dauda og uppſté til himna, ſem útbjó med

krapti af hædum umkomulitla almúga-menn, svo þeir hæfir urdu til ad framqvæma meira í heiminum, enn nockrum Kónúngi med miklum her hafdi nockru sinni tekist; þeir sannfærdust um, segi eg ad sá, sem gjördi allt þetta, væri hinn réttláti Guds og sá, sem hann sagdist vera, eingetinn Guds Son. Enninn geck dómur yfir Höfdíngja heimsins; hann fêck ósigur fyrir þeim krossfesta og hans fáu Sendibodum, allur heimsins fávíslegi og ófagri átrúnadur vard afteckinn. Afgudadyrkunin eyddist; menn hættu ad gánga til málausra skurdgoda eins og þeir leiddir vóru, og í þess stad lærdu ad þeckja og dyrka þann lifanda Gud og ad dyrka hann þeirri dyrkun, sem honum gedjast í anda og sannleika, med hreinu, gudrækilegu hjarta og í lastvöru framferdi, í stad þess, ad gudadyrkun hins forna heims var ad mestu leiti innifalin í fórnfæringum, þvottum og ödrum útvortis sidum, sem ecki fengu, ad Postulans vitni, forlíkad fyrir syndirnar. Þetta verk liggur eptir Jesú Postula, fáa umkomulitla, snauda menn; þeirra kenning hefir nú þegar í 18 aldir verid trúar- og lífs-regla heimsins. A þeirra ordum eru bygd lög margra landa; þeir voldugu og vitru hafa í lángann tíma álitid sig þess sæla, ad þeir fengu ad heyra þeirra bodskap, og talid þad skyldu sína, ad láta þeirra kenningar vera þegna sinna lífs reglu og athvarf, og hinir fátæku mótlættu og udvordilegu fyrir heiminum finna enn og hafa í svo margar aldir

fundid í þeirra ordum hugsvølun og athvarf; þeir hafa, vegna þeirra kénnínga, metid ad litlu heimsins fyrirlitníngu, heimsins upphefd og dýrd og aud; þeir hafa þolinmódlega borid lífsins þúngu byrdi, og hresst hugañ vid þau sañindi, senn Jesú Lærisveinar bodudu mañnkyninu: ad allt, sem vér hér gjørum eda lídum ad Guds vilja, skal endurgoldid verda, þegar þessa skamvinna lífsins vegferd þrýtur, med ómetanlegri þýngd eilífra gæda, og ad þad, sem hér verdum ad reyna, er ecki tilgángslaust, heldur hreinsunar- og helgunar-medal sálnanna.

Svo mikid liggur eptir Jesú Lærisveina. Hverr skyldi hafa ætlast til þess af fiskurum frá Galilæu; en þeir urdu fyrst hæfilegir til þessa mikla verks eptir Jesu burtför, þegar sannleiksins andi kom yfir þá, minnti á allt þad, sem Jesús hafdi kénnt þeim og leiddi þá í allann sannleika; þá fyrstskilu þeir skilning á Jesú erindi í heiminn, á egin kollun, á leyndardómum Guds ríkis; þá urdu þeir fyrst verdugir þess heidurs, ad heita mannkynsins Lærimeistarar, Guds og hans Krists erindsrekar í heiminum; og þessum heidri munu þeir halda svo lengi, sem Kristinndómur nefnist á jørdunni. Fyrst ad sá sannleiks andi, sem gjørdi Lærisveina Krists hæfa til þvílíkra verka, og þvílík verk áunnu þeim svo mikinn heidur, en ødrum svo mikla farsæld, sem Krists ord, hver þeir útbreiddu um veroldina, hafa tilreidt og munu tilreida þeim, sem trúa. En — fyrst þess: sañ-

lelkſins andi gat ecki yfir þá komid, nema Jeſús ſæri frá þeim, getum vér med fullkomnuſtu ſannfæringu vidurkénnt, ad Læriſveinum Kriſts hafi verid ábati, eins og hann ſagdi, ad hans burtfør, ſvo ſorgleg hún var þeim, ſem nærri mátti géta, ſvo óliklegt þad mátti vyrdaſt fyrirfram, ſvo bágt þeim ſiálfum veitti ad trúa því; þeir miſtu mikils, þegar miſtu návíſtir ſíns elſkada Lærimeiſtara; þad var oll von, þó hjørtu þeirra uppfylltuſt med hrigd, en þeir høfdu þó ábata af hans burtfør; þá fyrſt byrjadi þeirra mædu- og ofſókna-tími, en ſamt var þeirra ávinníngur ſtærri enn þeirra mæda; ríkuglega bætti ſannleikſins andi þeim ſøknud þeirra Meiſtara ſýnilegu nálægdar, og hørmúngar þær, ſem yfir þá komu vegna þeſs verkſins, er þeir í hans nafni unnu heiminum til frelſis og farſældar. Þetta upplýſiſt enn betur fyrir oſs med dæmi því, er eg nú vil framſetja: Enginn efaſt um, ad þad ſé ſorglegt fyrir únglínginn, ad miſſa þann fødur, ſem bædi hafdi rád og vilja til ad manna hann og ſida, ſem beſt, ádur enn nád hefir ufkurri fullkomnun; únglíngsins hjarta uppfylliſt med hriad; en þad gétur verid ad honum ſé þad til ábata, ad fadirinn var frá honum tekinn, því nú gétur hann ecki ætlad uppá Fødurſins adſtod. Hann neydiſt til ad brúka þá krapta, vit og dugnad, ſem Drottinn vill lána honum, og þeirra brúkun verdur, eptir ſinni edli, miklu drjúgari, heldur enn annara ſtyrkur, til allrar mennīngar; ádur

vænti sonurinn alls af sínum Fødur, ná væntir hann alls af Gudi og sjálfum sér og veidur af því undir eins meiri og sælli. Vidlíka var ástadt fyrir Jesú Lærisveinum; medan hann var hjá þeim, væntu þeir alls af honum; þegar hann var frá þeim, leiddi sannleikans andi þá í allann sannleika, og gjørdi þá hæfilega til sinnar køllunar.

Af þessu skulum vér ná ad endíngu taka oss fáeinar hugvekjur, fyrst þá: ad hid innþæla er ecki ætíd hid hollasta eda besta; innþælla var Jesú Lærisveinum ad njóta hans návista, heldur enn missa þeirra, en ecki var þeim þad betra. Hanninn reynum vér þad tídum, ad margt, sem þykir sorglegt, reynist manninum hollt; því hefir Gud og blandad líf mannsins med hynislegu mótlæti, ad vid hans ástand hér á ecki sífellt inndæli. Hann lærir ecki ad brúka þá krapta, sem Gud gaf honum, af hverra brúkun hann einkum átti ad verda sæll, nema einhver þørf reki á eptir. Þegar þørf og mæda er þá medal til þess ad efla vora sarsæld, ber oss med þacklátu hjarta ad taka vid því af Forsjóninni, sem ad sønnu er beiskt, en færir oss nærsta holla ávexti; vér skulum þá aldrei láta oss hugfallast, þó oss tilfalli eitthvert mótlæti, heldur snúa strax huga vorum til þess, ad þad mótdræga muni oss sendt af vorum gædskurika Fødur til einhvers góds, og skulum þá ecki heldur láta vanta þad, sem vér getum adgjørt til þess, ad Guds gædskurikur

tilgángur á oss framkomi; ef vér gjörum þetta, mun það aldrei bregdast, ad hid sorglega verdur oss blessunar-ríkt í sínum ávoxtum.

Vér lærum þessu nærst af vors Frelsara ordum í qvedju hans til Lærisveinanna, ad þeckja það, sem er vor ávinníngur. Ecki taldi Jesús það skada sínum Lærisveinum, ad mæta ofsóknum, ad eiga von, þegar minnst vardi, á ílláti, þegar þessu vard samfara ibúd sannleiksins anda, sem huggadi þá í mannraunum, gjördi þá hæfilega til ad auðast af gódum verkum og safna sér fésjód á himnum, þann sama dóm mun vor Frelsari enn þá áleggja, nefnilega: ad hvers manns ábati sé, ad fá íbúd sannleikans anda, hins heilaga, fyrir missir lífsins unadsemda, já, honum þykir ecki ofkeypt, ad madur taki vid þúngri reynslu og mótgángi, þegar med því móti fæst þekking sannleikans, og æfing í gódum, mannkyninu gagnlegum verkum. Það er líka gjarnast mótgángsins ávoxtur, ad madurinn lærir vísdóm og hjartad betrast. Því baud Postulinn Jakob þeim kristnu: ad álíta það fagnadar-efni ef þeir í mannraunir rotudu; vitid — sagdi hann — þegar svo ber til, ad reynsla ydar trúar verkar þolinmædi, en þolinmædin gjörir verkid fullkomid, svo þér verdid algjördir og til einkis ónógir. En — það er ecki einúngis framför í fullkomnun, sem mótgángur veitir þeim, er honum rétt tekur, hann veitir og unadsemd. Þannig lesum vér um Postulana, ad þeir

hafi gladst vid, þegar eitthvad lidu fyrir Krists nafns sakir. Þad góda, sem madurinn gjörir, gefur ununarfulla endurminníngu, en þeim mun ununarfyllri, sem þad hefir meira kostad. Vér höfum þess dæmi á foreldrum, sem mikid þjást med afqvæmum sínum einu framar enn ödru, ad þeir elska þad hvad mest, sem hefir ollad þeim mestrar áhyggju og mædu; eins verda þau verk, sem mesta mædu kosta, inndælust í endurminníngunni, auk þess, sem tilhugsan rikuglegrar umbunar af Gudi, fyrir þad, sem hér er gjört eda lidid hans vegna, gledur mannsins sálu og gjörir hana vel til frids í ofsóknunum, í þjáníngunum, í fyrirlitníngu og töllu andstreymi. Sá kristni er þol, eptir Frelsarans bodi, gladur og telur sig sælann, þegar mennirnir hallmæla og ofsóku veita, og tala í gégn honum allskonar illmæli, þó ljúgandi, fyrir þad hann þjónar Gudi dyggilega, því hann veit, ad sitt verdkaup er mikid á himnum. Ad vera vissum' lbúd sonnleikans anda í sjálfum sér, þess Huggarans, sem ber vitni mannsins anda ad hañ sé Guds barn og erfíngi himnaríkis, þad er sú sæla, sem yfirgengur allt inndæli lífsins, gjörir allar lífsins raunir léttbærar, og allt þad gledilegt, sem madur verdur ad líta vegna Guds og sinnar köllunar. Hverr, sem finnur í sér þessa sælu lind, þess hjarta fagnar, og þann fögnud skal enginn af honum taka. Þañ fögnud kénn þú oss, gædskuríki Fadir á himnum! ad eignast og vardveita! Amen!

# A 5ta Sunnudag eptir Páska.

## Bænin.

Vjer erum sannfærdir um, vor Fadir á himnum! ad þú vitir hvers vjer vidþurfum, og þú af gædsku þinni viljir veita oss allt, sem vor sanna velferd útkrefur, þó vjer ecki bidjum. Þo hefir þú svo gjört vor hjörtu, ad þau i neydinni leita þín, og finna í því rauna ljettir, ad frambera fyrir þig sínar eptirlánganir. Þinn Sonur, vor Endurlausnari hefir bodid oss ad bidja, kjennt oss ad bidja og siálfur gefid oss dæmi sannrar bænrækni; því skulum vjer trúar æruggir ydugléga umgángast þig í bæninni, og láta eptirlánganir vorra hjartna vera hjá þjer; þad skal gjöra oss gudrækna, kenna oss ad girnast þad eitt, sem samqvæmt er þínum heilaga vilja. Þad skal gjöra oss þolinmóda og vongóda þegar móti blæs, því med bæninni játum vjer, ad oll vor kjör sen í þini hendi, og ad frá þjer komi oll gód og fullkomin gjöf. Já, kenn oss ad leita hjá þjer hugsvolunar og athvarfs med vorum bænum! styrk til ad standast allar freistingar, og vardveita hjörtu vor óflekkud! kjenn oss ad bidja þig, sem Fodur, eins og vor Endurlausnari Jesús hefir oss

kjenne og bodid! kjeñ oss ad bidja í hans nafni, Drottinn! sem gefur allt gott, til hin skal allt hold koma. Amen!

## Gudspjallid.

(Jóh. XVI, 23—30.)

Jesús sagdi til sinna Lærisveina: sannlega, sannlega segi eg ydur: hvers þér bidjid Fodurinn í mínu nafni, þad mun hann géfa ydur. Híngad til hafid þér einkis bedid í mínu nafni. Bidjid, þá munud þér medtaka, svo ydar fognudur sé fullkomlegur. Þetta hefi eg talad í ordsqvidum til ydar; en sá tími kémur, ad eg tala ecki lengur í ordsqvidum til ydar, heldur mun eg kunngjora ydur opinberlega af mínum Fodur; á þeim degi munud þér og bidja í mínu nafni. Ecki segi eg ydur, ad eg muni bidja Fodurinn fyrir ydur, því Fadirinn sjálfur elskar ydur, af því þér elskid mig og trúid, ad eg sé af Gudi útgenginn. Eg er af Fodurnum útgenginn og kominn í þennann heim; eg yfirgéf og þennann heim, og fer til Fodursins. Þá sogdu Lærisveinarnir: sjá!

nú talar þú berlega og mælir enga ordsqvidu; nú vitum vér ad þú veitst alla hluti, og þarft ecki ad nockurr spyrji þig; þess vegna trúum vér, ad þú sért af Gudi útgenginn.

## Inngángurinn.

Dll þau margvíslegu trúarbrogd, sem til hafa verid í heiminum frá upphafi mannkynsins, og sem enn eru til á jordunni, hafa talid bænir, sem hinn verulegasta part allrar Guds-dyrkunar. Hofundur vorrar trúar var sjálfur mjog bænrækinn, kenndi sínum Lærisveinum ad bidja, upphvatti þá til ad bidja og hét þeim bænheyrslu, og í því hann var ad slita sig frá þessum sínum fáu vinum, og búa þá undir þann sorglega skilnad, sem fyrir hendi var, og þá mædu, er þeir áttu von á eptir hans burtfor af jordunni, gleymdi hann ecki ad minna þá á bænina, sem einka athvarf í mannraununum og mótlæti. Þad er ecki audveldt ad segja, hvert bænin, eptir trú vorri, sé framar skylda enn leyfi: þad synist, sem skylda mannsins og rettur mætist í bæninni, oss er bodid þád, sem þorf vor útheimtir ad vér gjorum, oss er skipad ad bidja Gud um þau gædi, er hann veitir óbedinn orlátlega. Fyrst bænin er þá ecki einúngis hofud-stycki vorrar trúar, heldur allra trúarbragda, sem til eru í heiminum, er hún verdugt umhugsunar efni fyrir hvern fenk-

fandi mann; fyrst hán er undirorpin sonum kjörum, sem flestar adrar greinir trúarinnar, ad nockrir gjöra sér um hana hjátrúarfullar ímindanir, en adrir afrækja hana, sem einkis verda og gjöra ásamt gis ad henni og annara hjátrú um hennar krapt og tilgáng, og þeim, sem bænrækni stunda; fyrst svo ástendur, er ecki óþarflegt, ad vér nú hugum bænarinnar rétta edli og ávexti. Þad skal og vera vort umhugsunar-efni á þessari gudræknis stundu. Þetta efni skiptist í tvo parta:

1.) Tölum vér um bænarinnar edli, og svo
2.) Um hennar ávexti.

1.) Bæn í eginlegri merkíngu, þegar ordid innibindur minnst, eins og vér nú viljum taka þad, er innileg ósk mannsins eptir einshverju gimilegu, annadhvert einúngis í huganum eda med munninum framborin fyrir alls góds Gjafara. Meira innbindst ecki í ordinu, minna heitir ecki bæn. Enginn ætlast til, med því ad opinbera Drottni þann inn sína eptirlaunun ad fræda hann Alvísa, læra hann fá ad vita eitthvad sem hann vissi ecki ádur. Engum kemur til hugar med bænum sínum, ad kunngjöra þeirri ædstu Veru sínar þarfir, eins og hún þeckti þær ecki ádur. Ecki ætlar heldur neinn, ad gædska og vísdómur Drottins þrýsti honum ecki miklu framar, enn mannsins bænagvak til ad líkna þeim, sem líkunar vid-

þarf. Hverr af oss getur ímindad sér, ad Gud fyrir mannsins brábedni og áleitni neydist til ad breyta sínum vísdómsfulla ásetníngi, eda víkja frá því lögmáli, sem hann stjórnar heiminum eptir, til þess ad fullnægja mannsins ósk. Ad hugsa slíkt, vottar sávislegann misskilníng á bænarinnar rétta edli. Enginn heilvita madur getur hugsad eda trúad, ad hann med því ad hefja hugann eda sína veiku rödd til himins, færi þeim Alvísa nockra fregn um ástand sitt og þörf. Enginn, nema sá fávísasti, getur ímindad sér, ad hann med bænum sínum vekji nockra gedshræríngu hjá þeim Drottni himins og jardar, sem er hinn sami í gær, í dag og ad eilífu, eda þrýsti honum til ad breyta sínum álýktunum manninum í vil. Kraptur bænarinnar er ecki sá, ad hann komi til vegar nockurri umbreytíngu hjá Gudi, allur hennar kraptur er í því fólginn, ad umbreyta manninum. Annadhvort vekur hún eda rótfestir hjá honum þad sinnislag, sem gjörir hann hæfilegann til ad medtaka Guds nád, sem öllum þeim stendur ætíd til boda, er hana geta þegid. Gud veitir manninum opt þad, sem hann umbidur, en ecki vegna hans bæna, heldur af því, ad bænirnar gjöra hann hæfilegann til ad taka á móti því, sem hann bad um, þær örfa hans laungun eptir því, og laungunin eblir þann krapt, sem manninum er veittur til ad ná því, er hann girnist, til ad ebla med sína tímanlegu og eilífu velferd. Gud hefir ætlast til ad bæn-

in ſkyldi fullkomna oſs; á vora ſidu er hún ſá ſkilmáli, med hverjum koſtur er á ad verda njótandi Drottins nádarríku velgjørda Þegar hann fordum ljet einn af ſinum Spámønnum heita Gydinga þjódinni ſerdeilislegum velgjørníngum ſinum, ſkipadi hann ad bæta vid þeſſum ſkilmála: Svo ſegir Gud Drottinn: eg vil láta bidja mig um þetta, ad eg gjøri þad fyrir Jſraels hús. Ezech. 36, 37.

Mun nockurr madur voga ad ſegja, ad ecki ſé ſú ſkylda, ad finna til þeſs, ad hann í øllu er kominn uppá Drottinn ſinn Skapara, eda ecki ſé rett ad þacka honum ell þau gædi, ſem hann njótandi verdur og girniley eru? Er þad ecki bædi øverdugt ſkynſemi gjætinum manni, og ſyndſamlegt ad uppræta úr ſinu hjarta tilfinníngu egin vanmættis, og vidurkenníngu gudlegrar mildi? En egi þollikar tilfinníngar ad búa í hjartanu, má þá ecki opinbera þær Guddominum, annad hvert í huganum eda med munninum, ſem þó einmidt er vegurinn til ad rótfeſta þær og lífga?

Í raun rettri þarf ecki lángt ad fara til ad ſannfæraſt um, ad bænir ſeu ſkynſamleg Guds dyrkan; þvíþær eru náttúrlegt mál hjartnanna; þó þær afrækiſt og gleymiſt, eins og ſvo margar adrar ſkyldur í velgengninni, neydiſt madurinn til, þegar ad þreyngir, ad heſja ſin augu til himinſins og andvarpa til Drottins, hvádan hann væntir hjálpar. Hverr er tá, til dæmis, er þúnglega ſtynur undir rángsleitnî

og ofbeldi manna, og sier eng'n úrrædi til ad ná rétti sínum, ad hann géti varid sig Því, ad skjóta málefni sínu til Guds, bidja hañ ad líta á sitt sakleysi og frelsa sig frá Þeim ofsóknum og rángindum, sem hann verdur ad Þola. Hvert stód svo vid sóttarsæng nánústa vinar, makq, bródurs, afqvæmis, og sá henn berjast vid dauðañ, en ad mañleg hjálp var ónóg, hvert stód hér svo, ad hann ecki neyddist ad hefja sitt auga og andvarp til himna, og bidja Þann, sem einn gétur frelsad frá daudanum og í daudanum, ad hjálpa Þeim deyanda, er menn ecki géta hjálpad? Hefir nockurt syndari verid svo hardsolradur, ad hañ ecki jafnvel óviljandi neyddist til ad bidja Gud um fyrirgéfníngu sinna synda, og ad medtaka sinn anda, Þegar hann fann til daudans átekta, og sá, ad nú var ecki lengur undanfæri, ad ná var komid ad takmörkum Þeirrar óþecktu eilífdar? Í vidlíka kríngumstædum og Þessar eru, finnur madurinn hvad hann er, vanmáttug sképna. Þá talar hann hjartans óbreytta mál; Þá veit hann hvar hjálpar er ad leita; Þá leitar hann Þar, sem hana er ad finna. Því hafa líka allar Þjódir á öllum öldum ákallad Guddóminn í neydinni; Þær hafa og haft einhvern átrúnad, einhverja Gudsdýrkun og hennar verulegasti partur hafa verid bænir, menn hafa fundid sér skyldt ad bidja, í húsum, einkanlega til Þess innvígdum, og í einrúmi; og svo mjög, sem hjátrúin hefir afmyndad margra Þjóda Guds-

Dyrkun, ber hán þó vitni um þann sannleika, ad þær fundu sér skyldt ad bidja Gud, og od allt hold á ad koma til hans, sem heyrir bænir.

2) En—hverjir eru þá bænarinnar ávextir? Þegar vér höfum þad thugad, sjáum vér berlega, hvers vegna oss er skipad ad bidja.

a.) Bænin er einka kroptugt medal til ad kalla sálina frá lífsins hégóma til álvarlegra umhugsana og gudlegra tilfinninga, til skyldunnar, og alls þess, er oss, sem skynsemi gæddum og ódaudlegum skepnum, mest árídur. Vær, sem erum umkríngdir á allar hlidar af svo mörgum jardneskum hlutum og lífsins unadsemdum, bendladir vid svo ymislegar sýslanir, vér mundum skiótt verda þrælar vorra giörda, edr hersáng veraldlegra freistinga, ef ecki gæfist tækifæri til ad kynnast sjálfum sér og hugsa til annars heims. Hér til eru bænir enn betur lagadar enn eintóm umhugsan; ad ávarpa Gudsdóminn beinlínis, ad álíta sig eins og á tali vid hann, gjörir manninn alvarlegri og lotníngarfyllri, helldur enn einber umhugsan fær gjört. Bænin helgar og spekir hugann, lyptir sálunni til Guds, svo hán um stund- aleymir heiminum, og verdur óhult fyrir hans mörgu freistíngum. Já, hán er ecki einúngis hentug til ad dempa mannsins náttúrlega gjálífi; hán minnir hann ecki einúngis á Gud, heldur vekur hán og örfar sálarinnar bestu hræríngar og styrkir þau gódu áform, sem þadan spretta.

Ad ſvo miklu leiti, ſem bæn er ecki eintómur leſtur þeirra orda, er hjartad tekur enga hlut- deild i, heldur þad einlæga hjartans mál, inni- bindur hún allt þad, ſem innvortis gudrækni yfirgripur; þvi hjá þeim, ſem bidur, er lifandi tilfinning Guddómſins hátignar, af hverju leid- ir hjartans innilegaſta lotníngu og tilbeidſlu. J þvi bidjandq hjarta er elſkan og þacklátſemin lifandi; trauſtid til Drottins miſkunar upp- lifgar og gledur ſinnid; en allt, ſem elur þeſs- ar tilfinníngar i ſálunni, þad ſama ſtyrkir og þá gudrækni, ſem audſynir ſig i breytni manna, og þannig gjörir bænin oſs hæfilega til ad gégna lifſins ſkyldum, og adſtodar oſs i þeirra fram- qvæmd. J bænaſtad vorum lærum vér ad þeckja vorar þarfir, vor afbrot, vorar ſyndir og þá hættu, ſem vér med þeim ſteypum oſs i; hér af lærum vér ad audmykja oſs fyrir þeirri miklu Veru, ſem vér ſvo oduglega módgum. Þegar vér framfoſlum i bæninni fyrir þeim Drottni, ſem oſs hefir gjört, hvern vér ſvo opt hefum ſtyggt, leggſt oll manleg drambſemi i duptid; þá finnur madurinn hverſu ómerkileg ſkepna hann er, og hverſu mikid hann vantar á ad vera þad, ſem hann á ad vera og getur verid. Þetta vekur hjá honum laungun til ad ſjá vid ſyrri breſtum; elſka dygdarinnar lifnar, og þetta er ad minnſta koſti gód birjun. Hér ad auki er bænin medal til ad lifga adódvildar- ſamar tilfinningar hjartans; þvi þegar hugurinn hef- ur ſig til hans, ſem er Fadir alls þeſs, er born

kallast á himni og á jördu, ádur madur sig ecki framar enstaka skepnu Guds, heldur einúngis eitt af þeim moran Guds barnum. Þannig midar bænin til ad styrkja hinn rétta Guds Dyrkara i pokkun margrar skyldu, auk þess, sem hún minnir hann á, ad himnanna Drottinn se vinur og verndari hinna réttlátu, od allir rádvandir meai honum því treysta og á hann vona, hvers mattur er nógur til ad styrkja veikan, hverjum enginn þjónadi, hvern enginn ákalladi forgéfins. Ad sönnu er bænin mikid dyrmæt þess vegna, ad undir eins og hún eblir gudrækni og styrkir rádvendni, reynist hún hid kröptugasta huagunar medal i lífsins mædu.

Hve sjn opt er þad ecki i lífinu, ad ekkert annad athvarf sést, enn bæn til Guds? Hversu vesæll mundi ecki sá ofiókti, og sá forabitni, ef bænarinnar helgidómi væri fyrir þeim lokad, hefdu þeir ecki þann verndara og huggara á himnum, hvers hjartad svo gjarnan leitar á ángistarinnar tíma. Allir vitum vér hvilíkur raunaléttir þad er, ad þylja blídlendum og medaumkunarsomum vini harma vora, þó vér jafnvel vitum, ad ecki se i hans valdi ad tiá oss nockra verulega hjálp. En til vors himneska Fodurs og vinar á himnum vitum vér ad leita megum, eins og þess, er þeckir, ad vér erum dupt, og er oss, eins og Fadirinn bernunum, miskunsamur, ens og þess er hverki skortir máttinn til ad styrkja vorn vanmátt i mædu

þeirri, sem vér undir stonjum, né til ad létta henni af oss, þegar hans tími er kominn, og hann sier þad henta.

Bænir eru opt seinasta úrrædi hinna aumu; þegar menn geta ecki lidsinnt, leitar hiartad Guds; þá áteys sá mótlætti fyrir honum ollum tilfinníngaum og eptirlaungunum hiartans, sínum heimuglegustu sorgum, sem hann ecki vogar, eda áltur gagnslaust ad opinbera monnum. Drottinn heyrir andvörp þess sorgmædda hjarta, sem engu ordi getur uppstunid, og þau atvik, sem giora þad ad verkum, ad óskir manna sá enga áheyrn hjá monnum, eda verda forsmádar, þau hindra ecki bænheyrslu hjá Gudi. Hann er sá, sem heyrir hróp hins fátæka, og gefur gaum ad bænum hins yfirgéfna. Hjá honum finna þeir líkn, sem fara stynjandi frá monnum, þvi má bænin med fullum rétti heita róisemdar uppspretta allra, sem eitthvad adgengur; þar fær sálin hugsvolun, áhyggja sefast, sorgin svæfist um tíma og tídum gleymist. Þessumeatinn arafarinnar má þad segia, ad í bæninni finni sá mæddi hvíld sinni sálu, sá sorgfulli rauna léttir, sá áreitti frelsi.

Þegar bænin er þá iðkuda mannsins, eda réttur sá, sem hjarta hans eignar sér í neydinni; þegar bænarinnar ávextir eru svo miklir, sem nú hefir verid ávikid, þá er ecki furda, ad henni er svo vída hrósad í Ritníngunni, og manni svo opt bodid, ad hann skuli vera bænrækinn, glóandi í bæninni, stadfastur í bæna-

haldinn, ad hann skuli bidja óaflátanlega. Med þessum bodordum er þó enginn skyldadur til ad þylja upp aptur og aptur lángar, máské leidinlegar og meiníngarlausar bænir. Vor guddómlegi Endurlausnari hefir nærsta eptirtakanlega tekid vara fyrir þeirri skynhelgi og sávitsku, sem med laungum bænum og med mælgi sinni ætla sér ad fá bænheyrslu. Svo opt, sem hjartad finnur laungun til ad útausa sér fyrir Gudi, sbo opt má og á madurinn ad bidja, og helzt med sínum egin ordum, sem ecki mun skorta, því þá talar munnurinn af gnægd hjartans. Sú gudrœknis ydkan er mikils verd, vid hvert tækifæri ad snúa sínum huga og hjartans eptirlaungun til Guds, ad lypta sinni sálu yfir lífsins hégóma til þeirrar ellífu Veru, í hverri vér lifum, erum og hrærumst. Ótal atburdir, sem oss mæta í lífinu, í vorum veraldlegu sýslunum, gefa tilefni til þess ad hugsa til þeirrar miklu Veru, sem stýrir hlutanna gángi. Ótal margt kemur oss fyrir sjónir á himni og á jördu, hvar sem vér erum staddir, sem dregur huga vorn til Skaparans, og afmálar fyrir oss hans hátign, speki og gædsku, og þar af getur lifnad gudleg hjartans eptirlángan, sem í raun réttri er bæn, þó ordin vanti, og varirnar ecki bærist. Þegar vér gjörum þad oss ad venju, ad láta lífsins atburdi og skopunarverksins dásemdir leida huga vorn til Stjórnara og Skapara heimsins, vardveitist bænrœknin í vorum hjörtum, og þar

af flýtur aptur, ad þær hiartans tilhneígingar, ſem ſvo hæglega ſpillaſt í vidſkiptum vid heiminn, lagaſt aptur og leidréttaſt, og helgaſt af því gudlega umhugſunar efni. Med þeſſu móti verda jafnvel vorar hugleidíngar yfir þá hluti, ſem oſs umkríngja, ad nockurskonar gudsdýrkun. Vér gétum med vorum huga þannin dyrkad Gud, hvar ſem vér erum ſtaddir, og vottad honum hollustu vorra hiartna í eyd mörkum eins og í þeirri fiølbygdu borg, og ſú bæn, ſem hjartad uppſendir í hædirnar í einverunni, vid ſtörf lífſins í ſamqvæmi manna, er eins mettækileg hjá þeim Alvalda, og ſú bæn, ſem í hans húſi ſtígur til hans í hædirnar. Ad hafa þannin ydugglega hugann hjá Gudi, og láta laungun hjartans til hans flióga, þad er ad bidja óaflátanlega.

Þegar vér hugleidum nú, Brædur mínir! hverſu brógir vér erum ſjálfum oſs, hverſu margt og mikid vér egum til Guds ad ſækja, mun oſs vyrdaſt ad aldrei ſéum vér of alúdlegir, ef einlægir í vorum bænum; vér, ſem med bæninni gétum gjørt oſs hæfilega til ad þyggja og njóta Guds bleſſunar, vér ættum, ad bodi og dæmi vors Endurlauſnara, ad vera ydugglega med hugann hjá Gudi á himnum. Hvar til midar øll vor áhyggja hér í heimi, øll vor áreynſla og ſtørf og aldd? midar ecki allt þetta endanlega til þeſs, ad vér komumſt klaklauſt lífsins veg, gnædir vid vort hlutſall, rólegir í heimſins óróa, ſælir í lífſins mædu? En —

mun oss hiœrnast þessi sæla, nema vèr njótum Guds ad, hvorum hans frid í vorum hiörtum, þann frid, sem gód samviska, og gledifull von eilífs lífs veitir hiartanu? þennann frid stadfestir, þessa von lífgar bœnin í hiartanu; því til Guds verdur madurinn ad sækja þeissi hnoss, þau eru ástgiafir Drottins, og þær ástgiafir, er hann veitir öllum, sem hann innilega þar um bidja, þeckja sinn vanmátt til ens góda, og Drottins gœdsku, er gefur öllum, sem hann bidja ríkuglega, allt gott; því frá honum kémur öll góð og fullkomin gjöf. Amen!

# A Uppstigningardag.

## Bœnin.

Vier daudlegir lyptum vorum hiörtum, á þessari nádarstundu, upp í hædirnar til þín, vor uppstigni Endurlausnari! Drag þau æ betur og betur til þín frá því sýnilega jardneska, svo þau læri ad leita þess sem þar uppi er! Lífga í þeim vonina og trúna! Þar, sem vor fiesiodur er, þar sé einnig vort hiörtu, í hædinni, hvar þú situr til Födursins hægri handar. Gef ad vier sannfærumst um vora köllun, og lærum ad gánga henni verduglega, ad fullkomna vora helgun-

í Guds ótta, ad lifa hier í heilagleika og rettlæti alla vora lífdaga; þá mun sú trú, sem þú bodadir og ljetst boda heiminum, verda vor huggan og sæla. Þá munum vjer med fögnudi vænta þinnar komu í annad sinn til heimsins, því þá kemur þú til ad sækja þína trúada og þá, sem fyrir trúna hafa sigrad heiminn og reynst hier trúir, til ad flytja þá til þín. Amen!

## Gudspjallid.

(Marc. XVI, 14—20.)

En seinast, þegar þeir ellefu Lærisveinar sátu til bords, opinberadi Jesús sig, og ávítadi þeirra vantrú og hjartans hardúd, ad þeir hefdu ecki trúad þeim, sem hann høfdu sied upprisinn. Hann sagdi til þeirra: farid út um allann heiminn, og predikid Evangelium allri skepnu. Hverr, sem trúir og verdur skírdur, mun hólpinn verda, en hverr ecki trúir, mun verda fordæmdur. Teiknin, er þeim munu fylgja, sem trúa, eru þessi: í mínu nafni skulu þeir djøfla útreka, nýar túngur tala, høggorma upptaka, drecki þeir nockud banvænlegt, þá skal þad ecki granda þeim, leggi þeir hendur yfir sjúka, muix

þeim batna. En eptir þad Drottinn Jesús hafdi talad vid þá, vard hann uppnuminn til himins, og settist til hægri handar Gudi. En Lærisveinarnir gengu út og predikudu allstadar, Drottni samverkanda og ordid styrkjanda med eptirfylgjandi teiknum.

## Inngángurinn.

Í Gudspjallinu er þess getid, ad Jesús optar enn einusinni átalid hafi sína Lærisveina, og midal annars einninn í seinasta sinni er þeir ellefu sátu til bords. Hann átaldi þá — segir Gudspjallamadurinn — fyrir þeirra vantrú og hjartans hardúd, þad þeir hefdu ecki trúad þeim, sem höfdu sjed hann upprisinn. Þar af má ráda, ad hann hafi ecki ætlad þeim ósjálfrádt ad trúa. Hefdu þeir ecki getad gjört ad vantrúnni, sem þeir höfdu gjört sig seka í, var ecki orsök til átalna; þad hefdi mátt heita óbjófnudur, ad ávíta fyrir þad, sem ecki vard vid gjört, og í þeirri ósannsýni mundi sá nærgjætni, sem vissi hvad med manninum bjó, og lært hafdi ad samþinast vorum eymdum, aldrei hafa gjört sig sekann.

Margir bædi fyrr og sídar hafa verid þeirrar meiníngar: ad trú og vantrú væri hvert um sig manninum ósjálfrádt, þar af flaut þá og ad trúin vard engin dygd, og vantrúin engin

synd; því það, sem manni er ecki sjálfrádt, getur hverki reiknast honum til dygdar né syndar.

Þegar vér athugum rækilega hvad trú er, og igrundum edli mannsins sálar, mun oss vyrdast: ad þótt trú se einatt ósjálfrád, vanti þó mikid á, ad hún se það ætid; madurinn er opt sjálfur sekur i vantrú sinni, og uppsker því, eins og maklegt er, sjálfur ávexti sinnar vantrúar. Med hverju móti madurinn helzt verdi skuld i egin vantrú, viljum vér nú á þessari stundu athuga, i þeim tilgángi, ad umflýa vantrú og hennar ill eptirkøst.

---

Það er einkum med tvennu móti, sem madurinn gjørir sig sekann i vantrú, fyrst med hirdulejsi og i annann máta med viljans mótþróa. Hvert sem vér tølum nú um trú svo sem stadfestu þeckingarinnar eda vonarinnar, lendir allt i sama stadnum.

Trú kallar Postulinn (Hebr. 11, 1.) øruggt traust þeirra hluta, sem medur vonar: sannfæringu þeirra hluta, sem ecki sjást. Trú er eptir þessu stadfesta bædi vonarinnar og þeirrar þeckingar, eda þó heldur þeirrar sannfæringar, sem vidvíkur ósýnilegum hlutum; hverugt letta er manninum ósjálfrádt; hann getur bædi verid hirdulaus i því, ad leita ad ástædunni fyrir von sinni, og tómlátur i því, ad igrunda og grenslast eptir hinu ósýnilega. Það er bersýnilegt, ad hverr sá, sem med þessu

móti forsómar ad styrkja trú sína, verdur, þegar best tilteksst, trúarveikur og opt vantrúadur. Trú heimtar nockra ransókn eins og oll þecking, oll sannfæring; og sú þecking, sem vidvikur ósýnilegum hlutum, heitir trú. Af þessu siáum vér, ad madurinn getur ärt mikinn þátt í ad stadfesta trú sína, og eins í því, ad veikja hana og jafnvel uppræta úr sínu hiarta. Vonin, egi hún ad vera stadfost — og onnur von má ecki trú heita — hún verdur ad vera bygd á nockrumvegmin sterkum ástædum, þessar vonarinnar ástædur verda ad finnast med ígrundun og eptirgrenslun. Afræki madurinn ad leita ad gyldum ástædum fyrir von sinni, verdur hann, eptir ollum líkindum, vonarlaus eda vantrúadur, og má þá, ad svo miklu leiti, alltast sekur í sinni vantrú, sem hann hirdti ecki um ad byggja trú sína, þad er vonina, á gódum grundvelli. Hann var líkur þeim manni, sem bygdi sitt hús á sandi og vard því ad siá þess hrun, þegar hretin og stormur nn komu yfir þad. Eg vil ecki umtala, hversu manninum er innan handar vísvitandi ad hrinda frá sér allri von og vonar ástædum; og hvernin nn sáum vér þá ætlad, ad manninum sé ecki ad nockru leiti siálfrádt ad trúa, ad hann aldrei sé siálfur sekur í sinni vantrú?

Ef vér nú í odru lagi vyrdum fyrir oss þad annad hofud atridi trúarinnar, sem oss er bendt til í áminnstri grein af brefinu til Hebreskra, med þessum ordum: Trú er sann-

færíng um þá hluti, sem ecki sjást, þá mun oss vyrdast, ad madurinn sé ecki hér nidur þess umkominn, ad fordast vantrú heldur enn þ:r; sem um von er ad tala eda vonarleysi. Hér er mikid undir því komid, hvad madurinn sjálfur ad því giörir, ad fá eda fordast vissa sannfæríngu Til ad fá þeckíngu sýnilegra hluta, útheimtist vandleg athygli og náqvæm eptirtekt, samt varúd í því, ad draga ecki rángar ályktanir af hlutanna útvortis einkennum; hverr sá, sem eitthvad af þessu forsómar, getur ecki fengid um sýnilega hluti, áreidanlega þeckíngu; hann ímyndar sér máské, ad hann þecki hlutina til hlýtar, þó hann ad eins skodi þá á hlaupum, en sú ímyndan kémur honum ad engu lidi, og þeir, sem betur hafa ad gád, og med meiri varúd ályktad, þeir geta fært honum heim sanninn um hans villu, látid hann rétt sem þreifa á sinni villu og þeckíngar bresti. En — þursi til þess góda eptirtekt, vandlega athygli og varúd í ad álykta, ad þeckja til gagns sýnilega hluti, þá þarf ecki minni ígrundun, náqvæmni og þolinmædi til ad ná fastri sannfæríngu um ósýnilega hluti edur rök. Þad er satt, ad vor skilníngarvit tæla oss einatt, því ecki er allt, sem sýnist. Þær ályktanir, sem vér drögum af því, er vér sjáum og heyrum, eru tídum skackar, en ecki er þess ad vænta, ad oss farist betur, þegar vér í huganum vyrdum fyrir oss hid ósýnilega, þá ser oss optarst eins og þeim, er sjóbr augunum gjegn sólunni. Er þad því ecki sjald-

giæst, ad madurinn villist, þegar hann leitar Þeckingar shynlegra hluta, þá er ecki kyn þótt honum verdi dymmt fyrir augum, þegar hann vill skygnast eptir því óshnilega. Hvers er von, ef hann ecki hirdir um ad brúka þad ljós, sem í honum er, eda honum stendur til boda, til ad verda tikáfur, til ad ná óbifanlegri sannfæringu um hid óshnilega, og sé neckvur sá, sem finnur sig ad því valdann, ad hann hafi ecki eptir meani fært sér í nyt þad ljós, sem í honum er eda Gud hefir manninum teidrad í sínu ordi, til samfæringar um óshnilega hluti, má hann hiklaust ákæra sjálfur sek-ur í sinni vantrú og vantrúarinnar eptirkostum. En ad svo miklu leiti, sem deyfd skilnings-ins eda brestur á tilsegn verdur tilefni til vantrúar, eda eitthvad, sem ecki er mann nnum sjálf-rádt, þá má ætla þad nærgjætni Drottins, ad hún verdi ecki reiknud manninum til syndar. Í fyrstu máli þá, og þá ad eins, er madur-inn sjálfur skuld í sinni vantrú. Þegar hann forsómar ad leita sannleikans med þeim sálar kroptum, sem honum eru til þess veittir; þeg-ar hann sarundar ecki hid óshnilega og leitar ecki í þeim efnum þeirrar upplýsingar, sem oll-um stendur til boda í Guds ordi; hugsar ecki um þess sannindi, leitar ecki skilnings á þeim, og fær því ecki um þau fulla sannfæringu. Þeg-ar svo mikid hirduleysi er á mannsins sidu, hverr getur þá sagt, ad hann sé ecki sjálfur skuld í sinni vantrú? Her í er madurinn sjálf-

rádur, og margur mun sekur uppá þennann máta í vantrú sinni, þeir hugsa ecki um þid ósýnilega, um þid endlega, þeir kunna sier ecki Guds ord, þeir vilja ecki heyra þess lærdóma, verda þeim strax fráhverfir, þegar þeir sjá nockud frábrugdnir þeirra hyggjuviti; Guds speki verdur þeim heimska. Þeir eru og nockrir, sem ad sönnu eru ecki fráhverfir hinn andlega, en hvarfla ad eins þar ad um stund, og brúka ecki þá einlægni og alúd, sem til þess þarf ad trúa eda sa sannfærinau um þid ósýnilega; þad kostar meira ad trúa, en ad abla sier þeckingar á því sýnilega. Því sagdi og vor Lausnari vid Gydingana: Hafi eg sagt ydur jardneska hluti og þer trúdud mér ecki, hverninn mundud þer þá trúa mér, ef eg segdi ydur himneska hluti? Trúin sast ecki svo audveldlegi, ad eckert þurfi fyrir ad hafa; enginn sá hlutur, sem mikid er varid, sæst fyrir lítid; trúin er mannsins dýrmætasta hnoss, hverninn getur hún þá fengist fyrirhafnarlaust? eda hlotnast hverjum einum eins og óafvitandi? Nei, trúin er siour, sem heiminn siarar, siaur sæst ecki án baráttu, og hverr, sem telst undan ad berjast, hefir af sier sjálfum sigurinn og fær ecki krúna; en trúin er þess verd, ad menn stridi fyrir hana, því þad er ágjætur hlutur, ad hjartad verdi stadfast

Þanninn getur madurinn sjálfur verid skuld í vantrú sinni med hirduleysi sinu, og med þeim brestum, er ad mestu leiti vidvikja skilningin-

um og hans vanbrúkun eda misbrúkun. En hjartad á þó tídum enn meiri þátt í mannsins vantrú; þad er optar viljaleysi enn hirduleysi, sem ollir hans vantrú, og þeis manns ástand, sem ecki vill trúa, er þeim mun verra enn hins, sem ecki hirdir um trúna, sem hañ á stdur apturhvarfs von. Hvert heldur vér vordum fyrir oss trúna, sem stadfesta von eda óbifanlega sannfæríngu, skulum vér sanna, ad hjartad er sjaldan saklaust, þegar madurinn er vantrúadur.

Í vondu hjarta getur ecki vonin búid, eñ þad hjarta er vondt, sem hefir vondann vilja; mannsins hjarta er svo gjört, ad þad getur ecki haft oruggt trúnadartraust eda góda von, undir eins og þad býr yfir illum girndum, og ofsvitandi e ur med sér syndsamlegar eptirlöngunir. Þess er engin von, ad sá vondi geti haft stadfasta von, þvi frá Gudi einum má madur inn góds vænta; öll góð og fullkomin gjöf kémur frá Födur ljósanna. Á engum, nema Gudi einum getur stadfast trúnadartraust byggt verid, allt annad er svikult og bárs dar egt og bregdist þá mest áridur. Nú vitum vér, ad þeir einir geta af Gudi góds vænt, sem elska hid góda, og þeir einir honum treyst, sem þess eru sér medvitandi, ad honum vilji þjóna í heilagleika og réttlæti; sá vondi getur því ecki vonadur verid getur ecki treyst Drottni; hann hefir miklu heldur tilefni til ad hrædast hans hegníngu, enn ad vona til hans

miskunar. En fyrst í mannsins valdi er, bædi ad byggja inn hjá sér vondum girndum, og líka ad útryma þeim úr hjartanu, getur honum reiknast til syndar sú vantrú, þad vonarleysi, sem af því leidir, ad vondar girndir og syndsamlegar eptirlánganir hafa tekid sér adsetur í hans hjarta; því þó hans vantrú sé ordin honum ósjálfrád, eptir ad hans hjarta er spillt ordid, var í hans valdi ad koma í veg fyrir þá hjartans spillíngu, sem er módir vantrúarinnar. Fyrir honum er eins ástadt og þeim druckna; medan hann er ærdur af olinu, mun honum ósjálfrádt þad, sem hann adhefst, en hitt gat hann varast, ad æra sig svo, ad hann vissi ecki hvad hann taladi eda gjordi.

Þegar vér vyrdum fyrir oss þá adra merkíngu, sem ordid Trú hefir í brefinu til þeirra Hebresku, þá þad nefnilega þýdir: óbifanlega sannfæríngu, lendir allt í sama stadnum. Eins og vonin getur ecki búid í vondu hjarta, svo fær ecki þecking eda sannfæríng um ósýnilega hluti rúm í því hjarta, sem er bústadur óhreinna anda. Engin speki, en síst hin himneska speki, getur fengid þar inni eda vilji eiga þar adsetur, hvar fyrir búa syndsamlegar girndir. Heidinn madur fordum hafdi þá trú bygda á sterkum ástædum, ad vondur madur gæti ecki fengid þá þeckingu né dugnad, sem útheimtist til ad sækja edur verja fullkomlega mál fyrir Rétti; hversu miklu sídur er þá til þess ad ætla, ad sannfæríng um ósýnilega hinu-

eſka hluti gèti búid í ſpilltu hjarta. Hugur-inn, eptirlángan'n er feſt vid hid ïardneſka og ſyndſamlega, en þar, ſem mannſins fèſſódur er, þar er hans hjarta, hverninn gètur hann þá flogid uppí hædirnar eins og orn, og feng-id laungun til þeſs heilaga? Pad vonda hjarta er ſvo hardt, ad pad gètur ecki trúad, kjær-leikurinn trúir ollu og vonar allt, pad er ad ſkilja: ſá, ſem hefir blídt hjarta, hann von-ar góds af Gudi, hann trúir þeim óſýnilegu ſannindum, ſem náttúrú ljóſid, mannſins ſkyn-ſemi, griſlir álengdar, en Guds ord kunngjor-ir. Fávirſka og hjartans hardúd ſtanda trúñi í vegi, og ad ſvo miklu leiti, ſem hverr einn er ſkuld í þeſſum hjartans breſtum, er hann ſjálf-ur ſekur í ſinni vantrú. En aldrei er madur-inn eins mikil ſkuld í ſinni vantrú, og þegar hann viljandi ſetur ſig á móti trúnni, vill ecki trúa, þá er hann beinlínis valdur ad vantrú ſinni, þá er honum ómogulegt ad trúa. Pad er audvitad, ad enginn trúir því, ſem hann vill ecki trúa, hvert ſem vèr kellum trú ſtad-faſta von eda óbifanlega ſannfæríngu; en ad vilji mannſins tídum ſetji ſig gègn trúnni, ſañá bædi vitnisburdir Ritníngarinnar og dagleg reynſla; pad liggur í hlutarins náttúru, ad þeir komi ecki til ljóſsins, hverra verk ad eru vond. Sá, ſem illa liſir af áſetníngi, hefir gylda orſok til ad fordaſt alla ſannfæríngu um hid óſýnilega, þeckíngu á Gudi og hans bod-

ordum; þvi þessi þecking er ecki til annars fyrir þann, sem vísvitandi vill liggja í syndunum, heldur enn til ad ángra hann og ôspekja hans sinni, en fylla hans hjarta med skelfingu. Sá, sem er sér þess medvitandi, ad hann hafi yndi af ad syndga, og ad hann ecki vilji vera án þessa yndis, óskar í sínu hjarta, ad enginn Gud sé til, enginn hegnari syndanna, enginn mismunur á réttu og raungu, eckert líf eptir þetta, engin hegníng illverka, engin umbun dygda; og hverjum, sem vill, tekst vonum framar ad veikja hjá sjálfum sér trú þessara ôsýnilegu hluta, ad blinda sjálfann sig. Hann kémur ecki nærri ljósinu svo ecki straffist hans verk; hann elskar myrkrid, en hatar ljósid, og er þvi þegar dæmdur. Hann breytir eins og Konúngurinn Felix, hvers getid er í Postulanna Gjorníngabók (Kap. 24), hann var sockinn nidur í munadarlífi, og réttdæmi hans var falt fyrir peníngá; þegar Postulinn Páll fór ad tala fyrir honum um réttlæti, hóffsemi og sídasta dag, vard hann hræddur og þóktist ecki hafa tómstundir til ad heyra meira í þad sinn, og ljetst mundi kalla Postulann í annad sinn; en þess er ecki getid, ad af þvi hafi ordid; þad er og ecki líklegt, ad Konúnginn hafi fýst ad heyra þau sannindi, sem fordæmdu þá breytni hans, er hann vildi ecki leidrétta; þau sannindi, sem voktu ôrósemi í hans samvitsku og skelfdu hann med tilhugsun hegníngar; en — þess er getid, ad hann hafi skipad ad halda Páli í fángelsi, og

ærlast til, ad hann bydi penínga sér til lausnar. Vidlíka fer hverr sá ad rádi sínu, sem lifir eptir sínum spilltu girndum; hañ lokar med ásettu rádi sínu hjarta fyrir trúnni, hans hugur er fastur vid syndina og hennar vesæla eptirlæti, og varast ad spilla fyrir siálfum sér þeim fögnudi, sem hann hefir af sinni hegdun; varast ad láta samvitskuna vakna, því þar af sjer hann sér vísa óróserni og skelfíngu. Já, þegar þad verdur rétt eins og óviljandi, ad samvitskan fer ad hreifa sér, svæfir madurinn hana skjótt aptur vidlíka og Felix med þessu snjallrædi, ad látast nú ecki hafa tómstundir til svo alvarlegra umhugsana, og lofa seinna, þá betri tími sé til, ad veita þessu meiri athygli. Sá hentugi tími kémur ecki, en undandrátturiñ og frestirinn eykur ordugleikann, því torveldara verdur ad trúa, sem hjartans hardúd gjörist meiri, því þá býr vantrúinnum sig þess betur í hjartanu.

Af þessum fáu athugasemdum gétum vér rádid, ad ecki muni ósyrirsinju í Guds ordi ad því fundid, ad menn eru vantrúadir, ad þeir át ga sér ecki orugga von, ódifanlega sannfæringu um hid ósýnilega. Þetta er ad miklu leiti í mannsins valdi; hann gétur, ad músta kosti, mikid adgjört bædi til ad styrkja og veikja trú sína, og gjörir sig tídum sekann í vantrú, bædi med hyrduleysi í ad hugsa um og ransaka hid ósýnilega, og líka med viljans mótþróa, þegar hann af ásettu rádi fordast ijósid,

svo sín verk verdi ecki strøffud. En sá madur, sem þannig breytir, er mjøg blindadur og er nú þegar dæmdur. Þegar vér hugleidum hvert þau sannindi eru, sem í Ritníngunni kallast ósýnilegir hlutir, mun oss vyrdast, ad vantrúin sé býsna hardt strøffud; því sá vantrúadi hlýtur ad vera án þeirrar upperfunar til dygda, sem tilhugsan þess heilaga og réttláta vitnis á himni, allra hugrenninga og athafna mannsins, gefur þeim trúada; hann verdur ad vera án þeirrar hugarhægdar í lífsins margvíslegu raunum, sem sú trú veitir hjartanu, ad øll vor hefudhár séu talin, ad eckert þeirra andvarpa, sem hid mótlætta hjarta útstynur, sé forgefins; án þeirrar hugsvølunar, sem tilhugsan eilífs lífs vekur í hjartanu, midt í sorgar-skúrunum vid lík framlidins ástvinar, eda midt í daudans adsvifum. Já, sá vantrúadi hlýtur ad missa þeirrar ómetanlegu huggunar, sem sú trú veitir, ad syndugt mannkyn sé vid Drottinn forlíkad, því øll þessi ómetanlegu sannindi verda ad eins med trúnni medtekin; þau verda hvørki tekin med høndum né sjen med augum. Þad er þá hverttveggja, ad vantrúin er stór synd, ad svo miklu leiti, sém madurinn gjørir sig sjálfur í henni sekann, og líka verdur hún fyrir þúngri refsíngu jafnvel í þessu lífi.

Vorumst þa, gódir Brædur! þessa þúngu synd, sem eptir sig dregur svo mikla refsíngu; ransókum hvert vér erum í trúnni, eda vér erum vantrúadir; hvert vor hugur hángir svo fast-

ur vid hid shnileaa, ad oss kémur ecki til hugar ad leita hins himneska? Spyrjum oss ad, hvert vor, yfir alla himna upphafdi Trúar-hofundur, muni ecki finna hjá oss þá heimsku og hjártgns hardúd, sem hann átaldi sína Lærisveina fyrir, og leidréttum þad, sem er ábótavant! já, kappkostum, án undandráttar, ad gioraft visir um vora útvalníngu, og bidjum Drottinn ad auka oss trúna. Já, Drottinn! Þú, sem vilt ad allir verdi hólpnir og komist til sannleiksins vidurkénníngar, þad er: til Trúarinnar; endurskapa þú vor hjortu, svo í þeim rúmist þau heilogu sannindi, sem giora oss hjálplega! uppfyll þú þau med trú og von! Amen!

# Á 6ta Sunnudag eptir Páska.

## Bænin.

Þú, guddómlegi Hofundur vorrar trúar! sem baudst þínum Lærisveinum ad vitna um þig, og hefir látid þeirra vitnisburd til vor koma, kienn oss einnig ad bera þjer vitni med ollu voru hugarfari, ordum og verkum, þvi þad er líka vor kallan! Til þess er vitn-

isburdurinn af Þjer til vor kominn, ad hann endurskapi vor hjørtu, og prýdi vort líf Þeim dygdum, sem á Þjer skørtudu. Án Þín megnum vjer eckert; hjálpa oss, Þú, sem lifir og ríkir med Fødurnum og megnar allt, til ad vitna um Þig verduglega, svo Þú viljir á sídan vid oss kannast, sem Þína verduga votta! Amen!

---

## Gudspjallid.

(Joh. XV, 26—27. XVI, 1—4.)

Jesús sagdi vid sína Lærisveina: Þegar Huggarinn kémur, hvern eg mun senda ydur frá mínum Fødur, sem er sannleikssins Andi, hverr af Fødurnum framgengur, hann mun bera vitni af mér, og Þér munnd mér vitni bera, Því Þér hafid frá upphafi hjá mér verid. En Þetta hefi eg Því talad til ydar, svo Þér hneixlist ecki; Því Þeir munu forboda ydur, og sá tími kémur, ad hverr; sem lífllætur ydur, meinar sig ad gjøra Gudi Þægt verk. Þetta gjøra Þeir ydur, af Því Þeir Þeckja hverki Fødurinn né mig; en Þetta tala eg Því til ydar, ad Þegar sú stund kémur, ad Þér Þá minnist Þess, ad eg sagdi ydur Þad; en Þetta sagdi

eg ydur ecki í upphafi, af því eg var þá hjá ydur.

## Inngángurinn.

Medan Jesús lifdi hér á jardríki, vardi hann þar til öllum kroptum, ad framqvæma þad verk, sem hans Fadir hafdi honum gefid. Þad var hans matur og dryckur, ad gjöra Födursins vilja; þær hindranir, sem honum mættu í þessu verki hans köllunar, sigradi hann med alúd og stödugllyndi, og þær ofsóknir, sem hann þess vegna vard ad þola af blindudum mönnum, yfirvann hann med þolgædi sínu og trausti til Drottins forsjónar; hann reyndist trúr allt til dauda, já, allt til dauda á krossi. Í því hann var ad búa sig til ad láta lífid fyrir sannleikann, ad innsigla hann med sínu blódi, bar hann enn þá umönnun fyrir því verki, sem Fadirinn hafdi honum gefid, og sem hann þángad ad hafdi med mestu alúd stundad. Sínum Lærisveinum, er med honum höfdu etid og druckid, sied hans verk, heyrt hans kenníngar og verid med honum í öllum hans freistíngum, þeim fól hann á hendur ad halda áfram því byrjada verki; þeir — sagdi hann — skyldu sér vitni bera, því þeir hefdu frá upphafi hjá sér verid. Þeir áttu ad vera hans vottar til jardarinnar enda, vitna um allt þad, sem þeir höfdu sied hann gjöra, um allt, sem þeir höfdu heyrt hann tala, og færa allri skepnu þann

gledilega bodskap, En — svo þeim skyldi ecki miklast þetta mikla stars, hét hann þeim adstod heilags anda, svo: offóknirnar, sem bædi mátti vidbúast, og sem hann þaradauki sagdi þeim: fyrir, skyldu ecki ofmjog vaxa þeim i augum, lofadi hann þeim hugguri þess sama heilaga anda, og kénndi þeim ad eigna þessar offóknir blindni og vanþeckíngu manna framar en þeirra vondsku. Þanninn var háttad Jesú elsku til mannkynsins; allir menn um allann heim skyldu njótandi verda þeirrar blessunar, sem hann kom ad færa jardriki. Þeir hæfileguslu menn vóru af honum til þess kiornir, ad taka þar vid, sem hann afljet med synilegum hætti ad vinna ad þessu verki, og þessir vóru ecki látnir einsamlir: auk þess, ad Jesús siálfur hafdi mentad þá til Guds ríkis; auk þess, ad hann i þeirra augsyn fór til himna, er mjog hlaut ad verka á þeirra sálir ad efla þær til framtaks og hugprýdi, sendi hann þeim, eptir sina himnafor, heilagann Anda, er sjet krapt fylgja þeirra ordum, og styrkleika þeirra verkum. Allt þetta vard samtaka til ad gjora þá hæfilega votta Drottins til jardarinnar enda. Vér fognum þess, ad vitnisburdur Jesú votta er til vor kominn. Vér konnumst vid þá elsku Drottins, sem vildi ad vorir fedur og vér skyldum fá ad heyra þann gledilega bodskap, ad sá, sem elskadi oss og gaf sitt líf út oss til endurlausnar, lifir og ríkir med Fodurnum, er med oss til veraldar-

innar

innar enda, og er væntanlegur aptur til ad flytja þá til sín, sem hans eru.

Vors Frelsara Lærisveinar vóru hans fyrstu vottar; þeir vitnudu fyrir öllum heimi um hans verk, sem þeir hofdu siálfir sied; um hans kenningar, sem þeir hofdu siálfir heyrt; þeirra vitnisburdar hofum vér adnotid; vér hofum medtekid hann, þvi skal vort dagfar lýsa. Oss er ecki bodid, oss er er ecki ætlad med sama móti ad vitna um Drottinn, en vitna egum vér þó um hann; lýsa á þvi vor þenkingar-háttur, lýsa ega þvi vor verk og gjorvalla líf, ad vér séum Jesú verdugir Lærisveinar, og þessa vóra skyldu: ad vitna þannig um Jesúm, skulum vér nú fyrir oss vyrda á þessari gudræknis stundu.

---

Ecki er þad vor kallan, sem Jesú fyrstu Lærisveina, ad fara út um heiminn og vera hans vottar allt til jardarinnar enda; ad svo miklu leiti er vor kallan ólík þeirra. En hverr af oss á sinn stad og í sinni stodu ad sýna og votta, ad hann hafi medtekid vitnisburdinn Jesú, og vitna þvi med Hugarfari, med Ordum og Verkum, ad hann sé Jesú sannur Lærisveinn.

a) Vér egum ad vitna um Jesúm med voru hugarfari; þessa gétum vér fyrst, þvi hid ínra var þad, sem hann vildi ad sínir Lærisveinar fyrst og einkanlegast skyldu hreinsa, og af þvi

ad þar, sem hjartad er hreint og gott, þar byggir Kristsandi, sá andi, sem eckert samfélag getur haft vid hjartans syndsamlegu girndir. Krists þecking á ad búa í vorum hjörtum, en hún á lika ad helga þau, verda í þeim eins og fræ þad, sem fell í góda jord og bar hundradfaldann ávoxt. Já, þinn vitnisburdur, vor guddómlegi Endurlausnari! á ad helga allar tilfinníngar, allar óskir, oll áform vorra hjartna; allt þetta á ad vitna um þig, og um þad, ad vèr sèum þínir verdugir Lærisveinar; ad þín þecking, þecking þíns heilaga hugarfars, þinna lærdóma, þinna bodorda, þinnar elsku til mannkynsins, hafi svo endurskapad vor hjörtu, ad vèr megum heita þer íklæddir, og um ofsmegi fullyrda, ad vèr leitum fyrst Guds ríkis og hans rèttlætis, og eins og þú, látum þad vera vorn mat og dryck, ad gjora Fodursins vilja. Þeir fyrstu vottar Jesú Krists, þeir, sem hann hafdi útvalid til ad vera skyldu hans vottar allt til jardarinnar endimarka, þeir mottu Guds ríki og Guds vilja meir enn allt annad; þeir gegndu med gledi enum torvelldustu skyldum sinnar kollunar, og þeir lidu einninn med gledi fyrir Krists vitnisburdar sakir, hádstrokur, hádúngar og qvalafullt líflát, þvi Krists andi bjó í þeim, þeir kappkostudu ad líkjast sínum Meistara, og þeir vissu — því frá uppbafi hofdu þeir hjá honum verid — hversu alúdlega hann hafdi stundad sína kollun, og hversu gudlegt og kjærleiksfullt hans hjarta var. Þar

ed vér þeckjum, eins og þeir, Hofund vorrar trúar, því í ordinu er hann oss fyrir augum afmáladur, veitir oss hægt ad vita hvert vér erum hans réttir Lærisveinar og vitnum um hann verduglega. Ef vér finnum oss honum líka, finnum eiska til Guds og náúngans svo kroptuga í vorum hjortum, ad hún hvetur oss til alúdar í ollu gódu verki, þá er þad vottur þess, ad vér hofum nockud af honum lært, sem var fegursta fyrirmind og einlægasti Predikari elskunnar heilaga bodords. Vottur þess, ad elskan til Guds búi í vorum hjortum, skal oss þad, ef vér finnum innilega lotn'nau fyrir Guds dóm num og fúsa hlýdni vid oll hans bodord, laungun til ad láta á móti eginn vilja, til þess, ad Guds vilji verdi, hvert heldur hann bydur ad eitthvad ordugt skuli gjora, eda eitthvad þúngt bært lida. Ef vér finnum hjá oss þetta hugarfar, getum vér gladt oss vid þá tilhugsun, ad Krists andi búi í oss, og Krists andi á í þeim ad búa, sem Kristi vilja tilheyra. Ef vér finnum innilega velvild til allra manna lifandi í vorum hjortum, er oss þad nýr vottur þess, ad vér séum Krists Lærisveinar, því þetta er audkénni þad, sem Jesús sjálfur hefur sett á sína játendur, hvar af allir skyldu sjá, ad þeir hefdu í hans skóla gengid, og svo mikils þókti Postulanum Jóhannesi umverdt ad náúnginn væri elskadur, ad hann vogadi ad fullyrda: ad sá, sem ecki elskadi sinn náúnga, hvern hann sæi, hvernig gæti hann Gud elsk-

ad, þanz er hann sæi ecki, og giordi med þessum ordum elskuna til náúngans bædi vorr elskunnar til Guds og einkum kærstilegs hugarfars. Auk þessa var mannkiærleiki adal fullkomnan hans, hvern vér dyrkum, sem Höfund og Fullkomnara vorrar trúar, og enginn sá vitnar um hann verduglega, sem þó er skylda allra hans Lærisveina, er ecki hefir á sér sama sinn og hann, ecki er honum líkur. Í tilliti til hugarfarsins, erum vér þá fyrst Jesú verdugir vottar og sannir Lærisveinar, þegar í vorum hjörtum ríkir elskan til Guds og náúngans; þegar elskan til Guds fyllir vor hjörtu lotningu fyrir Guddóminum og ollu gudlegu, og þacklátsemi fyrir medteknar velgjordir, gjorir hugann audsveipann undir Guds voldugu hond, hjartad ánægt med Forsjónarinnar rádstafanir, vekur hjá manni innilega laungun til ad þóknast hofundi sins lífs med ollum tilfinningum og óskum hjartans, hvert heldur þad kostar hann mikid eda litid, hvert honum gengur med eda á móti; og þegar elskan til náúngans hefir þann krapt, ad vér finnum í oss innilega velvild til allra manna, laungun til ad lidsinna hverjum, sem lidveitslu þarf, einlæga gledi af annara heppni; þegar vér finnum þetta med oss, þá fáum vér gladt oss vid þá trú, ad vér séum Jesú verdugir vottar, séum honum líkir og ad hans Andi búi í oss.

*b*) En — vort hugarfar á ecki einúngis ad bera vitni vorum Endurlausnara; vér eigum

og ad bera honum vitni fyrir mønnum, en meñ géta ecki skilid vorn vitnisburd, nema hann auds synl sig bædi í ordum og verkum; vonti þetta, hversu blídt og gudrækilegt sem hugarfarid er, gyldir ecki sá vitnisburdur, hann er ófullkominn; þad gétur verid, ad vér blindum sjálfa oss og hugsum, ad vort hugarfar vitní um Krist, þó þad gjøri þad ecki, ef vér synum ecki trúarinnar ávexti í vorri breytni. Þad er því gamalt bodord: syn mér trú þína af verkum þínum.

Med vorum ordum egum vér ad vitna um Krist. Ecki med eintómri munnsins lotnsingu, sem opt er meiningarlaus, eda eintómr gudræknis yfirskin, af hverri þess vegna enginn gétur med vissu vitad hvad innra býr, heldur med øllu voru ordbragdi. Þad, sem munnurinn venjulegast mælir, þad synir hvad med manninum býr, því munnurinn talar af gnægd hjartans. Rannsokum þá vor ord, svo vér vitad gétum hvad af þeim ráda má um vorn kristinndóm. Votta ord vor, ad vér búum yfir því hugarfari, sem kristnum hæfir? syna þau ad hjartad se fullt af lotningu fyrir Guds dóminum og øllu gudlegu, fullt af sonarlegri auds sveipni í øllum lífsins kríngumstædum, fullt af innilegri laungun til ad hlyda í øllu Guds vilja og hans vegna afneita eginn vilja? Votta vor ord, ad vér elskum náúngann eins og sjálfa oss og tøkum innilega hlutdeild í øllum hans kjørum, bædi blídum og stríðum? Þess

væri ad óska, ad menn, sem kristnir heita, afneitudu honum ecki med hjarta og munni. Um hjörtun skulum vér láta hann dæma, sem hjörtun ransakar, en af ordum sumra kristinna er ecki ad ráda, ad þeir séu kristnir, svo mikid vyrdíngarleysi fyrir Guddóminum og þeirri helgu trú, liggur í þeirra munni; svo mikid og ósvífid mögl heyrist af þeirra vörum, ef ecki gengur ad þeirra óskum; ecki er þad ad merkja á ordum þeirra, ad elskan til Guds og náúngans búi innra, og enginn skyldi hugsa, sem heyrir ókristilega talad, ad kristilega sé þenkt, ad hjartad sé kristilegt. Munnsins medkenníng bætir ecki fyrir hid ókristilega ordbragd; hún er annadhvert meiníngarlaus eda yfirdrepskapur, hjá þeim, sem temja sér ad tala ókristilega; hún er einmidt þad, sem Ritníngin kallar ad nálgast Gud med vörunum, en hafa hjarta, sem Gudi er fráhverst, eda þad má heita, ad medkénna Krist og afneita honum med þeim sama munni.

c.) Ordin bera vitni fyrir mönnum um vorn kristinndóm; vor verk eiga ad gjöra hid sama: med verkunum eins og med hugarfari og ordum eigum vér ad votta, ad vér séum Krists Lærisveinar. Vér egum ad láta vort ljós lýsa svo fyrir mönnum, ad þeir sjái vor gódverk og dýrki vorn Fødur, sem er á himnum; oss er bodid ad elska, ecki einúngis med ordi og túngu, heldur med verki og sannleika. Vor kristinndómur á ad

sýna sig í verkum, ecki í eintómum ordum og tilfinníngum. Þegar vér prófum vor eigin hiörtu, og finnum þar einkenni Krists anda, gétum vér ad sonnu gjört oss gledilega von um ad vér heyrum Kristi til og séum hans verdugir vottar; en hverki er þad ad vitna um hann fyrir monnum, né eins og vera ber eptir kristinndómsins ávísun. Hofundur vorrar trúar heimtar fyrst og fremst mannsins hjarta, en hann vill þó, ad sinn vitnisburdur sé innifalinn í eintómum gódum hræríngum hjartans; vér kynnum og hæglega ad tæla sjálfa oss, ef vér reiddum oss á þær einar, þegar kristileg ord og verk fylgdu þeim ecki; þær eru ecki áreidanlegri heldur enn gódverkin, sem ecki framkoma af einlægu gódu hjarta. Þad kristilega hugarfar, fullt af lotníngu fyrir Guddóminum, audmjúkt, audsveipid, af elsku gagntekid, blídt og velviljad vid náúngann, fráśneidt ollum prettum, stadfast í hinu góda, þetta kristilega hugarfar — segi eg — sem vitnar um Krist, þad á ad koma í ljós í ordum og verkum; med kappi og alúd í framqvæmd allra þeirra verka, sem skyldan vid Gud og náúngann af manninum heimtar. Ylur hjartans á ad vera svo mikill, ad honum lísti út til allra orda og verka, sýni í breytninni andans ávexti. Hugarfarid allt er sem rót kristilegrar dygdar, en ord og verk eru greinir og ávextir sprottnir af þessari rót, vanti rótina, koma ávextirnir ecki, og sú rót; sem enga ávexti sýnir, er daud og ónýt. Hug-

arfarid á ad vitna um Krist, þad er hofud atridi kristinndómsins, en þetta sama hugarfar á ad vera svo einlægt, ad þad geti ecki dulist fyrir mønnum, heldur komi í ljós eins í ordum sem verkum, þá er vitnisburdur Krists fullkominn; svo báru honum vitni þeir fyrstu Kristinndómsins vottar, þeir heilogu menn, sem vóru forbodadir fyrir sinn vitnisburd og líflátnir, eins og meint var, Gudi til þægdar, þeir vitnudu um Krist med hjarta, ordi og verki. Hjarta þeirra var brennandi, þeir elskudu sinn Meistara innilega, og glodduft þegar þeir urdu ad lída illt fyrir hans vitnisburd; þeirra munnur taladi af gnægd hjartans og vitnadi fyrir mønnum um þann, sem þeirra hjarta elskadi, og þeirra verk vóru því samhljóda, sem hjarta þeirra fann til og munnur þeirra taladi.

Eins á vorum vitnisburdi ad vera háttad; hjarta, munnur og hond, allt á ad vera samhljóda hjá oss í því ad bera Jesú vitni. Vér erum ecki til þess kalladir — vor kostur er í því betri enn Jesú fyrstu votta — ad þola ofsóknir vegna vitnisburdarins Jesú, en láta verdur hverr sá tídum móti sínum vilja, sem verduglega vill Jesú vitni bera, því holdid girnist móti andanum; í því stríd egum vér ad sýna, ad vér séum Jesú trúir vottar. Þegar veraldleg gædi bjódast fyrir afneitun Krists, þá egum vér ecki ad rádgast um vid hold og blód, heldur afneita holdinu, og bera trúlega vitni honum, sem sigradi heiminn.

Vér nefnum oss kristna eptir Krists nafni; vér hofum ad sonnu ecki umgengist hann, en i Guds ordi er honum lýst fyrir oss, sem synilegri imind Guddómsins, og alls mannkynsins ædsta velgjorara og Endurlausnara. Vér hofum þá somu trú, sem Jesú fyrstu vottar, ad þessi sami sé af Gudi settur Dómari lifendra og dauðra, og ad sá sami, sem uppnuminn var til himins, muni á sínum tíma aptur koma, eins og hann sást til himins fara. Fyrst vér hofum þá sama nafnid og þeir fyrstu játendur Krists; fyrst vér hofum somu trú og somu von, sem þeir, þá verum þeim og líkir i því, ad vera Jesú vitni einlæglega og yfirdrepskaparlaust, med hjarta, munni og verki; þá mun Hofundur vorrar trúar, þegar hann aptur kemur ad dæma lifendur og dauda, kannast vid oss, sem sína verduga votta og trúa þénara, og gefa nádarsamlega trúrra þjóna verdlaun. Amen!

# A Hvítasunnudag.

## Bæn.

Drottinn himins og jardar! Sannleikans Hofundur! vier vegsomum á þessum Hátídardegi þína gud-

dómlega góðgirni, fyrir þá dýrmætu velgjörð þína við oss, að þú hefir látið lærdóm þíns elskulega Sonar einnig til vor ná; þann lærdóm, sem hann kom með af himni, sem þinn andi útbreiddi í heiminum. Gief að vjer reynum verkanir þessarar trúar, og þar af líka sannfærumst um, að sá sami guðlegi kraptur, sem upphaflega fylgdi þinu orði, se því enn þá samfara! Lát sannleikans ljós fyrir oss lýsa og þeim skína bjart, sem í myrkrunum sitja, svo þeir einnig komi til ljóssins! Kenn oss öllum að elska sannleikann, að trúa, og í trúnni að finna huggvölun, þángað til þú sjálfur flytur oss frá trúnni til skoðunarinnar, frá voninni til arfleifðarinnar! Amen!

## Guðspjallið.

(Joh. XIV, 23—31.)

Jesús sagði við sína Lærisveina: hverr, sem elskar mig, hann mun varðveita mín orð; Faðir minn mun elska hann, til hans munum við koma og hjá honum vistarveru gjöra. En hverr, sem ecki elskar mig, hann varðveitir ecki mín orð. Það orð, sem þér af mér heyrðuð, er ecki mitt, heldur Föðursins, er sendi mig. Þetta talaði eg

fyrir ydur á medan eg var hjá ydur; en Huggárinn, sem er hinn heilagi Andi, hann er Fadir minn sendir í mínu nafni, mun kéña ydur alla hluti, og minna ydur á allt þad, sem eg sagdi ydur. Minn frid læt eg hjá ydur, miñ frid géf eg ydur; ecki géf eg ydur eins og heimurinn géfur. Ydar hjørtu hrædist hverki né skélfist; þér heyrdud þad eg sagdi ydur: eg fer á burt, og kém aptur til ydar. Ef þér elskid mig, þá gleddust þér vid þad, ad eg sagdi ydur: eg fer til Fødursins; því Fadiriñ er mér meiri. Nú sagdi eg ydur þad ádur, fyrri enn þad skér, svo þér trúdud því, þegar þad er skéd. Hédan af mun eg ecki tala margt vid ydur, því þessa heims høfdingi kémur, og med mig hefir hann eckert; heldur svo ad heimurinn þecki þad, ad eg elska Fødurinn, og ad eg gjøri eins og Fadirinn hefir mér bodid.

## Inngángurinn.

Þó Drottni hefdi ecki þócknost ad stadfesta sitt ord med dásemdar verkum, mundi hverr sá, sem sannleikans vildi gæta, eiga hægt med

ad sannsærast um þeis guddómlega uppruna. Þess bodan og framgángur í heiminum er án efa það mesta dásemdar-verk Drottins. Án serdeilisiegrar adstodar Guddómsins, mundi þeim fyrstu vottum Kristinndómsins hafa ordid ofvaxid ad koma því til leidar, sem eptir þá liggur í heiminum. Það er því líkegt, ad Forsjónin hafi, med serdeilisiegum hætti, verid í verki med þeim; ad Guds Andi — eins og þeir sjálfir vitnudu — hafi verid þeirra leidtogi, og eptir Jesú fyrirheiti, hvers hátídleg auglýsing samt skeði (?) hann ársins dag, sem ver nú heilagann höldum, hafi leidt þá í allann sannleika. Ordu-leikar þeir, sem upphaflega mættu kristnibodinu, vóru ecki litlir; þeir vóru innifaldir í þenkingarhætti þeirra manna, sem trúin var fyrst bodud, og líka í edli þessarar trúar. Gydíngum og Grickjum var trúin bodud; hún var í mörgum greinum gagnstædileg þeirra forna átrúnadi, og þeir vóru henni fráhverfir, vegna vissu þeirrar og lysta, sem þeir lifdu í. Postulinn Páll hafdi því allann rétt til ad segja: ver bodum Jesúm hinn-krossfesta, Gydíngum hneirkli og Grickjum heimsku. Til ad gjora þá trú, sem svo var ásigkomin, medtækilega heiminum, þurfti meiri dugnad, meiri speki, heldur enn af hennar fyrstu vottum var ráð fyrir ad gjora. Gudlegann krapt skyldi til þess, ad sigra hofdingja heimsins og endurskapa heiminn, og ad Postular Drottins hafi fengid þennann gudlega krapt, mun oss aud-

veldt ad sannfæraſt um, þegar vér giørr hug-leidum þetta efni. Af því, ad ſá hér um ſull-komna ſannfærlngu, ſlýtur ennur mikilsverd ſannfæring, ſú nefnilega: ad haſi Gud ljád ſinn Anda til ad útbreida Kriſts lærdóm, um heiminn, gétum vér verid viſsir um, ad lær-dómurinn ſé frá Gudi, eins og Höfundur og Fullkomnari vorrar trúar ſjálfur vottadi.

1.) Ef vér hugleidum áſigkomulág þeſs lærdóms, ſem Jesú Poſtular bodudu heimin-um, munum vér ſannfæraſt um, ad Gud hefir verid í verki med þeim, því annars hefdi ſá lærdómur ecki fengid vidtoku í heiminum, hvers trúar- og ſida-lærdómar vóru þeim mönnum, er þeir fyrſt vóru bodadir, ſvo gagnſtædilegir.

Kriſtinndómſins trúar lærdómar vóru ecki allir nýir, ecki allir ókunnugir ſkynſemi manna. Adur enn Kriſtur kom, höfdu nockrir ſann-leiks vinir og hyggnir menn medal heidingja grafiſt eptir þeim meſt verdu trúar ſannindum. Þad vottar Poſtulinn Páll, (Róm. 1, 19) um þá med þeſsum ordum: þeir hafa berſýnilega Guds þeckingu, því Gud hefir þeim hana opinberad. Guds óſýnilegi eilífi máttur og Guddómur hefir frá heims upphafi ſjeſt, þá verk hans vóru ſkodud, ſvo menn hafa enga af-ſökun. Lærdómarnir um Guds óſýnilegu ei-lífu Veru, um forſjón og ſtjórn heimſins, og líf eptir þetta, vóru ecki ókunnugir; menn hefdu

sjed Guds verk, þeir hyggnu medal þeirra sá grundad þau og af þessari grundun fengid þeck-ingu á verkanna Hofundi, og þessa somu þeck-ingu meddeildu þeir odrum. Enn sídur var þad Gydíngum ókunnugt, sem Postular Drottins kenndu um þessi somu sannindi; þeir hofdu Móses og Spámennina, og í þeirra bókum lásu þeir daglega, gátu því af þeim fengid á-nægjanlega upplýsíngu um þessi trúarinnar hofud sannindi. En auk þessara hofud-lær-dóma bodudu Postularnir adra trúar-lærdóma, er nýir vóru og ókunnir skynsemi manna. Eink-um var sá lærdómur þeim monnum, er kristni fyrst var bodud, harla nýstárlegur, ad allt mañ-kynid væri sakfallid fyrir Gudi, ad enginn gæti gleruníng umflúid; nema hann adnyti Guds nádar. Hvad gat og verid sárara sjálfselsk-unni? hvad framar audmýkjandi fyrir þótta mannanna hjartna, heldur enn þessi kenníng? Mun ecki morguin, sem hana fyrst heyrdu, hafa sama til hugar komid og Jesú Lærisveinum, þegar Meistari þeirra kenndi: ad enginn gæti sjed lífid, nema hann æti hold og drycki blód mannsins Sonar? mun þeim ecki hafa til hugar komid: hord eda þúngskilin er þessi ræda, og nú þad medal, sem Postularnir keñtu, ad Gud hefdi ætlad heiminum til frelsis? ó-kunnugt var þad og skynsemi manna: Ordid vard hold, til ad boda þeim fallna heimi Gudrómsins vilja, til ad deya heiminum til lýnda fyrirgéfníngar og upprísa honum til rétt-

lætis, til fullvíssu um, ad endurlausnar-verkid væri fullkomnad, og ad þvi búnu uppsté Guds Sonur til himna, aptur væntanlegur til ad dæma heiminn og flytja þá til sín, sem honum hér trúlega þjónudu. Hver mannleg skynsemi gat upphugsad þetta af sjálfri sér? Hverr hefdi og af sjálfum sér rádist í ad lægja svo dramb mannanna, sem hér er gjört? Hverjum mundi og, án ædri adstodar, hafa tekist ad koma mönnum til ad kannast þanninn vid egin eymd og þyggja frelsi og frambodna nád, med þessu skilyrdi: ad taka vid henni med þakklæti og fögnudi? Hverninn var þad mögulegt, ad kristinndómsins fyrstu kennendur gætu sannfært sína tilheyrendur um sannleika þessara óheyrdu lærdóma, hrundid efasemdum og andyrdum þeim í gégn, án gudlegrar adstodar? Án hennar hefdi enginn trúad, og minning þessara lærdóma mundi nú fyrir laungu sídan horfin af jördunni, ef Gud sjálfur hefdi ecki géfid trúna.

2.) Hér um sannfærumst vér enn betur, þegar hyggjum ad Jesú sidalærdómi. Allir, eins þeir, sem ecki eru kristinndómsins vinir, hafa ætíd dádst ad Jesú sidalærdóms heilagleika; en einmidt þetta hlaut ad verda mesta hindran fyrir uptöku lærdómsins, þvi Postularnir gengu ríkt eptir, ad lífad væri samqvæmt þvi, sem þeir prédikudu. Jesú sidalærdómur er holdi og blódi gagnstædilegur, hann hlaut þvi ad mæta fyrirstödu hjá þeim mönnum, sem tamast var ad gánga eptir holdinu. Jesú

Postular heimtu af þeim, sem kristni tóku, hreint hjarta og óstraffanlega breytni; þeir bönnudu eins alvarlega alla hjartans óreglu, girndanna ákafa og ránglæti athafnaña; en hatur á allskyns syndum; vidbjód á ollum syndsamlegum ágóda og hagnadi gjordu þeir hverjum, sem kristni tók, ad heilagri skyldu. Þeir heimtu af þeim kristnu þacklátа elsku til Guds og Endurlausnarans, og þadan sprottna framqvæmdarsama elsku til allra manna, samt einlægustu vidleitni ad gjora allt og lída allt Gudi til þócknunar. Hvillk audmýkt og sjálfs afneitan heimtadist ecki einkanlega af hinum fyrstu kristnu, þegar þeir dyggilega vildu hlýdnast Krists heilaga sidalærdómi? Hversu torveldt mun ecki holdlega sinnudum hafa sýndist, ad vita sig, sannleikans vegna, fyrirlitna og ofsókta; ad verda, þá miñst vardi, ad sjá á bak eigum og vera ætíd í vissustu lífshættu? og til hvers var nú ad vinna fyrir þetta? ecki til neinnar sýnilegrar umbunar, ecki til neins þess, sem líklegt var ad svo sinnadir menn helzt mundu gángast fyrir. Umbunin fyrir missir heimsins gæda, fyrir ofsóknir og fyrirlitníngu, var andleg fullkomnan; sá heidur, ad gjorast Gudi líkur, sú sæla, ad ná hans hylli, ró samvitskunnar, von sælufyllra og betra lífs á sídan; þessi umbun er ad sonnu hin dýrmætasta, því þessi gædi eru hin ædstu, er nockurr getur ímindad sér, en ecki fyrir adra enn þá, sem smackad geta krapt eptirkomandi aldar; hinum, sem sockuir eru nidur í heimsins-

munad, og lengi hafa tamid sér ad hlýdnast holdlegum girndum, er í gégn sálunni strída, eru þan engin umbun; og ad líkindum vóru þesshattar menn flestir, sem kristni var fyrst bodud; þeim gat því ecki verid girnileg sú áminsta umbun. Vér vitum hvad gyldir á vorum dögum, ad frambjóda þessi andlegu gædi þeim holdlega sinnudu. Þad ósýnilega, sem Postulinn Páll baud þeim kristnu ad líta framar á enn hid sýnilega, gjördi eins þá og nú minni verkun á sinni manna, heldur enn þad nálæga sýnilega; og þó hlýdnudust mörg þúsund manna trúnni. Sú fyrsta ræda, sem Postulinn Pétur héldt fyrir Löndum sínum þann fyrsta Hvítasunnu-dag, ávann Drottni þrjár þúsundir manna. Var þad þá ecki Guds verk, ad kristnibodinu vard svo framgengt? Vidurkénnum sannleikann! Gud var med sínum sendibodum, meddeildi þeim sinn anda, svo þeir yrdu hæfilegir til þess verks, sem midadi til mannkynsins velferdar.

3.) Ef vér vyrdum fyrir oss þenkíngarhátt og sidu þeirra, sem kristni var fyrst bodud, sáum vér somu sannfæringu. Hverki gátu Gydíngar né heidíngjar fellt sig vid þá trú, sem Postularnir kénndu; hverjirtveggju settu sig því móti kristnibodinu. Postulinn Páll sagdi því ecki ófyrirsinju: Vér predikum Krist hinn krossfesta, Gydíngum hneixli, en Grickjum heimsku.

Gydíngum, sem væntu Konúngs, þókti Jesús engannveginn fullnægja þessari von; jarðneskann Konúng vildu þeir hafa, er með valdi nædi háfæti Feðra sinna, og fæti að ríkjum með mikilli viðhöfn og yfirlæti, en útvegaði þjóðinni heiður og auð. Jafnvel Jesú eginn Lærisveinar, létu optar enn einusinni á sér skilja, að þeir bjugguft við, að Jesús mundi verða þvílíkur jarðneskur Konúngur, sem viðrétti aptur hið gamla Israels ríki. Þeir vildu, að Jesús yrði sigursæl hetja, sem meðhernaði kollkasta skyldi Rómverja yfirdrottnun, og gjörast undir eins Gydínga og alls heimsins höfdíngi. Þessari ósk hafði Jesús ekki fullnægt, og nú, þegar Postularnir boðuðu hans upprisu, var hann ekki framar á þessari jörðu. Gydíngar sjálfir höfðu látið krossfesta hann, eins og óbótamann, sem hann, er fráfneri fólkinu, og fyrirbyði að gefa Keisaranum skatt, en þæktist samt vera Konúngurinn Kristur. Nú skyldu þeir trúa því, að þessi sami, sem þeir höfðu útskúfað, væri sá mikli Endurlausnari, sem Guð hafði heitið Feðrunum. Hann liflátna skyldu þeir hylla, sem sinn Konúng, taka þá trú, sem hann hafði boðað, og hennar vegna afneita Feðranna trú. Prédikun um hinn krossfesta var því Gydíngum hneyksli; en það bætti ekki lítið á, að Postularnir kenndu: að Heiðíngjar ættu jafnann rétt með Gydíngum til Messíasar ríkis og hans velgjörnínga. Einir vildu Gydíngar vera

Guds fólk; enginn mátti sá ega hlutdeild í Messiasar ríki, eptir þeirra meiníngu og vilja, sem ecki var kominn af Abraham, og þó kénnu Postularnir, ad heidíngjar ættu og, fyrir Krist, ad verda hólpnir. Auk þessa, ømuduft Hofdíngjar Gydínga og Kennivaldid vid þeirri trú, sem kénndi, ad dýrka Gud í anda sannleika, og svipti þá ollum þeim hagnadi, sem fólksins hjátrú frambaud þeirra sínhelgi. Af svo morgum orsokum var sá krosfesti og hans lærdómur Gydíngum hneixli; þeir vóru honum afundnir, fyrirlitu hann og þá, sem hann bodudu; þó var Postulanna kénníng ecki forgefins medal Gydínga; þeir fengu áheyrn, jafnvel hjá sumum Hofdíngjum og Prestum; Jesú lærdómur var allstadar sigursæll, af því Gud var í verki med þeim, sem hann bodudu.

4.) Ef vér rennum auga til heidínganna, vitum vér ad um flesta þeirra var ecki ofhermt, ad þeir væru án Guds í heiminum — einstaka hyggna menn skulum vér ætíd undantaka — allur fioldi heidíngjanna lifdi í fávísleguftu afgudadýrkun og vidbjódslegum loftum; vidurstyggilegar syndir vóru sumstadar partur útvortis gudsdýrkunarinnar; tilfinníng hins rétta og heidurlega var vída farin, sem nærri má geta. Hlaut nú ecki þetta ad vera hin mesta hindran þeirri helgu trú, sem upplýsir skilníngin og betrar hjartad, en bodar stríd allri syndsamlegri girnd og háttalagi. Og hvad hafdi

nú þessi sama trú ad bjóda þeim í bætur, sem hennar vegna urdu ad missa lífsins gæda og þola íllt? þeim, sem hún krafdist af ad lifa skyldu í heiminum hóflega, réttvíslega og gudlega, en afneita veraldlegum girndum, sem þeir svo lengi hofdu þjónad? Ecki nein tímanleg gædi, einúngis þau andlegu. Mun þetta ecki hafa verid þúngur kross holdi og blódi, sem ílt-ur eingaungu á hid sýnilega? gat sú andlega og eilífa sársæld, sem kristinndómurinn fram-baud, verkad svo á hjortu þvílíkra manna, ad þeir skipudust vid Postulanna kenníngar? gat hid eilífa og ósýnilega og fjarlæga verkad á þeirra hjortu? ecki nema med adstod Guds anda, sem verkar allt í ollum eptir því, sem hann vill. Hér ad auki véru heidnir Prestar og Konúng-ar ecki sídur mótfallnir trúnni, heldur enn Hofd-íngjar og Prestar Gydínga. Prestunum þókti hardt ad missa tekjur sínar, gjordu því sitt til ad hinn forni átrúnadur héldist, er veitti þeim bædi heidur og næga atvinnu; en Konúngarn-ir óttudust, ad sidaskiptin myndu eptir sig leida stjórnar biltíngu, hjeldu því rádlegt, ad beita allri sinni makt gegn þeim nýa sid, egin mót-ordum til verndar; þeir hindrudu því kristniboð-id med logum, ofsóknum og kjænsku. Speki-íngum medal voldugra og í vissu tilliti upplýst-ra og sidadra þjóda, þókti skomm ad gjorast Lærisveinar umkomulausra Fiskara, úr því landi, er lítid ord fór af; þeir undu því líka ílla, ad álit þeirra mínkadi og Lærisveinar þeirra fæck-

udu, þegar kristnin fêck vidtøku; var þá að furda, þótt þeir einninn omuðust við hiñi nýu trú og hindrudu hennar framgáng med málsniið sinni og kjænsku? þeir sporudu ecki heldur að aptra frá vidtøku þeirrar trúar, sem þeir kolludu hégómlegt æfintýr, er mínkun væri fyrir skynsama menn að trúa. Svo margvíslegri fyrirstødu mætti kristnibodið medal heidingja, og þessi fyrirstada, sem þó fêck ecki hindrad það, vard stundum medalið til þess, að kristin trú útbreiddist því vídar, og fêck þess fleiri játendur; var elskud því meir, sem meira kostadi, að játast undir hana og hlýdnast hennar helgu lærdómum.

5.) En — hverjir vóru nú þeir menn, sem fyrir því var trúad að boda Krists lærdóm heiminum? að manna áliti vóru þeir ecki því vaxnir; já, það mætti segja; að þeir ecki ert hefdu hast til að bera, nema það eina, að þeir hofdu frá upphafi verid med Jesú, sem gjørdi þá hæfa til þess þrekvirkis, sem eptir þá liggur í heiminum; því —

a) Þeir vóru ecki miklir gáfumenn; af þeirra eigin frásøgu vitum vér, að Jesús, þeirra Lærimeistari, klagadi optar enn einusiñi yfir því, hvad treat þeim gêck að nema hans keñíngar, og hversu þeir stundum misskildu hans ord. Allar þær somu raungu meiníngar, sem Gydíngar hofdu um þann fyrirheitna Messías, vóru svo fastar í þeirra huga, að þau þrjú ár, sem þeir umgengust med Jesú, brúckt ecki

til ad útrýma þeim. Fyrir fylgd sína vid hañ, þiuggust þeir vid ttmanlegri umbun af hans hendi; þeir hofdu gjorst hans Lærisveinar í von um, upphefd í því veraldlega ríki, sem þeir ætludu hann mundi hefja; um þetta rædduſt þeir vid á stundum innbyrdis og mottust um fyrirrúmid. Eptir Jesú upprisu, þegar hann alkáinn hedan af jordu var ad qvedja, þá, kom þeim enn til hugar ad spyrja Jesúm: hvert hañ þá ætladi ſer ad vidreisa Israels ríki? Eptir ad Jesús var frá þeim farinn, þurfti nýa opinberun til þess, ad Pétur sannfærdist um, ad heidíngjar ættu og hlutdeild í Messíasar ríki. Her'ad auki vantadi þá framsýni og mann-þeckíngu, lærdóm og málsnilld og hvad eina þesshâttar, sem sannfærir skynsemina, en ávinnur hjortun. Er þá ecki óskiljanlegt, ad þessir menn komu svo miklu til vegar? þegar vér trúum því, ad hér sé Guds fíngur, verdur oss allt skiljanlegt, því hann er máttugur í breiskleikanum og hefir tídum útvalid þad, sem er lítilmótlegt fyrir heiminum. En —

b.) Þó Postularnir hefdu verid gáfulítir, innteknir af somu villu, sem adrir þeirra Landar um jardneskt Messíasar ríki, þad hefdi verid sok sér; þeir hefdu samt fengid miklu til vegar komid, ef allt annad hefdi gjort þá líklega til framqvæmdar þess verks, er þeim var trúad fyrir; en þá skorti líka audlegd, álit og ættgofgi, alla þá útvortis yfirburdi, sem tídast og vissast gánga almenníngi í augu og ávinna

medhald og fylgi. Postularnir vóru orsnaudir, hvórki gull né silfur hofdu þeir ad gefa, sjalfir urdu þeir ad lifa á gjöfum sinna tilheyrenda, ellegar af erfidi sinna handa. Af lægsta standi vóru þeir, í litlu gyldi hjá sínum Landsmönnum, fiskarar, handverksmenn og jafnvel tollheimtumenn, sem ödrum fremur vóru fyrirlitnir af Gydíngum. Enginn gat vænt sér af þeim heidurs eda frama, þar á móti var þad hverjum og einum nóg ámæli, ad umgángast þessa menn, og óvyrdíng ad heita þeirra Lærisveinn. Þeir sjálfir hofdu eckert vald, vóru aldrei óhultir fyrir ofsóknum, og fordudu tídum í sínu med-því ad flýa úr einni borg í adra, og somu kjör hofdu þeir, sem skiyndust vid þeirra ord. Bædi sumir af Postulunum, og margar þúsundir af þeirra Lærisveinum urdu ad lída písilarvættis dauda fyrir trú sína. Þessa umkomulitlu alþydumenn brúkadi Drottinn til ad útbreida sinn lærdóm um heiminn, til ad kenna þá trú, sem var Gydíngum hneixli en Grickjum heimska; og þeirra predikun steypti heimsins forna átrúnadi, hún qveikti þad ljós í heiminum, sem sídan hefir útbreidt sitt skin til allra landa; þeirra predikun ega hinna seinni alda Spekíngar ad þacka þá sonnu og ávaxtasömu upplýsíngu, er þeir med ollum rétti geta hrósad sér af, og þó hefir predikun hins Krossfesta verid morgum þeirra hneixli edur heimska. Já, þeim fyrstu vottum Jesú Krists egum vér allir ad þacka vora trú,

vora von og huggun í lífi og dauda, eda þó réttara sagt, vér egum þetta allt Gudi ad þacka, sem gjördi þó med ástgjöfum síns Anda hæfilega til ad vera predikara ens Nha Testamentis. Vér skulum aldrei efast um, ad Gud samverkadi sínu ordi, ad ordid er hans ástgjöf; vér skulum aldrei efast um þann huggunarríka sannleika, sem er svo berſýnilegur, ad Kristinndómsins útbreidsla um heiminn sé Guds verk, og ad Kristinndómurinn sé því frá Gudi kominn; ad hann med honum hafi bætt vora andlegu þörf, ens og hann bætir alla þörf allra og elur enn fyrir öllum sínum skepnum. Honum skulum vér því af öllu hjarta þacka hans nád, og hana alúdlega færa oss í nyt, til velferdar vorra sálna. Amen!

# Á annann Hvítasunnudag.

## Bæn.

Himneski Fadir! þú, sem gafst heiminum þitt ord, og ljetst þad komast til jardarinnar ytstu takmarka, svo þad skin nú einnig gladt fyrir þeim, hverra fedur sátu í myrkrum og vóru án Guds í heiminum; fjærlægir Israels bvygar retti. Ecki ad vjer höfum sálw

hjálpleg not af þessari þinni dýrmætu gjøf! Lát ecki einúngis þau kraptaverk, sem fylgdu þess fyrstu bodun í heiminum, sannfæra oss um, ad þú, fyrir þinn Son — eins og Postulinn segir — hafir talad vid heiminn, eptir ad þú hafdir opt og margvíslega talad til Fedranna fyrir Spámennina, heldur og af eigin reynslu og brúkun þess ords, sá fullkomnustu vissu um, ad Jesú lærdómur er frá þier, sem ert Sannleikans Gud, og ad þinn Sonur, eins og hann siálfur vitnadi, taladi ecki af siálfum sier. Gief ad vier nú í dag og ætíd heyrum med þeirri athygli þitt ord, sem skepnunni hæfir vid ad hafa, þegar þú, Drottinn! talar, og færum ávøxt med stadugglyndi! Amen!

## Gudspiallid.

(Joh. III, 16—21.

Jesús sagdi vid Nikódemus: svo elskadi Gud heiminn, ad hann gaf út sinn eingétinn Son til þess: ad allir þeir, sem á hann trúa, fyrirfarist ecki, heldur ad þeir hafi eilíft líf; því ecki sendi Gud sinn Son í heiminn, til ad fyrirdæma hann, heldur ad heimurinn frelsadist fyrir hann. Hverr á Soninn

trúir fyrirdæmist ecki, en hverr, sem ecki trúir, er nú þegar dæmdur, af því hann trúdi ecki á nafn eingétins Guds Sonar. En þessi er Dómurinn: ad ljósid kom í heiminn, en menninnir elskudu meir myrkrid enn ljósid, því þeirra verk vóru vond. Hverr, sem illa gjörir, hann hatar ljósid, hann kémur og ecki til ljóssins, svo ecki straffist hans verk. En hverr, sem sannleikann elskar, hann kémur til ljóssins, svo hans gjördir verdi kunnar, því þær eru í Gudi gjördar.

## Inngángurinn.

Med kraptaverkum stadfesti Jesús sína kénningu medan hann umgeckst hér á jordunni. Vitnisburdi Jesú fyrstu votta folgdu og dásemdarverk. Med ovenjulégum atburdum vakti Drottinn athygli fólks þann fyrsta Hvítasunnudag, þegar Postularnir bodudu fyrst Gydingum Jesú Krists upprisu, og vidlíka atburdir urdu, þegar heidingjum var fyrst bodud kristni, eins og þessa dags Pistill ljóslega vottar. Oneitanlega vóru kraptaverkin þeim tímum sambodin medöl til ad vekja athygli manna og sannfæra um gudlega köllun þeirra, sem ordid predikudu; en midur vóru þau til þeis lögud, ad láta fólk svo sem þreifa á dyrmæti þess

lærdóms, er kunngjördur var. Vor Frelsari, sem stadfesti ord sín med jarteiknum, vildi ógjarnan til þeirra grípa; hann klagadi yfir, ad Gydíngar trúdu ecki nema þeir sæu teikn og stórmerki, og þvertók stundum, ad þeirri spilltu þjód skyldi teikn gefast nema teikn Jónasar Spámanns. Hann gjördi og ród fyrir, ad seinna mundu uppkoma Fals-spámenn og Fals-kristar, og gjöra svo mikil teikn, ad í villu kynu leidast, ef ské mætti, jafnvel útvaldir. Af þess-um orsökum vildi Jesús ad sér væri trúad þó ecki væru gjörd kraptaverk. En þó krapta-verkin væru fyrir þá hentugt uppvakníngar-medal og trúar þvíngan, sem sáu þau gjörd, géta þau traudlega haft sama gyldi fyrir þær seinni kynslódir; þær hljóta ad trúa, þó þær ecki sjái, og eru einmidt þess vegna ad sælli, ad þeim er gjört audveldara fyrir ad komast til fullrar vissu um Guddómlegleika þeirrar trúar, sem Jesús bodadi heiminum. Oss er gjört hægra fyrir enn svo, ad ver þurfum ad ran-saka kraptaverkin, og sögu þeirra óvenjulegu atburda, sem kristnibodinu fylgdu upphaflega, ádur enn med fullri vissu medtökum trúarinnar leyndardóma. Sjálfur Jesús vísadi öllum sínum játendum á hid rétta guddómlegleika ein-kenni síns lærdóms, bædi þeim, sem honum lifdu samtída, og líka þeim, sem á öllum ókomn-um öldum mundu á hann trúa, í þessari merki-ligu grein, sem finnst hjá Jóhannesi í hans

Gudspjalla 7da kap., og hljódar þannig: Ef sá er nockurr, sem gjöra vill Guds vilja, hann reyni hvert þessi lærdómur er af Gudi, edá hvert eg tala af sjálfum mér. Reynslan hefir af flestum verid haldin ólhgnust; mjög sjaldan efumst vér um það, sem hún kénir oss, þó vér efumst um allt annad. Pad er þá tvennt vid þad unnid, ad láta egin reynslu kénna sér, hvadan Jesú lærdómur er kominn; madur fær med því móti bædi hæglegar og vissar ad vita, hvadan hann er kominn, heldur enn þegar sú leid er farin, sem liggur um ólvktana veginn.

Pessi reynslá er samt ecki ollum gefin; þad er audsætt af áminnstum ordum Frelsarans; þeir einir geta med reynslunni fengid vissa sannfæringu um Guddómlegleika Jesú lærdóms, sem vilja gjora Guds vilja. Og — hvad reyna þeir þá, sem Guds vilja ástunda, af hverju rádid geti, ad Jesú lærdómur sé frá Gudi? Pad er vort gudrækni og umhugsunar efni á þessum Hátídar-degi.

Só, sem vill gjora Guds vilja, kostar líklega ollu til ad þeckja; girnist ollu framar ad vita Guds heilaga vilja. Í Jesú lærdómi finnur hann þad, sem hans hiarta girnist, því hvergi sæst réttari, Gudi verduari og undir eins audnumdari gudlea speki, heldur enn. Því ordi, sem Sonur Guds bodadi mannkyninu. Skynsemi

manna, þetta ljós, sem Guð í ondverdu tendradi í hans sálu, hún sjer sig hér eins og í spegli; hún finnur í Guðs ordi það logmál, sem vera á mælisnúra mannsins hugrenninga, orda og verka. Þegar Jesús talar um siðferdi og kunngjörir Födursins heilaga vilja, þykist hún þeckja sig sjálfa, og furdar, að hún skyldi þurfa að fá þá uppfrædingu utan að, þar hún, vakin af Jesú kenníngu, finnur það sama logmál, sem henni er opinberað, skrifað í sínu hugskoti. En hún gáir þess ecki, að hægra er að kannast við hið sanna og rétta, heldur enn med egin igrundun að finna það, hægra, þegar það er skilmerkilega framsett, að sannfærast, heldur enn að gjora sér það skiljanlegt og finna ástædur því til styrkingar. Eckert annað vissara audkénni hins sanna og rétta, hvað breytninga snertir, hofum vér, heldur enn skynsemiunar kúsa samsinningu, því logmálsins verk eru skrifuð eins í vor hjortu og heidingjanna. Vér gétum því enga meiri vissu fengið þar um, að sá sidalærdómur, sem Jesús kénndi, sé frá Gudi, heldur enn þetta, að hann er samhljóða því náttúru ljósi, sem tendrað var ondverdlega í mannsins hjarta, honum til leidarvísirs í því, sem hann skyldi gjora og fordast í lífinu, og sem manninum hefdi nægt, ef það hefdi ecki dapraſt af spillíngu syndarinnar. Hér finnur nú sá, sem vill gjora Guðs vilja, audkénni þess, að Jesú sidalærdómur sé frá Gudi, því Guð er sjálfum sér líkur, hinn sami í gjær, í

dag og ad eilífu, og breytir ecki sínum vilja, hans vilji er ó umbreytanlegur eins og hann sjálfur.

Þegar vèr þessu nærst sinnum, ad engin uppfræding um Guds veru, um Guds eiginlegleika, um þá dýrkun, sem honum þócknast, getur upphugsast Gudi verdugri enn sú, er Jesús meddeildi heiminum, styrkist enn betur vor sannfæring um guddómlegleika hans lærdóms. Gud er mannanna Fadir, allra gædskuríkur Fadir, heilagur og rettlátur í öllum sínum álýktunum og verkum, mikill í rádum og mektugur í athöfnum. Hann, sem er Andi, vill láta dýrka sig í anda og sannleika. Hvad getur skynsemi mannaímindad sèr Guddóminum verdugara, heldur enn þad, sem Jesús hefir kennt um Guddóminn og þá dýrkun, sem Gudi þócknast? Hann er eptir Krists ordum mannanna algódur, rèttvís, heilagur, almáttugur Fadir; sem Fodur, heilagann og alvísann, ega menn ad dýrka hann, ecki med fórnfæringum einúngis, ecki med knèfalli líkhamans eda eintómri munnsins játníngu og útvortis gódum athöfnum, heldur med hjartans innilegustu lotníngu og elsku, med brennandi laungun eptir öllu því, sem er fagurt, heidurlegt og gott. Hann elskar alla menn, og hann miskunar sig yfir öll sín handaverk, segir Ritníngin; hann vill því, ad hans skynsemi gæddu skèpnur elski sig aptur af öllu hjarta, allri ond, öllum mætti,

ǫllu hugskoti, það er: elski sig innilega og verði af þessari elsku sælar. Hann vill að allir verði hólpnir og komist til sannleiksins viðurkenningar. Hann heimtar þeirra hjörtu ecki sín vegna, ecki af því, að hans fullkomnan eða sæla aukist fyrir elsku þeirra eða þjónkun, heldur af því, að elskan til Guðs gjörir manninn sælann, það er unan fyrir mannsins hjarta, að elska það, sem er fullkomið og elskuverdt, en hvað getur verið svo fullkomið og elskuverdt, sem Guðdómurinn, eptir lýsingu Kristinndómsins? og þar að auki gjörir elskan skylduna auðvelda, og lætur Guðs boðorð ecki verða manninum þúng; fyrir þann, sem maðurinn elskar af hjarta, vill hann allt vinna; varla er nockurr hlutur svo torveldur, að elskan gjöri hann ecki vinnanlegann, já, það beiska gjörir elskan tíðum inndælt, hún hefir unnið margt kraptaverk í mannsins breiskleika, og því er hún gjörð af Jesú æðsta boðorð og lögmálsins uppfylling. Hún tignar og betrar hjartað, og leiðréttir manninn frá rótum, eptir tilætlun vors Endurlausnara, sem heimtar af sínum Lærisveinum, að þeir hreinsi fyrst hið innra. En það, sem gjörir skylduna auðvelda og betrar hjartað, það eykur mannsins sælu.

Guðs orð upplýsir oss, kennir oss að þeckja vora köllun, vekur í oss það hugskotsins lögmál, sem Skaparinn skrifaði þar í öndverðu, og gjörir oss skiljanlegann Guðs heilaga vilja,

og kénnir oss þá verduguſtu dýrkun þeirrar heilögu Veru, sem býr í hædinni og er veraldarinnar Dómari. Sú fullkomna upplýsíng, sem oss í Guds ordi veitist um þessi mikilvægu sañindi trúariñar, sañfærir oss um þad, ad Jesú lærdómur sé frá Gudi. En — vér finnum hér og annann vott þess hins sama, því þad ordid, sem upplýsir skynsemina, þad hid sama veitir og krapt öllum þeim, sem vilja gjöra Guds vilja til ad fullnægja sinni eptirlaungun.

Skilmerkileg þecking Guds heilaga vilja hefir ætíd í sér nockurn krapt, til ad verka á viljann, en auk þessa inniheldur Guds ord bædi þær upphvatníngar og líka þær hótanir, sem bést geta unnid á hjörtun og sveigt viljann frá illu til góds. Guds ord segir ecki einúngis ad Drottinn sé heilagur í sinni veru og vilja, og hafi hinn innilegasta vidbjód á synd og öllu ránglæti, heldur kénnir þad og, ad hann hafi álýktad, ad syndum og ránglæti skuli refsíng fylgja, stundum hér í heimi, en vafalaust annars heims. Drottinn er óvinur alls ránglætis, allrar ásetníngs vondsku, segir Ritníngin, og hver tilhugsan, ef ecki þessi, skyldi geta aptrad hjarta mannsins frá ad syndga, frá ad girnast hid illa?

Innilega sjálfselsku hefir Drottinn gródursett í hvers manns hjarta; hverr einn vill ad sér vegni vel bædi fyrr og sídar; en enn

inn sá getur vænt ad sèr vegni vel, sem veit sig hladinn illvilja og áseníngs syndum. Hann veit ad hjarta hans og breytni er vidurstygd í augum hins Heilaga og krefur refsíngar af þeim Rèttláta. Hèr er þá nóg orsök fyrir þann, sem elskar sjálfann sig, til ad fordast allt syndsamlegt athæfi, ecki einúngis opinbera lesti, heldur og heimuglegustu syndsamleg á-form hjartans, sem ecki geta falist fyrir hjart-nanna ransakara, nè komist hjá misþóknun og refsíngu hins Heilaga og Rèttláta.

Þegar vèr á adra síduna vyrdum fyrir oss þau fyrirheit, sem þeim eru gefin í Guds ordi, sem láta sig af Guds anda leida til dygd-ar og Guds ótta, sjáum vèr, ad ecki vantar heldur kroptuga upphvatníngu til dygda. Guds nád er þeim heitin, af hvada þjód eda túngu-máli, sem þeir eru, sem Gud óttast og gjöra hvad rètt er.

Bænir og ölmusugjördir uppstíga til endur-minníngar hjá Gudi hèdan af jördunni, frá þeim gudhræddu; hann, sem sjer í leynum, umbunar opinberlega þad góda, sem í leyni er gjört, med sinni dýrmætu velþóknun, med himneskum fridi samvitskunnar, med eilífri sælu annars heims hjá sjálfum sèr, sem auga hefir ecki sjed, eyra hefir ecki heyrt og engum hefir í hug komid. Þetta eru Guds fyrirheit og þau bregdast ecki; eptir þvílíku hnossi er krístin-

um ætlad ad keppast, og þeir ná þessu hnossi, sem Gudi reynast trúir og kappkosta sína helgun, í Guds ótta, sem lifa hóflega, réttvíslega og gudlega í heiminum; Guds nád hefir birtst til ad kenna oss þetta med uppfrædingu, vidvörunum og fyrirheitum. Sá, sem vill þvi gjöra Guds vilja, fær í Jesú lærdómi, ecki einúngis bestu upplýsingu um þad, hvert ad sé Guds gódur og algjördur vilji, heldur og næga uppörvaningu til ad hlýdnast honum, og kroptugustu bendíngar, sem aptra frá hinu illa. Í Guds ordi er elsku Drottins til mannanna svo fagurlega lýst, hans gædska og miskun svo herlega sett öllum fyrir sjónir, ad hjörtu þeirra hljóta ad komast vid og knýast til ad elska hann og adhyllast, sem er einúngis gódur. Svo var Guds elsku varid, ecki ad vér elskudum hann, heldur ad hann elskadi oss og sendi sinn Son í heiminn, til ad burtbera vorar syndir. Já, svo elskadi Gud heiminn, ad hann gaf út sinn eingetinn Son til þess, ad enginn, sem á hann trúir, fyrirfarist, heldur hafi eilíft líf.

Þessar og þessum áþeckar uppörvaningar til eins góda, sem Guds ord inniheldur, eru næsta kroptugar, og hafa vafalausa verkun á hjarta hvers þess, sem vill gjöra Guds vilja. Undir eins eru þær sannfærandi rokssemd fyrir því, ad sá lærdómur, sem þær frambýdur, sé frá Gudi kominn; því honum er ætlandi ad

heckja mannsins. Þorf og bráka þær upphvatningar, sem best eru lagaðar til að þrýsta mañinum, til að leita sinnar sáluhjálpar.

Þegar vér skoðum þær hugganir, sem Guðs orð innihelður, sáum vér nýann vott þess, að lærdómurinn sé frá Gudi, því þær hafa meiri krapt enn allar aðrar til að friða hjartað og hugsvala í lífi og dauða. Guðs födurleg forsjón annast allar skepnur, ber því einkum umönnun fyrir mañaña velferð. Hañ veit hvers hans skepnur viðþurfa og veitir þeim það. Hann hefir talið oll vor höfuð-hár; hvert sem vér lifum eda deyum, erum vér hans og hann vill ecki syndarans dauda, heldur að hann betri sig og lifi. Hann heyrir bænir hins volaða og undirþryckta og er Dómari á jørdunni. Hann er Fadir föðurlausra og Dómari eckjanna. Þettað er kristinna manna ómetanlega huggan í lífsins aðkasti.

Þegar medvitund drýgðra synda óspekir samvitskuna og særir mannsins hjarta, kennir Guðs orð að leita náðar á ný med apturhvarfi, og vænta miskunar þess miskunsama Fodurs; hans, sem útbreidir sínar hendur allann daginn, og tekur med gledi vid øllum, sem födur-húsanna leita, því Sonur Guds hefir

ir sett heimnnn vid Gud og úthellt sinu blóði morgum til fyrirgefningar syndanna.

En — bædi þeir, sem verda ad þolamannraunir, og líka hinir, sem plágast af medvitund drygdra synda, eda vidlodandi ófullkomunn., geta gladt sig vid tilhugsun Guds miskunar og lausnar, sem von er á innan stundar, bædi frá þessa lifs sorgum og þessa lifs syndum. Daudinn flytur gudhrædda úr þessu reynslu standi þángad, hvar engin sorg og engin synd mun framar til vera; hann er sá, sem frelsar oss frá likhama þessa dauda. Þessar huggánir Guds orda kenna oss ad þreya þolinmódlega vorn stutta hérveru tíma, una vorn hlutfalli og gledjast af von þeirrar sælu, sem í vændum er eptir afstadid lifsins strid.

Hér er þá nýr vottur þess, ad sá lærdómur, sem þessar hugganir geymir, sé frá Gudi kominn; því engar svo dýrmætar huggánir getur mannsins skynsemi upphugsad; en frá Gudi kémur oll gód og fullkomin gjöf.

Hvert sem vér vyrdum þá fyrir oss þá uppfrædíngu, þær upphvatníngar til dygda, þær vidvaranir vid löstum, eda þær huggaanir, sem í Guds ordi er ad finna, sannfærir hvad eina og allt sameiginlega hvern þann, sem vill gjora Guds vilja, þar um, ad Jesú lærdómar ur sé af Gudi: Hverr sá, sem vill lifa hér og lída hér samqvæmt skyldu sinni og köllun, sá finnur hjá Jesú þad, sem hans þörf útkrefur, þad, sem hans hjarta girnist. Já, hann finnur, ad Jesú lærdómur er kraptur Guds til sáluhjálpar öllum þeim, sem honum trúa, sem hafa á honum fullkomna þeckíngu og framqvæmdarsama sannfæríngu um trúarinnar guddómlega uppruna, því þá helgar trúin hugarfarid og breytnina, stjórnar lífinu, huggar og gledur hjartad. En ecki er þess ad vænta, ad adrir enn þeir, sem þeckja lærdóminn og honum trúa, gæti vitad hvadan hann er eda hafi hans fullkomin not; því ríður oss á því, ad hafa ydurlega vora umgengni í Guds ordi, svo vér þeckjum þau sannindi, sem ega ad gjora oss hólpna. Því er svo miklu vardandi, ad vér leggjum allann

hug 6, ad lifa eptir þeirri áviſun, ſem oſs í því ſama ſáluhjálplega ordi er gefin, því annadhvert, er engin von til ad þad verdi oſs kraptur Guds til ſáluhjálpar. Þad nægir ecki ad þeckja veginn, nema hañ ſé farinn, eins og hætt er vid ſá fari ecki rètta leid, ſem veit ecki veginn; ad vera ordſins heyrari, en ecki gjörningsins gjörari, þad er ad tæla ſjálfañ ſig. Látum oſs aldrei henda þá ſáſinnu, ad vèr fyllum þeirra flock, ſem ecki vilja koma til ljóſsins; komum heldur ſvo vor verk verdi ſtraffad, þad er vegurinn til endurbótar. Kynnum oſs Guds ord, þolum þeſs ſtraffun, efumſt ecki um, ad Gud tali vid oſs í ſínu ordi; berum vora breytni ſaman vid þau bodord, ſem oſs eru þar í gefin, og leidrèttum vora breſti, ſvo vèr getum tileinkad oſs þau nádarríku fyrirheit Guds, ſem fyrir hans Son Jeſúm Kriſt eru þar frambodin ollum þeim, ſem ydraſt og trúa; kappkoſtum ad gjöra vora kjvalníngu viſſa. Amen!

# Prentvillur:

Bls. 2, línu 12, les: dagar.
— 37, — 29, — þeirra.
— 86, — 4, — til.
— 94, — 7, — fyrir.
— 130, — 15, — lukust.
— 154, — 22, — suk.
— 185, — 9. — yfirsiónir.
— 217, — 22, — heimi.
— 227, — 10, — vitna.
— 241, — 15, — ydraudi.
— 256, — 13, — er nú sann.
— 288, — 27, — fyrirheit.
— 328, — 27, — ólikir.
— 331, — 1, — sorglegustu.
— 346, — 3, — mannsins.
— 358, — 23, — nockurri.
— 368, — 14, — óviliandi.
— 373, — 10, — svo.

